# Biblíu-kjarni,

útlagdur og gefinn út

af

Ásmundi Jónssyni,
dómkirkjupresti.



---

Kaupmannahöfn.

Prentadur hjá S. L. Møller.

1853.

Fødur minum elskulegum

# Jóni Jónssyni,

fyrrum Lector theol. vid Bessastada lærda skóla,

ridd. af dbr.,

med sonarlegri

virdíngu, elsku og þakklátsemi

tileinkad

af

útgefandanum.

# Formáli.

Sú bók, sem hér kemur fyrir almenníngs sjónir, er útløgd úr þýzku, og er titill bókar þeirrar: „Geschichten und Lehren der heil. Schrift, bearbeitet von Kohlrausch;" er það 17da útgáfa hennar, prentuð 1838, sem hér er farið eptir. Var tilgángur minn með að snúa bók þessari á vora túngu, að fá únglíngum og jafnvel eldri mønnum í hendur þá bók, sem væri hentug til að gjøra sér hugfast helzta inntak heil. ritníngar og það minnisstætt, hvilíkur himneskur fjársjóður að geymist í þessari helgu bók, til þess þannig, ef ske mætti, að vekja laungun hjá ýngri og eldri til að kynna sér hana sjálfa sem best. Því sú bók, sem hér birtist í íslenzkum búníngi, er svo samin, að helztu fráøgur og lærdómar biblíunnar eru þar teknir því nær orðrétt úr henni, með þeirri breytíngu, að þetta er dregið dálítið saman, og því vikið við, til að gjøra alt sem ljósast og greinilegast.

Í þýzku bókinni er auðsjáanlega fylgt Lúters útleggíngu á biblíunni; eg hefi þess vegna á støku stað vikið dálítið frá henni, þar sem eg þóttist viss um, að annað væri réttara eptir frumritinu. Að øðru leyti hefi eg að mestu farið eptir útgáfu biblíunnar í Viðey, þó eg einnig hafi vikið frá henni þar, sem mér virtist annað betra og réttara.

Hvað prentan bókarinnar snertir, þá vil eg geta þess, að fyrstu 13 arkir hennar eru prentaðar hér, en hitt í Kaup-

mannahøfn. Kemur þetta til af því, ad eg ekki fyr en seint í haust, eptir ad eg vissi nokkurn vegin um tølu áskrifenda, gat fastrádid prentan hennar, en pappír ekki nægur fyrirliggjandi af þeirri tegund, hvers vegna hann vard ad pantast frá Einglandi med póstskipi í byrjan þessa árs; og í þeirri von ad þetta mundi takast var prentanin byrjud. En þegar nú þessi von brást, og pappírinn fékst ekki frá Einglandi, sá eg, ad ef þad, sem eptir var, átti ad prentast hér, hefdi þad ei getad ordid búid fyr en einhverntíma ad vetri; því ádur alþíng byrjadi gat þad ei ordid, þar ed nú vard ad hætta vid prentanina þángad til pappír kæmi frá Danmørku, en eptir ad alþíng er byrjad kemst ekkert ad, fyr en tídíndi þess eru búin. Eg rédi því af, til ad halda ord mín, og láta bókina koma út á tiltekinni tíd, ad hætta vid prentan hennar hér, og láta prenta þad, sem eptir er, í Kaupmannahøfn, þó mér í margan máta fé þad óhagkvæmt, og eg sjálfur geti því ei ad øllu leyti geingid svo frá bókinni, og lagt sídustu hønd á hana, eins og eg hefdi viljad, og mér annars hefdi verid unt. Því vid nákvæman lestur prófarkanna gat þó sked, ad mér hefdi hugkvæmst ad lagsæra ýmislegt, sem adrir óvidkomandi ekki voga eda vilja leysa sér.

Þetta var þad helzta, sem eg hafdi ad minnast á, ádur en eg sendi bókina frá mér, sem eg nú gjøri med þeirri hjartans ósk: ad hún megi koma einhverju gódu til leidar, hjálpa til ad auka elsku og virdíngu fyrir heil. ritníngu, og þannig, ef ske mætti, efla gudrækilegt hugarfar og sannkristid framferdi.

Reykjavík, 23. dag Febr. mán. 1853.

A. Jónsson.



## 1. Um sköpunina.

Í upphafi skapadi Gud himin og jørd.

Og jørdin var i eydi og tóm, og myrkur yfir djúpinu, og Guds andi sveimadi yfir vøtnunum. — Og Gud sagdi: verdi ljós, og þar vard ljós. Og Gud sá, ad ljósid var gott. Þá adskildi Gud ljósid frá myrkrinu og kalladi ljósid dag, en myrkrid nótt. Þá vard kvøld og þá vard morgun, hid fyrsta dægur. — Og Gud sagdi: verdi festing milli vatnanna, svo ad hún adskilji vøtn frá vøtnum. Þá gjørdi Gud festingu, og adskildi vøtnin, sem voru undir festingunni, frá þeim vøtnum, sem voru yfir henni; og þad skedi svo. Og Gud kalladi festinguna himin. Þá vard kvøld og þá vard morgun, hid annad dægur. — Og Gud sagdi: vøtnin undir himninum safnist i einn stad, svo ad sjást megi þurt land; og þad skedi svo. Og Gud kalladi þurrlendid jørd, en samsafn vatnanna kalladi hann sjó. Og Gud sá, ad

þad var gott. Og Gud sagdi: jørdin láti af sér uppspretta græn grøs og jurtir, hafandi í sér sædi, og ávartarsøm tré, er beri ávørt, hvert eptir sinni tegund, og hafi í sér sitt eigid sædi á jørdunni; og þad skedi svo. Og jørdin lét á sér spretta grøs og jurtir og ávartarsom tré, er øll høfdu í sér sædi, hvert eptir sinni tegund. Og Gud sá, ad þad var gott. Þá vard kvøld og þá vard morgun, hid þridja dægur. — Og Gud sagdi: verdi ljós á festingu himinsins, svo þau adgreini dag frá nótt, og segi til tíma, daga og ára, og lýsi á jørdina; og þad skedi svo. Og Gud gjørdi tvø stór ljós, stærra ljósid til adráda deginum, en minna ljósid til ad ráda nóttunni, og svo líka stjørnur. Og Gud setti þau á festingu himinsins, svo þau skyldu lýsa jørdunni, ráda degi og nóttu, og adgreina ljós og myrkur. Og Gud sá, ad þad var gott. Þá vard kvøld og þá vard morgun, hid fjórda dægur. — Og Gud sagdi: vøtnin fyllist af sveimandi lifandi skepnum, og fuglar fljúgi yfir jørdunni, undir festingu himinsins. Og Gud skapadi stóra hvalfiska og alls háttar lifandi skepnur, sem fylla vøtnin, og alls konar fleyga fugla, hvert eptir sinni tegund.

Og Gud sá, ad þad var gott. Og Gud blessadi þá, og sagdi: frjófgizt og fjølgid og fyllid vøtn hafsins, og fuglinn margfaldist á jørdunni. Þá vard kvøld og þá vard morgun, hid fimta dægur. — Og Gud sagdi: jørdin framleidi alls konar lifandi skepnur: fénad, skridkvikindi og villudýr, hvert eptir sinni tegund; og þad skedi svo. Og Gud skapadi villudýr, fénad, skridkvikindi, hvert eptir sinni tegund. Og Gud sá, ad þad var gott. Og Gud sagdi: vér viljum gjøra manninn eptir vorri mynd og líkingu, svo hann drottni yfir fiskum sjáfarins, yfir fuglum loptsins, og yfir fénadinum á allri jørdunni og øllum þeim skridkvikindum, sem hrærast á jørdunni. Og Gud skapadi manninn eptir sinni mynd; eptir Guds mynd skapadi hann hann. Og Gud leit yfir alt, sem hann hafdi gjørt, og sjá! þad var harla gott. Og þá vard kvøld og þá vard morgun, hid sjøtta dægur.

Þannig algjørdist nú himin og jørd, og allur þeirra her. Og Gud lauk vid sín verk á sjøunda degi, og hvíldist þá af øllum sínum verkum, er hann hafdi gjørt; og hann blessadi sjøunda daginn og helgadi hann.

## 2. Aldingardurinn í Eden og syndafallid.

Og Gud Drottinn myndadi manninn af jardarleiri og blés lifandi anda í nasir hans, og svo vard madurinn ad lifandi skepnu. Og Gud Drottinn plantadi aldingard í Eden, mót austri, og lét uppvara af jørdunni alls konar tré, sem voru føgur ad sjá, og girnilegt var ad eta af, og lífsins tréd í midjum aldingardinum, og skilníngs tréd góds og ills. Og á rann frá Eden til ad vokva aldingardinn; skiptist sú á í fjøgur stór vatnsføll, er hétu: Píson, Gíkon, Kidekel og Frat. Og Gud Drottinn tók manninn, er hann hafdi skapad, og setti hann í aldingardinn, til ad yrkja hann og vakta. Og hann baud manninum og sagdi: af øllum trjánum í aldingardinum máttu eta, en af skilníngstrénu góds og ills máttu ekki eta, því nær sem þú etur af því, skaltu vissulega deya. — Og Gud Drottinn lét koma til mannsins í aldingardinn alls konar dýr, sem hann hafdi skapad, fugla himinsins og dýr merkurinnar, til ad vita hvad hann kalladi þau; og hvad helzt nafn sem madurinn gaf hverri lifandi skepnu, þad hid sama vard hennar nafn. En þar fannst eingin medhjálp fyrir manninn eptir hans mynd. Þá sagdi

Drottinn: það er ekki gott, að madurinn sé einsamall, eg vil gjøra honum medhjálp eptir hans mynd. Og hann lét fastan svefn falla á manninn, og á medan hann svaf, tók hann eitt af rifjum hans og fylti aptur med holdi. Og Gud Drottinn myndadi konuna af því rifbeini, sem hann tók af manninum, og leiddi hana til hans. Þá sagdi madurinn: þetta er bein af mínum beinum og hold af mínu holdi. Þess vegna skal madurinn yfirgefa fødur sinn og módur, og búa vid sína eigin konu, og þau skulu vera sem einn madur. Og Gud blessadi þau og sagdi til þeirra: verid frjóssøm, og margfaldizt og uppfyllid jørdina, og gjørid hana ykkur undirgefna! drottnid yfir fiskunum í sjónum og fuglunum í loptinu og yfir øllum þeim dýrum, sem hrærast á jørdunni!

Og Adam bjó med konu sinni Evu í aldingardinum Eden. En høggormurinn var slægari heldur en øll ønnur dýr merkurinnar, sem Gud Drottinn hafdi gjørt, og sagdi vid konuna: er það satt, að Gud hafi sagt: þid skulud ekki eta af øllum trjánum í aldingardinum? Þá sagdi konan vid høggorminn: vid etum af áverti trjánna í aldingardinum; en

um ávøxt þess trés, sem stendur í midjum aldin-
gardinum, sagdi Gud: etid ekki þar af, og komid
ekki vid þad, svo ad þid deyid ekki! Þá sagdi
høggormurinn vid konuna: eingan veginn mun-
ud þid deya; heldur veit Gud þad, ad á hverj-
um þeim degi, sem þid etid af því, munu ykk-
ar augu uppljúkast, og þid munud verda eins
og Gud í því ad þekkja gott og illt. En
konan sá, ad tréd var gott ad eta af, fagurt
á ad líta, og girnilegt til fródleiks; og hún
tók af þess áverti og át, og hún gaf manni
sínum líka, og hann át. Þá upplukust beggja
þeirra augu, og þau urdu þess vør, ad þau voru
nakin, og þau festu saman fíkjuvidarblød, og
gjørdu sér mittisskýlur. Því ádur en þau syndg-
udu, voru augu þeirra og sálir saklaus, og þau
skømmudust sín ekki fyrir þad, þó þau væru nak-
in. — Og sem þau heyrdu rødd Drottins,
sem fór um kring í aldingardinum í dagsgol-
unni, þá fól madurinn sig og kona hans fyrir
augsýn Guds Drottins á milli trjánna í ald-
ingardinum. Og Gud Drottinn kalladi á
manninn, og sagdi: hvar ertu? Hann svaradi:
eg heyrdi rødd þína í aldingardinum og vard
hræddur, því eg er nakinn, og faldi mig. Og

Drottinn mælti: hver sagdi þér, ad þú værir nakinn? hefur þú etid af trénu, sem eg bannadi þér ad eta af? Þá svaradi madurinn: konan, sem þú gafst mér til sambúdar, gaf mér af trénu, og eg át. Þá sagdi Gud Drottinn til konunnar: því gjördir þú þad? Konan svaradi: höggormurinn sveik mig, svo eg át. Þá sagdi Gud Drottinn vid höggorminn: af því þú gjördir þetta, þá skalt þú vera bölvadur framar öllum dýrum á mörkinni. Þú skalt skrída á þínum kvidi og eta möld jardar alla þína lífdaga. Og eg vil setja fjandskap milli þín og konunnar, milli þíns sædis og hennar sædis; þad skal merja þitt höfud, og þú bíta þess hæl. Og vid konuna sagdi Gud: med þjáningu skaltu fæda þín börn, undir bónda þíns valdi skaltu vera, og hann skal þinn herra vera. Og vid Adam sagdi hann: af því þú hlýddir rödd konu þinnar, og átst af því tré, sem eg bannadi þér, þá sé jördin bölvud fyrir þína skuld, med mædu skaltu þig af henni næra alla þína lífdaga, þyrna og þistla skal hún þér bera, og þú skalt jardarinnar jurtir eta, í sveita þíns andlitis skaltu þíns brauds neyta, þar til þú

aptur ad jørdu verdur; því þú ert mold, og ad moldu skaltu aptur verda.

Þá rak Gud Drottinn hann burt úr aldingardinum i Eden, svo hann skyldi erja jørdina, af hverri hann var tekinn, og setti Kerúbim fyrir austan aldingardinn, med sveipanda sverdi, til ad geyma veginn ad lífsins tré.

## 3. Kain og Abel.

Adam nefndi konu sína Evu, því hún er módir allra, sem lifa; og hún fæddi honum son og nefndi hann Kain, og hún fæddi aptur bródur hans Abel. Og Abel vard fjárhirdir, en Kain jardyrkjumadur. — Og þad skedi svo, þegar fram lidu stundir, ad Kain færdi Drottni fórn af gróda jardarinnar, og Abel líka af frumburdum sinnar hjardar og af þeirra feiti. Og Drottinn leit til Abels og hans fórnar, en til Kains og hans fórnar leit hann ekki. Þá reiddist Kain ákaflega og hans andlit vard nidurlútt. Þá sagdi Drottinn vid Kain: því reidist þú svo? og því ertú svo nidurlútur? Er ekki svo? Ef þú ert gódur og gjørir þad sem gott er, þá getur þú hafid augu þín i hædir. En ef þú ekki ert gódur, þá liggur syndin vid dyrnar, og lángar til ad støkkva á þig?

en lát hana ekki fá vilja sinn, heldur drottna þú yfir henni. — En Kain sagdi vid bródur sinn: látum oss gánga út á akur. Og þad skedi svo, þá þeir voru á akri, ad Kain reis á móti bródur sinum Abel og drap hann. Þá sagdi Drottinn vid Kain: hvar er Abel bródir þinn? Hann mælti: þad veit eg ekki; á eg ad vakta bródur minn? Þá sagdi Gud: hvad hefur þú gjørt? rødd blóds bródur þins hrópar til mín af jørdunni; bølvadur sértu á jørdunni, sem opnadi munn sinn, til ad taka á móti blódi bródur þins af hendi þér; landflótta og flakkandi skaltu vera á jørdunni. Og Kain sagdi til Drottins: min synd er stærri en svo, ad eg geti borid hana, sjá! þú hefur í dag rekid mig í útlegd, og eg verd ad felast fyrir þinn augliti, og vera útlagi, á sífeldu flakki; hver sem hittir mig, mun drepa mig. Og Drottinn sagdi vid hann: þad skal ekki ske; hver sem drepur Kain, þess skal hefnt verda sjøfaldlega. Og svo gekk Kain burt frá augliti Drottins, og bjó í landinu Nod (útlegd), fyrir austan Eden. Og hans ætt ávaxtadist og útbreiddist í landinu.

Og þar var einn af nidjum hans ad nafni Lamek, sem tók sér tvær konur, hétønnur Ada,

en hin Silla. Ada fæddi Jabal, hann var faðir umflakkandi hirdara, hverjir ed hafa hjardir og búa i tjøldum. Nafu bródur hans var Júbal, hann hóf fyrstur hørpuslátt og lék á hljódpipur. Og Silla ól lika Túbalkain, sem fyrstur smidadi úr kopar og járni alslags tól, og systur hans Naema. En Lamek sagdi vid konur sinar: heyrid ord min, þid Lameks konur! gefid gaum ad tali minu, Ada og Silla! sannarlega drep eg hvern mann, sem særir mig, og hvert úngmenni, sem meidir mig. Kains skyldi hefnt verda sjøsinnum, en Lameks sjø og sjøtiusinnum.

## 4. Nói.

Eva ól Adam enn á ný son, eptir mynd og likingu fødur hans, og nefndi hann Set; og hún ól honum fleiri syni og dætur. Og allir dagar Adams voru niu hundrud og þrjátiu ár, þegar hann dó. — En einn af nidjum Sets, sonar Adams, var Enok; hann gekk med Gudi, og af þvi hann gjørdi þad, þá tók Gud hann til sin, og hann var hér ekki framar. Sonur hans hét Metúsala, er vard mjøg gamall, þvi þegar hann dó, var hann niu hundrud sextiu og niu ára gamall.

Eptir þetta tóku mennirnir ad fjølga á

jörðunni og að útbreiðast um hana víðs vegar. En þeirra hugsan var vond frá barnæsku, og þeir gleymdu Drottni Guði sínum, sem hafði skapað þá, og frá hverjum alt gott kemur, sem á jörðu er. Það stundlega og jarðneska var þeirra æðsta hnoss, og þeir møttu litils kærleika Guðs, og þar var meðal þeirra einber spilling og ofriki. En er Drottinn sá, að vondska mannanna var mikil á jörðunni, og að øll hugsan hjarta mannsins var vond alla daga, þá ásetti hann sér að afmá af jörðunni mennina, sem hann hafði skapað, til þess að børn þeirra ekki skyldu verða verri en þeir, og til þess að gjörvalt mannkyn skyldi ekki glatast í synd. — En einn af niðjum Sets, sonar Adams, var réttlátur og guðhræddur maður á sinni øld og lifði guðrækilega; hann hét Nói. Og Nói fann náð í augum Drottins, og Guð sagði við hann: endir alls holds er kominn, því jörðin er full af þeirra ofriki, og sjá! eg hlýt að tortýna þeim ásamt jörðunni. Þar mun koma vatnsflóð yfir jörðina og tortýna øllu; en þú og kona þín og synir þínir, og konur sona þinna, skulu lífi halda. Gjør þér ørk (stórt skip), með mørgum kimum; á hana skaltu gánga með konu

þinni og börnum, og af öllum lifandi skepnum skaltu taka með þér í hana tvent og tvent af hverri tegund, svo það haldi lífi með þér. Og þú skalt taka þér nokkuð af allri ætilegri fæðslu, og safna að þér, að það sé þér og þeim til næringar. — Og Nói gjörði alt, eins og Drottinn bauð honum; hann bygði sér örk af grenivið og lét vera í henni mörg litil hús, og bræddi hana með biki utan og innan. Ofan til á henni lét hann vera glugga, og á hliðinni dyr, og í henni þrjú lopt, eitt neðst, annað í miðið og þriðja efst. Og sem nú örkin var fullgjörð, gekk Nói í hana ásamt þremur sonum sínum, Sem, Kam, Jafet, og konum sona sinna; og hann tók með sér í hana af öllum ferfættum dýrum, af fuglum og af öllum kvikindum jarðar, tvent og tvent, karlkyns og kvennkyns, og þar að auki alls konar fæðu fyrir sig og öll þessi dýr. Þá kom syndaflóðið yfir jörðina. Seytjándi dagur í þeim öðrum mánuði (Nóvember) var sá dagur, á hverjum opnuðust allar uppsprettur ens mikla undirdjúps, og gluggar himinsins lukust upp, og það rigndi yfir jörðina í 40 daga og 40 nætur; og vatnið óx og lypti örkinni upp hátt yfir jörðina,

svo hún flaut á vatninu. Og vatnið fékk yfirhönd og magnaðist svo mjög á jörðunni, að öll þau háu fjöll, sem eru undir himninum, fóru í kaf; fimtán álnir gekk vatnið upp yfir fjöllin. Þá dó alt hold, sem hrærðist á jörðunni; alt á þurrlendinu, sem hafði lífs anda í sínum nösum, það dó. Nói einn varð eptir, og það sem með honum var í örkinni. Og vatnið var yfir jörðunni í hundrað og fimtíu daga. — Þá mintist Guð í náð á Nóa og á öll dýr, sem með honum voru í örkinni; og hann lét vind fara yfir jörðina, og vatnið sjatnaði, uppsprettur undirdjúpanna og gluggar himinsins luktust aptur, og regninn linti af himninum. Og vatnið rénaði, því það rann burt meir og meir, og þverraði eptir hundrað og fimtíu daga; og örkin nam staðar í sjöunda mánuði (April), á seytjánda degi mánaðarins, á fjallinu Ararat. Og vatnið var alt af að réna alt til hins tíunda mánaðar, á fyrsta degi þess mánaðar sáust fyrst fjallatindarnir. Fjörutíu dögum þar eptir lauk Nói upp glugga arkarinnar, sem hann hafði gjört, og lét út hrafn; hann flaug fram og aptur, þángað til vatnið þornaði af jörðunni. Þar eptir sendi hann út frá sér dúfu, til að vita,

hvert vatnid væri þverrad á jørdunni; en dúfan fann ekki hvíldarstad fæti sínum og hvarf til hans aptur í ørkina, því enn nú var vatn yfir allri jørdunni; og hann rétti út hønd sína, og tók hana til sín í ørkina. Og hann beid enn adra sjø daga, og sendi þá dúfuna aptur úr ørkinni; þá kom hún til hans aptur undir kvøld, og sjá! hún hafdi í nefinu ókvolad vidsmjørsvidar laufblad. Þá sá Nói, ad vatnid var þverrad á jørdunni. Og hann beid enn í sjø daga og sendi svo frá sér dúfuna; en nú kom hún ekki til hans aptur. Þá tók Nói þakid af ørkinni, og litadist um, og sjá! jørdin var ordin þurr. Á tuttugasta og sjønnda degi hins annars mánadar var jørdin þurr.— Þá taladi Gud vid Nóa og mælti: gakk þú úr ørkinni, þú og kona þín, og synir þínir og konur sona þinna, og láttu fara út med þér øll dýr, sem med þér eru af øllu holdi, ad þetta dreifist um jørdina, timgist og fjølgi þar. Svo gekk Nói út úr ørkinni ásamt øllu því, sem med honum var, og bygdi Drottni altari, og tók af øllum hreinum dýrum og fuglum, og flutti brennifórn á altarinu. Og Drottinn sagdi: eg vil nú ei framar bølva jørdunni aptur fyrir manns-

ins skuld, ekki framar deyda alt, sem lifir; því hugsanir mannsins hjarta eru vondar frá barnæsku. Medan jørdin er vid lýdi, skal hvorki linna sád né uppskera, frost né hiti, sumar né vetur, dagur né nótt. Og Gud blessadi Nóa og syni hans, og sagdi vid þá: sjá! eg gjøri sáttmála vid ydur og vid ydar nidja eptir ydur og vid allar lifandi skepnur, sem med ydur eru, ad ekki framar mun eydileggjast alt hold af vatnsflódi, og ekki framar flód koma til ad eydileggja jørdina. Er þetta merki sáttmálans, sem eg gjøri milli mín og ydar og allra lifandi skepna, sem hjá ydur eru, til eilífrar tídar, ad eg set minn boga i skýin, svo ad hann sé merki sáttmálans milli mín og jardarinnar. Og þad mun ske, þá eg samandreg ský yfir jørdina, svo mun minn bogi sjást i skýunum, sem vottur þess eilífa sáttmála milli min og allra lifandi skepna, sem á jørdunni eru. — Svo bjuggu þeir aptur á jørdunni, Nói og hans ætt. Nói yrkti landid og plantadi fyrstur víngard. Og hann lifdi eptir flódid þrjú hundrud og fimtiu ár, svo ad allir dagar Nóa voru níu hundrud og fimtiu ár, þá dó hann. Og hans nidjar útbreifdust um alla jørdina.

## 5. Turninn í Babel.

Og øll jørdin hafdi eitt mál. Og þad skedi, þá þeir komu ad austan, ad þeir fundu mikla velli í landinu Sinear, og tóku sér þar bústad. Þá søgdu þeir hver vid annan: komid, látum oss elta tígulsteina og herda í eldi! Og þeir brúkudu tígulsteinana fyrir grjót og jardarlím fyrir kalk. Og þeir sogdu: komid! látum oss byggja oss borg og turn, sem mæni hátt í lopt upp; látum oss gjøra oss varda, svo vér tvístrumst ekki um øll lønd. Þá sagdi Drottinn: sjá! þetta er ein þjód og þeir hafa allir eitt túngumál, og þetta hafa þeir nú byrjad ad gjøra; og nú verdur þeim ekkert fyrirmunad ad gjøra, sem þeir hugsa sér. En eg vil villa túngumál þeirra, svo einginn skilji annan. Og Drottinn tvístradi þeim þadan út um alla jørdina og þeir hættu ad byggja borgina. Því heitir hún líka Babel (truflan). — Og þar var á medal nidja Kams, sonar Nóa, einn, er hét Nimrod; sá hinn sami fór ad verda voldugur á jørdunni, og var mikill veidimadur fyrir Drottni; því er máltækid: „voldugur veidimadur fyrir Drottni, eins og Nimrod." Og Babel var upphaf hans ríkis í landinu Sinear. Frá

þessu landi fór hann til Assúr, hvar hann bygdi Ninive, sem er mikil borg.

## 6. Abraham.

Mørgum árum eptir þetta lifdi í Ur í Kaldea madur af ætt Sems, sonar Nóa, ad nafni Tara; hann átti þrjá syni, Abraham, Nahor og Haran. Haran dó á undan fødur sínum, en eptirlét sér son, ad nafni Lot. Og Tara tók Abraham son sinn og konu hans Soru og Lot sonarson sinn, og lagdi á stad med þau frá Ur í Kaldea, áleidis til Kanaanslands; en þeir komust ekki leingra en til Harans, og settust þar ad.

Og Abraham var mjøg gudhræddur madur. Og Drottinn sagdi vid hann: far burt úr þínu landi, og frá þínu heimkynni, og úr húsi fødur þíns, til þess lands, sem eg mun vísa þér á; eg mun gjøra þig ad mikilli þjód og blessa þig, og gjøra nafn þitt vídfrægt. Þá fór Abraham á stad ásamt konu sinni Søru og Lot, bródursyni sínum, og þau tóku med sér alla fjárhluti, sem þau høfdu eignazt, og þá þræla, sem þau høfdu feingid í Haran, og komu til Kanaanslands. Þá birtist Drott-

inn Abraham, og sagdi: „nidjum þínum mun eg gefa þetta land". Og hann bygdi Drottni altari, þar sem hann birtist honum, og ákalladi hann þar. Og Abraham færdi sig smátt og smátt sudur eptir.

Um þessar mundir gjørdist mikid hallæri í landinu Kanaan. Þá fór Abraham til Egyptalands, til ad stadnæmast þar; sýndi konúngurinn í Egyptalandi honum mikla rausn og gaf honum saudi, naut og asna, þræla og ambáttir, øsnur og úlfalda. — En sem hallærid var hjá lidid í landinu Kanaan, fór Abraham úr Egyptalandi, ásamt konu sinni og øllu sem hann átti; og Lot med honum. En konúngurinn skipadi mønnum sínum ad fylgja honum, svo honum væri óhætt. — Og hann flutti sig sunnan ad smátt og smátt alt til Betel, hvar tjald hans hafdi ádur verid, og hvar hann ádur hafdi bygt altarid; og hann ákalladi þar nafn Drottins.

## 7. Abraham og Lot.

Og Abraham var stórandugur af alls konar fénadi, af þrælum og ambáttum, gulli og silfri. Og Lot, sem med honum fór, átti líka

mikid af nautum og saudum, þrælum og tjöldum. Kananitar og Feresitar bjuggu þá líka í landinu. Og landid gat ekki borid þá báda, því kvikfé þeirra var meira en svo, ad þeir gætu verid saman og brúkad sama beitiland. Og þar var ávalt sundurþykkja milli hirdara Abrahams og hirdara Lots. Þá sagdi Abraham vid Lot: kæri, eingin missklíd sé milli mín og þín, milli minna og þinna hirdara, því vid erum brædur. Stendur þér ekki alt landid opid? Skil þig vid mig. Farir þú til vinstri, þá fer eg til hægri handar, en farir þú til hægri, þá fer eg til vinstri. — Þá upphóf Lot augu sín, og leit yfir alt landid í kríngum Jórdan; en þad var, ádur en Sódóma og Gómorra voru eydilögd, mjög vatnsríkt, eins og aldingardur Drottins, eins og Egyptaland. Þess vegna kaus Lot sér alt þetta land hjá Jórdan, og flutti sig austur á vid, og þannig skildust þeir ad. — Og Abraham bjó í Kanaanslandi, sem Drottinn hafdi lofad ad gefa nidjum hans; og hann flutti sig um alt landid, eptir þess leingd og breidd, þar til hann loksins tók sér bólfestu í Mamreslundi hjá Hebron, og bygdi Drottni þar altari. — En

Lot bjó í Jórdansdal og í stödum þessa hér-ads, og tjöld hans nádu alt til Sódóma. En fólkid í Sódóma var vont og syndgadi mjög móti Drottni.

Eptir þetta skedi svo, ad fjórir framandi konúngar herjudu á landid til ad rupla þar og ræna, og þeir komu í dalinn Siddim. Þá lögdu á stad til móts vid þá konúngurinn í Sódóma og fjórir konúngar, sem med honum voru, og bjugg-ust til bardaga í dalnum Siddim. En í dalnum Siddim voru margar leirgrafir. En konúng-urinn í Sódóma og Gómorra voru þar rekn-ir á flótta og féllu, en þeir, sem af komust, flúdu til fjalla. Þá tóku hinir alla fjárhluti, sem voru í Sódóma og Gómorra, og öll mat-væli, líka Lot og fjárhluti hans, því hann bjó í Sódóma, og lögdu á stad. — Þá kom einn, sem undan hafdi komizt, og sagdi Abraham frá, sem þá bjó í lundi Mamresar, Amórita, bródur Eskols og Aners, sem voru sátt-málabundnir vid Abraham. En sem Abraham frétti, ad bródursonur sinn væri hertekinn, vopn-adi hann þræla sína, þrjú hundrud og átján, er all-ir voru fæddir í húsi hans og fór eptir þeim alt til Dan; hér skipti hann lidi sínu, og kom ad þeim

óvart á náttarþeli með þrælum sínum, og rak þá á flótta og elti þá til Hoba, sem liggur fyrir norðan Damaskus; sneri svo heim aptur með alla fjárhlutina, líka með Lot bróðurson sinn ásamt eigum hans, og með konurnar og fólkið. — En sem hann kom heim úr þessum bardaga við þá fjóra konúnga, kom konúngurinn í Sódóma í móti honum í konúngsdalnum. Og Melkísedek, konúngur í Salem kom með brauð og vín (en hann var prestur Guðs ens æðsta), og blessaði hann og sagði: „blessaður sé Abraham af Guði enum æðsta, sem skapað hefur himin og jörð! Og lofaður veri Guð sá æðsti, sem gaf óvini þína í þína hönd!“ Og konúngurinn í Sódóma sagði við Abraham: gef mér aptur fólkið, en tak þú fjárhlutina! En hann svaraði: eg upplypti mínum höndum, og sver við Drottinn, þann hinn æðsta Guð, herra himins og jarðar, að eg tek hvorki þráð né skóþveing af öllu, sem þér tilheyrir, svo þú getir ekki sagt: eg hefi auðgað Abraham, nema það sem þrælar mínir hafa neytt, og hlutdeild þeirra manna, sem með mér fóru, Aners, Eskols og Mamres, þeir mega taka sinn part.

## 8. Drottinn talar við Abraham.

Eptir þetta birtist Drottinn Abraham í Mamreslundi, þá hann sat í tjalddyrum sínum, um hádegisbil. Og sem hann hóf upp augu sín og litaðist um, sjá, þá stóðu þrír menn frammi fyrir honum. Og er hann sá þá, hljóp hann móti þeim úr tjalddyrum sínum, laut þeim til jarðar og mælti: herra! hafi eg fundið náð í þínum augum, svo gakk ekki fram hjá þínum þræli. Leyfið að sókt sé vatn, og þvoið fætur yðar, og hvílið yður undir trénu. Og eg vil færa yður lítið eitt af mat, að þér styrkið hjörtu yðar, síðan megið þér halda á fram ferðinni; því þess vegna hafið þér geingið hér um hjá yðar þræli. Og þeir svörudu: gjörðu eins og þú hefur sagt. Þá flýtti Abraham sér í tjald Söru, og mælti: sæktu sem fljótast þrjá mælira hveitis, hnoða og baka kökur. En Abraham hljóp til nautanna, tók kálf, úngan og feitan, og fékk þræl sínum, en hann flýtti sér að matreiða hann. Síðan tók Abraham rjóma og mjólk og kálfinn, sem hann hafði látið matreiða, og setti fyrir þá, stóð svo frammi fyrir þeim undir trénu, og þeir mötuðust.

Þegar nú mennirnir höfðu etið og drukkið,

stódu þeir upp og stefndu til Sódóma, en Abraham gekk á veg með þeim. Þá sagði Drottinn: hví skyldi eg leyna Abraham því, sem eg ætla að gjöra, þar eð hann skal verða að mikilli og voldugri þjóð, og allar þjóðir skulu af honum blessun hljóta? Því eg veit, að hann mun bjóða sonum sínum og sínu húsi eptir sig, að þeir varðveiti vegu Drottins, og gjöri, hvað rétt og gott er. Og Drottinn sagði við Abraham: mikið kvein er yfir Sódóma og Gómorra, og þeirra synd er mjög þúng; því ætla eg að senda þángað eingla mína til að vita, hvort þeir fullkomlega hafa aðhafzt eptir því kveini, sem til mín er komið eða ekki. Og einglarnir fóru á stað og héldu til Sódóma; en Abraham stóð enn nú frammi fyrir Drottni, gekk nær honum, og mælti: viltu afmá þann réttláta með þeim óguðlega? máske fimmtíu réttlátir séu í borginni? viltu og burt rykkja þeim, og ekki þyrma borginni vegna þeirra fimmtíu réttlátu, sem þar kunna að vera? fjærri sé þér, að gjöra slíkt, að deyða þann saklausa með þeim seka, svo að sá réttláti sé eins og sá óguðlegi; fjærri sé það þér, sem ert dómari alls heimsins. Þú munt ekki dæma svo. Og drottinn sagði: finni

eg í borginni Sódóma fimmtíu réttláta, mun eg þeirra vegna þyrma øllu því héradi. Abraham svaradi og sagdi: æ, sjá, eg hefi dirfzt ad tala vid Drottinn, enn þótt eg sé dupt og aska; kannske fimm skorti á fimmtíu réttláta? Muntu eydileggja allan stadinn vegna þessara fimm? Og hann sagdi: eg skal ekki eydileggja hann, finni eg þar fjørutíu og fimm. Og Abraham hélt áfram ad tala vid hann, og mælti: máske þar finnist fjørutíu? En hann svaradi: eg skal ekki gjøra þad vegna þeirra fjørutíu. Þá sagdi Abraham: reidst mér ekki, Drottinn, ad eg tala enn fremur; máske þar finnist þrjátíu? En hann svaradi: eg skal ekki gjøra þad, finni eg þar þrjátíu. Og Abraham sagdi: æ, sjá, eg hefi dirfzt ad tala vid Drottinn; máske þar finnist tuttugu? Hann svaradi: eg skal ekki eydileggja þá vegna þeirra tuttugu. Og Abraham sagdi: reidst ekki, Drottinn, ad eg ad eins í þetta sinn tala; máske þar finnist tíu? En hann sagdi: eg vil ekki eydileggja þá vegna þeirra tíu. Og Drottinn fór leidar sinnar, þegar hann hafdi endad tal sitt vid Abraham; en Abraham fór heim aptur.

### 9. Sódóma og Gómorra eru eydilögd.

Og þeir tveir einglar komu um kvöldid til Sódóma; sat Löt þá í Sódómu borgarhlidi. Og er hann sá þá, stód hann upp í móti þeim, hneigdi sína ásjónu til jardar og sagdi: komid heim til þræls ykkar og náttid þar; þvoid fætur ykkar, svo getid þid á morgun árla tekid ykkur upp, og farid ykkar leid. En þeir sögdu: nei, vér viljum heldur vera í nótt á strætinu. Hann lagdi þá mikid ad þeim, og þeir fóru heim til hans í hans hús. Og hann bjó þeim máltíd, og bakadi þeim ósýrdar kökur, en þeir neyttu. En ádur þeir geingu í hvílur, komu borgarmenn, mennirnir í Sódóma, og umkríngdu húsid, úngir og gamlir, allur múgurinn, kölludu á Löt og mæltu: hvar eru mennirnir, sem komu til þín í nótt? leid þú þá út, ad vér megum leika vid þá. Löt gekk þá út til þeirra, læsti á eptir sér húsinu og sagdi: drýgid ekki slíkan glæp; gjörid ekkert þessum mönnum, því þess vegna eru þeir komnir undir skugga míns þaks. En þeir sögdu: kom dálítid nær; þú ert einasti útlendur madur hér, og vilt sída oss? vel og gott, vid skulum fara ver med þig, en þá. Og þeir gjördu þraung ad Löt. Og

sem þeir hlupu til, og ætludu ad brjóta upp húsid, þá seildust mennirnir út og drógu Lot til sín inn í húsid og læstu dyrunum. En mennina, sem voru úti fyrir dyrum hússins, slógu þeir med blindni, smáa og stóra, svo þeir gátu ekki fundid dyrnar. Og einglarnir sögdu vid Lot: ef þú hefur nokkurn mág, syni eda dætur eda nokkurn þér vandabundinn hér í bænum, þá haf þá burt úr þessum stad, því vid ætlum ad eydileggja hann, af því þeirra synd er mikil fyrir Drottni; hann hefur sent okkur til ad tortýna þessum stad. Þá gekk Lot út og taladi vid mága sína, sem ætludu ad eiga dætur hans: takid ydur upp og farid úr þessum stad, því Drotttinn mun eydileggja bæinn. En þeir tóku þessu, sem hann væri ad gjøra ad gamni sínu, og trúdu honum ei. — En strax sem dagadi, ráku einglarnir eptir Lot og sögdu: taktu þig til, tak konu þína og bádar dætur þínar, sem hjá þér eru, svo þú ekki tortýnist vegna synda þessa stadar. En er hann enn þá fór hægt ad øllu, tóku mennirnir í hønd honum, konu hans og beggja dætra hans, því Drottinn vildi þyrma honum, og leiddu hann út fyrir stadinn. Þá sagdi annar eingillinn

við hann: frelsa líf þitt, lít ekki til baka og nem hvergi staðar á øllu þessu sléttlendi; flý á fjøll upp, svo þú týnist ei! Og sem sól var komin upp, lét Drottinn rigna af himni eldi og brennisteini yfir Sódóma og Gómorra, og eyðilagði alt það hérað. Lot flúði á burt, en kona hans hlýddi ekki einglinum, nam staðar og leit aptur; náði eyðileggíngin henni þá, og hún fórst þar og varð að saltstólpa. Lot þar á mót komst undan með báðum dætrum sínum upp á fjøll, og bjó þar í hellir. Og Abraham fór snemma á fætur þann sama morgun og gekk þángað, hvar hann hafði staðið frammi fyrir Drottni, og horfði til Sódóma og Gómorra, til alls héraðsins umkring, og sá sig um; og sjá, reykur gekk upp af jørðunni, eins og reykur úr ofni.

## 10. Synir Abrahams.

Og það skeði svo, að Drottinn birtist Abraham í sýn og sagði: „eg em Guð almáttugur, gakk þú fyrir mér og vert algjørr. Ottast ekki, eg er þinn skjøldur og mikil laun". En Abraham sagði: Drottinn, hvað ætlar þú að gefa mér? Eg fer héðan barnlaus, þú hef-

ur ekkert afkvæmi gefid mér; og sjá, sonur rádsmanns míns, þessi Eleasar frá Damaskus, þjón húss míns, mun verda erfíngi minn. Og sjá, Drottinn sagdi til hans: ekki skal hann vera erfíngi þinn, heldur sá, sem af þér mun getinn verda. Og hann sagdi honum ad gánga út úr tjaldinu og mælti: líttu upp til himins, og tel stjørnurnar; getur þú talid þær? Eins margir skulu nidjar þínir verda. Og Abraham trúdi Drottni, og hann reiknadi honum þad til réttlætis.

Samt sem ádur ól Sara, kona hans, honum enn þá eingin børn. En hún hafdi egypzka þernu, sem hét Hagar, og hún sagdi vid Abraham: Drottinn hefur varnad mér þeirrar gledi, ad ala børn; tak þernu mína þér fyrir konu, ef eg samt kynni ad fá børn med því móti. Og Abraham hlýddi ordum konu sinnar, og tók Hagar sér fyrir konu; og hún fæddi honum son, og hann nefndi hann Ismael. Og Gud sagdi um hann og mælti: hann mun verda ólmur madur, hans hønd móti hverjum manni, og hvers manns hønd í móti honum; og hann mun búa fyrir austan alla brædur sína. — Mørgum árum eptir þetta

leit Drottinn líka í náð til Søru, og lét það rætast, sem hann hafði henni heitið; hann gaf henni son í hennar elli, og Abraham nefndi hann Ísak. Og dreingurinn óx upp og var vaninn af brjósti; gjørði Abraham mikla veizlu þann dag, sem hann var tekinn af brjósti. Og Sara sá, að sonur Hagar, hinnar egypzku, er hún hafði fætt Abraham, hló. Og hún sagði við Abraham: rek burt ambátt þessa og son hennar, því ekki skal þessi ambáttarsonur taka arf með syni mínum Ísak. En Abraham mislíkaði mjøg þetta orð vegna sonar síns Ísmaels; en Guð sagði við hann: lát þér ekki líka þetta illa vegna sveinsins og ambáttarinnar, og hlýð øllu því, sem Sara hefur sagt þér, því þar sem Ísak er, þar skal ætt þín heita. En ambáttar-soninn mun eg einnig gjøra að mikilli þjóð, því hann er þitt afkvæmi. — Og Abraham reis upp snemma morguns, tók brauð og leigil með vatn og gaf Hagar, lagði það á herðar hennar og barnið með, og lét hana svo frá sér. Fór hún þá, og viltist og ráfaði um í eyðimørkinni hjá Berseba. En sem vatnið var þrotið á leiglinum, og þau kvøldust af þorsta, lagði hún barnið í runna nokkurn, gekk burt og sett-

ist gagnvart, svo sem í örskotsfjarlægd, því hún sagdi: eg gét ekki horst á, ad barnid deyi. Og hún sat gegnt og grét hástöfum. Þá heyrdi Gud raust sveinsins, og eingill Drottins kalladi af himni til Hagar og mælti: hvad geingur ad þér, Hagar? Ottast ekki, Gud hefur heyrt til sveinsins, þar sem hann liggur. Stattu upp, tak barnid og leid hann þér vid hönd, því eg mun gjöra hann ad mikilli þjód. Og Gud upplauk hennar augum, svo hún sá vatnsbrunn; gekk hún þá þángad, fylti leigilinn med vatn, og gaf sveininum ad drekka. — Og Gud var med sveininum, og hann þroskadist, og bjó í eydimörkinni Faran, og var gódur bogmadur. Módir hans tók honum konu af Egyptalandi, sem fæddi honum tólf syni; voru nidjar þeirra kendir vid þá og skiptust í tólf kynkvíslir; hafdi hver kynkvísl sinn höfdingja, og fóru í kring í tjöldum med hjardir sínar.

## 11. Hlýdni Abrahams.

Og þad skedi eptir þetta, ad Gud freistadi Abrahams, og mælti til hans: Abraham! Hann svaradi: hér em eg. Og hann sagdi:

tak Isak, einkason þinn, sem þú elskar, og far í landið Móría og fórnfær honum þar á því fjalli, er eg mun segja þér. Og Abraham var snemma á fótum, söðlaði asna sinn, tók með sér tvo af þrælum sínum og Isak son sinn; og hann klauf viðinn til brennifórnarinnar, tók sig upp og hélt á stað, þángað sem Guð sagði honum. Og er hann hafði haldið áfram tvo daga, sá hann á þriðja degi staðinn áleingdar; sagði hann þá við þræla sína: bíðið hér með asnann, en eg og sveinninn munum fara þángað, og, þegar vér höfum beðizt fyrir, koma til ykkar aptur. Og Abraham tók brennifórnarviðinn og lagði syni sínum Isak á herðar; en sjálfur tók hann eldinn og hnífinn sér í hönd, og svo geingu þeir báðir saman. Þá sagði Isak við föður sinn: faðir minn! Hann svaraði: hér er eg, sonur minn! Og hann sagði: sjá, hér er eldurinn og viðurinn, en hvar er sauðurinn til brennifórnarinnar? Abraham svaraði: Guð mun sjá fyrir sauð til brennifórnarinnar, sonur minn! Og þeir geingu tveir saman. — En sem þeir komu til þess staðar, sem Guð hafði vísað honum á, bygði Abraham þar altari, lagði viðinn þar á, batt son

sinn Isak, og lagdi hann upp á altarið ofan á viðinn, rétti út hønd sína, tók hnífinn og ætlaði að fórna syni sínum. Þá hrópaði eingill Drottins til hans af himni og sagði: Abraham, Abraham! Hann svaraði: hér em eg. Þá sagði eingillinn: legg ekki hønd á sveininn og gjør honum ekkert! Því að nú veit eg, að þú óttast Guð og þyrmdir ekki þínum einkasyni, Guðs vegna. Varð Abraham þá litið við, og sjá, hrútur hékk á bak við hann á hornunum í runna nokkrum. Og hann fór og tók hrútinn og fórnaði honum, sem brennifórn, í stað sonar síns. Og Abraham kallaði þennan stað: „Drottinn sér". Og eingill Drottins kallaði í annað sinn af himni til Abrahams og sagði: eg hefi svarið við sjálfan mig, segir Drottinn, að eg skal blessa og margfalda kyn þitt, sem stjørnur á himni, sem sand á sjáfarstrøndu, og niðjar þínir skulu ná borgarhliðum óvina sinna. Og af þinni ætt skulu allar þjóðir á jørðunni blessun hljóta, af því þú hlýddir raust minni. En Abraham fór til baka til þræla sinna, og þeir tóku sig upp og urðu samferða til Berseba; því Abraham bjó þar þá.

## 12. Daudi Soru.

Þegar Sara var hundrad þrjátíu og sjø ára gømul, dó hún í Hebron í landinu Kanaan. Og Abraham kom, til ad harma hana og gráta. Sídan stód hann upp frá hlid sinnar øndudu konu, taladi vid sonu Hets og mælti: eg em útlendur madur, og bý hér medal ydar; látid mig fá greptrunareign hjá ydur, ad eg jardi lík mitt og komi því frá mér. Þá svørudu synir Hets Abraham og søgdu: heyr oss, gódi herra, þú ert høfdingi Guds vor á medal; jarda þú þína framlidnu í vorum heidarlegustu grøfum; einginn medal vor skal meina þér, ad jarda hana í sinni grøf. Þá stód Abraham upp, hneigdi sig fyrir landsfólkinu, taladi vid þá og sagdi: ef þad er ydar vilji, ad eg megi jarda mína framlidnu, þá heyrid mig, og bidjid Efron Soarsson fyrir mig, ad hann láti mig fá hellinn Makfela, sem er vid endann á akri hans, ad hann láti mig fá hann fyrir fullt verd til greptrunareignar medal ydar. Þá svaradi Efron, svo ad Hets synir heyrdu og allir þeir, sem geingu út og inn um borgarhlid hans, og sagdi: nei, herra minn, heyr mig: eg gef þér akurinn og hellinn, sem

þar er, og eptirlæt þér það í viðurvist sona míns fólks. Þá hneigði Abraham sig fyrir landsfólkinu, talaði við Efron og sagði: viljir þú unna mér akursins, þá bið eg, tak af mér við fé því fyrir hann, sem eg gef þér. Efron svaraði: herra, heyr mig, akurinn er fjøgur hundruð sikla virði; en hvað er það okkar í milli? Jarða þú þína framliðnu. Og Abraham hlýddi Efron og vóg honum silfrið, eins og hann hafði til tekið, fjøgur hundruð sikla silfurs, gilda og góða. Svo var þá akur Efrons, í hverjum að hellirinn Makfela er, austan til við Mamre, akurinn og hellirinn og øll trén, sem voru á akrinum alt í kring, festur Abraham til eignar, í viðurvist Hets sona og allra þeirra, sem inn og út geingu um hans borgarhlið. Og Abraham jarðaði konu sína Sóru í hellinum Makfela.

## 13. Rebekka.

Þegar Abraham var orðinn gamall, og Drottinn hafði blessað hann í øllu, þá sagði hann við þjón sinn, hinn elzta í húsi hans, umsjónarmann yfir øllu, sem hann átti: legg hønd þína undir lend mér, og sver mér við

Drottinn, Gud himins og jardar, ad þú ekki skulir taka syni minum til handa nokkra konu af dætrum Kananíta, medal hverra eg bý, heldur skulir þú fara í fødurland mitt og til ættfólks míns, og taka þar konu handa syni mínum Isak. Þjónninn svaradi: en ef konan, sem eg vel, vill ekki koma med mér í þetta land, á eg þá ad fara med son þinn aptur í þad land, sem þú komst frá? Abraham sagdi vid hann: ekki máttu fara med son minn þángad. Drottinn, Gud himinsins, sem tók mig úr húsi fødur míns og úr mínu fødurlandi, sem hefur gefid mér þad fyrirheit, svarid mér og sagt: þinni ætt mun eg gefa þetta land, hann mun senda eingil sinn á undan þér, ad þú getir tekid þadan konu handa syni mínum. En vilji konan ekki fara med þér, svo ertu kvittur eidsins; láttu ad eins son minn ekki fara þángad. Og þjónninn lagdi hønd sína undir lend Abrahams og vann honum eid ad þessu. — Svo tók þá þjónninn tíu úlfalda af úlføldum herra síns, hafdi med sér alls konar dýrgripi, og fór á stad til Mesopotamíu, til borgar þeirrar, þar sem Nahor bjó, bródir Abrahams, og ætt hans. Sem hann nú kom

þángad, ádi hann úlfoldum sínum fyrir utan borgina, hjá brunni nokkrum, um kvöld, um þad bil, sem kvennfólk var vant ad fara út ad sækja vatn. Og hann sagdi: Drottinn, Gud húsbónda míns Abrahams, láttu mig sjá þad í dag, ad þú audsýnir miskun húsbónda mínum Abraham. Sjá, eg stend hér vid þennan brunn, og dætur borgarmanna munu koma híngad ad sækja vatn. Ef þad nú skedur, ad sú stúlka, sem eg segi vid: hneig skjólu þína nidur, og lát mig drekka, ad hún þá svarar: drekk þú, eg vil líka vatna úlfoldum þínum, — þá sé þad sú, sem þú hefur út valid þénara þínum Ísak, og eg viti þar af, ad þú hefur audsýnt miskun herra mínum. Og sjá, ádur en hann hafdi endad tal sitt, þá kom Rebekka, dóttir Betuels, sonar Nahors, bródur Abrahams, og bar skjólu á öxl sér. En stúlkan var mikid fríd, og hún sté nidur í brunninn, fylti skjólu sína og kom upp aptur. Þá hljóp þjónninn til hennar og sagdi: gef mér vatnssopa ad drekka úr skjólu þinni. Og hún svaradi: drekk, herra minn, tók strax skjóluna af öxl sér, og gaf honum ad drekka. Og þegar hún hafdi gefid honum ad drekka, mælti hún: eg skal líka ausa upp vatn

handa úlfoldum þínum, þángad til þeir hafa allir drukkid; helti hún þá strax úr skjólunni í þróna, hljóp svo aptur ad brunninum, og jós upp handa øllum úlfoldum hans. Og manninum vard starsýnt á hana, en þagdi samt, til ad vita, hvort Drottinn hefdi látid ferd hans lukkast eda ekki. En sem allir úlfaldarnir hofdu drukkid, tók hann hríng úr gulli, sem vóg hálfan sikil, og tvo armbond, er vógu tíu sikla gulls, og mælti: hverra manna ertu? Segdu mér: er rúm í húsi fodur þíns til ad hýsa oss í nótt? Hún sagdi vid hann: eg er dóttir Betúels, sonar Nahors; og hún mælti enn fremur: bædi er hálmur og nóg hey hjá oss, og líka rúm, til ad hýsa ydur. Þá laut madurinn, prísadi Gud og sagdi: lofadur sé Drottinn, Gud húsbónda míns Abrahams, hvers miskun og trúfesti ekki hefur skilid vid herra minn; því Gud hefur leitt mig til húsa bródur húsbónda míns. — Og stúlkan hljóp heim, og sagdi frá þessu øllu í húsi módur sinnar. Og hún átti bródur, sem hét Laban. Þegar hann sá hrínginn og armbondin í høndum systur sinnar, og hann heyrdi, hvad madurinn hafdi sagt vid hana, þá fór hann strax til hans, og

sjá, hann stód hjá úlfoldunum vid brunninn. Og Laban sagdi: kom heim til vor, blessadur af Drottni, því stendur þú hér úti? Eg hefi rýmt til í húsinu, og fyrir úlfalda þína er líka rúm. Leiddi hann svo manninn heim, tók ofan af úlfoldunum, og gaf þeim hálm og fódur, en manninum færdi hann vatn, til ad þvo fætur sína, svo og þjónum þeim, sem med honum voru, og setti mat fyrir hann. En hann sagdi: eg et ekki fyrri, en eg hefi borid upp erindi mitt. Þeir svorudu: tala þú! Hann mælti: Eg em þjónn Abrahams, og Drottinn hefur ríkulega blessad húsbónda minn, svo ad hann er ordinn mikill, og hefur gefid honum saudi og uxa, silfur og gull, þræla og þernur, úlfalda og asna. Líka hefur Sara, kona húsbónda míns, í elli sinni alid honum son; honum hefur hann gefid alt, sem hann á. Og húsbóndi minn tók af mér eid og sagdi: þú skalt ekki taka syni mínum konu af dætrum Kananíta, í hverra landi eg bý; heldur skaltu fara í hús fodur míns, og til ættingja minna, og taka syni mínum þar konu. En eg sagdi vid húsbónda minn: máske konan vilji ekki fara med mér? Þá svaradi hann mér: Drott-

inn, fyrir hvers augsýn eg hefi geingid, mun senda eingil sinn med þér, og láta ferd þína lukkast, svo þú fáir konu handa syni mínum af ætt minni og úr húsi fodur míns. En ef þú kemur til ættingja minna, og þeir vilja ekki gefa þér hana, þá ertu kvittur eids þíns. — Svo kom eg í dag ad brunninum, og sagdi: Drottinn, Gud Abrahams, húsbónda míns, ætlir þú ad gefa lukku til þeirrar ferdar, sem eg nú hefi farid, sjá, þá stend eg vid þennan brunn; og fari nú svo, ad stúlka sú, af þeim er koma híngad ad sækja vatn, sem eg ávarpa þannig: gef mér dálítid ad drekka úr skjólu þinni, segi: bædi máttu drekka, og líka skal eg sækja vatn úlføldum þínum, — þá sé þad kona sú, sem Drottinn hefur ætlad syni húsbónda míns. En ádur en eg hafdi endad þetta tal med sjálfum mér, sjá, þá kom Rebekka þángad med skjólu á øxl sér, gekk nidur í brunninn og jós upp vatn. Og eg sagdi vid hana: gef mér ad drekka. En hún tók strax skjóluna af øxl sér, og sagdi: drekk þú, líka skal eg vatna úlfoldum þínum. Og eg drakk og hún vatnadi líka úlføldunum. Þá spurdi eg hana og mælti: hvers dóttir ertu? Hún svaradi: dóttir Betúels. Þá heingdi eg

skart á andlit hennar og armbönd á hennar arma, féll fram og lofadi Gud fyrir þad, ad hann hefdi leitt mig þann rétta veg, til ad taka bródurdóttur húsbónda míns handa syni hans. Þar fyrir segid mér, hvort þér viljid sýna vinsemd og trygd húsbónda mínum; en ef ekki, þá segid mér þad, svo eg þá geti leitad fyrir mér annarstadar. Þá svörudu þeir Laban og Betúel, og sögdu: þetta er audsjáanleg tilhlutan Drottins, þess vegna getum vér ekkert sagt þér, hvorki ilt né gott. Þarna er Rebekka, tak hana, og far leid þína, ad hún verdi kona Ísaks, eins og Drottinn hefur til ætlazt. Þegar þjónn Abrahams heyrdi þessi ord, laut hann til jardar fyrir Drottni; sídan tók hann upp gersemar úr gulli og silfri, og klædnad, og gaf Rebekku; bródur hennar og módur gaf hann líka dýrmætar gjafir. Þar eptir át hann og drakk, ásamt mönnum þeim, sem med honum voru, og gisti þar um nóttina. En um morguninn stód hann árla upp, og mælti: látid mig fara heim til húsbónda míns. Þá sögdu bródir hennar og módir: láttu stúlkuna vera enn þá hjá oss nokkra daga, svo sem tíu, þar eptir máttu fara. En hann svaradi:

tefjid mig ekki; Drottinn hefur látid ferd mína heppnast; leyfid mér ad fara heim til húsbónda míns. Þau søgdu þá: vid skulum kalla á stúlkuna, og vita hvad hún segir. Og þau kølludu á Rebekku, og søgdu vid hana: viltu fara med þessum manni? Hún sagdi: eg vil fara. Svo létu þau þá Rebekku, systur sína, og fóstru hennar, fara med þénara Abrahams og mønnunum hans; og þau blessudu Rebekku og søgdu: „systir gód, ó, ad þú verdir ad þúsund sinnum þúsundum, og nidjar þínir eignist borgarhlid óvina sinna". Svo tók þjónninn vid Rebekku og fór leid sína; og Rebekka tók sig upp med þernum sínum, og þær settust upp á úlfaldana og fóru med manninum. — En Isak bjó um þessar mundir sunnarlega í landinu, og kom gángandi frá brunninum, sem heitir: brunnur hins lifanda, er sér mig; því hann hafdi geingid út um kvøldid, til ad sjá sig um á akrinum. Og sem hann nú leit upp, og litadist um, sjá, þá sá hann úlfalda koma. Rebekka leit líka upp, og sá Isak; sté hún þá strax af baki úlfaldanum og sagdi vid þjónin: hver er þessi madur, sem kemur á móti oss á akrinum? Þjónninn svaradi: þad er húsbóndi minn. Þá

tók hún skýluna og huldi sig. En þjónninn sagdi Isak frá øllu því, sem hann hafdi gjort. Og Isak leiddi Rebekku í tjald módur sinnar Søru, tók hana sér fyrir konu, og elskadi hana heitt. Þannig huggadist þá Isak eptir dauda módur sinnar.

## 14. Daudi Abrahams.

Og Abraham tók sér aptur konu, er hét Ketúra, og hún fæddi honum fleiri syni. Og hann gaf Isak alt, sem hann átti, en hinum børnum sínum gaf hann gjafir, og lét þau fara austur í landid, medan hann enn var á lífi, frá syni sínum Isak. Og Abraham andadist í gódri elli, gamall og saddur lífdaga, og safnadist til sinna fedra. Var hann hundrad sjotíu og fimm ára, þegar hann dó. Og Isak og Ismael synir hans jørdudu hann í hellinum Makfela, á akri Efrons Hetíta, fyrir austan Mamre, á akrinum sem hann hafdi keypt. Þar var Abraham jardadur og Sara kona hans.

## 15. Isak.

Eptir dauda Abrahams blessadi Drottinn son hans Isak; og hann bjó hjá brunni hins

lifanda, er sér mig. En þar varð aptur mikið hallæri í landinu, annað en það, sem var á dögum Abrahams; og Isak fór til Abimeleks, Filistea konúngs, í Gerar. Hér birtist Drottinn honum og mælti: far ekki til Egyptalands, heldur vertu í þessu landi, eg skal vera með þér og blessa þig. Því þér og niðjum þínum mun eg gefa öll þessi lönd, og halda fyrirheit það, sem eg gaf föður þínum Abraham. Og eg mun gjöra niðja þína, sem stjörnur himins, og af þínu afspreingi skulu allar þjóðir á jörðunni blessan hljóta, af því að Abraham hlýddi raust minni, og gætti minna réttinda, skipana, setninga og laga. Svo staðnæmdist þá Isak í Gerar; en Abimelek, konúngur þar, bauð öllu fólkinu og sagði: hver sem áreitir þennan mann og konu hans, sá skal vissulega deya. Og Isak sáði í landinu og uppskar hundraðfalt, því að Drottinn blessaði hann. Og hann efldist og auðgaðist meir og meir, þángað til hann var orðinn mjög ríkur, og átti mikið af sauðfé og stórgripum og marga þræla. Þess vegna öfunduðust Filistear yfir honum, og byrgðu alla þá brunna, sem þrælar föður hans höfðu grafið á dögum Abrahams, og fyltu þá

með mold. Einnig Abimelek sagði við hann: far þú burt frá oss, því þú ert orðinn oss of völdugur. — Þá fór Isak þaðan, og setti tjald sitt í dalnum Gerar, og bjó þar. Og hann lét grafa upp aptur brunna þá, sem grafnir höfðu verið á dögum föður hans, en sem Filistearnir höfðu byrgt eptir dauða hans, og gaf þeim sömu nöfn, sem faðir hans hafði gefið þeim. Líka grófu þrælar hans í dalnum, og fundu þar brunn lifandi vatns. En hirðarnir frá Gerar þrættust á við hirða Isaks, og sögðu: vér eigum vatnið. Þá grófu þeir annan brunn, en einnig um hann þráttuðu þeir. Fór hann þá þaðan og gróf enn þá brunn; um hann þráttuðu þeir ekki, þess vegna kallaði hann þann brunn Rehobot (vídd), og sagði: nú hefur Drottinn gefið oss nóg rúm, og vér munum vara í landinu. — Nokkru seinna flutti hann héðan til Berseba, bygði Drottni þar altari, ákallaði nafn hans, og setti þar tjald sitt; og þjónar hans grófu þar líka brunn. Þá kom Abimelek til hans frá Gerar, og Akúsat, vinur hans, og Fikol, hershöfðingi hans. En Isak sagði við þá: hví komið þér til mín, þér sem hatið mig og rákuð burt frá yður? Þeir

svörudu: vér sjáum, ad Drottinn er med þér, því mælumst vér til, ad eidur sé milli vor og þín, og vér viljum gjöra vid þig sáttmála, ad þú gjörir oss ekkert ilt, eins og vér ekki höfum áreitt þig, og eins og vér ekki höfum gjört þér nema gott, og látid þig fara í fridi. En þú ert nú blessadur af Drottni. Þá hélt hann þeim heimbod, og þeir átu og drukku. Og morguninn eptir stódu þeir árla upp, og unnu hver ödrum eida; og Isak lét þá frá sér, og þeir fóru burt í fridi.

### 16. Esau og Jakob.

1, Rebekka, kona Isaks, vard ólétt og ól tvíbura; kalladi hann þann, sem fyr fæddist, Esau, og hinn Jakob. En sem sveinarnir voru ordnir stórir, gjördist Esau veidimadur og akuryrkjumadur, en Jakob var gæfur madur og hélt sig ad tjöldunum. Og Isak elskadi Esau, og smakkadist vel veidi hans; en Rebekka elskadi Jakob. — Einn sinni hafdi Jakob matbúid rétt nokkurn, þegar Esau kom heim þreyttur af mörkinni. Þá sagdi Esau vid hann: láttu mig smakka þetta rauda þarna, því eg em vanmegna af húngri. (Af því var

hann kalladur Edom, hinn raudi). Jakob mælti: seldu mér þá frumburdarrétt þinn. Esau svaradi: eg er kominn í dauda, hvad stodar mig frumburdarréttur minn? Jakob mælti: vinn mér þá strax eid ad því. Og hann vann honum eidinn, og seldi Jakob þannig frumburdarrétt sinn. Jakob gaf honum þá braud og baunaréttinn, og hann át og drakk, og stód upp og gekk á burt. Svo litils matti Esau frumburdarrétt sinn.

2, Og þad skedi, þegar Isak var ordinn gamall og hættur ad sjá, ad hann kalladi á Esau, son sinn þann hinn eldri, og sagdi vid hann: sonur minn. Hann svaradi: hér er eg. Isak sagdi: sjá, eg er ordinn gamall, og veit ekki nær eg muni deya. Tak veidarfæri þín, ørvamæli og boga, og far út á mørkina og veid mér villudýr; matreid mér svo gódan rétt, eins og mér likar, og færdu mér hingad, ad eg eti, og sála min blessi þig, ádur en eg dey. — En Rebekka heyrdi, hvad Isak sagdi vid son sinn Esau; og sem Esau var farinn út á mørkina ad veida og sækja villudýr, þá sagdi hún vid Jakob, hinn son sinn: sjá, eg hefi heyrt fodur þinn tala vid bródur þinn, og segja:

sæk mér villudýr, og matreid mér gódan rétt, ad eg eti, og blessi þig í augsýn Drottins, ádur en eg dey. Svo heyr nú, sonur minn, hvad eg segi þér: far til hjardarinnar, og sæk mér tvø góð kid, ad eg geti matreitt fødur þínum þar af rétt, sem honum líkar. Skaltu svo færa honum hann, ad hann eti, og blessi þig ádur en hann deyr. En Jakob sagdi vid módur sína: sjá, Esau bródir minn er lodinn, en eg snøggur; ef nú fadir minn þreifar á mér, þá þykir honum, sem eg vilji blekkja sig, og leidi eg þannig yfir mig bølvan en ekki blessan. Þá sagdi módir hans vid hann: sú bølvan komi yfir mig, sonur minn; hlýd þú mér ad eins, far og sæk kidin. Og hann fór og sókti þau og færdi módur sinni; en hún matreiddi gódan rétt, eins og fødur hans líkadi, tók beztu klædi eldra sonar síns Esaus, og færdi Jakob í þau. En skinnid af kidunum lét hún um hendur hans, og um hálsinn, þar sem hann var hárlaus, og fékk honum svo réttinn og braudid. En hann gekk inn til fødur síns og mælti: fadir minn. Hann svaradi: hér em eg; hver ertu, son minn? Jakob sagdi: eg er Esau, þinn frumgetinn son; eg hefi gjørt eins og þú sagdir mér; sezt upp,

og et af villibráð minni, svo þín sál blessi mig. Og Isak sagði til sonar síns: hvernig gaztu svo fljótt fundið það, sonur minn? Hann svaraði: Drottinn, þinn Guð, lét það mæta mér. Þá sagði Isak við hann: kom nær, sonur minn, að eg þreifi á þér, og viti, hvort þú ert sonur minn Esau eða ekki. Jakob gekk þá til föður síns, en hann þreifaði á honum og mælti: raustin er raust Jakobs, en hendurnar eru hendur Esaus. Og hann þekkti hann ekki, því að hendur hans voru loðnar eins og hendur bróður hans. Og hann spurði hann aptur: ertu sonur minn Esau? Hann svaraði: eg er það. Þá sagði hann: kom þá hingað með villibráð þína, að eg eti af henni. Og hann færði honum hana, og hann át, og hann færði honum líka vín, og hann drakk. Síðan sagði Isak við hann: kom þú nær, sonur minn, og kyss mig. Og hann gekk til hans og kyssti hann. Þá kenndi hann ilm af klæðum hans og sagði: „sjá, ilmurinn af syni mínum er sem „ilmur af þeim akri, sem Drottinn hefur blessað. Guð gefi þér dögg himins, feiti jarðar, „og gnægð korns og víns. Þjóðirnar þjóni „þér og lýðirnir lúti þér. Vertu herra yfir

„brædrum þínum, og synir móður þinnar skulu „þér lúta. Bølvaður sé sá, sem bølvar þér, „og blessaður sá, sem blessar þig!" — Þegar Isak hafði endað blessan sína yfir Jakob, og Jakob var rétt nýgeinginn frá føður sínum, þá kom Esau heim frá veiðum sínum, og matreiddi líka góðan rétt, bar inn til føður síns, og sagði við hann: seztu upp, faðir minn, og et af villibráð sonar þíns, svo að þín sál blessi mig. Þá svaraði Isak: hver ertu? Hann sagði: eg er Esau, þinn frumgetinn son. Þá varð Isak ákaflega bilt við, og sagði: hver var þá veiðimaðurinn, sem kom til mín með villibráð, er eg át af, áður en þú komst, og blessaði? Hann mun líka blessaður verða. En sem Esau heyrði þessi orð føður síns, hljóðaði hann upp yfir sig, grét beisklega, og sagði: blessa mig líka, faðir minn. Isak svaraði: bróðir þinn hefur komið með kænsku, og tekið blessan þína. Þá sagði Esau: réttnefndur er hann Jakob (hælhaldari), því að tvisvar hefur hann nú tekið um hælinn á mér (prettað mig). Frumburðarrétt minn hefur hann áður tekið, og nú náði hann líka blessan minni. Og hann mælti: hefurðu þá enga blessan skilið eptir handa mér? Isak

svaradi og sagdi vid hann: eg hefi sett hann herra yfir þig, og gjørt alla brædur hans ad þrælum hans. Eg hefi líka séd honum fyrir korni og víni; hvad get eg þá gjort vid þig, sonur minn? Esau sagdi: hefurdu þá ekki nema eina blessan, fadir minn? Blessa mig líka, fadir minn! Og hann grét hástøfum. Þá svaradi Isak og mælti: „sjá, feiti jardar mun „bústad þinn vanta og døgg himins; af sverdi „þinu muntu lifa og bródur þinum þjóna; en „þegar þú vilt, muntu sundur brjóta ok þad, sem „hann hefur lagt á herdar þér".

3, Og Esau vard reidur bródur sínum vegna þeirrar blessunar, sem hann hafdi nád frá honum, og sagdi med sjálfum sér: sorgardagar munu brádum koma eptir fødur minn, og þá mun eg drepa Jakob bródur minn. — En sem Rebekka fékk ad heyra þessi ord eldra sonar síns, sendi hún eptir Jakob, og sagdi vid hann: „sjá, Esau bródir þinn vill hefnast á þér, og drepa þig; hlýddu því raustu minni, son minn; taktu þig til, og flý til Labans bródur míns í Haran, og vertu hjá honum nokkurn tíma, til þess heipt bródur þins hefur sjatnad, og hann hefur gleymt því, sem þú gjørd-

ir honum; skal eg þá senda og láta sækja þig. Hvi skyldi eg missa ykkur báda á einum degi?" Og Rebekka sagdi vid Isak: þær Hetsdætur gjora mér lifid leitt; ef Jakob tæki sér lika konu af dætrum þessa lands, hvi skyldi eg þá lifa? En Esau hafdi tekid sér tvær konur af Hets dætrum, og þær voru Isaks og Rebekku hjartansraun. Þá kalladi Isak til sin son sinn Jakob, blessadi hann, og baud honum og sagdi: tak þér ekki konu af Kanaans dætrum, heldur tak þig upp, og far til Mesopotamiu i hús Betúels, fødur módur þinnar, og tak þér þar konu af dætrum Labans, módurbródur þins. Gud almáttugur blessi þig, gjøri þig ávaxtarsaman, og auki ætt þina, svo þú verdir ad mikilli þjód; hann gefi þér blessan Abrahams, þér og nidjum þinum med þér, ad þú megir eignast land þad, sem þú býrd i, sem Gud gaf Abraham. — Svo lét Isak son sinn frá sér. Og sem nú Esau sá, ad fadir sinn hafdi blessad Jakob, og sent hann til Mesopotamiu, til ad fá sér þar konu, og ad fødur sinum ekki gedjudust Kanaans dætur, þá fór hann til Ismaels, og tók dóttur hans Mahalat sér fyrir konu, auk þeirra kvenna, sem hann ádur átti.

## 17. Flótti Jakobs.

1, Og Jakob lagdi á stad frá Berseba og hélt til Haran; og hann kom á ferdinni á vissan stad, og var þar um nótt, því ad sólarlag var komid. Og hann tók stein, lagdi hann undir höfud sér og lagdi sig svo til svefns á þeim stad. Og hann dreymdi: — honum þótti stigi standa á jördu, sem nádi til himins; og sjá, einglar Guds fóru upp og nidur stigann. Og Drottinn stód þar upp yfir og sagdi: eg em Drottinn, Gud Abrahams födur þíns, og Gud Isaks; þad land, sem þú hvílist á, mun eg gefa þér og ætt þinni. Og nidjar þínir skulu verda sem dust jardar, og þú skalt út breidast til vesturs og austurs, nordurs og sudurs, og af þér og nidjum þínum skulu allar þjódir á jördunni blessan hljóta. Og sjá, eg em med þér, og mun vardveita þig, hvert sem þú fer, og mun leida þig aptur til þessa lands; því ekki mun eg sleppa hendi af þér, þángad til eg hefi gjört alt, sem eg hefi vid þig talad. Þá vaknadi Jakob af svefni sínum og mælti: vissulega er Drottinn á þessum stad, og eg vissi þad ekki. Og ótta sló yfir hann, og hann sagdi: hve heilagur er þessi stadur; hér er Guds hús, hér er hlid himins-

ins! Og Jakob stód snemma upp um morgruninn, tók steininn, sem hann hafdi haft undir höfdinu, reisti hann upp til merkis, og helti yfir hann vidsmjori, og kalladi stadinn Betel (Guds hús). Og hann gjordi heit og mælti: ef Gud verdur med mér og vardveitir mig á þessari ferd, sem eg nú fer, og gefur mér braud ad eta og klædir mig, og leidir mig farsællega heim aptur til födur mins, þá skal þessi steinn, sem eg hefi upp reist, verda Guds hús.

2, Og Jakob fór leidar sinnar og hélt til þess lands, er liggur gegnt austri. Og hann litadist um, og sjá, þar var brunnur á mörkinni, og vid hann lágu þrjár saudahjardir, því ad þad var vant ad vatna þeim þar, og stór steinn lá yfir munna brunnsins. En þegar allar hjardirnar voru saman komnar, var vant ad velta steininum burtu og vatna fénadinum, sídan var steinninn látinn aptur yfir munna brunnsins á sinn stad. Og Jakob sagdi vid þá: brædur minir, hvadan erud þér? Þeir svörudu: frá Haran. Hann sagdi: þekkid þér Laban Nahorsson? Þeir svörudu: vér þekkjum hann. Hann sagdi: lidur honum vel? Þeir

svörudu: honum lídur vel; og sjá, þarna kemur dóttir hans Rakel med sandina. Hann sagdi: enn er mikid eptir dags, og ekki kominn tími til, ad reka féd saman. Vatnid fénu, og rekid þad svo aptur á beit. Þeir svorudu: vér getum þad ekki, fyr en allar hjardirnar eru saman komnar, og vér veltum steininum frá brunnsmynninu, og vötnum svo fénu. Í því hann ræddi þetta vid þá, kom Rakel med fé födur síns; því ad hún gætti þess. Og sem Jakob sá Rakel, dóttur Labans, módurbródur síns, þá fór hann til, og velti steininum frá munna brunnsins, og vatnadi fé módurbródur síns; og hann kyssti Rakel, og grét hástofum, og sagdi henni, ad hann væri sonur Rebekku. Þá hljóp hún, og sagdi födur sínum frá. En sem Laban frétti til Jakobs, systursonar síns, hljóp hann í móti honum, tók hann í fadm sér, mynntist vid hann og leiddi hann í hús sitt, en hann sagdi Laban alt, sem fram vid hann hafdi komid. Þá sagdi Laban vid hann: sannarlega ertu mitt hold og bein; og hann var hjá honum heilan mánud, og þjónadi honum.

## 18. Jakob og Laban.

Nokkru seinna sagdi Laban vid Jakob:

skyldir þú þjóna mér fyrir ekkert, þótt þú sért minn ættingi? segdu til, hver þín laun skulu vera. En Laban átti tvær dætur; sú hin eldri hét Lea, en hin yngri Rakel. Lea var augndøpur, en Rakel bædi vel varin og fríd. Og Jakob elskadi Rakel, og sagdi: eg vil þjóna þér í sjø ár fyrir Rakel, yngri dóttur þína. Laban svaradi: þad er betra, ad eg gefi þér hana, en ødrum; vertu hjá mér. Svo vann Jakob fyrir Rakel í sjø ár, og þótti honum, sem fáir dagar væru, því hann elskadi hana. Og Jakob sagdi vid Laban: nú er tíminn úti; fádu mér dóttur þína Rakel, ad eg giptist henni. Þá baud Laban øllum þar í kríng, og hélt veizlu. En um kvøldid tók hann Leu í stad Rakelar, og leiddi hana inn til hans. Og um morguninn, sjá, þá var þad Lea. Og Jakob sagdi vid Laban: því gjørdir þú mér þetta? Hefi eg ekki þjónad þér, til ad fá Rakel? Því hefur þú svikid mig? Laban svaradi: þad er ekki sidur hér ad gipta frá sér fyr hina yngri dóttur, heldur en hina frumgetnu. Haltu nú þessa þá sjø daga, sem brúdkaupid varir, þá vil eg líka gefa þér hina fyrir þá vinnu, sem þú skalt vinna mér í ønnur sjø ár. Og Jakob gjørdi svo, og

hélt út vikuna. Þá gipti Laban honum dóttur sína Rakel. Þannig hafði hann líka Rakel, og hann elskaði hana meir en Leu. En sem Drottinn sá, að Lea var fyrirlitin, þá gaf hann henni börn, en Rakel gaf hann eingin börn; og Lea fæddi honum syni og dætur. Þá sneri Rakel sér til Guðs, og beiddi hann. Og Drottinn bænheyrði hana, og gjörði hana ávaxtarsama; og hún fæddi Jakob son, og sagði: Guð hefur burt tekið mína smán; og hún nefndi hann Jósep, og sagði: Guð bæti við mig öðrum syni. — En hinir aðrir synir Jakobs hétu: Ruben, Simeon, Levi, Juda, Dan, Naptali, Gad, Asser, Isaskar, Sebulon.

Þegar nú Rakel hafði fætt Jósep, sagði Jakob við Laban: slepp mér nú, að eg fari aptur á mínar stöðvar og í mitt land; fá mér konur mínar og afkvæmi mín, hvar fyrir eg hefi þjónað þér, að eg geti farið, því þú veizt, hvernig eg hefi þjónað þér. Þá sagði Laban við hann: lát mig finna náð í þínum augum, og vertu kyrr hjá mér; eg hefi tekið eptir því, að Drottinn hefur blessað mig fyrir þínar sakir; til taktu kaup handa þér, eg skal

svara því. En hann svaradi: þú veizt, hvernig eg hefi þjónad þér, og hver þín hjørd er ordin hjá mér. Þú áttir litid til, þegar eg kom hér, en nú hefur þad margfaldlega aukizt, og Drottinn hefur blessad þig, eptir ad eg kom til þín. Nær skal eg líka vinna fyrir mínu húsi? Laban sagdi: hvad skal eg þá gefa þér? Jakob svaradi: þú skalt alls ekkert gefa mér; en viljir þú gjøra þetta, sem eg segi, þá vil eg enn þá halda fé þínu til haga, og gæta þess. Jeg vil í dag gánga um alla þína hjørd, og skilja úr alt mislitt og svart medal saudanna, og alt mislitt og flekkótt medal geitanna. Þad sem fædist flekkótt og mislitt af þessari einlitu hjørd, þad skal vera kaup mitt. Og réttvísi mín skal seinna meir bera mér vitni, þegar þú kemur og skodar kaup mitt. Hvad sem þá ekki er flekkótt eda mislitt eda svart medal sauda minna og geita, þad skal vera stolid hjá mér. Þá sagdi Laban: sé þad, eins og þú hefur sagt. Og hann skildi úr á sama degi alla mislita og flekkótta hafra og geitur, alt sem hafdi á sér einhvern hvítan díl, og alt mislitt og svart medal saudanna, og fékk þad sonum sínum, og lét vera þrjár dagleidir milli sín og Jakobs.

Og Jakob gætti hinnar einlitu hjardar, sem eptir vard. En hjörd þessi fæddi mjög mörg flekkótt og mislit lömb fyrir rádkænsku Jakobs, og hann skildi þessi lömb frá hjörd Labans, og gjördi hjörd sér út af fyrir sig. Og hjörd hans óx alt af og fjöldgadi, og hann vard stóraudugur, svo hann átti mikinn fénad, ambáttir og þræla, úlfalda og asna. — Og Jakob frétti ord sona Labans, ad þeir sögdu: Jakob hefur dregid undir sig aleigu ſödur vors, og af hans eigum hefur hann grætt allan þennan aud. Og Jakob sá vidmót Labans, og sjá, þad var ekki sem ádur. Og Drottinn sagdi vid Jakob: far þú aptur heim í land fedra þinna og til ættingja þinna; eg mun vera med þér. Þá sendi Jakob, og lét kalla þær Rakel og Leu út á mörkina, til hjardar sinnar, og sagdi vid þær: eg sé, ad vidmót födur ykkar vid mig er ekki, sem þad var ádur. Þid vitid sjálfar, ad eg hefi þjónad födur ykkar af öllum mætti, og ad hann hefur svikid mig og tíu sinnum skipt um laun vid mig; en Gud hefur ekki lofad honum ad gjöra mér skada. Og Gud sagdi vid mig: tak þig til, og far burt úr landi þessu og til ættjardar þinnar. Þá svörudu

Rakel og Lea, og sögdu við hann: höfum við framar nokkra hlutdeild eða arf í húsi föður okkar? Erum við ekki af honum álitnar, sem vandalausar? Því að hann hefur selt okkur og eytt verði okkar. Þess vegna hefur Guð fengið oss og börnum vorum auð hans. Gjör þú því alt það, sem Guð hefur sagt þér.

## 19. Heimför Jakobs til Kanaanslands.

Og Jakob tók sig upp, og setti börn sín og konur upp á úlfaldana, og hafði á burt allan fénað sinn og allar þær eigur, sem hann hafði eignazt í Mesopotamiu, að hann færi til Isaks föður síns, í Kanaansland. En Laban var farinn að klippa sauði sína. Og Rakel tók með sér húsgoð föður síns. Þannig fór þá Jakob leynilega frá tengdaföður sínum, og sagði honum ekki frá því. Og hann flúði með alt, sem hann átti, fór yfir ána, og stefndi á fjallið Gilead. Á þriðja degi var Laban sagt, að Jakob væri strokinn; tók hann þá bræður sína með sér, fór eptir honum sjö dagleiðir, og náði honum á fjallinu Gilead. En Guð kom um nótt til Labans í draumi, og sagði við hann: gættu þín, að þú talir ekkert ilt við Jakob.

Og Laban nádi Jakob; en Jakob hafdi sett tjöld sín á fjallinu, og Laban med brædrum sínum setti líka tjald sitt á fjallinu Gilead. Þá sagdi Laban vid Jakob: hvad hefur þú gjört, ad þú hefur á laun vid mig farid burt med dætur mínar, eins og væru þær herteknar med sverdi? Hví flúdir þú svo leynilega, og skauzt í burt, og lézt mig ekki af vita, ad eg hefdi getad fylgt þér á veg med fögnudi, med saung og bumbum og lúdrum, og lofadir mér ekki ad kyssa syni mína og dætur? Þú hefur breytt fávíslega; eg er svo voldugur, ad eg hefdi getad gjört ydur illt, en Gud taladi vid mig í gær og sagdi: gættu þín, ad þú talir ekki illt vid Jakob. Far þú þess vegna, fyrst þig lángar svo mjög heim til födur þíns; en hví stalstu godum mínum? Jakob svaradi og sagdi vid Laban: eg var hræddur og hugsadi, ad þú mundir taka aptur dætur þínar frá mér. En sá skal ekki lifa, sem þú finnur hjá god þín. Leita þú þíns hjá mér í augsýn brædra vorra, og tak þad. En Jakob vissi ekki, ad Rakel hafdi tekid godin. Þá gekk Laban í tjald Jakobs, og í tjald Leu og beggja ambáttanna, og fann ekkert, og kom í tjald Rakelar. En Rakel

hafdi tekid skurdgodin, og lagt þau undir úlfaldasødul, og sezt þar á. Og Laban leitadi vandlega í øllu tjaldinu, en fann ekkert. Og hún sagdi vid fødur sinn: herra minn, reidizt ekki, ad eg get ekki stadid upp í móti þér, því eg er óhraust. Og hann fann ekki godin, hve vandlega sem hann leitadi ad þeim. Þá vard Jakob reidur, á taldi Laban og sagdi: hvad hefi eg misbrotid eda syndgad, ad þú eltir mig svo hardlega, og leitar í øllum farángri mínum? Hvad hefur þú fundid af búshlutum þínum? Legg þad hér fram fyrir augu brædra þinna og minna, ad þeir dæmi milli okkar. Þau tuttugu ár, sem eg var hjá þér, hafa hvorki geitur þínar né ær verid ófrjóssamar, og hrúta hjardar þinnar hefi eg aldrei etid. Þad, sem óarga dýr drápu af skepnum þínum, vard ekki þinn skadi; eg mátti bæta þad; þad, sem stolid var á nótt eda degi, heimtir þú af mér, eins og eg hefdi þad tekid. Um daga vanmegnadist eg af hita, og um nætur af kulda, og svefninn flúdi augu mín. Tuttugu ár hefi eg þannig þjónad í húsi þínu, fjórtán ár fyrir dætur þínar, og sex ár fyrir hjørd þína; tíu sinnum hefur þú skipt um kaup vid mig. Ef Gud fødur míns, Gud Abrahams, Gud

Isaks, hefdi ekki lidsinnt mér, svo hefdir þú nú látid mig fara tómhentan. En Gud sá mædu mína og erfidi, og taladi í fyrri nótt fyrir mér. Þá svaradi Laban og sagdi vid Jakob: dæturnar eru mínar dætur, og synirnir eru mínir synir, og fénadurinn er minn fénadur, og alt sem þú sér, er mitt. Hvad get eg í dag gjört dætrum mínum eda þeim börnum, sem þær hafa alid? Vel og gott, vid skulum gjöra sáttmála, eg og þú, sem skal vera til vitnisburdar milli mín og þín. Þá tók Jakob stein, reisti hann upp sem merki, og sagdi vid brædur sína: safnid saman steinum. Og þeir gjördu svo og hlódu steinvördu, og mötudust á vördunni. Þá sagdi Laban: þessi varda sé vitni í dag milli mín og þín, og Drottinn sé vördur milli mín og þín, þegar vid erum skildir, ef þú fer illa med dætur mínar, eda tekur þér adrar konur auk þeirra. Hér er einginn madur hjá okkur, en sjá, Gud er vitni milli mín og þín. Og Laban sagdi enn fremur vid Jakob: sjá, þessi varda og þetta merki, sem eg hefi upp reist milli mín og þín, skal vera vitni þess, ad eg ekki skal gánga fram hjá þessu merki til þín, og þú ekki fram hjá þessari vördu til mín, í illum huga. Gud

Abrahams, Guð Nahors, Guð feðra þeirra, sé dómari okkar í milli. Og Jakob sór honum við Guð, og færði fórn á fjallinu, og bauð bræðrum sínum til máltíðar. Og er þeir höfðu matazt, voru þeir á fjallinu um nóttina. En um morguninn var Laban snemma á fótum, mynntist við dætur sínar og syni, og blessaði þau; og hann fór á stað, og kom aptur heim til sín.

## 20. Sátt við Esau.

Og Jakob fór leiðar sinnar, og sendi sendimenn á undan sér til móts við Esau bróður sinn, til landsins Seir, í endimörkum Edoms, og bauð þeim og sagði: segið herra mínum Esau: svo segir Jakob þénari þinn: eg hefi verið utanlands hjá Laban þángað til nú, og hefi eignazt uxa og asna og sauði, þræla og ambáttir, og hefi nú sent til herra míns, til að láta þig vita það, svo eg fyndi náð í þínum augum. Og sendimennirnir komu aptur til Jakobs, og sögðu: vér komum til bróður þíns Esau, og hann kemur á móti þér með fjögur hundruð manns. Þá varð Jakob mjög hræddur og kvíðafullur; og hann skipti fólkinu, sem með honum var, og sauðunum og naut-

unum og úlföldunum, í tvo flokka, og sagdi: þó Esau yfirfalli annan flokkinn, og drepi alt nidur, getur samt skeð, ad hinn flokkurinn komist undan. Og Jakob badst fyrir, og sagdi: „Gud födur míns Abrahams, og Gud födur míns Isaks, Drottinn, þú sem sagdir vid mig: snú þú aptur til þíns lands og til þinna ættingja, eg vil gjöra vel vid þig; ómaklegur er eg allrar þeirrar miskunar og trúfesti, sem þú hefur audsýnt þjóni þínum; því med stafinn minn einan fór eg yfir þessa Jórdan, en nú er eg ordinn ad tveimur fylkingum. Frelsa mig úr hendi bródur míns, úr hendi Esau; því ad eg er hræddur vid hann, ad hann komi og drepi mig og mædurnar med börnunum. En þú hefur sagt: eg vil gjöra vel vid þig, og gjöra nidja þína sem sjáfarsand, er ekki verdur talinn fyrir fjölda sakir". Og hann var þar um nóttina, og tók af því, sem hann hafdi hjá sér, gáfur handa bródur sínum Esau: tvö hundrud geitur, tuttugu geithafra, tvö hundrud sauði, tuttugu hrúta, þrjátíu milka úlfalda med folöldum, fjörutíu kýr og tíu naut, tuttugu ösnur og tíu asna. Og hann fékk þetta í hendur þrælum sínum, hverjum hjörd út af

fyrir sig, og sagdi vid þá: farid á undan mér, og látid vera bil milli hjardauna. Og hann baud þeim fyrsta og mælti: þegar bródir minn Esau mætir þér, og spyr þig og segir: hverjum til heyrir þú? hvert ætlar þú? hver á þad, sem þú rekur á undan þér? þá skaltu segja: þad til heyrir þinum þénara Jakob, hann sendir þad ad gjøf herra sínum Esau, og kemur hér á eptir oss. Og hann baud hid sama hinum ødrum og þridja og øllum þeim, sem ráku hjardirnar, og sagdi: þessum ordum, sem eg hefi sagt, skulud þér mæla vid Esau, þegar þér hittid hann, og segja: sjá þinn þénari Jakob er á eptir oss. Þvi ad hann hugsadi: eg vil blidka hann med gáfum þeim, sem eg sendi á undan mér; sídan vil eg finna hann; kannske hann geti þá séd mig. — Svo fór gáfan á undan honum, en sjálfur var hann þá sømu nótt kyrr i áfángastad. Og hann fór á fætur um nóttina, og tók bádar konur sínar, og bádar ambáttirnar, og ellefu børn sín, og fór ad vadinu á Jabok, og flutti þau yfir ána, og alt, sem hann átti. Þetta var nálægt Pniel. En sem Jakob lagdi á stad frá Pniel, rann sólin upp; og hann upp lypti sínum augum, og sjá, bródir hans Esau kom, og med

honum fjøgur hundrud manns. Þá skipti hann børnunum til Leu og Rakelar, og beggja ambáttanna, og lét ambáttirnar og børn þeirra vera á undan, því næst Leu og hennar børn, og Rakel og Jósep optust. Og hann gekk sjálfur á undan þeim, og laut sjø sinnum til jardar, ádur en hann kom til bródur síns. En Esau hljóp í móti honum, umfadmadi hann, féll um háls honum og kyssti hann, og þeir grétu. Og Esau leit upp, og sá konurnar og børnin, og mælti: hvad hefur þú þar? Hann svaradi: þad eru børn þau, sem Gud hefur gefid þræli þínum. Þá geingu ambáttirnar nær og børn þeirra, og lutu honum. Og Lea gekk líka nær og børn hennar, og lutu honum; þar eptir kom Jósep og Rakel, og lutu honum einnig. Og hann mælti: hvad viltu med allar þær hjardir, sem komu á móti mér? Hann svaradi: ad eg finni nád í augum herra míns. Esau sagdi: eg á nóg, bródir minn; eig þú þitt. Jakob svaradi: nei, ekki þad; hafi eg fundid nád í augum þínum, svo tak vid þessu af mér, því ad eg sá andlit þitt, eins og sæi eg andlit Guds, og þú tókst nádarsamlega á móti mér. Taktu vid gáfu þessari, sem eg hefi látid færa þér; því ad Gud

hefur audsýnt mér nád, og eg hefi nóg af øllu. Og hann lagdi ad honum, þángad til hann tók vid því. Og Esau sagdi: tøkum okkur nú upp, og høldum áfram; eg vil fara med þér. En hann sagdi vid hann: þú sérd, bródir minn, ad børn mín eru úng, og ad med mér eru ær og kýr nýbornar; ef þær væru reknar of hart einn dag, þá mundi øll hjordin drepast. Fari minn herra á undan þjóni sínum; eg mun koma í hægdum á eptir, eins og hjordin og børnin geta farid, þángad til eg kemst til herra míns í Seir. Esau sagdi: eg vil samt láta nokkra af þeim, sem med mér eru, verda eptir hjá þér. Hann svaradi: hver þørf er á því? Lát mig ad eins finna nád hjá þér. Svo fór Esau þann sama dag leidar sinnar heim aptur til Seir.

## 21. Daudi Debóru, Rakelar og Isaks.

En Jakob fór til Sukot, og komst þadan heill á húfi til Sikem, sem er í Kanaans-landi, og tjaldadi þar fyrir utan bæinn. Hédan fór hann aptur til Betel, þar sem Gud hafdi birzt honum, þegar hann flúdi fyrir Esau bródur sínum. Og Gud birtist honum hér aptur í annad sinn, og blessadi hann, og sagdi

vid hann: nafn þitt er Jakob, en þú skalt ekki heita Jakob hér eptir, heldur Israel. Og hann var sídan kalladur Israel. — I Betel andadist Debóra, fóstra Rebekku, og var jørdud fyrir nedan Betel undir eik nokkurri, sem þess vegna var køllud gráteik. — Og þeir tóku sig upp frá Betel; en sem þeir áttu skamt til Effrat, tók Rakel léttasótt, og kom hart nidur. En sem hún þjádist þúnglega í barnsburdinum, sagdi ljósmódirin vid hana: vertu hughraust, því ad þú munt son eignast. Og þad skedi, þá øndin leid upp af henni, svo hún dó, ad hún nefndi son sinn Benoni (harmkvælason); en fadir hans nefndi hann Benjamín (lukkuson). Svo dó Rakel og var jørdud á veginum til Effrat, sem nú heitir Betlehem; og Jakob setti minnisvarda á grøf hennar; þad er bautasteinn Rakelar alt til þessa dags. — Og Jakob tók sig upp, og kom til fødur síns Isaks í Mamre, þar sem Abraham og Isak høfdu búid. Og Isak var hundrad og áttatíu ára gamall, þegar hann veiktist og dó, og safnadist til fedra sinna, aldradur og saddur lífdaga. Og synir hans, Jakob og Esau, jørdudu hann. Og Esau tók konur sínar, syni og dætur, og alt

heimilisfólk sitt, hjarðir sínar og alla þá fjárhluti, sem hann hafði eignazt í Kanaanslandi, og fór í annað land, burt frá bróður sínum Jakob. Því að eigur þeirra voru meiri en svo, að þeir gætu saman verið, og það land, sem þeir voru í, bar þá ekki søkum fjármegnis þeirra. Og Esau bjó á fjallinu Seir; og frá honum eru Edomitar komnir, sem búa á því fjalli.

## 22. Jósep.

En Jakob bjó í því landi, þar sem faðir hans hafði verið, í Kanaanslandi. Og þetta er enn fremur saga Jakobs — Þegar Jósep var seytján ára gamall, gætti hann sauða með bræðrum sínum; og hann var með þeim, og sagði føður sínum frá þeirra vonda orðstír. En Jakob elskaði Jósep mest af børnum sínum, því að hann hafði átt hann í elli sinni; og hann gjørði honum mislitan kyrtil. En sem bræður hans sáu, að faðir þeirra elskaði hann meir en þá, høtuðu þeir hann, og gátu ekki talað við hann vinsamlegt orð. Jósep dreymdi líka einu sinni draum, er hann sagði bræðrum sínum, vegna hvers þeir høtuðu hann enn meir. Því að hann sagði við þá: heyrið drauminn, sem mig dreymdi.

Mér þótti, ad vér bindum kornbindi vor saman á akrinum; og sjá, mitt kornbindi reis upp og stód, en kornbindi ydar stódu í kring og lutu minu. Þá sögdu brædur hans vid hann: muntu verda konúngur yfir oss, og drottna yfir oss? Og þeir hötudu hann enn meir, bædi vegna draumsins og orda hans. — Og hann dreymdi aptur annan draum, er hann líka sagdi brædrum sínum, og mælti: mig hefur aptur dreymt draum, og sjá, mér þótti, ad sólin, túnglid og ellefu stjörnur lytu mér. Og er hann sagdi födur sínum og brædrum frá honum, ávitadi fadir hans hann og sagdi: hvada draumur er þetta, sem þig hefur dreymt? Eigum vér ad koma, eg og módir þín og brædur þínir, og falla fram fyrir þér? Og brædur hans öfundudu hann; en fadir hans geymdi þessi ord med sér. — Og brædur hans fóru ad halda hjörd födur síns á beit í Sikem; þá mælti Israel vid Jósep: eru ekki brædur þínir med hjördina á beit í Sikem? Heyrdu, eg ætla ad senda þig til þeirra. Hann svaradi: hér em eg. Hann sagdi: far þú og vit, hvort brædrum þínum lídur vel og hjördinni, og láttu mig svo vita þad. Og hann sendi hann úr dalnum Hebron til

Sikem. Þá hitti hann madur nokkur, er hann viltist á mørkinni, sem spurdi hann og mælti: ad hverju leitar þú? Hann svaradi: eg leita ad brædrum mínum; segdu mér, hvar þeir eru med hjørdina. Madnrinn sagdi: þeir eru farnir héd- an; því ad eg heyrdi þá segja: vér skulum fara til Dotan. Og Jósep fór eptir brædrum sín- um, og fann þá í Dotan. — Sem þeir nú sáu hann áleingdar, ádur en hann nálægdist, tóku þeir saman rád sín, ad deyda hann. Og þeir søgdu hver vid annan: sjá, þar kemur drauma- madurinn; látum oss drepa hann, og kasta hon- um í gryfju, og segja, ad villudýr hafi upp etid hann, og sjá svo, hvad úr draumunum hans verdur. Þegar Rúben heyrdi þetta, vildi hann frelsa hann úr høndum þeim, og mælti: ekki skulum vér slá hann í hel. Ut hellid ekki blódi; kastid honum heldur í þessa gryfju hér á eydi- mørkinni, og leggid ekki hendur á hann. Því ad hann ætladi sér ad frelsa hann úr hønd- um þeim, og færa hann aptur fødur sínum. Þegar nú Jósep kom til brædra sinna, færdu þeir hann úr þeim mislita kyrtli, sem hann var í, tóku hann og køstudu honum í gryfjuna; en gryfjan var tóm og ekkert vatn í henni. Og

þeir settust nidur ad eta. En sem þeim vard litid vid, sáu þeir lest Ismaelita, er kom frá Gilead; báru úlfaldar þeirra reykelsi, balsam og myrru, ætludu þeir med þetta til Egyptalands. Þá sagdi Júda vid brædur sína: hvad stodar þad, ad vér drepum bródur vorn, og dyljum dauda hans? Komid, vér skulum selja hann Ismaelitum, en ekki leggja hendur á hann; því ad hann er bródir vor, vort hold og blód. Og þeir hlýddu honum. Þegar Midianitarnir, sem voru kaupmenn, fóru þar fram hjá, drógu þeir hann upp úr gryfjunni, og seldu þeim hann fyrir tuttugu sikla silfurs; og þeir fóru med hann til Egyptalands. — En er Rúben kom ad gryfjunni aptur, og fann Jósep þar ekki, reif hann klædi sín, gekk aptur til brædra sinna og mælti: sveinninn er þar ekki, hvad á eg af mér ad gjøra? Þá tóku þeir kyrtil Jóseps, skáru geithafur og velktu kyrtilinn í blódi hans, sendu fødur sínum hinn mislita kyrtil, og létu segja honum: þetta høfum vér fundid; gádu ad, hvort þad muni vera kyrtill sonar þíns eda ekki? En hann þekti hann, og sagdi: þad er kyrtill sonar míns; villudýr hefir etid hann, óarga dýr hefir rifid hann

í hel. Og Jakob reif klædi sín, klæddist sorgarbúníngi, og harmadi son sinn leingi. Og allir synir hans og allar dætur hans tóku sig til ad hugga hann; en hann vildi ekki huggast láta, og sagdi: med harmi mun eg fara í grøfina, til sonar míns. Og fadir hans grét hann. En Midíanítar seldu hann í Egyptalandi Potífar, dróttseta konúngsins og herforingja.

## 23. Jósep á heimili Potífars.

Og Gud var med Jósep, svo ad hann var lángefinn, er hann var í húsi herra síns, hins egypzka manns. Og herra hans sá þad, og hann fann nád í augum hans, svo ad hann setti hann yfir sitt hús, og fékk honum í hendur alt, sem hann átti. Upp frá því blessadi Drottinn hús hins egypzka manns sakir Jóseps, og Guds blessan var yfir øllu, sem hann átti, utan stokks og innan. Þess vegna fékk hann Jósep í hendur alt, sem hann átti, og skipti sér af eingu, nema þeim mat, er hann neytti. — En Jósep var vel vaxinn og fridur sýnum; og þad skedi eptir þetta, ad kona húsbónda hans leit ástaraugum til hans, og vildi lokka hann til ills. En hann færdist undan, og sagdi: sjá, herra

minn lítur eptir eingu í húsinu með mér, og alt hvað hans er, hefur hann feingið mér í hendur, og hann fyrirmunar mér ekkert, nema þig, því að þú ert kona hans. Hví skyldi eg þá nú drýgja svo mikla óhæfu, og syndga mót Guði? Og hún talaði þessum orðum við Jósep dag eptir dag, en hann gegndi henni ekki til þess. Eitt sinn eptir þetta bar svo til, að hann gekk inn í húsið til starfa sinna, og einginn heimilismaður var inni; þá greip hún í fat hans og vildi halda honum hjá sér; en hann lét fatið verða eptir í hendi hennar, flúði og hljóp út. Þá varð hún reið, kallaði á heimamennina inn í húsið og mælti: sjá, Potífar hefur tekið þennan ebreska mann til vor, til að gjöra oss vansa. Hann kom inn til mín, og vildi leiða mig til ills, en eg kallaði hárri raustu; og sem hann heyrði, að eg kallaði hátt og hrópaði, slepti hann fatinu við mig og hljóp út. Og hún lagði fat hans hjá sér, þángað til maður hennar kom heim, talaði við hann þessum sömu orðum og mælti: hinn ebreski þræll, sem þú hefur til vor haft, kom til mín, og vildi fá mig til ills; en þegar eg kallaði og hrópaði, skildi hann fat sitt eptir hjá mér og hljóp út.

En sem húsbóndi hans heyrdi ord konu sinnar, vard hann ákaflega reidur; og hann tók Jósep og setti hann í myrkvastofu þá, þar sem fángar konúngsins voru vardveittir. En Gud var med honum, og lét hann finna nád hjá forstjóra myrkvastofunnar, svo hann fékk honum í hendur umsjón yfir øllum faungunum, og alt, sem þar skyldi gjøra, lét hann hann annast. Og forstjóri myrkvastofunnar leit ekki eptir neinu, sem var undir hendi hans; því ad Drottinn var med honum, og lét alt heppnast, sem hann gjørdi.

## 24. Fángarnir.

Og þad skedi nokkru eptir þetta, ad ædsti skeinkjari konúngsins í Egyptalandi og ædsti bakari brutu móti herra sínum, konúngi Egyptalands. Og Farao reiddist bádum hirdmønnum sínum, og lét setja þá í vardhald í húsi herforingjans, í myrkvastofu þá, þar sem Jósep sat. Og forstjóri myrkvastofunnar lét Jósep þjóna þeim, og þeir voru nokkurn tíma í vardhaldi. Og þá dreymdi báda, skeinkjarann og bakarann, sømu nóttina, sinn drauminn hvorn. Þegar nú Jósep um morguninn kom inn til þeirra, og sá, ad þeir voru óglaðir, ávarpadi

hann þá, og sagdi: hví erud þid svo hryggir í dag? Þeir svørudu: okkur hefur dreymt draum, og hér er einginn, sem geti rádid hann. Jósep sagdi: þad er Guds, ad ráda drauma, en segid mér þá samt. Þá sagdi hinn ædsti skeinkjari Jósep draum sinn og mælti: mig dreymdi, ad vínvid-ur væri gegnt mér; á honum voru þrjár grein-ir, og vínvidurinn var svo sem blómstrandi og vínberin ordin frjóf; og bikar Faraós var í hendi mér, og eg tók vínberin og spreingdi þau í bikarinn, og rétti ad honum. Þá sagdi Jós-ep til hans; þessi er þýding draumsins: þær þrjár vínvidargreinir eru þrír dagar. Ad þrem-ur døgum lidnum mun Farao hefja høfud þitt og setja þig aptur inn í embætti þitt, og þú munt rétta bikarinn ad honum eins og ádur, medan þú varst skeinkjari hans. En mundu til mín, þegar þér geingur í vil, og audsýndu mér þá gódsemi, ad minnast á mig vid Farao og leida mig úr þessum stad. Því mér var stolid úr landi Ebreskra, og sídan eg hingad kom, hefi eg ekkert þad adhafzt, er yrni til, ad eg væri settur í þessa myrkvastofu. — En sem hinn ædsti bakari sá, ad hann útlagdi drauminn svo, sem hann spádi honum gódu,

sagdi hann: mig dreymdi líka, ad eg bæri á hofdinu þrjár hvítar körfur; í efstu körfunni voru alls konar krásir Faraos, og fuglar átu þær úr körfunni á höfdi mér. Þá svaradi Jósep og mælti: þessi er þýding draumsins: þær þrjár karfir eru þrír dagar. Eptir þrjá daga mun Farao hefja höfud þitt frá þér, og heingja þig í gálga, og fuglar munu eta hold þitt af þér. — Og þad skedi á þridja degi eptir þetta, á burdardegi Faraos, ad hann gjördi heimbod öllum þjónum sínum; og hann hóf upp höfud hins ædsta skeinkjara og höfud hins ædsta bakara medal þjóna sinna; setti hinn aptur til síns fyrra embættis, ad hann rétti bikarinn í hönd Faraos. En bakarann lét hann heingja, eins og Jósep hafdi rádid drauminn. En skeinkjarinn hugsadi ekkert til Jóseps, heldur gleymdi honum.

## 25. Draumur konúngsins.

Og þad skedi ad tveimur árum lidnum, ad Farao dreymdi draum. Hann þóttist standa vid ána Níl; og sjá, upp úr ánni komu sjö kýr, fallegar útlits og feitar á hold, og bitu eingid. Og sjá, sjö adrar kýr komu eptir hinar upp úr ánni, ljótar útlits og magrar á hold, og stad-

næmdust hjá hinum á árbakkanum; og þær ljótu og mögru átu upp hinar feitu og fallegu. Þá vaknadi Farao. Og hann sofnadi aptur og dreymdi annan draum: og sjá, sjø ør, þrístileg og væn, spruttu upp af sömu hálmstaung; og sjá, önnur sjø, grønn og af austanvindi kalin, spruttu upp eptir hin; og hin sjø mögru upp svelgdu hin sjø þrístilegu og vænu. Þá vaknadi Farao, og sjá, þad var draumur. — Og um morguninn var andi hans órólegur, og hann sendi og lét kalla til sín alla spáfararmenn, og alla vitringa Egyptalands, og sagdi þeim draum sinn; en einginn gat rádid hann. Þá sagdi hinn ædsti skeinkjari vid Farao og mælti: nú minnist eg syndar minnar. Þegar Farao reiddist þrælum sínum, og setti mig ásamt hinum ædsta bakara í vardhald í húsi herforingjans, þá dreymdi okkur á sömu nótt sinn drauminn hvoru. Þar var þá med okkur úngur madur ebreskur; honum sögdum vid frá, og hann rédi fyrir okkur draumana, hvoru drauminn eins og hann þýddi. Og útþýdingin gekk eptir; því ad eg var aptur settur til míns embættis, en bakarinn heingdur. — Þá sendi Farao, og lét kalla á Jósep, og þeir fóru í skyndingu med hann úr fángels-

inn. En hann skar hár sitt, fór í önnur föt, og gekk inn fyrir Farao. Þá sagdi konúngurinn vid hann: mig hefur dreymt draum, og einginn getur rádid hann; en eg hefi af þér frétt, ad þú rádir hvern draum, sem þú heyrir. Jósep svaradi: þad er ekki í mínu valdi; en Gud láti drauminn boda Farao lukku. Og Farao sagdi vid Josep: mig dreymdi, ad eg stædi á bakka Nílfljótsins, og sjá, upp úr ánni komu sjö kýr, feitar á hold og fallegar útlits, og bitu eingid; á eptir þær komu adrar sjö, ljótar útlits og magrar á hold; eg hefi í öllu Egyptalandi eingar séd jafnljótar. Og hinar mögru og ljótu átu þær sjö feitu; en ekki sást þad samt á þeim, því ad þær voru eins ljótar fyrir þad og ádur. Þá vaknadi eg. — Og mig dreymdi aptur, og sjá, sjö ox, fögur og digur, spruttu upp af einni staung, og eptir þau sjö önnur, þurr, grönn og visin af austanvindi, og hin sjö grönnu svelgdu í sig hin sjö fögru. Og eg hefi sagt spáfararmönnunum frá þessu, en einginn þeirra hefur getad lagt þad út fyrir mér. Jósep svaradi: draumur Faraos er einn; Gud hefur auglýst konúnginum, hvad hann ætlar ad gjöra. Þær sjö fögru kýr eru sjö ár, og þau sjö fögru oxin

eru líka sjø ár; einn draumur er þetta. Þær sjø møgru og ljótu kýr, sem eptir hinar komu, og þau sjø grønnu og af austanvindi svidnu øxin, eru sjø hallærisár. Það er eins og eg sagdi: Guð hefur látid Farao sjá þad, sem hann ætlar ad gjøra. Sjá, sjø góð ár munu koma í øllu Egyptalandi, og eptir þau sjø húngursár, svo ad øll þessi gnægd mun gleymast í Egyptalandi; og hallærid mun eyda landid, svo ad menn munu ekki vita af þeim fyrri nægtum; því ad það mun verda mikid. En þad, ad Farao dreymdi tvisvar hid sama, merkir, ad þetta er fastrádid af Gudi, og Gud hradar sér ad framkvæma þad. Því sjái Farao nú eptir framsýnum og vitrum manni, sem hann setji yfir Egyptaland, og setji umsjónarmenn yfir landid, og taki fimtúng af afrakstri þess á þeim sjø nægtaárum; og þeir skulu safna matvælum á þeim sjø gódu árum, sem fara í hønd, og draga saman korn í nægtabúr Faraos, svo ad til sé fordi á þeim sjø hallærisárum, og landid eydist ekki af húngri. Þetta tal líkadi Farao og þénurum hans. Og hann sagdi vid þjóna sína: munum vér finna mann sem þennan, í hverjum andi Guds er? Og hann sagdi vid

Jósep: þar ed Gud hefur kunngjört þér allt þetta, svo er einginn eins vitur og hygginn sem þú. Eg set þig yfir alt mitt hús, og öll mín þjód skal hlýda ordum þínum; ad hásætinu einu skal eg vera efri en þú. Sjá, eg set þig yfir alt Egyptaland. Og hann tók hríng af hendi sér, og setti á hönd Jóseps, færdi hann í silkiföt, og lét gullkedju um háls honum; og hann lét aka honum í hinum ödrum vagni sínum, og hrópa fyrir honum: „Hann er fadir landsins!" Og hann setti hann yfir alt Egyptaland. Og konúngurinn sagdi vid Jósep: eg er Farao; án þíns vilja skal einginn hræra hönd eda fót í öllu Egyptalandi. Og hann kalladi Jósep Safnatsaneak, og gaf honum Asnat fyrir konu, dóttur prestsins í On. — Svo ferdadist Jósep um alt Egyptaland. Og hann var þrjátiu ára gamall, þegar hann stód frammi fyrir Farao. En landid gaf af sér mjög ríkulega uppskeru þau sjö nægtaár; og hann safnadi saman öllum matvælum hinna sjö gódu ára, sem voru í Egyptalandi, og flutti í stadina; matvæli akranna, sem voru í kríngum hvern stad, flutti hann í stadinn. Og hann hrúgadi saman korni sem sandi sjáfarins, ákaflega miklu, svo tölu vard

ei á komid. — En Jósep fæddust tveir synir, ádur en hallærisárin komu. Og hann nefndi hinn frumgetna Manasse; því ad Gud, sagdi hann, hefur látid mig gleyma øllu minu mótlæti. Hinn kalladi hann Efraim; því ad Gud, sagdi hann, hefur gjørt mig frjóffaman i landi eymdar minnar. — Þegar nú hin sjø nægtaár i Egyptalandi voru lidin, byrjudu þau sjø hallærisár, eins og Jósep hafdi sagt; og þar var húngur i øllum løndum. Og þá húngrid líka þreyngdi ad i Egyptalandi, og fólkid bad Faraó um braud, sagdi hann til allra Egypzkra: farid til Jóseps, og gjørid þad, sem hann segir ydur. Og Jósep opnadi allar hlødur, sem korn var i, og seldi Egypzkum, því ad dýrtid var mikil i landinu. Og menn komu úr øllum løndum til Egyptalands ad kaupa korn hjá Jósep.

## 26. Brædur Jóseps i Egyptalandi.

En sem Jakob sá, ad korn var falt i Egyptalandi, sagdi hann vid syni sina: hvi horfid þér úrrædalausir hver á annan? Eg heyri sagt, ad korn sé falt i Egyptalandi; farid þángad og kaupid oss vistir, ad vér lifum og deyum ekki. Þá løgdu þeir tíu brædur Jó-

seps á stad; en Benjamín, albródur Jóseps, lét hann ekki fara med þeim, því ad hann hugsadi, ad honum kynni máske eitthvert slys til ad vilja. Svo komu synir Jakobs til Egyptalands, ad kaupa korn, ásamt ødrum fleirum, sem þeim urdu samferda; því ad húngur var í Kanaanslandi. En Jósep hafdi ædstu rád í landinu, og seldi øllu landsfólkinu korn. Og brædur Jóseps komu, og lutu honum til jardar; en hann þekti þá strax sem hann sá þá, lét samt ekki á því bera, taladi þeim hardlega til, og mælti: hvadan komid þér? Þeir søgdu: úr Kanaanslandi, til ad kaupa matvæli. En þótt hann þekti þá, þektu þeir hann samt ekki. Og Jósep komu til hugar draumarnir, sem hann hafdi dreymt um þá, og sagdi vid þá: þér erud njósnarmenn, komnir til ad sjá, hvar landid er varnarlaust. Þeir svørudu honum: nei, herra minn, þjónar þínir eru komnir til ad kaupa matvæli. Vér erum allir synir sama manns, og erum svikalausir menn, og ekki njósnarar. Hann sagdi vid þá: nei, þér erud komnir, til ad sjá, hvar landid er varnarlaust. Þeir svørudu: vér, þjónar þínir, erum tólf brædur, synir sama manns í Kanaanslandi; sá yngsti vard eptir hjá

fødur vorum, en einn er ekki á lífi. Jósep sagdi vid þá: þad er einmitt þad, sem eg sagdi: þér erud njósnarmenn; þér skulud verda prófadir. Svo sannarlega sem Farao lifir, skulud þér ekki fara hédan, nema ýngsti bródir ydar komi híngad. Sendid einn af ydur til ad sækja bródur ydar, en þér hinir skulud á medan vera hér í vardhaldi, ad ord ydar verdi prófud, hvort þér talid satt eda ekki. Því ad ef þér ekki hafid sagt satt, erud þér sannarlega njósnarar. Og hann lét vardveita þá í þrjá daga. — Á þridja degi sagdi hann vid þá: gjörid þetta, svo ad þér lifid; eg óttast Gud. Ef þér erud hrekkjalausir, þá verdi einn af ydur brædrum hér eptir í vardhaldi, en farid þér hinir og flytjid korn til naudþurftar heimila ydar, og komid svo til mín aptur med ýngsta bródur ydar; þá mun eg trúa ordum ydar, og þér lífi halda. En þeir søgdu hver vid annan: sannarlega eigum vér þetta skilid fyrir bródur vorn; vér sáum hans sálarángist, þegar hann bad oss vægdar, en heyrdum hann ekki; þess vegna erum vér komnir í þessar krøggur. Rúben svaradi þeim og sagdi: sagdi eg ydur þad ekki, ad þér skyldud ekki syndgast

á sveininum, en þér gegnduð því ekki? Nú er blóð hans heimtað af oss. En þeir vissu ekki, að Jósep skildi þetta, því þeir brúkuðu túlk. Og hann sneri sér undan og grét. Síðan sneri hann sér að þeim aptur, tók Simeon og batt hann fyrir augum þeirra. Og hann skipaði, að fylla sekki þeirra með korn, og láta silfur hvers þeirra í sekk hans, og svo nesti til ferðarinnar. Og það var gjört. Og þeir létu kornið upp á asna sína, og fóru á stað. En sem einn af þeim opnaði sekk sinn, til að gefa asna sínum fóður á gistingarstaðnum, sá hann silfur sitt, að það lá efst í pokanum. Og hann sagði við bræður sína: silfur mitt er komið aptur, sjá, það er efst í sekk mínum. Þá hvarf þeim hugur, og titrandi af ótta sögðu þeir hver við annan: því hefur Guð gjört oss þetta? — Þegar þeir nú komu heim til föður síns Jakobs, í Kanaansland, sögðu þeir honum frá öllu, sem fram við þá hafði komið, með þessum orðum: maðurinn, sem er herra í landinu, talaði oss harðlega til, og sagði, að vér værum njósnarmenn. Og þegar vér sögðum við hann: vér erum svikalausir menn, og ekki njósnarar, vér erum tólf bræður, synir föður

vors, einn er ekki framar til, og sá yngsti er eptir heima hjá fødur vorum, þá sagdi madurinn, yfirrádandi landsins, vid oss: þar af skal eg vita, hvort þér erud svikalausir: látid einn af ydur verda eptir hjá mér, og takid naudsynjar heimila ydar, farid svo, og komid med yngsta bródur ydar til min, svo eg sjái, ad þér ekki erud njósnarar, heldur svikalausir menn; skulud þér þá fá bródur ydar aptur, og mega eiga kaupskap í landinu. En þad skedi, þá þeir heltu úr sekkjum sínum, sjá, þá var hvers eins peningapyngja í sekk hans; og er þeir sáu þetta, urdu þeir og fadir þeirra mjøg hræddir. Og Jakob fadir þeirra sagdi vid þá: þér gjørid mig barnlausan! Jósep er farinn, Simeon er farinn, Benjamín viljid þér líka taka; alt þetta kemur yfir mig. Og Rúben svaradi fødur sínum og sagdi: þú mátt deyda báda syni mína, ef eg færi þér hann ekki aptur; fá þú mér hann í hendur, eg skal koma med hann aptur til þín. Þá sagdi Jakob: ekki skal sonur minn fara med ydur; þvi ad bródir hans er daudur, og hann er einn eptir. Ef hann yrdi fyrir slysum á þeim vegi, sem þér ætlid ad fara, þá mundud þér leida hærur mínar med harmi til helju.

## 27. Vikarinn.

En mikid húngur var í landinu, og sem kornid var upp geingid, sem þeir komu med úr Egyptalandi, sagdi fadir þeirra vid þá: farid aptur, og kaupid oss dálitid af matvælum. Þá svaradi Júda honum, og sagdi: madurinn hét því hardlega: þér skulud ekki sjá auglit mitt, nema bródir ydar sé med ydur. Ef þú því vilt senda bródur vorn med oss, þá skulum vér fara, og kaupa þér vistir; en viljir þú ekki láta hann fara med oss, þá förum vér hvergi; því madurinn sagdi vid oss: þér skulud ekki sjá auglit mitt, nema bródir ydar sé med ydur. Israel sagdi: því vorud þér mér svo slæmir, ad segja manninum, ad þér ættud enn þá einn bródur? Þeir svörudu: madurinn spurdi svo ýtarlega um oss og ætt vora, og sagdi: lifir fadir ydar enn? eigid þér enn þá bródur? Og vér sögdum honum eins og var; hvernig gátum vér vitad, ad hann mundi segja: komid híngad med bródur ydar? Þá sagdi Júda vid Israel, födur sinn: láttu sveininn fara med mér, svo skulum vér strax leggja á stad, ad vér fáum lífi haldid, vér og þú og börn vor. Jeg skal ábyrgjast hann; af minni hendi skaltu krefja hans. Komi eg ekki med

hann aptur til þín, skal eg vera sekur við þig alla æfi mína. Ef vér hefðum ekki tafið, svo værum vér nú komnir aptur í annað sinn. Þá sagði Israel, faðir þeirra, við þá: fyrst það verður svo að vera, þá gjörið það; takið af landsins beztu ávörtum í sekki yðar, og færið manninum að gjöf, nokkuð af balsami, hunángi, reykelsi, mirru, hnotum og mandel. Takið og með yður annað silfur, auk silfursins, sem var ofan á í sekkjum yðar; máske það hafi orðið af óaðgætni. Takið líka bróður yðar, og takið yður svo upp, og farið aptur til mannsins. En Guð almáttugur láti yður finna náð hjá honum, svo hann sleppi við yður hinum bróður yðar og líka Benjamín. Eg em nú sem sá, er mist hefur börn sín. — Þá tóku þeir gáfurnar, og tvöfalt silfur, og líka Benjamín; tóku sig upp, fóru til Egyptalands og geingu fyrir Jósep. En sem Jósep sá Benjamín með þeim, sagði hann við ráðsmann sinn: leið menn þessa inn í hús mitt, og slátra og matreið; því að þeir skulu eta með mér miðdagsverð í dag. Og maðurinn gjörði eins og Jósep bauð honum, og fór með þá í hús hans. En þeir urðu hræddir, af því að farið var með

þá í hús Jóseps, og søgdu: vegna silfursins, sem hvarf aptur í sekki vora, erum vér híngad leiddir, svo hann geti rádizt ad oss, og dómfelt oss, og gjørt oss ad þrælum sínum ásamt øsnum vorum. Þess vegna geingu þeir til rádsmanns Jóseps, og tøludu vid hann úti fyrir dyrum húsins, og søgdu: heyr, herra minn, vér komum híngad ádur, til ad kaupa vistir, og þegar vér komum í áfángastad, og opnudum sekki vora, sjá, þá var hvers eins silfur efst í sekk hans, med sinni vigt; þess vegna høfum vér nú komid med þad aptur; líka høfum vér komid med annad silfur, til ad kaupa fyrir mat; vér vitum ekki, hver silfrid hefur látid í sekki vora. En hann sagdi: verid hughraustir, óttist ekki! Ydar Gud og ydvarra fedra Gud hefur sent fjársjódu í sekki ydar; ydar silfur kom í mína hønd. Og hann leiddi Símeon út til þeirra, fór med þá í hús Jóseps, gaf þeim vatn, ad þeir þvædu fætur sína, og gaf øsnum þeirra fódur. En þeir tóku gáfurnar til, þángad til Jósep kæmi um middegid; því ad þeir høfdu heyrt, ad þeir ættu ad matast þar. — En sem Jósep kom inn, færdu þeir honum gáfurnar, sem þeir høfdu medferdis, og lutu til jardar

fyrir honum. En hann heilsadi þeim vinsamlega og sagdi: lídur ydar gamla fødur vel, sem þér gátud um vid mig? lifir hann enn? Þeir svørudu: þínum þjón, fødur vorum, lídur vel, hann lifir enn. Og þeir lutu honum og féllu fram. Og hann litadist um, og kom auga á Benjamín bródur sinn, son módur sinnar, og mælti: er þetta yngsti bródir ydar, er þér mintust á vid mig? Og hann sagdi vid hann: Gud sé þér nádugur, son minn! Og Jósep hradadi sér burt, því ad hjarta hans brann af ást til bródur hans, svo hann gat ekki tára bundizt, fór inn í svefnhús sitt, og grét þar. Sídan þvodi hann andlit sitt, gekk út, lét ekki á sér bera, og mælti: berid á bord. Og menn løgdu sér í lagi á bord fyrir hann, og sér í lagi fyrir þá Egypzku, sem bordudu med honum. Því ad ekki mega Egypzkir matast med Ebreskum; þeim er þad vidurstygd. Og þeim var nidur skipad gagnvart honum, hinum frumgetna efst og hinum yngsta nedst. En þá furdadi þetta. Og hann lét bera rétti frá sér til þeirra, en Benjamín var skamtad fimm sinnum meira en hinum. Og þeir átu og drukku med honum. — Og Jósep baud rádsmanni sínum og sagdi:

láttu í sekki manna þessara svo mikið af matvælum, sem þeir geta flutt, og silfur hvers eins efst í sekk hans, og silfurbikar minn efst í sekk þess ýngsta, ásamt verðinu fyrir korn hans. Og hann gjörði eins og Jósep bauð honum. Um morguninn, þegar ljóst var orðið, voru mennirnir látnir fara, þeir og asnar þeirra. En sem þeir voru komnir út úr borginni og ekki lángt, sagði Jósep við ráðsmann sinn: tak þig til, og far eptir mönnum þessum, og þegar þú nær þeim, þá skaltu segja við þá: því hafið þér launað gott með illu? Hafið þér ekki bikar þann, sem herra minn drekkur af? Hann veit það vel. Þér hafið gjört þetta illa. Og hann náði þeim, og talaði til þeirra þessi sömu orð. En þeir sögðu: því talar herra minn þessi orð? Fjærri sé það þínum þjónum að gjöra slíkt. Sjá, silfur það, sem vér fundum ofan á í sekkjum vorum, færðum vér þér aptur úr Kanaanslandi; og vér skyldum stela úr húsi herra þíns gulli eða silfri? Hver af þjónum þínum, sem hann finst hjá, hann skal deya, og vér skulum líka vera þrælar herra vors. Og þeir flýttu sér, og hver tók ofan sinn sekk og lagði á jörð, og opnaði hann. Og

hann leitadi, byrjadi á hinum eldsta og endadi á hinum yngsta, og bikarinn var í sekk Benjamíns. Þá rifu þeir klædi sín, létu upp á asna sína, og fóru aptur til stadarins. Og Júda og brædur hans geingu í Jóseps hús, því ad hann var þar enn þá, og þeir féllu fram fyrir honum til jardar. En hann sagdi vid þá: því hafid þér gjørt þetta? Vissud þér ekki, ad annar eins madur og eg mundi geta látid þetta komast upp? Júda mælti: hvad skulum vér tala vid herra vorn? Hvad segja, og hvernig réttlæta oss? Gud hefur fundid misgjørning þræla þinna. Sjá, vér erum þrælar herra míns, bædi vér og sá, sem bikarinn fanst hjá. En hann sagdi: fjærri sé mér ad gjøra slíkt. Sá, sem bikarinn fanst hjá, hann sé minn þræll; en farid þér í fridi til fødur ydar. Þá gekk Júda til hans og mælti: heyr, herra minn, leyf þínum þjón ad tala eitt ord fyrir þínum eyrum, og þín reidi upptendrist ekki gegn mér; því ad þú ert sem Farao. Þú spurdir þræla þína og sagdir: eigid þér fødur eda brædur? Þá svørudum vér: vér eigum gamlan fødur og úngan svein, sem honum fæddist í elli hans, en bródir hans er dáinn, og hann er einn eptir

orðinn eptir móður sína, og faðir hans elskar hann. Þá sagðir þú við oss: komið með hann hingað til mín, að eg sjái hann með eigin augum. En vér svöruðum herra mínum: sveinninn má ekki fara frá föður sínum; ef hann færi frá honum, mundi hann deya. Þá sagðir þú við þræla þína: ef yngsti bróðir yðar kemur ekki hingað með yður, þá skuluð þér ekki framar fá að sjá mig. Þá fórum vér héðan til föður míns, og sögðum honum ummæli herra míns. Og faðir vor sagði: farið aptur á stað, og kaupið oss eitthvað af vistum. En vér sögðum: vér getum ekki farið þángað; því vér fáum ekki að sjá manninn, nema yngsti bróðir vor sé með oss. Þá sagði faðir vor við oss: þér vitið að kona mín ól mér tvo syni; annar þeirra fór að heiman frá mér, og menn sögðu: hann hefur verið rifinn í hel, og eg hefi ekki síðan séð hann; ef þér nú takið þennan líka frá mér, og hann verður fyrir slysum, þá munuð þér leiða hærur mínar með harmi niður í gröfina. Og þegar eg nú kem heim til föður míns, og sveinninn ekki er með oss, þá mun það fara svo, af því hann elskar sveininn eins og lífið í brjósti í sér, að hann deyr, og vér, þrælar þín-

ir, munum þannig leiða hærur føður vors með harmi í grøfina. Því að eg tók sveininn til ábyrgðar af føður mínum, og sagði: ef eg kem ekki með hann aptur til þín, skal eg vera sekur við føður minn alla æfi mína. Lát mig því vera hér eptir í stað sveinsins, sem þræl herra míns, en lát hann fara heim aptur með bræðrum sínum. Því að hvernig get eg farið heim til føður míns, ef sveinninn ekki er með mér? Eg gæti ekki séð þá hørmúng, sem þá mundi koma yfir minn gamla føður.

## 28. Jósep auglýsir sig bræðrum sínum.

Þá gat Jósep ekki leingur haldið sér í augsýn allra, sem viðstaddir voru, og kallaði: látið hvern mann gánga út frá mér. Og þegar þeir voru allir út geingnir, lét hann bræður sína þekkja sig. Og hann grét hástøfum, svo að Egypzkir heyrðu það og hús Faraós, og sagði við bræður sína: eg em Jósep! Lifir faðir minn enn? Og bræður hans gátu eingu svarað honum, svo bilt varð þeim við. En hann sagði við þá: komið hingað til mín. Og þeir geingu til hans. Og hann mælti: eg em Jósep, bróðir yðar, sem þér selduð til Egypta-

lands. En látid þad ekki hryggja ydur, og hugsid ekki, ad eg sé reidur af því, ad þér hafid selt mig híngad, því til lífs vidurhalds hefur Gud sent mig híngad á undan ydur. Því ad í tvo ár hefur nú verid húngur í landinu, og enn þá í fimm ár mun hvorki plægt né uppskorid verda. En Gud hefur sent mig híngad á undan ydur, svo þér skyldud halda lífi á jördunni, og á dásamlegan hátt frelsast. Þér hafid ekki sent mig híngad, heldur Gud; hann hefur gjört mig ad födur Faraós, og ad herra als hans húss, og ad drottnara yfir öllu Egyptalandi. Hradid ydur nú, og farid heim til födur míns, og segid vid hann: svo segir Jósep, sonur þinn: Gud hefur gjört mig ad herra yfir öllu Egyptalandi, kom til mín og tef ekki. Þú skalt búa í landinu Gosen, og vera í nánd vid mig, þú og synir þínir, og synir sona þinna, saudir þínir og kýr, og alt, sem þitt er. Eg skal sjá þér þar fyrir atvinnu; því ad enn verdur hallæri í fimm ár, svo þú lídir ekki skort, hvorki þú né hús þitt, né nokkud, sem þér til heyrir. Og sjá, augu ydar og augu Benjamíns bródur míns sjá, ad þad er eg, sem tala vid ydur. Segid födur mínum frá allri minni

dýrd í Egyptalandi, og frá øllu, sem þér hafid séd; flýtid ydur, og komid hingad med fødur minn. Og hann féll um háls Benjamín bródur sínum og grét, og Benjamín grét líka um háls honum. Og hann myntist vid alla brædur sína, og grét yfir þeim; og þá gátu þeir fyrst talad vid hann. — En sem þad fréttist í hús Faraós, ad brædur Jóseps væru komnir, þótti Faraó og þénurum hans vænt um þad. Og hann sagdi vid Jósep: seg brædrum þínum: gjørid svo, klyfjid vinnudýr ydar og farid á stad; og sem þér komid í Kanaansland, þá takid fødur ydar og hyski ydar, og komid til mín; eg skal gefa ydur þad bezta af Egyptalandi, og þér skulud eta landsins feiti. Og hann baud þeim enn fremur: takid ydur vagna í Egyptalandi handa børnum ydar og konum, og flytjid fødur ydar, og komid. Gefid ekkert um búsgøgn ydar; því hid bezta af øllu Egyptalandi skal til heyra ydur. Og synir Israels gjørdu svo; og Jósep fékk þeim vagna, ad bodi Faraós, og nesti til ferdarinnar. Og hann gaf þeim øllum, hverjum fyrir sig, einn hátídaklædnad; en Benjamín gaf hann þrjú hundrud silfurpeninga og fimm hátídaklædnadi. Og

hann sendi fødur sínum tíu asna klyfjada med gædi Egyptalands, og tíu øsnur med korn og braud og adrar vistir handa fødur sínum til ferdarinnar. Og hann lét brædur sína fara, og þeir fóru; og hann sagdi vid þá: deilid ekki á leidinni. Og þeir fóru á stad úr Egyptalandi, og komu í Kanaansland til Jakobs fødur síns, kunngjørdu honum og søgdu: Jósep lifir enn, og er herra yfir øllu Egyptalandi. En hjarta hans komst ekki vid; því ad hann trúdi þeim ekki. Þeir báru honum þá øll ord Jóseps, sem hann hafdi talad vid þá; og sem hann sá vagnana, sem Jósep hafdi sent, til ad flytja hann á, þá lifnadi Jakob fadir þeirra vid, og sagdi: mikid er þetta. Jósep sonur minn lifir enn. Eg vil fara og sjá hann, ádur en eg dey.

## 29. Jakob fer til Egyptalands med alt sitt.

Og Jakob tók sig upp, og fór med alt, sem hans var; og sem hann kom til Berseba, flutti hann Gudi fødur síns Ísaks fórn. Og Gud taladi vid hann í sýn um nóttina og sagdi: Jakob! Hann svaradi: hér em eg. Og hann sagdi: eg em Gud, Gud fedra þinna; óttast þú ekki ad fara nidur til Egyptalands,

því ad eg mun gjøra þig þar ad mikilli þjód. Eg skal fara med þér til Egyptalands, og eg mun leida þig híngad aptur; og Jósep skal aptur lykja augum þínum í sídasta sinni. — Þá tók Jakob sig upp frá Berseba, og Israels synir fluttu Jakob fødur sinn og børn sín og konur sínar á vøgnum þeim, sem Faraó hafdi sent. Og þeir tóku fénad sinn og fjárhluti, sem þeim høfdu aflazt í Kanaanslandi, og komu í Egyptaland, Jakob og synir hans og sonasynir, dætur hans og sonadætur og øll hans ætt. Allar þær sálir, sem med honum komu til Egyptalands, sem voru komnar af honum, voru alls sextíu og sex. Þar ad auki Jósep og bádir synir hans; svo ad allar sálir af húsi Jakobs í Egyptalandi voru sjotíu. Og hann sendi Júda á undan sér til Jóseps, ad hann léti hann vita af komu sinni. Og þeir komu í landid Gosen. Þá lét Jósep spenna fyrir vagn sinn, og fór á móti fødur sínum Israel til Gosen. Og sem hann sá hann, féll hann um háls honum, og grét leingi. Þá sagdi Israel vid Jósep: gjarnan vil eg nú deya, fyrst eg hefi séd þitt anglit, ad þú lifir enn þá. Og Jósep sagdi vid brædur sína og vid hús fødur

síns: eg vil fara og láta Faraó vita, og segja við hann: bræður mínir og ætt föður míns er komin til mín úr Kanaanslandi, og eru fjárhirðar; sauði sína, og nautpening og alt, hvað þeir eiga, hafa þeir flutt með sér. Þegar nú Faraó lætur kalla yður, og segir: hver er yðar atvinna? þá skuluð þér segja: þjónar þínir hafa stundað fjárrækt frá barnæsku og til þessa dags, bæði vér og feður vorir; svo að þér fáið að búa í landinu Gósen. Því Egyptar hafa viðbjóð á fjárhirðum. — Og Jósep kom, og sagði Faraó frá, og mælti: faðir minn og bræður mínir eru komnir, og sauðir þeirra og naut og alt, hvað þeirra er, úr Kanaanslandi, og sjá, þeir eru í landinu Gósen. Og hann tók fimm af bræðrum sínum, og leiddi þá fyrir Faraó. Þá mælti Faraó við bræður hans: hver er yðar atvinna? Þeir svöruðu: fjárhirðar eru þjónar þínir, eins og feður vorir. Vér erum komnir til að búa í landinu hjá yður; þínir þénarar hafa engan haga fyrir fénað sinn, svo mikið er hallærið í Kanaanslandi; leyf því þjónum þínum að búa í landinu Gósen. Og Faraó sagði við Jósep: faðir þinn og bræður þínir eru komnir til þín; Egyptaland er fyrir

þinni augsýn, láttu þá búa þar, sem bezt er í landinu, láttu þá búa í landinu Gosen, og ef þú þekkir nokkra duglega medal þeirra, þá láttu þá hafa umsjón yfir hjørdum mínum. Og Jósep leiddi Jakob fødur sinn fyrir Faraó. Og Jakob blessadi hann. En konúngurinn spurdi hann: hve gamall ertu? Jakob sagdi: dagar minnar útlegdar eru hundrad og þrjátiu ár; fáir og mædusamir voru dagar míns lífs, og ná ekki lífdøgum minna fedra í þeirra útlegd. Og Jakob blessadi Faraó, og gekk burt frá honum. En Jósep fékk fødur sínum og brædrum sínum bústad, og gaf þeim fasteign, þar sem bezt var í landinu, í landinu Gosen, eins og konúngurinn hafdi bodid. Og hann veitti forsorgun fødur sínum og brædrum sínum og øllu húsi fødur síns.

## 30. Stjórnaradferd Jóseps.

Og þad var bjargarskortur í øllu landinu, því ad hallærid var mjøg mikid, og Egyptaland og Kanaansland ørmagnadist af húngri. Og Jósep safnadi ad sér øllu því silfri, sem fanst í Egyptalandi og Kanaanslandi fyrir korn, sem þeir keyptu, og lét alt silfrid í fjárhirzlu Faraós.

— En sem nú silfrid þverradi í Egyptalandi, þá komu allir Egyptar til Jóseps, og sögdu: lát oss fá braud! Því skulum vér deya fyrir augsýn þér, þó oss skorti silfur? Jósep mælti: komid med fénad ydar; eg skal gefa ydur braud fyrir hann, fyrst ydur vantar silfur. Þá fóru þeir med fénad sinn til Jóseps, og hann gaf þeim braud fyrir hesta þeirra, saudfé, nautpeníng og asna; og hann fæddi þá þad árid fyrir allan þeirra fénad. — Og sem nú árid var lidid, komu þeir til hans aptur og sögdu: vér viljum ekki dylja vorn herra þess, ad ekki ad eins silfrid heldur líka fénadur vor er þrotinn; og þad er nú ekki annad eptir handa herra vorum, heldur en líkhamir vorir og jardir vorar. Því lætur þú oss deya fyrir augsýn þér, bædi oss og akra vora? Kaup oss fyrir braud, svo ad vér ásamt jördum vorum séum þrælar Faraós; gef oss sád, svo ad vér lifum og deyum ekki, og jardirnar leggist ekki í eydi. Svo keypti Jósep alt Egyptaland handa Faraó, og Egyptar seldu hver sína jörd, því ad húngrid þreyngdi ad. Og Faraó eignadist þannig landid; og hann lét fólkid skipta um bústadi, frá einum enda Egyptalands til annars. Jardir prestanna voru

þær einu, sem hann keypti ekki, því ad það var tilsett af Faraó um prestana, ad þeir skyldu lifa af þeim skamti, sem hann hafdi gefid þeim; þess vegna þurftu þeir ekki ad selja jardir sínar. Þá sagdi Jósep vid fólkid: sjá, eg hefi í dag keypt ydur og jardir ydar handa Faraó; hér hafid þér sád, og sáid nú akrana; skulud þér, þegar þér upp skerid, gefa Faraó fimtúng af korninu, en fjórir partar skulu vera ydar, til ad sá akrana og ydur til fædis og hyski ydar og bornum. Þeir sogdu: þú vidheldur lifi voru; ef vér ad eins megum finna nád í augum herra vors, svo viljum vér gjarnan vera Faraó undirgefnir. Þannig lagdi Jósep á jardir Egypta þennan skatt handa Faraó, fimtúng korns, sem haldizt hefur alt til þessa dags.

## 31. Jakob á helsæng.

Svo bjó ætt Israels í Egyptalandi, í Gosen, og þeir eignudust þar fasteign, juku ættir sínar og margfoldudust mjog. Og Jakob lifdi seytján ár í Egyptalandi, svo ad allur aldur hans vard hundrad fjorutíu og sjo ár. Og sem nú nálgadist hans andlátstid, kalladi hann á Jósep son sinn, og mælti vid hann: hafi eg

fundid náð hjá þér, þá legg hønd þína undir lend mína, að þú auðsýnir mér þá elsku og trúfesti, og jarðir mig ekki í Egyptalandi; því að eg vil liggja hjá feðrum mínum, og þú skalt flytja mig burt úr Egyptalandi, og jarða mig í greptrunarreit þeirra. Hann svaraði: eg vil gjøra eptir orðum þínum. Hinn mælti: sver mér það. Og hann sór honum það. Þá baðst Israel fyrir, þar sem hann lá í rúmi sínu. — Eptir þetta var Jósep sagt: sjá, faðir þinn er sjúkur. Og hann tók með sér báða syni sína, Manasse og Efraim, og fór til hans. Þetta var Jakob kunngjørt: sjá, sonur þinn Jósep kemur til þín. Þá harkaði Israel af sér, settist uppí rúminu, og sagði við Jósep: almáttugur Guð birtist mér í Betel í Kanaanslandi, og blessaði mig, og sagði við mig: „sjá eg vil „gjøra þig frjóssaman og margfalda þig, og „gjøra þig að mikilli þjóð, og gefa niðjum þín„um eptir þig þetta land til æfinlegrar eignar“. Skulu báðir synir þínir, Efraim og Manasse, sem þér fæddust í Egyptalandi, áður en eg kom til þín, vera mínir, eins og Rúben og Simeon. En þau børn, sem þú átt eptir þá, skulu vera þín, og teljast með bræðrum sínum í þeirra erfð.

Og Israel sá báda sonu Jóseps, og mælti: hverjir eru þessir? Jósep svaradi: þad eru synir mínir, sem Gud hefur gefid mér hér. Hann mælti: leiddu þá til mín, ad eg blessi þá. Því ad augu Israels voru ordin dauf af elli, og hann gat ekki vel séd. Og hann leiddi þá til hans. En hann kysti þá, tók þá sér í fáng, og sagdi vid Jósep: eg bjóst ekki vid ad sjá þig, og Gud hefur einnig lofad mér ad sjá afkvæmi þín. Og Jósep færdi þá úr fadmi fødur síns, og þeir beygdu sig nidur til jardar fyrir augliti hans. Og Israel rétti fram hendur sínar, lagdi á høfud þeim, blessadi þá og sagdi: sá Gud, fyrir hvers augliti fedur mínir, Abraham og Isak, geingu, sá Gud, sem hefur alid ønn fyrir mér frá únga aldri fram á þennan dag, sá eingill, sem hefur frelsad mig frá øllu illu, hann blessi sveinana; nafn mitt verdi nefnt í þeim og nafn fedra minna, Abrahams og Isaks, ætt þeirra verdi mikil í landinu. Svo blessadi hann þá hinn sama dag og mælti: hver sem vill blessa einhvern í Israel, hann segi: Gud gjøri þig sem Efraim og Manasse. Og hann sagdi vid Jósep: sjá, eg dey, en Gud mun vera med ydur, og flytja ydur aptur í land

fedra ydar. — Og Jakob kalladi á alla sonu sína, og blessadi þá, sérhvern þeirra med sérlegri blessan. Og hann setti Júda, hinn fjórda, efst yfir þá alla; því ad Rúben, Simeon og Levi hofdu gjørt sig óverduga frumburdarréttarins med alls konar ávirdingum. Og hann baud þeim og mælti: eg mun safnast til míns fólks; jardid mig hjá fedrum mínum í hellinum Makfela, gegnt Mamre í Kanaanslandi, sem Abraham keypti ásamt akrinum til greptrunarstadar. Par hafa þeir jardad Abraham og Søru konu hans, Isak og Rebekku konu hans; þar hefi eg líka jardad Leu. — Og sem Jakob hafdi lokid þessum skipunum til sona sinna, lagdi hann fætur sínar upp í rúmid, og andadist, og safnadist til síns fólks. En Jósep lagdist ofan ad andliti hans, og grét yfir honum og kysti hann.

### 32. Endi tímabils forfedra Gydinganna.

Og Jósep baud þjónum sínum, læknunum, ad smyrja fodur sinn, og þeir gjørdu svo. Og nú lidu fjorutíu dagar, því svo leingi stendur á smurningunni. Og Egyptar syrgdu hann í sjøtíu daga. En sem sorgardagarnir voru lidnir, kom Jósep ad máli vid Faraó, og mælti:

fadir minn tók eid af mér, og sagdi: sjá, eg dey; jarda mig í minni grøf, sem eg gróf mér í Kanaanslandi. Lofa þú mér ad fara, ad eg jardi fødur minn, og komi svo aptur. Faraó sagdi: far þú, og jarda fødur þinn, eins og þú hefur svarid honum. Og Jósep fór ad jarda fødur sinn, og allir þénarar Faraós, hinir elztu af húsi hans, og allir oldúngar Egyptalands, og alt hyski Jóseps og brædur hans, og hyski fødur hans. Einúngis létu þeir eptir verda í Gósenlandi børn sín og saudi og naut. Þeir fóru bædi á vøgnum og á hestum, og var þad mikill skari. Og sem þeir komu á vøllinn Atad, er liggur hinu megin vid Jórdan, þá héldu þeir þar mikinn og beiskan harm; og hann lét þar harma fødur sinn í sjøtíu daga. Þannig gjørdu synir Jakobs, eins og hann hafdi þeim bodid, og þeir fluttu hann til Kanaanslands, og jordudu hann í hellinum á akrinum, gegnt Mamre. — Og sem þeir høfdu jardad hann, fóru þeir aptur til Egyptalands. En sem brædur Jóseps sáu, ad fadir þeirra var dáinn, hugsudu þeir: en ef Jósep hatar oss, og launar nú alt þad illa, sem vér høfum gjørt honum. Þess vegna létu þeir segja vid hann: fadir þinn baud, ádur hann

dó, og mælti: þér skulud bera Jósep þessi mín
ord: fyrirgef brædrum þínum misgjörd þeirra
og synd, ad þeir adhöfdust svo ilt vid þig. Svo
fyrirgef oss nú, þjónum Guds og födur þíns,
þessa misgjörd. En Jósep grét, þá hann heyrdi
þetta. Og brædur hans komu, og féllu fram
fyrir honum, og sögdu: sjá, vér erum þínir þræl-
ar. Þá sagdi Jósep vid þá: óttist ekki; einnig
eg stend undir Gudi. Þér ætludud ad gjöra mér
ilt, en Gud ásetti ad snúa því til góds, til ad
gjöra þad, sem nú er fram komid, og halda
mörgu fólki vid lífid. Verid þess vegna óhrædd-
ir; eg skal annast ydur og ydar börn. Og hann
hughreysti þá, og taladi blídlega vid þá. — Svo
bjó Jósep í Egyptalandi, hann og hús födur
hans; og hann lifdi í hundrad og tíu ár, og
sá nidja Efraims í þridja lid, og börn Makirs,
sonar Manasses, fæddust á kné hans. Og Jósep
sagdi vid brædur sína: eg dey, en Gud mun
vitja ydar, og flytja ydur úr þessu landi í þad
landid, sem hann hefur svarid ad gefa Abraham,
Ísak og Jakob. Þess vegna tók hann eid af
Ísraelssonum, og mælti: þegar Gud vitjar yd-
ar, þá flytjid bein mín hédan. Svo dó Jó-

sex hundrad og tíu ára gamall, og þeir smurdu hann, og kistulogdu hann í Egyptalandi.

---

## 33. Móses.

1, En er Jósep var dáinn og allir brædur hans og allir samtídamenn þeirra, þá jukust Israelsnidjar og margføldudust, og urdu svo margir, ad landid vard fult af þeim. Þá hófst til ríkis í Egyptalandi nýr konúngur, sem engin deili vissi á Jósep. Hann sagdi til fólks síns: sjáid, þjód Israelsmanna hefur aukizt og fjølgad meir en vér; látum oss med kænsku hindra, ad þeir verdi svo margir; því ad vera má, ef ófridur ad kemur, ad lýdur þessi gángi í lid med óvinum vorum, berjist í móti oss, og fari svo af landi burt. Því voru settir yfir þá verkstjórar, sem skyldu þjá þá med þúngri vinnu, og þeir voru látnir byggja fyrir Faraó borgirnar Pitom og Raamses, þar sem hann hafdi fordabúr sín. En því meir, sem þeir þjádu Israelsmenn, því meir fjølgudu þeir og útbreiddust; og þeir óttudust þá, og fóru med þá vægdarlaust. Og þeir gjørdu þeim lífid súrt med þúngum þrældómi, med leireltu, tígulsteinagjørd, og alls konar akurvinnu, og ødru erfidi,

er þeir lögdu vægdarlaust á þá. Og konúngurinn i Egyptalandi mælti til hinna ebresku ljósmædra: þegar þér sitjid yfir hinum ebresku konum, og þér sjáid ad barnid er sveinn, þá liflátid þad; en sé þad meybarn, þá má þad lifa. En ljósmædurnar óttudust Gud, og gjördu eigi þad, sem Egyptalands konúngur baud þeim, heldur létu sveinbörnin lifa. Þar fyrir gjördi Gud ljósmædrunum gott; og fólkid fjölgadi og vard mjög margt. Þá baud Faraó öllu sínu fólki og sagdi: kastid i Nilfljótid öllum þeim sveinbörnum, sem fædast af ebreskum konum, en öll meybörn mega lífi halda.

2, Og þad bar til, ad madur nokkur af Levi ætt gekk ad eiga eina af dætrum Levi, og hún fæddi honum son; og er hún sá, ad sveinninn var fagur, þá leyndi hún honum i þrjá mánudi. En er hún mátti ei leyna honum leingur, bjó hún honum til örk af reyr, bræddi hana med jardlími og biki, lagdi sveininn þar i, og lét örkina út i sefid hjá bakka Nilfljótsins; en systir sveinsins stód þar skamt frá, til ad vita, hvad um hann yrdi. Og dóttir Faraós gekk ofan ad ánni, til ad lauga sig, og þjónustumeyar hennar gengu eptir árbakk-

anum. Og er hún leit orkina í sefinu, sendi hún eina af þernum sínum eptir henni. Og hún lauk henni upp, og sá barnid, og sjá, sveinninn grét. Þá kendi hún í brjósti um hann og sagdi: þad er eitt af bornum hinna ebresku. Þá sagdi systir hans vid dóttur Faraós: á eg ad fara og sækja fyrir þig einhverja fóstru af hinum ebresku konum, ad hún hafi barnid á brjósti fyrir þig? Hún svaradi: far þú. Og stúlkan fór, og sótti módur barnisns. Þá sagdi dóttir Faraós til hennar: tak barnid, og haf þad á brjósti fyrir mig, eg skal launa þér þad. Og konan tók barnid, og hafdi þad á brjósti. En er sveinninn var vaxinn, fór hún med hann til dóttur Faraós, og hún tók hann í sonarstad, og kalladi hann Móses, því hún sagdi: eg hefi tekid hann upp úr vatninu.

En er Móses var ordinn fulltída madur, fór hann eitt sinn á fund ættbrædra sinna, og sá á þrældóm þeirra. Sá hann þá, hvar egypzkur madur laust ebreskan mann, einn af kynsmonnum hans. Og hann litadist um, og er hann sá eingan mann, vóg hann hinn egypzka, og huldi hann í sandi. Daginn eptir gekk hann einnig út, og sá tvo ebreska menn þrátta, og

sagdi vid þann, sem á raungu máli átti ad standa: hvi slær þú náúnga þinn? Hinn svaradi: hver hefur gjørt þig ad yfirmanni og dómara yfir okkur? Er þér í hug, ad drepa mig, eins og hinn egypzka, sem þú drapst? — Þá vard Móses hræddur og hugsadi med sér: þad er þá ordid uppvíst. — En sem Faraó frétti þennan atburd, leitadi hann eptir ad drepa Móses. En Móses flúdi fyrir Faraó, og tók sér bústad í Midianslandi, og bjó þar hjá einum brunni. Og kennimadurinn í Midianslandi átti sjø dætur; þær komu þángad, jusu vatn, og fyltu þrórnar, til ad brynna fénadi fødur síns. Þá komu hjardmenn, og bægdu þeim frá; en Móses reis upp, og hjálpadi þeim, og brynti fénadi þeirra. Og er þær komu heim til fødur síns, sagdi hann: hvi komid þér svo skjótt heim í dag? Þær svørudu: egypzkur madur hjálpadi oss frá hjardmønnunum, jós upp vatnid fyrir oss, og vatnadi fénu. Hann sagdi þá til dætra sinna: hvar er hann? Hvers vegna látid þér þennan mann standa úti? Kallid á hann, ad hann eti med oss. Og Móses lét sér vel líka, ad vera hjá þessum manni; og hann gipti Mósi dóttur sína Sippóru,

sem ól honum tvo syni, Gersom og Eli-
eser.

## 34. Móses er kalladur af Gudi.

Eptir þetta var Móses fjárhirdir hjá Jetró teingdafødur sínum, kennimanni í Midianslandi, og hélt fénu vestur á eydimørkina, og kom til Guds fjalls, Hórebs. Og Drottinn birtist honum í eldsloga, sem lagdi út af þyrnirunna nøkkrum; og hann sá, ad runnurinn logadi, en brann þó ekki. Og hann sagdi: eg vil gánga nær, og sjá þessa miklu sýn, hvad til þess komi, ad runnurinn brennur ekki. En sem Drottinn sá, ad hann gekk þángad, til ad skoda þetta, þá kalladi hann til hans úr runninum og sagdi: Móses, Móses! Hann svaradi: hér em eg. Hann sagdi: gakk ekki híngad; drag skó þína af fótum þér; því ad sá stadur, sem þú stendur á, er heilog jørd. Og hann sagdi enn fremur: eg em Gud fedra þinna, Gud Abrahams, Gud Isaks, Gud Jakobs. Og Móses byrgdi andlit sitt; því ad hann þordi ekki ad líta upp á Gud. Og Drottinn sagdi: eg hefi séd eymd míns fólks í Egyptalandi, og heyrt, hversu þad kveinar undan þeim, sem þrælka þad; eg veit, hvad bágt þad á. Og eg vil frelsa

þad af hendi Egyptalandsmanna, og leida þad úr þessu landi í gott og vidlent land, í þad land, sem flýtur af mjólk og hunángi, í landid Kanaan. Nú med því, ad eg hefi séd kúgun þeirra, hversu Egyptar þraungva þeim, þá far þú nú; eg vil senda þig til Faraós, og þú skalt leida fólk mitt út af Egyptalandi. Móses sagdi til Guds: hver em eg, ad eg fari til fundar vid Faraó, og leidi Israelsmenn út af Egyptalandi? Hann sagdi: eg vil vera med þér. Og þad skaltu til marks hafa, ad eg hefi sent þig, ad þegar þú hefur leitt fólkid út af Egyptalandi, þá skulud þér þjóna Gudi á þessu fjalli. Móses sagdi til Guds: þegar eg kem til Israelsmanna og segi vid þá: Gud fedra ydvarra sendi mig til ydar, og þeir segja til mín: hvert er nafn hans? hverju skal eg þá svara? Gud sagdi til Móses: eg verd sá, sem eg er (hinn óumbreytanlegi); og hann sagdi: svo skaltu segja til Israelsmanna: Sá, sem verdur þad, sem hann er, hann sendi mig til ydar, Drottinn, Gud fedra ydvarra. Og þegar þeir heyra raust þína, þá skaltu gánga med höfdingjum Israelsmanna fyrir Egyptalands konúng og segja vid hann: Drottinn, vor Gud, hefur kallad oss.

Veit eg, ad konúngurinn muni eigi leysa ydur burtførina, nema fyrir styrkva hønd. En eg vil út rétta hønd mina, og ljósta Egyptalandsmenn med alls konar undrum, sem eg mun fremja medal þeirra, og þá skal hann sleppa ydur. — En Móses var hugdeigur; og þó ad Drottinn veitti honum, ad gjøra jarteikn med staf sínum og hendi sinni, þá sýndist honum samt þetta bod Drottins of ordugt, og sagdi: heyr, Drottinn, eg hefi ekki verid ordfær madur og er þad ekki, þvi mér er tregt um málfæri og túngutak. Drottinn sagdi til hans: hver gefur manninum málid? eda hver gjørir hinn mállausa eda daufa, hinn skygna eda blinda? er þad ekki eg, Drottinn, sem gjøri þad? Far nú, eg skal styrkja mál þitt, og kenna þér, hvad þú skalt mæla. Hann svaradi: heyr, Drottinn, send annan, hvern sem þú vilt. Þá vard Drottinn stórlega reidur vid Móses og sagdi: skyldi eg ekki vita, ad Aron bródir þinn er vel ordfær madur? Sjá, hann skal fara til móts vid þig, og þá hann sér þig, mun hann taka þér feginsamlega. Þú skalt tala til hans, og leggja ordin i munn honum; en eg mun kenna ykkur, hvad þid skulud tala. Og hann skal tala fyrir

þig til fólksins; hann skal vera þinn munnur, og þú skalt vera hans Gud. Og þennan staf skaltu hafa í hendi þér, og med honum skaltu jarteiknirnar gjøra. — Sídan fór Móses aptur til Jetrós, teingdafødur síns, og mælti til hans: leyf mér ad fara og vitja brædra minna, þeirra sem á Egyptalandi eru, og vita, hvort þeir eru enn á lífi. Jetró svaradi: far þú í fridi. Og Móses tók med sér konu sína og sonu, lét þau rída á øsnum, og fór aptur til Egyptalands, og hafdi stafinn í hendi sér. Og Drottinn sagdi til Arons: far þú út í eydimørkina til móts vid Móses. Og hann fór og mætti honum á Guds fjalli, og kysti hann. Og Móses sagdi Aroni øll ord Drottins, þess er sendi hann, og allar þær jarteiknir, sem hann hafdi bodid honum ad gjøra. Og þeir fóru og stefndu saman øllum høfdingjum Israelsmanna; og Aron flutti øll þau ord, er Drottinn hafdi mælt vid Móses, og fólkid trúdi. Og sem þeir heyrdu, ad Drottinn hafdi litid á eymd þeirra, þá féllu þeir fram og tilbádu.

## 35. Anaud Israels fólks.

Eptir þad geingu þeir Móses og Aron á

fund Faraós og sögdu: svo segir Drottinn, Guð Israelsmanna: gef fólki mínu fararleyfi, svo það megi halda mér hátíð í eyðimörkinni. Faraó sagði: hver er sá Drottinn, að eg skuli gegna honum og láta Israelsmenn fara? Eg þekki ekki þann Drottinn, og vil ekki láta Israelsmenn fara. Og því viljið þið, Móses og Aron, taka fólkið úr vinnunni? Farið aptur til yðvars erviðis. Fólkið er orðið svo margt í landinu, og þér viljið láta það hætta að vinna. — Og Faraó bauð sama dag verkstjórum þeim, er settir voru yfir fólkið, og tilsjónarmönnum þess, og sagði: þér skuluð ei hér eptir fá fólkinu hálmstrá til að brenna tigulsteina við, eins og þér hafið gjört hingað til; þeir skulu sjálfir fara og safna sér stráum; en þó skuluð þér setja þeim fyrir að gjöra jafnmarga tigulsteina og þeir hafa gjört, og minkið ekki af við þá; því að þeir eru orðnir latir; þess vegna kalla þeir og segja: vér viljum fara og færa fórnir Guði vorum. Það verður að þyngja vinnuna á fólkinu, svo það hafi nokkuð að starfa, og hlýði ekki á lygifortölur. Þá geingu verkstjórar og tilsjónarmenn fólksins út, og sögðu við það: svo segir Faraó: eg læt

eingin hálmstrá gefa ydur; farid sjálfir og takid ydur strá, hvar sem þér finnid, en þó skal ekkert minka verk ydar. Þá fór fólkid vídsvegar um alt Egyptaland, ad leita sér hálmleggja. Og verkstjórarnir ráku eptir þeim, og søgdu: ljúkid dag hvern vid ydar ákvedna dagsverk, eins og medan þér høfdud stráin. Og tilsjónarmenn Israelsfólks, sem verkstjórar Faraós høfdu sett yfir þá, voru bardir, og sagt vid þá: hví hafid þér hvorki í dag né í gær lokid vid ydar ákvedna dagsverk, eins og ádur? Tilsjónarmenn Israelsmanna geingu þá fyrir Faraó, kølludu og søgdu: hví fer þú svo med þjóna þína? Vér fáum eingin strá, og þó eigum vér ad gjora þá tigulsteina, sem oss er fyrirsett. Og sjá, þjónar þínir eru bardir, og þó er þitt fólk skuld í þessu. Hann sagdi: þér erud latir og nennid eingu; þess vegna segid þér: látum oss fara, og færa Drottni fórnir. Farid nú og ervidid; eingin strá skal gefa ydur, en þó skulud þér greida þá ákvednu tigulsteina. Þá sáu tilsjónarmenn Israelsmanna, ad þad vard verra; og sem þeir komu frá Faraó, hittu þeir Móses og Aron, og søgdu vid þá: Drottinn áliti ykkur og dæmi, ad þid hafid gjort oss ó-

vinsæla hjá Faraó og þjónum hans, og feing-
id þeim svo sverdid í hendur til ad drepa oss
med. Þá gekk Móses aptur fyrir Drottinn,
og sagdi: hví gjørir þú svo illa vid þetta fólk?
því hefur þú sent mig? Því sídan eg gekk
fyrir Faraó, til ad tala í þínu nafni, hefur
hann kúgad lýdinn enn hardara, og þú hef-
ur ekki frelsad þitt fólk. Og sjá, Israels-
menn vilja ei fremur gefa gaum ad ordum
mínum sökum hugarángurs og hins þúnga
þrældóms. Og Drottinn sagdi vid Móses:
sjá, eg vil fremja margar jarteiknir og stór-
merki, og út rétta hønd mína yfir Egyptaland
og leida Israelsborn út þadan. Gángid nú
inn fyrir Faraó, skorid á hann, og bodid hon-
um reidi mína, ef hann ekki vill losa Israel,
ad fara úr landi sínu. Og Móses og Aron
gjørdu eins og þeim var bodid; en hjarta Fara-
ós var fult þverúdar, og hann skipadist ekki
vid ord þeirra, jafnvel þótt Móses med staf
sínum gjørdi hina fyrstu jarteikn í vidurvist hans.

## 36. Plágur Egyptalands.

Þá laust Drottinn vatn Nílfljótsins,
og alt vatn vard ad blódi; fiskarnir í ánni dóu,

og vatnid í henni vard svo fúlt, ad Egyptar gátu ekki drukkid þad. Lidu svo sjø dagar samfleyttir, ad Drottinn laust vøtnin. En Faraó skeytti ekki um þad, og lét sér þetta ekki til hjarta gánga. — Og Drottinn lét enn adrar plágur koma yfir konúnginn og landid, og lét þá plágast af froskum, mýbiti og flugum; líka lét hann fjársýki granda fénadi þeirra, og vond kýli þjá menn og skepnur um alt Egyptaland. En sem þeir sáu, ad þessu var aptur lint, fyltist hjarta þeirra þverúd, og þeir hlýddu ekki Móses og Aron. — Þá lét Drottinn reidarþrumur og hagl koma, og eldíngum laust nidur á jørdina. Haglid var geysistórt og eldstrokurnar fóru innan um haglid; hafdi þvílíkt hret ekki komid á øllu Egyptalandi í frá landnámstíd. Og haglid sló nidur alt, sem á akri var í øllu Egyptalandi, bædi menn og skepnur og allan jardargróda og hvert tré í skóginum — nema í landinu Gosen, þar sem Israelsmenn voru, þar kom ekkert hagl. Hør og bygg var nidurslegid, því ad byggid hafdi feingid ax og hørinn fræknappa; en hveiti og rúgur var ekki nidurslegid, því ad þad verdur seinna fullvarta. Þá sendi Faraó eptir Móses og Aron, og sagdi

til þeirra: ad þessu sinni hefi eg syndgazt; Drottinn er réttlátur, en eg og mitt fólk erum ógudlegir. Bidjid Drottinn, ad reidarþrumunum og haglinu linni, þá vil eg láta ydur burt fara, og þér skulud ekki vera hér leingur. Móses sagdi til hans; þegar eg fer út af borginni, vil eg fórna höndum til Drottins, og mun þá reidarþrumunum linna og hagl ekki framar koma, svo ad þú vitir, ad jordin er Drottins. En eg veit, ad þú og þitt fólk óttast ekki enn þá Gud Drottinn. Og Móses gekk frá Faraó út af borginni og fórnadi upp höndum til Drottins; linnti þá reidarþrumunum og haglinu, og regnid streymdi ekki leingur nidur á jordina. En er Faraó sá, ad regnid hætti og haglid og þrumurnar, þá syndgadist hann enn meir, og bædi hann og þjónar hans stæltu upp hjörtu sín, svo hann leysdi ekki Israelsmönnum ad fara. — Þá geingu þeir Móses og Aron inn til Faraós, og sögdu til hans: svo segir Drottinn, Gud ebreskra manna: hve leingi viltu færast undan, ad audmýkja þig fyrir mér, og leyfa fólki mínu ad þjóna mér? Ef þú færist undan því, þá mun eg á morgun færa eingisprettur inn í ríki þitt, sem skulu hylja landid, svo ad ekki siáist til jardar, upp eta þad,

sem bjargad vard og enn er eptir ólamid af haglinu, fylla øll hús, svo ad hvorki fedur þinir né fedur fedra þinna hafi slikt séd, frá því þeir fæddust i heiminn og til þessa dags. Og hann sneri sér vid, og gekk út frá Faraó. Þá søgdu þjónustumenn Faraós til hans: hvad leingi á þessi madur ad verda oss ad meini? Lát mennina fara ad þjóna Drottni, Gudi sinum. Viltu heldur sjá, ad Egyptaland sé i eydi lagt? Þá voru þeir Móses og Aron kalladir aptur fyrir Faraó, sem sagdi vid þá: farid, og þjónid Drottni, ydrum Gudi. En hverjir eru þad, sem ætla burt? Móses svaradi: vér viljum fara med únga og gamla, syni og dætur, saudi og naut vor. Þá sagdi hann til þeirra: Drottinn sé svo med ydur, sem eg lofa ydur og børnum ydar ad fara úr landi; sjáid nú, hvort þér ekki hafid ilt i huga. Nei, ekki svo! heldur farid þér einir karlmennirnir og þjónid Drottni. Og þeir voru reknir út frá Faraó. Þá lét Drottinn austanvind standa upp á landid allan þann dag og alla nóttina, en med morguninum kom vindurinn med eingisprett urnar; lidu þær yfir alt Egyptaland, og komu nidur i øllum álfum landsins; var svo mikid af þeim, ad aldrei

hafdi slíkt verid og mun ekki hér eptir verda; því ad þær huldu alt landid, svo þad sortnadi af þeim, og átu af alt gras jardarinnar og allan ávørt trjánna, sem haglid hafdi eptir skilid, og létu ekkert grænt eptir á øllu Egyptalandi. Þá gjørdi Faraó skyndilega bod eptir Móses og Aron, og sagdi: eg hefi syndgad á móti Drottni og á móti ydur; fyrirgefid mér ad eins í þetta sinn mína synd, og bidjid Drottinn, ad hann vilji ad eins taka þessa plágu burt frá mér. Og Móses gekk út frá Faraó og bad til Drottins; þá sneri Drottinn vedrinu í mjøg hvassan vestanvind, sem tók eingisprett-urnar og fleygdi þeim í hafid rauda, svo ekki var ein eptir á øllu Egyptalandi. En hjarta Faraós og Egypta vard aptur fult þverúdar, svo hann leyfdi ekki Israelsmønnum burt ad fara. — Og Drottinn sendi þreifandi myrkur yfir alt Egyptaland í þrjá daga; svo ad eing-inn sá annan, og einginn stód upp af þeim stad, sem hann var staddur, í þrjá daga. En í land-inu Gosen, hjá øllum Israelsmønnum, var bjart í þeirra híbýlum. Þá kalladi Faraó Móses til sín og sagdi: farid og þjónid Drottni; en látid saudi ydar og naut vera eptir; børn yd-

ar mega fara med ydur. Móses svaradi: þú verdur einnig ad láta oss fá sláturfórn og brennifórn, svo vér megum færa fórnir Drottni, Gudi vorum. Þess vegna skal kvikfé vort líka fara med oss, og ekki ein klauf eptir verda; því af voru munum vér taka þad, sem vér þurfum til fórnfæringar Gudi vorum. Og svo segir Drottinn til þín: ef þú ekki hlýdir ordum mínum, þá skulu allir frumburdir í Egyptalandi deya, frá Faraós frumgetna syni, sem situr í hásæti sínu, og til frumgetnings þeirrar ambáttar, sem stendur vid kvörnina, og allur frumburdur fénadarins. Og þar mun upp koma mikid sorgarkvein í öllu Egyptalandi, hvers líki ekki hefur verid, né mun verda. Þá munu allir þessir þjónar þínir koma ofan til mín, falla til jardar fyrir mér og segja: far þú á burt og alt þad fólk, sem þér fylgir; og þeir munu ekki ad eins leyfa oss ad fara, heldur jafnvel reka oss á burt. Eptir þad mun eg burtu fara. En hjarta Faraós var þverúdarfult, og hann sagdi til hans: far þú frá mér, og varast ad koma optar fyrir augu mér; því ad á þeim degi, sem þú kemur í augsýn mér, skaltu deya. Móses svaradi: svo skal vera, sem þú segir;

eg skal ekki framar koma fyrir augu þér. Og hann gekk út frá Faraó, og var mjøg reidur.

## 37. Burtførin.

Og Móses taladi til allrar alþýdu Israelsmanna og sagdi: þessi mánudur skal vera hinn fyrsti mánudur hjá ydur, og á honum skulud þér byrja árid. Á tíunda degi þessa mánadar skal hver húsfadir hjá ydur taka eitt lamb, eda ef ekki er svo mannmargt á heimilinu, ad upp fái etid lambid, þá taki hann med sér hinn næsta nágranna sinn, þar til svo margir eru komnir, ad þeir fái þad upp unnid. Skulud þér vardveita þetta lamb til hins fjórtánda dags þessa mánadar; þá skal því slátra um sólarlagsbil, steikja þad og eta med ósýrdu braudi á þeirri hinni sømu nótt. Á þennan hátt skulud þér eta þad: þér skulud vera gyrtir um lendar ydar, hafa skó á fótum, og staf í hendi; og þér skulud eta þad í flýti, því ad þad eru páskar Drottins. Því ad þessa sømu nótt mun Drottinn slá alla frumburdi um alt Egyptaland, og þér munud um morguninn fara út úr landinu. Og þessi dagur skal vera ydur til endurminningar, og þér skulud halda hann heilag-

an, svo sem hátíd Drottins, þér og eptirkom-
endur ydar æfinlega. — Og Israelsmenn fóru
og gjördu eins og Móses hafdi þeim bodid.
Um midnæturskeid á fjórtánda degi mánadarins
dóu allir frumburdir í landinu. Þá reis
Faraó upp um nóttina, og allir þjónar hans
og allir Egyptalandsmenn, og þad vard mikid
óp í öllu Egyptalandi. Og hann kalladi til
sín þá Móses og Aron um nóttina og sagdi:
takid ydur upp og farid burt úr mínu landi,
bædi þér og Israelsmenn; farid og þjónid
Drottni, eins og þér hafid sagt. Takid líka
med ydur saudi ydar og naut, farid svo á stad
og bidjid mér góds. Og Egyptar ráku hart
eptir fólkinu, til ad koma því sem fyrst burt
úr landinu; því ad þeir sögdu: vér munum
allir deya. Og fólkid tók þad deig, sem þad
hafdi, ádur en þad hafdi sýrzt, batt deigtrogin
í klædum sínum og bár þau á örlum sér, því
ad þeir máttu ekki tefja. Og Israelsmenn
tóku sig upp frá Raamses, og fóru til Súk-
kots, hér um bil sex hundrud þúsund fótgáng-
andi manna auk úngbarna; þar ad auki saudir
þeirra og naut og næsta mikill fénadur. Höfdu
Israelsmenn þá búid í Egyptalandi fjögur

hundrud og þrjátíu ár. En Móses tók med sér bein Jóseps. — Þannig leiddi Drottinn Israelsmenn á einum degi úr Egyptalandi ásamt herskørum þeirra. En hann leiddi þá ekki á leid til Filistalands, þótt sú leid væri skemst; því hann sagdi: vera má, ad fólkid idrist eptir, þegar þad sér stríd og hættu fyrir sér, og snúi aptur til Egyptalands. Þess vegna snéri Gud fólkinu fram ad hafinu rauda, á leid til eydimerkurinnar. Og Drottinn gekk fyrir þeim á daginn í skýstólpa, til ad vísa þeim veg, en á næturnar í eldstólpa, til ad lýsa þeim, svo þeir gætu ferdazt nótt sem dag; og skýstólpinn veik ekki frá fólkinu um daginn, og ekki heldur eldstólpinn á nóttunni.

### 38. Drukknan Faraós.

Þegar Egyptalands konúngur frétti, ad fólkid var flúid, þá vard hugur hans og þjóna hans mótsnúinn fólkinu, og søgdu: hví høfum vér gjørt þetta, ad sleppa Israelsmønnum úr þrældómi frá oss? Hann lét þá beita fyrir vagn sinn, og tók menn sína med sér. Hann tók ser hundrud útvalda vagna, og setti hermenn sína á hvern þeirra. Veittu nú Egypta-

landsmenn Israelsmønnnm eptirfør, og allir hestar og vagnar Faraós, riddararnir og allur herinn nádu þeim, þar sem þeir hofdu sett herbúdir sínar vid hafid, nálægt Pi-Hakirot. En er Faraó nálgadist, hófu Israelsmenn upp augu sín, og sáu, ad Egyptar sóktu eptir þeim; urdu þeir þá mjog óttafullir, ákolludu Drottinn og søgdu til Móses: þurftir þú þess vegna ad taka oss burt, til ad deya hér á eydimørku, ad eingar væru grafir til á Egyptalandi? Hvi hefur þú gjørt oss þetta, ad fara med oss úr Egyptalandi? Søgdum vér ekki vid þig í Egyptalandi: lát oss vera kyrra, og þjóna Egyptum? Þvi betra er fyrir oss, ad þjóna Egyptalandsmønnum, en ad deya í eydimørkinni. Þá sagdi Móses til fólksins: óttist ekki, gángid fram, og horfid á þad hjálprædi, sem Drottinn í dag mun láta fram vid ydur koma; þvi ad þessa egypzku menn, sem þér sjáid i dag, munud þér aldrei framar augum líta. Drottinn mun berjast fyrir ydur, en þér skulud vera kyrrir. — Þá tók sig upp eingill Guds, sá er gekk á undan herskørum Israelsmanna, og skýstólpinn, og fór á bak vid þá, og stadnæmdist milli herlids Egypta og herskara Israelsmanna. Og

skýid var myrkt annars vegar, en annars vegar upplýsti þad nóttina, og færdust hvorugir nær ødrum alla þá nótt. Og Móses lypti upp staf sínum, og rétti út hønd sína yfir hafid; þá bægdi Drottinn hafinu frá med hvøssum austanvindi, sem blés alla nóttina, og gjørdi hafid þurt, og sjórinn skiptist í sundur. Og Israelsmenn geingu þurrum fótum mitt í gegnum hafid, og vøtnin stódu eins og veggur, til hægri og vinstri handar þeim. Og Egyptalandsmenn sóktu eptir, og fóru út í sjóinn á eptir þeim, med øllu hestalidi Faraós og vøgnum og riddaralidi. En er morgunvakan kom, lét Drottinn þruma og leiptra yfir her Egypta, og sló felmtri í lid þeirra, og lét vagna þeirra gánga af hjólunum, svo þeim vard torveldlega ekid. Þá kølludu Egyptar: látum oss flýa fyrir Israelsmønnum; Drottinn berst med þeim móti Egyptum. En Drottinn sagdi vid Móses: rétt út hønd þína yfir hafid, svo vatnid falli aptur yfir Egypta. Þá rétti Móses út hønd sína yfir hafid, og sjórinn féll ad aptur undir morguninn, en Egyptar flúdu beint í móti adfallinu, og Drottinn keyrdi þá mitt út í hafid. Huldi sjórinn þar vagna og riddara í øllum

Faraós her, sem eptir þeim hafði farið, svo að ekki komst nokkur einn af. — Þannig frelsaði Drottinn á þeim degi Ísraelslýð frá hendi Egyptalandsmanna; og þeir sáu hina miklu hjálp, sem Drottinn hafði þeim auðsýnt.

### 39. Himnabrauð.

Eptir þetta lét Móses Ísraelsmenn hefja ferð sína frá hafinu rauða, og þeir komu í eyðimörkina Súr, og þaðan í eyðimörkina Sin, sem liggur milli Elim og Sinai fjallsins, og þeir ráfuðu um í eyðimörkunum.

En öll alþýða Ísraelsmanna möglaði gegn Móses og Aron, og sagði: betra hefði verið, að vér hefðum dáið fyrir hönd Drottins í Egyptalandi, þá vér sátum við kjötkatlana, og átum oss sadda af brauði. Því til þess hafið þið farið með oss út á þessa eyðimörk, að láta allan þennan mannfjölda deya af húngri. Þá mælti Drottinn við Móses: eg hefi heyrt mögl Ísraelsmanna; sjá, eg vil láta rigna brauði af himni til yðar, og skal fólkið fara út, og safna hvern dag svo mikiu, sem það þarf þann dag, svo eg reyni, hvort það vill breyta eptir mínum lögum eða ekki, og svo þér viðurkennið,

ad eg er Drottinn, ydar Gud. En á hinum sjøtta degi skulu þeir svo til haga, ad þad, sem þeir þá koma heim med, skal vera tvøfalt vid þad, sem þeir annars safna daglega. Þvi á sjøunda degi skal ekki safna; þad er heilagur hvíldardagur, Drottni til dýrdar. Og sjá, um morguninn var døggfall alt umhverfis herbúdirnar. En þegar døggina hóf upp, þá sást þunt skurn yfir eydimørkina, því líkast sem héla á jørdu. Þegar Israelsmenn sáu þetta, sagdi hver vid annan: hvad er þetta? Því þeir vissu ekki, hvad þad var. Og Móses sagdi vid þá: þetta er þad braud, sem Drottinn hefur ydur gefid. En sú er skipan Drottins: ad þér safnid því, eptir því sem hver þarf ad eta, og takid einn mæli á mann, eptir fólksfjølda þeim, sem hver hefur í tjaldi sínu. Og Israelsmenn gjørdu svo, og søfnudu því hvern morgun; en þegar sólin skein heitt, þá brádnadi þad. En á sjøtta deginum søfnudu þeir tvøfalt meiru af braudinu, tveim mælum í stadinn fyrir einn. Og Israelsmenn kølludu þad manna; þad líktist kóríander-fræi, var hvítt, og bragdadi sem hunángskaka; maladi fólkid þad í kvørnum eda muldi þad í mortélum, saud þad svo í pottum

og bjó til úr því køkur. Átu Israelsmenn manna í fjørutíu ár, þángad til þeir komu í Kanaansland, þar sem þeir áttu ad búa.

## 40. Vatn af hellunni. Sigur yfir Amalekitum.

Og øll alþýda Israelsmanna tók sig upp úr eydimørkinni Sin, og settu herbúdir sínar í Refidim. Þar hafdi fólkid ekkert vatn ad drekka. Og þeir deildu vid Móses og søgdu: hví fórstu med oss úr Egyptalandi, til ad láta oss, børn vor og fénad deya af þorsta? Þá kalladi Móses til Drottins og sagdi: hvad skal eg gjøra vid þetta fólk? Innan skamms munu þeir grýta mig. Drottinn sagdi til hans: gakk fram fyrir fólkid, og tak med þér nokkra af øldúngum Israelslýds, og staf þinn í hønd þér. Sjá, eg mun vísa þér þar á klett einn í Hóreb; þann klett skalt þú ljósta, og mun þá vatn spretta af honum, svo fólkid megi drekka. Og Móses gjørdi svo í augsýn hinna helztu Israelsmanna, og þar spratt fram mikid vatn. Kølludu menn þennan stad Massa (freistni) og Meriba (þráttan). — Eptir þetta komu Amalekitar og héldu orustu vid Israelsmenn í Refidim. Þá sagdi Móses vid Jósua: vel oss lid, far út, og

berst vid Amalekíta. En eg mun á morgun standa efst uppi á hædinni, og hafa staf Guds i hendi mér. Og Jósua gjördi eins og Móses hafdi sagt. En Móses og Aron og Húr geingu upp á hædina. Og þad skedi svo, ad alla þá stund, er Móses hélt upp hendi sinni, þá hofdu Israelsmenn betur, en þegar hann lét hana síga, þá veitti Amalekítum betur. — En med því ad Móses urdu þúngar hendurnar, þá tóku þeir stein og létu undir hann, og hann settist þar á. En þeir Aron og Húr héldu undir hendur hans, sinn á hverja hlid; héldust hendur hans þannig stödugt uppréttar alt til sólarlags. Og Jósua feldi Amalekíta og menn þeirra med sverdseggjum.

## 41. Jetró leggur Mósi ráð.

En er Jetró, prestur i Midianslandi, teingdafadir Mósis, heyrdi alt þad, sem Gud hafdi gjört vid sinn lýd, Israelsmenn, tók hann Sippóru, konu Mósis, hverja hann hafdi sent aptur, og tvo sonu hennar, Gersom og Elieser, og kom til hans, þar sem hann hafdi sett herbúdir sínar, hjá Guds fjalli. Þá gekk Móses út i móti honum, laut honum og kysti hann.

Og er þeir høfdu heilsast, geingu þeir inn í tjaldið. Þá sagdi Móses teingdafødur sínum frá øllu því, sem Drottinn hafdi gjørt við Faraó og Egyptalandsmenn, og frá øllum þeim þrautum, sem þeim høfdu mætt á leidinni, og hversu Drottinn hafdi frelsað þá. En Jetró gladdist yfir øllu hinu góða, sem Drottinn hafdi gjørt Israelsmønnum, og sagdi: lofaður veri Drottinn, sem hefur frelsað ydur af hendi Egyptalandsmanna og af hendi Faraós! Og hann tók brennifórn og flutti Gudi fórn, og Aron og allir øldúngar Israelsmanna komu og héldu fórnarveizlu ásamt teingdafødur Mósis, til þakklætis við Gud. — Daginn eptir settist Móses, til að dæma medal fólksins; og fólkið stóð frammi fyrir honum frá morgni til kvølds. En er teingdafaðir hans sá alt það, sem hann gjørdi við fólkið, sagdi hann: hvað er það, sem þú gjørir við fólkið? Hvers vegna situr þú einn, og alt fólkið stendur frammi fyrir þér frá morgni til kvølds? Móses svaradi honum: fólkið kemur til mín, og spyr Gud um ráð. Því þegar nokkurt mál gjørist á milli þeirra, þá koma þeir til mín, til þess að eg dæmi milli þeirra og sýni þeim réttindi Guds

og boð hans. Teingdafaðir hans sagði við hann: þessi aðferð hentar ekki; bæði þreytist þú, og fólkið, sem hjá þér er; þetta starf er þér um megn; þú færð því ekki einn af kastað. Hlýð nú tillögum mínum; eg vil leggja þér ráð og Guð mun vera með þér. Þú skalt gánga fram fyrir Guð í nafni fólksins, og bera fram málefni þess fyrir Guð; þú skalt skýra fyrir þeim lögin og boðorðin, og kenna þeim þann veg, sem þeir skulu gánga, og þau verk, sem þeir skulu gjöra. En vel þér meðal fólksins duganði menn, sem óttast Guð, ráðvanda og ósérplægna, set þá yfir fólkið, suma yfir þúsund, suma yfir hundrað, suma yfir fimmtíu, suma yfir tíu, að þeir dæmi manna í milli á öllum tímum. Öll hin stærri mál skulu þeir láta koma fyrir þig, en dæma sjálfir í öllum minni málum, svo mun þér hægra veita, og þeir létta undir með þér. Ef þú gjörir þetta, og sé það Guðs vilji, þá muntu fá því af kastað, og þá mun og allur þessi lýður með friði komast til átthaga sinna. — Og Móses hlýddi tillögum teingdaföður síns, og gjörði eins og hann hafði gefið ráð til. Hann valdi duganði menn af öllum Ísraelslýð, og setti þá til höfðingja yfir

fólkid, suma yfir þúsund mønnum, suma yfir hundrad, suma yfir fimmtíu, suma yfir tíu, og sagdi vid þá: gegnid brædrum ydar, og dæmid rétt í millum hvers manns, hvort sem hann er innlendur eda útlendur. Hafid ekkert manngreinarálit í dómum, heldur gegnid eins naudsyn minni sem meiri háttar manna, og hrædist ekki nokkurn mann; þvi ad dómara-embættid er Guds. En ef eitthvert málefni er ydur of varid, þá skjótid þvi til mín, og eg skal gegna þvi. — Gaf Móses þá orlof teingdafødur sínum, og hann fór aptur heim í land sitt.

## 42. Løgmál Drottins.

1, A þridja mánudi eptir þad, ad Israelsmenn voru út geingnir af Egyptalandi, komu þeir í eydimørkina Sinai, og settu þar búdir sínar gegnt fjallinu. Og Móses gekk upp til Drottins, og hann sagdi vid hann: svo skaltu segja Israelsmønnum: þér hafid sjalfir séd, hvad eg hefi gjørt Egyptalandsmønnum, og hversu eg hefi borid ydur á arnarvængjum, og flutt ydur til mín. Ef þér nú hlýdid minni røddu, og haldid minn sáttmála, þá skulud þér vera mitt kennimannlegt ríki og mitt heilagt fólk. Og

Móses fór og stefndi saman formønnum lýdsins, og flutti þeim øll þau ord, er Drottinn hafdi bodid honum. Þá svaradi allur lýdurinn einum munni, og sagdi: vér viljum gjøra alt, sem Drottinn býdur. Og Drottinn sagdi aptur vid Móses: far til fólksins, og helga þad í dag og á morgun, svo þad sé vidbúid á þridja degi; því ad á þridja degi mun dýrd Drottins birtast fyrir øllu fólki á Sinai fjalli. Þú skalt marka fólkinu svid umhverfis, og segja vid þad: varist ad gánga upp á fjallid, eda snerta fjallsræturnar; því ad hver, sem snertir fjallid, hann skal dauda deya; hann skal grýttur eda skotinn verda. En þegar lúdurinn kvedur vid, þá skulu þeir stíga upp á fjallid. Og þad var gjort, eins og Drottinn hafdi bodid. — Þegar nú þridji dagur kom og dagur ljómadi, þá geingu reidarþrumur og eldingar, og þykt ský var á fjallinu og mjøg sterkur lúdurþytur, svo alt fólkid skelfdist, sem var í herbúdunum. Þá leiddi Móses fólkid út úr herbúdunum til móts vid Gud, og þeir tóku sér stødu fyrir nedan fjallid. En alt Sinai fjall rauk, af því ad Drottinn steig ofan á þad í eldinum, og alt fjallid skalf mjøg. Og Móses steig upp á tind fjallsins.

En þetta eru þau tíu boð, sem Guð gaf Israelslýð: Jeg er Drottinn, þinn Guð; þú skalt ekki hafa annarlega Guði fyrir mér. Þú mátt ekki smíða þér neina úthøggna eða annars konar mynd, eptir því, sem er á himnum uppi eða á jørðu niðri, eða í vøtnum, eða undir jørðunni. Þú mátt ekki tilbiðja eða dýrka það. — Þú mátt ekki misbrúka nafn Drottins, Guðs þíns. — Minstu að halda hvíldardaginn heilagan. Sex daga skaltu erfiða, og vinna alla vinnu þína, en á sjøunda deginum skaltu ekkert verk vinna, og ekki sonur þinn eða dóttir, þræll eða ambátt, eða skepnur þínar, eða nokkur útlendingur, sem er innan borgarhliða þinna. — Heiðra føður þinn og móður þína, svo þú megir lifa leingi í því landi, sem Drottinn, Guð þinn, gefur þér. — Þú skalt ekki mann vega. — Þú skalt ekki hórdóm drýgja. — Þú skalt ekki stela. — Þú skalt ekki bera ljúgvitni á móti náúnga þínum. — Þú skalt ekki girnast hús náúnga þíns. — Þú skalt ekki girnast kvinnu náúnga þíns, ekki hans þræl eða hans ambátt, ekki hans uxa eður asna, eða nokkuð af því, sem honum til heyrir.

Og alt fólkið heyrði og sá reiðarþrumurn-

ar og eldblossana og lúdurþytinn og fjallid rjúkanda; og það hørfadi til baka, og stód lángt frá, og sagdi vid Móses: tala þú vid oss; vér skulum hlýda; lát Gud ekki tala vid oss, svo vér ekki deyum. En Móses sagdi til fólksins: óttist ekki; því ad Gud er kominn til þess, ad reyna ydur, og svo ad hans ótti sé ydur fyrir augum, til þess þér syndgid ekki. Og fólkid stód lángt frá.

2, Og dýrdin Drottins stadnæmdist yfir Sínai fjalli og skýid huldi það; og það var ad sjá, sem brennandi eldur á fjallstindinum, í augsýn Israelsmanna. En Móses gekk mitt inn í skýid, og sté upp á fjallid, og var þar í fjørutíu daga og fjørutíu nætur. En er fólkid sá, ad seinkadist koma Mósis af fjallinu, þá fóru þeir á fund Arons, og søgdu vid hann: kom og gjør oss Gudi þá, er fyrir oss fari. Því vér vitum ekki, hvad er ordid af þessum Móses, sem oss leiddi burt af Egyptalandi. Aron sagdi vid þá: takid eyrnagullin úr eyrum kvenna ydvarra, sona og dætra, og færid mér. Þá tók allur lýdurinn eyrnagull sín og færdu Aroni. Og hann tók vid gullinu af þeim, lagadi það med grafalnum, og gjørdi af því steypt-

an kálf. Og þeir søgdu: þetta er þinn Gud, Israelslýdur, sem færdi þig burt af Egyptalandi. Og þeir risu upp árla næsta morgun, fórnudu brennifórnum og færdu þakkarfórnir; sídan settust þeir nidur ad eta og drekka, og stódu upp ad skemta sér. — Þá sagdi Drottinn vid Móses: far ofan í skyndi, því ad fólk þitt hefur stórum syndgad. Þeir hafa skjótt vikid af þeim vegi, sem eg baud þeim. Þeir hafa gjort sér steyptan kálf, fallid fram fyrir honum, fórnad honum og sagt: þetta er þinn Gud, Israelslýdur, sem leiddi þig út af Egyptalandi. Þá sneri Móses burt, og gekk ofan af fjallinu, og hafdi bádar løgmálstoflurnar í hendi sér, sem skrifad var á løgmál Guds. En er hann nálgadist herbúdirnar, og sá kálfinn og dansleikinn í kringum hann, þá vard hann stórreidur, kastadi toflunum úr hendi sér, og braut þær í sundur fyrir nedan fjallid. Og hann tók kálfinn, sem þeir høfdu gjørt, brendi hann í eldi, muldi hann í smátt, dreifdi duptinu á vatnid, og lét Israelsmenn drekka. Sidan baud hann Levitunum, ad þeir skyldu festa sverd á hlid sér, og slá alla þá í herbúdunum sem taumlausastir og ódælastir væru; féllu þá af fólkinu á

þeim degi þrjár þúsundir. En um morguninn sagdi Móses til lýdsins: þér hafid drýgt stóra synd; og nú vil eg fara upp til Drottins, má vera, ad eg fái uppgjöf á ydvarri synd. Og hann fór aptur upp til Drottins, og fékk tvær adrar løgmálstöflur, og kom med þær nidur af fjallinu til Israelsmanna. En er hann kom ofan af fjallinu, stódu geislar af andliti hans, af því ad hann hafdi talad vid Gud. Þordu Israelsmenn ekki ad koma nærri honum, af því geislar stofudu af ásjónu hans. Þess vegna lét hann skýlu fyrir andlit sitt, þegar hann taladi vid þá, en tók hana frá, þegar hann gekk upp á fjallid fram fyrir Gud.

3, Og Gud gaf Móses mørg fleiri løg, er þjód hans skyldi lifa eptir, og taladi til hans medal annara einnig þessi ord:

Þú skalt ekki halla rétti hins útlenda og munadarlausa, og ekki taka í ved fatnad ekkjunnar, því þér skal minnisstætt, ad þú einnig varst útlendingur í Egyptalandi. — Þú skalt standa upp fyrir gráum hárum, og heidra hinn gamla. — Þegar þú hefur lokid kornskurdi á akri þínum, og þú hefur gleymt einu bindini út á akrinum, þá skaltu ekki snúa aptur, til ad sækja

þad, heldur skal hinn munadarlausi og ekkjan eiga þad, svo ad Drottinn, þinn Gud, blessi þig í allri þinni atvinnu. — Þegar þú hefur barid ávextina af þínu vidsmjörsvidartré, þá skaltu eigi gjöra þar eptirleit; og þegar þú hefur skorid upp vínberin í víngardi þínum, þá skaltu ekki plokka hann aptur; þad skal vera eign hins fátæka. — Sex ár skaltu sá jörd þína og safna ávöxtum hennar, en sjöunda árid skaltu láta hana hvíla sig, svo ad hinir fátæku medal fólks þíns megi eta þar af; þad sem þeir leifa, mega skógardýrin eta. Þannig skaltu gjöra vid víngard þinn og vidsmjörsvidargard. — Þú skalt ekki mýla nautid, á medan þad þreskir. — Ef þú sérd naut eda saud bródur þíns á slædingi, þá skaltu reka þad aptur til bródur þíns. En ef bródir þinn er ekki í grend vid þig, og þú þekkir hann ekki, þá skaltu taka þad heim til þín, og hafa hjá þér, þángad til bródir þinn leitar þess, og þú getur feingid honum þad aptur. — Ef þú sérd uxa eda asna bródur þíns liggja afvelta á leid þinni, þá máttu ekki sneida hjá því, heldur reisa þad á fætur aptur. — Bölvadur sé sá, sem leidir blindan mann af réttum vegi.

## 43. Tjaldbúdin.

Sídan lét Móses til búa heilagt tjald fyrir musteri handa Drottni; var þad ad innan tjaldad dýrdlegum dúkum, úr silki og vidarull, haglega útofnum, med lykkjum og gullkrókum. Þar utan yfir voru ábreidur af geitahári til hlífdar, svo þak af raudlitudum hrútaskinnum, og loksins yzt þak af selskinnum. Stodir allar, fjalir og þvertré tjaldsins, sem voru úr belgþornsvidi, lét hann alt gulli búa, gjøra þar á tappa, og setja undir stéttir úr silfri. — Og Besalel, hinn mikli hagleiksmadur, gjørdi ørk úr belgþornsvidi, gullbjó hana utan og innan med skíru gulli, steypti fjóra hrínga af gulli, til ad setja í fjøgur horn hennar, gjørdi ása af belgþornsvidi, og smeygdi þeim í hrínga þá, sem voru á hlidvegum arkarinnar, svo hana mætti bera á þeim. Og hann gjørdi lok yfir hana af skíru gulli, hálfrar þridju álnar lángt og hálfrar annarar álnar breitt; hann bjó til tvo Kerúba úr gulli á hvorumtveggja loksendanum; breiddu þeir vængi sína yfir hana, og snéru andlitunum hvor í móti ødrum. Þannig var sáttmálsørk Drottins til búin. Og Móses lét nidur í hana løg Guds, og setti hana í hid allrahelgasta

í tjaldinu, huldi lögmálsörkina, og heingdi fortjaldið fyrir hið allrahelgasta. — Sömuleiðis til bjó Besalel reykelsisaltarið og hið helga borð skoðunarbrauðanna, hvorttveggja af belghornsviði, gullbúið, og áhöldin á borðinu, fötin, reykelsisskálarnar, dreypikerin og bollana, alt úr skíru gulli. Einnig ljósahjálminn ásamt liljunum bjó hann til úr gulli; og hann bjó til smurningarviðsmjör helgidómsins, og hið hreina ilmandi reykelsi, á kryddara hátt. Og Móses setti þetta alt í tjaldinu, fyrir framan hið allrahelgasta, í hið helgasta, og lagði brauðin á borðið fram fyrir Guð, og brendi ilmandi reykelsi á altarinu, og heingdi svo fortjaldið upp í dyr tjaldsins. — Enn fremur til bjó Besalel brennifórnaraltarið, stærra en reykelsisaltarið, og eirbjó það; þar að auki áhöld þess, öskutrogin, eldspaðana, fórnarskálirnar, soðkrókana og glóðarkerin, alt úr eir. Loksins reisti hann stóran forgarð umhverfis hið heilaga tjald; voru stoðir umhverfis hann, og lángtjöld úr hvítri tvinnaðri viðarull. En í forgarðinum stóð brennifórnaraltarið og hið stóra ker, úr hverju að Móses og Aron og synir hans, prestarnir, þvoðu hend-

ur sínar og fætur, þegar þeir geingu inn í samkundutjaldbúdina, og nálægdu sig altarinu.

Þannig var nú lokid øllu þessu starfi. Og þad skedi á fyrsta degi hins annars árs, ad Móses reisti hina helgu byggíngu. Huldi skýid þá samkundutjaldid, og dýrd Drottins fylti búdina. Og er skýid hófst upp frá búdinni, þá løgdu Israelsmenn upp ávalt medan þeir voru á ferdum sínum; en þegar skýid hófst ekki upp, løgdu þeir ekki á stad, fyr en þann dag, ad skýid hóf sig upp. Og þad skein um nætur sem eldur í augsýn allra Israelsmanna, ávalt medan þeir voru á ferdalagi sínu.

## 44. Fórnir og hátídir.

Og Móses safnadi fólkinu saman ad dyrum hins helga tjalds, tók Aron bródur sinn, laugadi hann í vatni, og færdi hann í hinn kennimannlega skrúda, sem var prýdilega til búinn úr gulli og purpura og tvinnadri vidarull. Og hann tók skjøldinn ljóssins og réttarins, dýrdlega settan gimsteinum, á hverja ad grafin voru nøfn tólf kynkvísla Israels, og heingdi hann med gullfestum og hríngjum á brjóst honum. Sídan lagdi hann ennisdúkinn úr

hvítri vidarull um höfud honum, og heingdi á enni hans hina helgu gullspaung, á hverja grafin voru þessi ord: Heilagt fyrir Drottni. — Og Móses tók smurníngarvidsmjörid, og smurdi búdina, og alt, sem þar var, og helti því yfir höfud Arons, og vígdi hann, til ad vera kennimann Drottins. Líka leiddi hann fram syni Arons, laugadi þá, og færdi þá í hinn kennimannlega skrúda. — Sídan leiddi hann fram uxann, sem til syndafórnar var ætladur, og Aron og synir hans lögdu hendur sínar á höfud hans, en Móses slátradi honum, tók blódid, og rjódradi því med fíngri sínum á horn altarisins, alt í kríng, en hinu steypti hann nidur vid altarisfótinn, til ad vígja þad. Og hann tók allan mörinn, stærra lifrarbladid, bædi nýrun og nýrnamörinn, og brendi þad á altarinu. En húdina og kjötid brendi hann í eldi fyrir utan herbúdirnar. — Því næst fram leiddi hann brennifórnarhrútinn, slátradi honum, limadi hann í sundur, og brendi hann svo allan upp á altarinu til brennifórnar. — En af vígslufórnarhrútnum tók hann einúngis fituna og hægra bóginn, og lagdi þar á eitt kringlubraud og eina vidsmjörsköku úr korfunni

með ósýrðu brauðunum, og brendi það alt á altarinu til vígslufórnar, eldfórnar fyrir Drottni. En hitt annað af kjøti hrútsins gaf hann Aroni og sonum hans, og sagði við þá: sjóðið kjøtið fyrir dyrum tjaldbúðarinnar, og etið það þar, sømuleiðis líka brauðið úr kørfu vígslufórnarinnar. Og þér skuluð í sjø daga ekki víkja frá dyrum tjaldbúðarinnar, hvørki dag né nótt, þar til vígsludagar yðar eru á enda. — Og Aron með sonum sínum gjørði, eins og Móses hafði honum boðið. Á áttunda degi kallaði Móses saman allan lýðinn, og Aron og synir hans fluttu þeirra fyrstu fórn. Þannig innsetti Móses þá í hið kennimannlega embætti, og bauð fyrir allar ókomnar aldir: eins og farið var að í þetta skipti við allar fórnirnar, eins skal það ætíð vera í Ísrael, að prestarnir skulu taka sinn skerf af øllum vígslu- og þakklætis- og gleði-fórnum og af øllum matfórnum, þeim til uppeldis; skal það vera þeirra tekjur fyrir þeirra starf. En ekki nema einu sinni á ári, bauð hann og sagði, skal æðsti presturinn gánga inn í hið allrahelgasta fram fyrir løgmálsørkina, á þeim degi, þegar hann fram ber fyrir sig og fólkið hina miklu syndafórn.

Skal hann þá taka tvo kjarnhafra til syndafórnar fyrir Israelslýð, og kasta hlutkesti um báda hafrana, hvor þeirra skuli vera syndafórn, og hvorum sleppa skuli út á eydimörku. Og hann skal slátra fórnarhafrinum, og líka uxa fyrir sig og sitt hús, taka nokkud af blódi þeirra, bera þad inn fyrir fortjaldid og stökkva því sjö sinnum af fingri sínum yfir arkarlokid og fyrir framan þad, líka brenna ilmandi reykelsi í helgidóminum. Einginn annar madur má vera í tjaldbúdinni, þegar hann geingur þar inn, til ad hreinsa helgidóminn. Og þegar hann hefur lokid þessu, þá skal hann leida fram hinn lifandi kjarnhafur, leggja bádar hendur sínar á höfud hans, og medkenna yfir honum allar misgjördir Israelsbarna, og leggja þær á höfud hans, og láta mann reka hann út á eydimörku, svo hann burtberi þeirra misgjördir til ávartarlauss lands. Skal þessi dagur vera heilagur hátídisdagur hjá öllum Israelslýd. — En þeir hátídisdagar, sem Móses enn fremur setti í Israel, auk Páska, voru þessir: Uppskernhátíd, þegar Drottni skyldi fórnfæra frumgróda alls ávartar, og Laufskálahátíd, um hverja Móses sagdi: þá skal fórnir færa,

og þér skuluð taka aldini af þeim fögru trjám, pálmaviðargreinir, og greinir af hinum þétt-laufguðu trjám, og gleðja yður fyrir Drottni, og búa sjö daga í laufskálum; til þess að yðar ókomnu kynslóðir viti, hversu Drottinn lét Israelsbörn búa í laufskálum, þegar hann leiddi þau úr Egyptalandi.

## 45. Herbúðir og ferðalag Israelsmanna.

Á öðru ári eptir útgaunguna úr Egyptalandi tók Móses manntal; taldi hann alla frá tvítugsaldri og þar yfir, alla sem vopnfærir voru í Israel, eptir ætterni þeirra, og þeirra tala var 608,550. En Levítarnir voru ekki taldir með; því að þeir voru settir við samkundutjaldbúðina, til að bera hana og öll áhöld hennar, og að þjóna að henni, og áttu að hafa tjöld sín í kringum hana, til hliðar og að baki. En Móses og Aron og synir hans höfðu tjöld sín fyrir framan hana, gegnt austri, svo þeir gættu helgidómsins, og Israelsbarna. Og allur Israelslýður setti tjöld sín þar í kring, hver á sínum stað. — En er herinn tók sig upp, þá gekk Aron og synir hans inn í tjaldið, tóku niður fortjaldið fyrir hinu allrahelgasta,

vøfdu því utan um logmálsørkina, og festu við steingurnar; líka breiddu þeir dúk yfir gullaltarið, skoðunarbrauða-borðið og það, sem á því var, ljósahjálminn og alt, sem heyrði til þjónustugjørðarinnar, køllaðu svo á Levítana, til að bera þetta. En þeim var skipt í þrjá kynþætti, eptir þremur sonum Levís, Gerson, Kahat og Merari; hafði hver kynþáttur sitt ætlunarverk. Áttu synir Kahats, eptir því sem Aron og synir hans søgðu fyrir, að bera áhøld helgidómsins, þegar búið var að búa um þau; synir Gersons áttu að bera dúka og þøk samkunduttjaldbúðarinnar, og lángtjøld forgarðsins, stog hans og áhøld; synir Meraris áttu að bera fjalir og stoðir tjaldbúðarinnar og forgarðsins. Var tala allra Levíta, sem mánaðargamlir voru og þar yfir, 22,000. En ekki máttu nema þeir, sem þrítugir voru og þar yfir, alt að fimtugu, þjóna að samkunduttjaldbúðinni og bera hana; voru þeir að tølu 8,580. Og Móses hafði feingið að gjøf, af hinum tólf ættarhøfðingjum kynkvísla Gyðinga, sex vagna og tólf naut, til þjónustu við helgidóminn. Fékk hann nú sonum Gersons tvo vagna og fjøgur naut eptir tiltølu þeirra þjón-

ustu, og sonum Meraris fjóra vagna og átta naut eptir þeirra þjónustu. En synir Kahats feingu þar á móti ekkert, af því ad á þeim hvíldi heilog þjónusta, og þeir áttu ad bera hin helgu áhøld á herdum sér. — Og þær tólf kynkvíslir Israels tjøldudu, hver á sínum stad í herbúdunum, og hjá sínu merki. Ad austanverdu vid samkundutjaldbúdina tjaldadi Júda med sínu merki og sínum her; þar til heyrdi kynkvísl Isaskars og Sebúlons, svo ad þeir, sem heyrdu til herbúda Júda, voru alls 186,400; og þeir fóru fyrir á ferdinni. Ad sunnanverdu var tjald og merki Rúbens, ásamt kynkvíslum Simeons og Gads; voru þeir, sem heyrdu til herbúda Rúbens, alls 151,504; og þeir fóru næstir hinum. Þar eptir kom samkundutjaldbúdin, þegar þeir voru á ferd, og tjaldbúdir Levitanna, mitt í herbúdunum. Ad vestanverdu var tjald og merki Efraims, og til hans herbúda heyrdi kynkvísl Manassis og Benjamins, ad tolu alls 108,100; þeir voru hinir þridju, þegar þeir løgdu upp. Ad nordanverdu var tjald og merki Dans, ásamt kynkvíslum Asers og Naftalis, svo ad þeir, sem heyrdu til herbúda Dans, voru alls

157,600; og þeir voru hinir seinustu, þegar þeir lögdu upp med merkjum sínum. — Og Móses lét líka gjora tvo lúdra úr silfri, til ad brúka þá, til ad kalla saman fólkid ad dyrum samkundutjaldbúdarinnar. Og þegar ákaflega var blásid í þá, þá tóku þær herbúdirnar sig upp, sem voru mót austri; og þegar ákaflega var blásid í þá í annad sinn, þá tóku þær sig upp, sem voru mót sudri. En þeir, sem blésu í þá, voru prestarnir, synir Arons. — Og þegar örkin fór á stad, sagdi Móses: stattu upp, Drottinn, svo ad óvinir þínir tvístrist, og þeir, sem hata þig, flýi fyrir þér. Og þegar hún nam stadar, sagdi hann: safna þú hingad, Drottinn, þúsundum Israelsmanna.

## 46. Lynghænur.

A tuttugasta degi í ödrum mánudi hins annars árs lyptist skýid frá lögmálsbúdinni, og Israelsmenn lögdu á stad, eptir þeirra herbúdum og merkjum, og fóru þrjár dagleidir frá fjallinu Sinai. En fólkid vard aptur óþolinmótt, og klagadi neyd sína fyrir eyrum Drottins; og skrillinn medal þeirra var girugur, sneri sér undan og grét, ásamt Israels-

børnum, og sagdi: hver gefur oss kjøt ad eta? Vér munum eptir fiskunum, sem vér átum fyrir ekkert í Egyptalandi, eptir agúrkunum og melónunum og laukunum, rauda laukunum og hvíta laukunum. En nú er sála vor uppþornud; hér er ekkert, vér sjáum ekkert, nema Man. Og sem nú fólkid grét, hver í dyrum tjalds síns, þá vard Móses hryggur, og sagdi vid Drottinn: því hryggir þú svo þjón þinn? Og því finn eg ekki nád í þínum augum, ad þú skulir leggja á mig byrdi alls þessa fólks? Hefi eg geingid þúngadur ad ollu þessu fólki, eda borid þad í heiminn, ad þú segir vid mig: ber þad á ørmum þér, eins og fóstra ber brjóstbarn, inn í landid, sem þú hézt fedrum þeirra? Hvadan skal eg taka kjot, til ad gefa ollu þessu fólki? Þeir gráta upp á mig, og segja: gef oss kjot ad eta. Eg einn orka ekki ad bera alt þetta fólk; þad er of þúngt fyrir mig. Og ef þú ætlar ad fara svona med mig, þá lát mig heldur deya, hafi eg fundid nád fyrir þér, svo eg ekki sjái neyd mína. Þá sagdi Drottinn vid Móses: safna mér sjøtíu af hinum elztu í Israel, sem þú þekkir, og kom med þá ad samkundutjaldinu, og láttu þá skipa sér þar nidur hjá

þér. Og eg vil koma nidur, og tala þar vid þig, og taka af þeim anda, sem yfir þér er, og láta hann koma yfir þá, svo þeir beri med þér þúnga fólksins, og þú berir hann ekki einn. Og til fólksins skaltu segja: helgid ydur til morguns; þá skulud þér kjøt eta. Því ad ydar grátur er kominn fyrir eyru Drottins, þegar þér sögdud: hver gefur oss kjøt ad eta, því vel leid oss i Egyptalandi? Og Drottinn mun gefa ydur kjøt ad eta, ekki einn, ekki tvo, ekki fimm, ekki tíu, ekki tuttugu daga, heldur heilan mánud, þángad til þad geingur út af ydar nösum, og þad verdur ydur ad vidbjód; af því ad þér hafid burt skúfad Drottni, sem medal ydar er, grátid fyrir honum, og sagt: hvar fyrir erum vér komnir burt úr Egyptalandi? — Og Móses gekk burt, og bar fólkinu ord Drottins, og safnadi saman sjotíu manns af øldúngum fólksins, og skipadi þeim nidur alt i kríngum tjaldid. Þá tók Drottinn af þeim anda, sem var yfir Móse, og lét hann koma yfir þá sjotíu menn; og sem andinn kom yfir þá, þá toludu þeir af andagipt, og spádu. Og tveir menn voru eptir i herbúdunum; þeir voru medal þeirra uppskrifudu, en høfdu þó ekki geingid til tjalds-

ins; og andinn kom yfir þá og þeir spádu í herbúdunum. Þá kom smásveinn hlaupandi og sagdi Móses frá og mælti: Eldad og Medad spá í herbúdunum. Þá svaradi Jósúa, sonur Núns, þénari Mósis frá barndómi, og sagdi: Móses, herra minn, banna þeim þad. En Móses svaradi honum: tekur þú upp þykkjuna fyrir mig? Eg vildi, ad alt fólk Drottins væri spámenn, og ad Drottinn léti sinn anda hvíla yfir því. — Og Móses gekk aptur í herbúdirnar, hann og öldúngar Israels. Og vindur kom frá Drottni, og færdi lynghænur frá sjónum, og dreifdi þeim út alt í kríngum herbúdirnar, sem svaradi dagleid, og vid tvær álnir á hæd yfir jördina. Og fólkid tók sig til, allan þann dag, og alla þá nótt, og allan daginn eptir, og safnadi lynghænum; sá sem safnadi litlu, hann safnadi tíu hrúgum; og þeir breiddu þær út alt í kríngum herbúdirnar. En margir medal fólksins dóu, af því þeir höfdu etid of mikid af þessu; og allir urdu þeir fljótt leidir á þessari fædu, ádur hún var upp unnin. Þess vegna var þessi stadur kalladur Girndargrafir, af því þeir girugu medal fólksins voru þar grafnir. — Hédan kom herinn í eydimörkina Paran.

## 47. Njósnarmenn hins fyrirheitna lands.

Ur eydimørkinni Paran sendi Móses tólf menn, ad bodi Drottins, til ad njósna um Kanaansland; voru þad høfudsmenn Israelsmanna, einn af hverri kynkvísl. Og hann sagdi vid þá: farid hédan til sudurs, og farid eptir fjøllunum, og skodid landid, hvernig þad er, og fólkid, sem í því býr, hvort þad er styrklegt eda veiklegt, fátt eda margt; og hvernig landid er, hvort þad er gott eda slæmt, feitt eda magurt, hvort þar eru tré eda ekki; og hvernig stadirnir eru, sem þad býr í, hvort í tjøldum eda borgum? Verid øruggir, og komid med nokkud af landsins ávøxtum. En þad var um tíma hinna fyrstu vínberja.— Og þeir fóru á stad, og kønnudu landid frá eydimørkinni Sín alt til Rehob og Hemat; þeir fóru líka sudur á vid, og komu til Hebron, og til dalsins Eskol, og hjuggu þar eina vínvidargrein med vínberjaklasa, og báru hana tveir á stanng; þar ad auki nokkur kjarnepli og fíkjur. Þennan stad kølludu menn Eskolsdal (vínberjadal), vegna vínberjanna, sem Israelsmenn hjuggu sér þar. — Og þeir snern aptur frá skodun landsins eptir fjørutíu daga, og hittu Móses og Aron og all-

an Israelslýd í eydimörkinni Paran gegnt Kades, sögdu þeim frá hvernig á stædi, og létu þá sjá ávöxtu landsins. Og þeir skýrdu honum frá og mæltu: vér komum í landid, hvert þú sendir oss; þad flýtur af mjólk og hunángi, og þetta er þess ávöxtur. En þad er sterk þjód, sem í landinu býr, og borgirnar mjög oflugar og stórar; líka sáum vér þar Enaks syni (risa). Amalekítar búa í sudurparti landsins, Hetítar, Jebúsítar og Amórítar á fjöllunum, en Kanaanítar búa vid sjóinn, og vid Jórdan. En Kaleb einn af þeim sem voru sendir, af kynkvísl Júda, þaggadi nidur í fólkinu, sem taladi móti Móses, og sagdi: látum oss fara þángad, og taka landid, því ad vér munum vinna þad. En þeir menn, sem med honum höfdu farid, sögdu: vér getum ekki farid í móti þessu fólki, því ad þad er sterkara en vér. Og þeir báru út medal Israelsmanna illar sögur af landinu, sem þeir höfdu kannad, gjördu þá hrædda, og sögdu: landid sem vér fórum um, til ad kanna þad, etur innbúa sína, og alt þad fólk, sem vér sáum þar, er mjög hávarid. Líka sáum vér þar risa, Enaksborn; í samanburdi vid þá, vorum vér í vorum augum líka sem eingisprettur,

og það vorum vér líka í þeirra augum. Þar að auki eru borgir þeirra stórar, og víggirtar alt til himins. Þá æpti allur söfnuðurinn upp yfir sig, og fólkið grét þá sömu nótt. Og allur Israelslýður möglaði gegn Móses og Aron, og sagði við þá: Guð gæfi, að vér hefðum dáið í Egyptalandi, eða dæum í þessari eyðimörk! Því leiðir Drottinn oss í þetta land, svo að vér föllum fyrir sverði, og konur vorar og börn verði að herfángi tekin? Er ekki betra fyrir oss, að hverfa aptur til Egyptalands? Og þeir sögðu hver við annan: fáum oss fyrirliða, og hverfum aptur til Egyptalands. Þá féllu þeir Móses og Aron á ásjónur sínar til jarðar, í augsýn alls Israelslýðs. Og Jósúa og Kaleb, tveir af þeim, sem höfðu kannað landið, rifu klæði sín, og sögðu við allan lýðinn: það land, sem vér fórum um, til að kanna það, er mjög gott; ef Drottinn er oss náðugur, þá mun hann leiða oss inn í þetta land, sem flýtur í mjólk og hunángi, og gefa oss það. Gjörið að eins ekki uppreisn móti Drottni, og hræðist ekki lýð lands þessa; því hæglega munum vér fá þá yfirunnið; þeirra vörn er vikin frá þeim, en Drottinn er með oss, hræðizt þá

ekki. Þá ætladi fólkid ad grýta þá; en dýrd Drottins birtist øllum Israelslýd i samkundutjaldbúdinni, og Drottinn sagdi vid Móses: hversu leingi skal lýdur þessi útskúfa mér? Hversu leingi munu þeir ekkert traust hafa á mér, svo mørg undur sem eg hefi gjørt medal þeirra? En, svo sannarlega sem eg lifi, og dýrd Drottins uppfyllir alla jørdina: allir þeir menn, sem hafa séd mína dýrd og þau undur, sem eg gjørdi í Egyptalandi og í eydimørkinni, og nú hafa freistad min tiu sinnum og ekki hlýtt raustu minni, þeir skulu ekki fá ad sjá þad land, sem eg sór fedrum þeirra; einginn, sem mér hefur útskúfad, skal sjá þad. En þénara minn Kaleb, af því annar andi er yfir honum, og hann hefur trúlega fylgt mér, og Jósúa, son Núns, þá vil eg leida inn í þad land, sem þeir hafa komid í, og nidjar þeirra skulu þad eignast. Snúid vid á morgun og farid í eydimørkina á leid til rauda hafsins; svo sannarlega sem eg lifi, eins og þér hafid talad fyrir minum eyrum, eins vil eg gjøra vid ydur; í þessari eydimørku skulu ydar líkamir falla, allra ydar, sem erud taldir í manntalinu, frá tvítugs aldri og þar yfir, sem hafid møglad í móti mér,

þér skulud ekki koma í þad landid, í hverju eg med eidi lofadi ad þér skyldud búa. En börn ydar, sem þér sögdud ad mundu verda ad herfángi, þau vil eg leida þángad, og þau skulu fá ad þekkja landid, sem þér fyrirlitud. En þeir skulu vera med hjardir sínar í eydimörkinni í fjörutíu ár, og gjalda þvermódsku ydar, þar til líkamir ydar eru afmádir í eydimörkinni; eptir tölu þeirra fjörutíu daga, á hverjum þér könnudud landid, skulud þér lída straff fyrir ydar afbrot í fjörutíu ár, eitt ár fyrir hvern dag, og verda þess varir, ad eg er horfinn frá ydur. Og Móses taladi þessi ord Drottins til allra Ísraelsbarna; vard fólkid þá mjög sorgbitid. Og þeir tóku sig upp snemma um morguninn, og fóru upp á hæd fjallsins, og sögdu; hér erum vér, og viljum fara til þess stadar, um hveru Drottinn hefur talad, því ad vér höfum syndgad. Þá mælti Móses: því yfirtrodid þér þannig ad nýju Drottins bod? Þad mun ekki takast ydur. Farid ekki þángad, ad þér fallid ekki fyrir óvinum ydar, því Drottinn er ekki med ydur. Amalekítar og Kananítar eru þar fyrir ydur, og þér munud falla fyrir sverdi, sakir þess ad þér snerud ydur frá Drottni, og

Drottinn mun ekki verda med ydur. En þeir voru einbeittir ad fara upp á fjallstindinn; enn sáttmálsork Drottins og Móses viku ei úr herbúdunum. Þá komu Amalekítar og Kananítar, sem bjuggu á fjallinu, unnu þá og tvístrudu þeim alt til Horma.

## 48. Móse og Aron yfirsést.

Eptir þetta fóru Israelsbørn aptur í eydimørkina og ráfudu þar fram og aptur, frá einum áfángastad til annars, þar til ad þau fjørutíu ár voru lidin, sem Drottinn hafdi til tekid. Og þeir syndgudu opt enn þá á móti Drottni; því ad lýdur þessi var þverbrotinn, og Móses var mjøg mæddur madur, fremur øllum mønnum á jørdu; en lánglundarged Drottins vid hélt þeim, svo hann afmádi þá ekki í eydimørkinni; og lét sonu þeirra vara og verda mikla. — Og sem nú Israelsmenn komu í eydimørkina Sin, vantadi þá vatn, og þeir þyrptust saman í móti Móses og Aron, þráttudu vid þá og søgdu: Gud gæfi, ad vér hefdum dáid, þegar brædur vorir dóu í augsýn Drottins. Því leiddud þid søfnud Drottins í þessa eydimørku, á þennan leida stad, hvar hvergi verdur

sád, eingin fíkjutré vara, einginn vínvidur, eingin kjarnepli, hvar jafnvel ekki er vatn til ad drekka. En Móses og Aron geingu til dyra samkundutjaldbúdarinnar, og féllu þar fram á ásjónur sínar; og Drottinn taladi vid Móses, og sagdi: tak staf þinn, kalla fólkid saman, bædi þú og bródir þinn Aron, og talid til hellunnar í áheyrn þeirra, ad hún veiti vatn, bædi lýdnum og fénadi hans ad drekka. Þá tók Móses stafinn, og kalladi lýdinn saman til hellunnar, og mælti vid þá: heyrid, þér þverbrotnu menn, munum vér geta útleitt handa ydur vatn af hellu þessari? Og Móses lypti upp hendi sinni, og laust helluna tvisvar med staf sínum; streymdi þadan þá vatn mikid, svo ad lýdurinn drakk og allur hans fénadur. Þetta eru Meribas vøtn, þar sem Israelsbørn þráttudu vid Drottinn. — En Drottinn sagdi vid Móses og Aron: sokum þess, ad þid treystud mér ekki svo, ad þid gjørdud Israelsbornum kunna dýrd mína, þá skulud þid ekki innleida þennan lýd í þad land, sem eg hefi gefid þeim. Og sem Israelsmenn eptir þetta komu til fjallsins Hor, sagdi Drottinn vid Móses og Aron: Aron mun safnast til fedra sinna, því ad hann skal ekki koma

í landið Kanaan, sem eg hefi gefið Israels-börnum, af því þið hlýddud ekki boðum mínum hjá Meriba-vötnum. Tak Aron og son hans Eleasar, og leið þá upp á fjallið Hor, og fær Aron úr þeim kennimannlega skrúða og fær Eleasar í hann; Aron skal safnast þar til sinna feðra og deya. Og Móses gjörði, eins og Drottinn hafði boðið honum; og Aron dó þar á fjallstindinum, á fertugasta ári eptir útförina úr Egyptalandi, þegar hann var hundrað tuttugu og þriggja ára gamall. Og er allur lýðurinn sá, að hann var andaður, syrgðu allar Israels kynkvíslir hann í fjörutíu daga.

## 49. Koma til Jórdanar.

1, Og sem nú þau fjörutíu ár voru liðin, og allir þeir dauðir, sem höfðu syndgað móti Guði, sneri Israel ferðinni, til að fara inn í hið fyrirheitna landið. Voru þeir þá að tölu, sem tvítugir voru og þar yfir, 601,730, og eínginn orðinn eptir af þeim, sem Móses og Aron höfðu talið, þegar þeir tóku manntal í Sinai eyðimörku, nema Kaleb og Jósúa. Og Móses gjörði konúngi Edomíta boð, og lét segja honum: svo segja bræður þínir, Israelít-

arnir, vid þig: þú þekkir alla þá mædu, sem oss hefur hitt. Forfedur vorir fóru nidur til Egyptalands, og vér bjuggum þar leingi, og Egyptar fóru illa med oss og forfedur vora; en vér ákollu̇dum Drottinn, og hann heyrdi raust vora, sendi oss eingil sinn og leiddi oss út af Egyptalandi, og sjá, nú erum vér vid landamerki þin. Leyf oss ad fara um land þitt; vér skulum hvorki fara yfir akra né víngarda, og ekki drekka vatn úr nokkrum brunni; þjódgotuna skulum vér þræda, og víkja hvorki til hægri né vinstri handar, þar til vér erum komnir út úr landi þínu. En Edomítinn svaradi honum: þú mátt ekki fara um land mitt, ella mun eg fara í móti þér med sverdi. Þá sogdu Israelsmenn vid hann: vér viljum þræda alfaraveginn; og ef vér drekkum af þínu vatni, vér og fénadur vor, viljum vér borga þad; um þad eina bidjum vér, ad vér megum fara fótgángandi um land þitt. En Edomítinn neitadi um þad, og gekk í móti honum med miklu lidi og oflugum her. En Israelsmenn sneru af leid frá honum, og fóru í kríngum land hans; fóru yfir Arnon, sem rennur í eydimorkinni, og kemur frá landamerkjum Amórita, og logd-

nst vid rætur fjallsins Pisga, sem mænir yfir eydimorkina. Hédan sendi Israel sendiboda til Sihons, konúngs Amórita, og gjørdi honum sømu bod og Edomitanum ádur: leyf mér ad fara um land þitt, vér skulum ekki víkja af alfaraveginum. Ef eg et af þínum vistum, eda drekk af þínu vatni, vil eg borga þad; um þad eina bid eg, ad eg megi fara fótgángandi um land þitt. En Sihon leyfdi þeim ekki ad fara um lønd sín, en safnadi ad sér øllum sínum lýd, og fór í móti þeim í eydimørkina, og komst til Jasa; þar bardist hann vid þá. En Israelitar slógu hann med sverdi, tóku undir sig land hans, frá Arnon til Jabok, alt ad Ammonitum, og bjuggu í øllum borgum Amórita, í Hesbon og Basan, og komu til fjallanna hinu megin Jórdanar, gegnt Jerikó.

2, Og Móses gjørdi bæn sína til Drottins á þeim sama tíma, og sagdi: eg veit, ad eg á ekki ad komast yfir Jórdan, til ad leida Israelslýd inn í þad land, sem þú hefur heitid þeim; því ad eg var óhlýdinn ordi þínu hjá Kades, vid Meriba vøtu, þegar eg átti ad gjøra kunna þína dýrd fyrir fólkinu. Set þess vegna Drottinn, fadir alls þess, sem lífsanda

dregur, einn mann í minn stad yfir fólkid, sem gángi fyrir því út og inn, og leidi þad út og inn, svo ad lýdur Drottins sé ekki eins og hjørd sú, er eingan hirdi hefur. Þá sagdi Drottinn vid Móses: tak Jósúa, son Núns, andinn er yfir honum, og legg hendur yfir hann; lát hann gánga fram fyrir prestinn Eleasar og allan lýdinn; fá honum nokkud af tign þinni, svo ad lýdur allra Israelsbarna hlýdi honum. Og hann skal gánga fram fyrir prestinn Eleasar, en hann skal leita úrskurdar fyrir hann, hjá ljósinu frammi fyrir Drottni, og ad hans bodi skulu þeir gánga út og inn, bædi hann og øll Israelsborn med honum. Og Móses gjørdi eins og Drottinn hafdi bodid honum, og setti Jósúa til eptirmanns síns. — Og hann gjørdi margar fleiri tilskipanir, ádur en hann dó.

3, Og børn Rúbens og Gads áttu mjog miklar hjardir, og sem þeir sáu Jaesers og Gileads land, sjá, þá var þad hérad hentugt fyrir kvikféuad. Og þeir komu og søgdu vid Móses, prestinn Eleasar, og hina yppurstu lýdsins: þessi lønd Amórita, sem Drottinn hefur lagt undir Israelsbørn, eru hentug fyrir hjardir, og vér, þjónar þinir, eigum hjardir.

Ef vér høfum fundid náð fyrir þínu augliti, þá gef þjónum þínum land þetta til eignar, og leið oss ekki yfir Jórdan. Þá sagði Móses við þá: eiga bræður yðar að fara í stríð, en þér setjast hér að? Hví gjørið þér hugi Israelsbarna fráhverfa því, að fara inn í land það, sem Drottinn mun gefa þeim? Svo gjørðu og feður yðar, þegar eg sendi þá frá Kades Barnea, til að skoða landið. Þá upptendraðist reiði Drottins gegn Israel, og hann lét þá ráfa um kríng í eyðimørkinni í fjørutíu ár, þar til øll sú kynslóð var út dauð, sem hafði aðhafzt það, sem Drottni mislíkaði. Og sjá, nú risið þér upp í stað feðra yðar, til að gjøra Drottins grimdarreiði gegn Israel enn þá meiri; því ef þér fallið frá honum, mun hann láta Israel dvelja enn þá leingur í eyðimørkinni, og þér munuð eyðileggja allan þennan lýð. Þá geingu þeir til hans, og søgðu: vér viljum að eins byggja hér fjárhús handa fénaði vorum, og borgir handa konum vorum og børnum; en sjálfir viljum vér hertygaðir með hraða gánga á undan Israelsmønnum, þar til vér høfum inn leitt þá á sinn stað. Børn vor skulu búa í víggirtum borgum sokum íbúa landsins,

en vér viljum ekki snúa aptur, fyr en sérhver af Israelsbørnum hefur feingid sinn erfdahlut; því ad ekki viljum vér taka arf med þeim hinu megin Jórdanar, ef vér fáum eign vora þessu megin hennar gegnt austri. Þá sagdi Móses vid þá: ef þér viljid gjøra þetta, ef þér viljid hertygja ydur til strîds fyrir Drottni, og hver af ydur fara hertygadur yfir Jórdan, þar til Israelsmenn hafa rekid óvini sína frá augum sér, og landid er komid undir vald þeirra, þá megid þér snúa aptur, og vera sýknir saka fyrir Drottni og fyrir Israel, og hafa þetta land til eignar. En ef þér ekki gjørid svo, sjá, þá hafid þér syndgad í móti Drottni, og munud fá ad kenna á synd ydar, sem mun finna ydur. Byggid ydur þess vegna borgir handa børnum ydar, og hús handa fénadi ydar, og gjørid alt, sem þér hafid sagt. Þá mæltu børn Gads og børn Rúbens vid Móses og søgdu: þjónar þínir munu gjøra eins og þú, herra minn, hefur bodid. Þess vegna gaf Móses sonum Gads, sonum Rúbens, og hálfri kynkvísl Manassis ríki Amórita konúngs og konúngsríkid Basan, landid ásamt øllum þeim borgum, sem þar voru umhverfis, innan takmarka landa þessara.

## 50. Mósis sídustu ord vid Israelslýd.

Og Móses taladi til alls Israelslýds, ádur hann skildist frá þeim, og sagdi: Drottinn, vor Gud, hefur talad til vor, og gefid oss løg á fjallinn Hóreb; þér vorud þar vid, og stódud fyrir nedan fjallid, en fjallid logadi alt í eldi upp í meginlopt, fylgdi þar med reykur, ský og þoka. Og Drottinn taladi vid ydur mitt úr eldinum; raust hans heyrdud þér, en sjálfan hann sáud þér ekki. Baud Drottinn mér þá, ad eg skyldi kenna ydur þau bod og tilskipanir, sem þér ættud ad breyta eptir. Gætid því nú vel sálna ydvarra; þér sáud einga mynd á þeim degi, þegar Drottinn taladi vid ydur; manuspillid ydur því ekki med því, ad til búa ydur nokkra líkneskju og tilbidja hana; og þegar þér lyptid augum ydar til himins, og litid sólina, túnglid og stjørnurnar, þennan mikla himinsins her, þá tilbidjid þetta ekki né dýrkid þad. — Heyr Israel, Drottinn, vor Gud, er sá eini Gud, og þú átt ad elska Drottinn, Gud þinn, af øllu hjarta þínu, allri øndu þinni, og øllum mætti þínum. O ad þér ætíd værud svo sinnadir, ad elska hann og halda øll hans bod alt ydar líf, svo ad ydur mætti

æfinlega vel vegna og børnum ydar. — Pad bod, sem eg í dag hefi lagt fyrir þig, er ekki svo erfitt fyrir þig, eda fjarlægt, eda uppi í himninum, svo þú þurfir ad segja: hver ætla ad fari fyrir oss upp í himininn, og sæki þad fyrir oss, og útlisti, svo vér getum breytt eptir því? Ekki er þad heldur hinu megin hafsins, svo þú þurfir ad segja: hver ætla fari yfir hafid fyrir oss, til ad sækja þad, og útlista fyrir oss, ad vér fáum breytt eptir því? Því þad bodord liggur mjøg nærri þér; þad er í þínum eigin munni og hjarta, svo ad þú getur þess vegna breytt eptir því. Sjá, eg legg fyrir þig í dag lífid og þad hid góda, daudann og hid vonda, med því eg bid þér í dag, ad þú skulir elska Drottinn, og gánga á hans vegum, og vardveita hans bodord, løgmál og setningar, svo þú megir lifa og fjølga, og Drottinn, þinn Gud, blessi þig í því landi, sem þú fer nú til ad eignast. Því ad þetta er ekki ófyrirsynju til ydar talad, heldur er ydar líf undir því komid. — Svo víkid nú hvorki til hægri né vinstri, heldur gætid þessa og gjørid þad; því ad þad mun koma á ydur ordi hjá øllum þjódum fyrir vísdóm og skynsemi, og þegar þær heyra øll

þessi boð, munu þeir segja: þetta er sannarlega vitur og skynsöm þjóð, og þar með næsta ágæt, að hún hefur svo réttvísar lagasetningar og boðorð, svo sem er alt þetta lögmál, sem eg í dag hefi lagt fram fyrir yður. — Sjá, Drottinn vitjaði þín í eyðimörkinni, á ávartarlausum eyðistað, þegar þú veinaðir; hann leiddi þig, og gaf þér sitt lögmál; hann varðveitti þig eins og sinn augastein; hann annaðist þig á öllum þessum vegi, eins og faðir annast son sinn; og hann leiddi þig inn í gott land; í það land, hvar vatnsföll eru, og uppsprettur, og stöðuvötn, sem spretta upp í dölum og á fjöllum; í það land, hvar nóg er af hveiti, byggi, vínviði, fíkjutrjám og kjarneplum, viðsmjörsvið og hunángi; í það land, þar sem þú ekki munt þurfa að eta brauð þitt með fátækt, og þar sem þig ekkert mun vanta; í það land, hvers steinar eru járn, og þar sem þú getur grafið koparinn úr fjöllunum. Þetta land er ekki eins og Egyptaland, hvaðan þér fóruð, hvar þú sjálfur máttir sá sæði þinn og vökva það, eins og annan kálgarð, heldur hefur það fjöll og dali, sem dögg af himni vökvar, og fyrir hverju Drottinn, þinn Guð, ber

umhyggju og hvers augu hans ávalt gæta, frá ársins byrjun til þess enda. Og ef þú þjónar Drottni af öllu hjarta og allri öndu, þá mun hann gefa landi þínu regn í tæka tíd, bædi vor og haust, svo þú getir safnad þér korni þínu, víni og vidsmjöri, og láta spretta nóg gras í högunum handa fénadi þínum, svo þú hafir nægilegt vidurværi. — En varadu þig, þegar þú hefir etid þig mettan, og bygt þér prýdileg hús ad búa í, og þú eflist ad nautum og saudum, silfri og gulli, og alls konar fjármunum, ad þú metnist þá ekki med sjálfum þér, og gleymir Drottni, Gudi þínum, sem leiddi þig úr Egyptalandi, því þrældómsfángelsi, og sem leiddi þig í gegnum hina miklu og hrædilegu eydimörk, þar sem voru eitradir höggormar og spordrekar, audn og vatnsleysi, og sem lét vatn buna fram af hardri hellu handa þér, og fæddi þig á manna, sem forfedur þínir ei þektu, svo ad hann audmýkti og reyndi þig, en gjördi þér svo vel til á eptir. Ekki skaltu hugsa med sjálfum þér: mín eigin orka og styrkur minna handa hafa aflad mér þessa; mundu heldur til Guds þíns, því ad hann er þad, sem veitti þér krapta til þessa. — Varid ydur

við því, að láta ekki hjörtu yðar tælast til, að falla frá, og þjóna annarlegum guðum og dýrka þá. Því ef þér nú, er þér alið börn og barnabörn og búið í landinu, sem Drottinn mun gefa yður, mannspillið yður með því, að gjöra líkneski eptir einhverri mynd, og breytið þannig illa í augum yðar Guðs, — þá kalla eg í dag bæði himin og jörð til vitnis í móti yður, að þér bráðum verðið afmáðir úr því landi, sem þér nú farið yfir Jórdan til að eignast; þér munuð ekki leingi lifa þar, heldur verða þaðan upprættir. Drottinn mun þá dreifa yður milli þjóðanna, svo að einúngis lítill hópur mun verða eptir af yður meðal heiðingjanna, hvar þér munuð þjóna þeim guðum, sem til búnir eru af manna höndum, bæði úr tré og steinum, og sem hvorki sjá, né heyra, né eta, né þefa. En ef þú leitar þar Drottins, Guðs þíns, þá muntu líka finna hann, svo framarlega sem þú leitar hans af öllu hjarta og allri öndu. Þú munt snúa þér aptur til hans, og hlýða hans raustu; því að Drottinn, þinn Guð, er miskunsamur Guð, hann mun ekki yfirgefa þig, né þér tortýna. — Svo innrætið nú þessi orð mín hjörtum yðar og sálum, og bindið

þau til merkis fyrir ofan hendur ydar, og þau séu minnisblød millum augna ydar; brýnid þau fyrir børnum ydar, og rædid um þau, bædi nær þér sitjid heima og erud á ferilsfæti, nær þér leggist fyrir og rísid upp; skrifa þau á dyrustafi þína og á borgarhlid þín. Sjá, himnarnir og allir himnanna himnar, jørdin og alt, sem á henni er, tilheyrir Drottni, Gudi þínum; þess-vegna skaltu elska Gud þinn, og halda hans bod alla æfi þína.

## 51. Móses sér hid fyrirheitna land og deyr.

Eptir ad Móses, þessi Guds madur, hafdi talad alt þetta og margt fleira, og í seinasta sinni lýst blessan yfir allan Israelslýd, bad hann til Drottins, og sagdi: Drottinn, Drottinn, þú hefur byrjad ad sýna þjóni þínum þitt mikla veldi og nád, lát mig fara og sjá hid góda landid hinu megin Jórdanar, þessi føgru fjøll fyrir nedan Líbanon. Og hann fór ad bodi Drottins af Móabíta velli upp á fjallid Nebó, á gnýpu fjallsins Pisga, á móts vid Jerikó. Þadan sýndi Drottinn honum alt landid Gilead, alt til Dan, og alt Júdaland alt til vesturhafsins, og allan sudurpart landsins,

og Jórdansdal, og dalverpid frá Jerikó, alt ad Sóar. Og Drottinn sagdi vid hann: þetta er landid, sem eg lofadi Abraham, Isak og Jakob, ad gefa nidjum þeirra. Þú hefur nú séd þad med þinum eigin augum, en ekki muntu sjálfur komast þángad yfir um. — Og Móses, sá Drottins þénari, andadist þar í Móabitalandi, eptir ordi Drottins, og hann var jardadur í dalverpi nokkru, í Móabítalandi, á móts vid Bet-Peor; en einginn madur veit til þessa dags, hvar grøf hans er. Og Móses var hundrad og tuttugu ára, þegar hann lézt; var honum þá ei farin ad førlast sýn, né máttur hans ad þverra. Og Israelsbørn hormudu hann í þrjátíu daga á Móabita vøllum; og þar med endudu gráts- og sorgar-dagar eptir hann. En aldrei sídan reis upp í Israel slíkur spámadur, sem Móses hafdi verid.

---

## 52. Jósúa.

Jósúa, sonur Núns, var gæddur miklum vísdóms anda, því ad Móses hafdi lagt hendur sínar yfir hann. Og Israelsbørn hlýddu honum. — Eptir fráfall Mósis sagdi Drottinn vid

Jósúa: þjón minn Móses er andaður; tak þig upp, og far yfir Jórdan, þú og alt þetta fólk, í það land, sem eg hefi gefið þeim, frá þessari eyðimörku og Líbanons fjalli til hafsins mikla gegnt vestri; það skulu vera landamerki yðar. Einginn skal geta mótstaðið þér um æfi þína; eg vil vera með þér, eins og eg var með Móse; aldrei skal eg yfirgefa þig, og ekki frá þér víkja. Vert hughraustur og ókvíðinn, og gjör í öllum hlutum eptir því lögmáli, sem þjón minn Móses bauð þér; vík þar frá hvorki til hægri né vinstri, svo þú breytir viturlega í öllu, sem þú gjörir, og þér heppnist vel öll þín fyrirtæki. Legg ekki þessa lögmálsbók frá þér, heldur hugsa um hana dag og nótt. — Þá skipaði Jósúa höfðingjum fólksins og sagði: farið um herbúðirnar, og bjóðið fólkinu, að hafa til reiðu veganesti, því að þriggja daga fresti skuluð þér fara yfir þessa Jórdan. En við kynkvíslir Rúbens, Gaðs og hálfa Manassis sagði hann: minnist þess, er Móses bauð yður, og sagði: Drottinn hefur veitt yður hvíld í landinu hérna megin Jórdanar; látið nú konur yðar, börn og kvikfénað verða þar eptir, en gángið sjálfir, allir sem vopnfærir eruð, búnir til bardaga á undan bræðrum yðar, og veit-

id þeim fulltingi, þángad til Drottinn líka veitir þeim hvíld, eins og ydur; þá megid þér snúa aptur í land ydvart, ad austanverdu vid Jórdan. Og þeir svørudu Jósúa og søgdu: vér skulum gjøra alt þad, sem þú hefur bodid oss, og fara, hvert sem þú sendir oss. Eins og vér í øllu hlýddum Móses, eins skulum vér og hlýda þér; veri Drottinn, þinn Gud, ad eins med þér, eins og hann var med Móses. Hver sem þverskallast gegn þér, og hlýdir ekki þínum ordum í øllu, sem þú býdur, skal vera dræpur. Vertu ad eins hughraustur og øruggur.

## 53. Njósnarmenn í Jerikó.

Jósúa hafdi sent leynilega tvo njósnarmenn frá Sittim, til ad skoda landid og borgina Jerikó. Þeir fóru þángad, og komu í hús skækju einnar, ad nafni Rahab, og gistu þar. Þetta var sagt konúnginum í Jerikó: sjá, nokkrir menn af Israelsfólki eru í nótt komnir ad njósna í landinu. Sendi Jerikós konúngur þá til Rahab, og lét segja henni: sel fram menn þá, sem til þín eru komnir í þitt hús, til ad njósna í landinu. En konan tók mennina báda og leyndi þeim, leiddi þá upp á þakid og faldi

þá þar undir vidarull, sem var breidd á þakid, og sagdi: satt er þad, menn komu til mín, en hvadan þeir voru, vissi eg ekki; og þegar loka skyldi borgarhlidunum í røkkrinu, fóru þeir; en ekki vissi eg, hvert þeir fóru; farid sem hradast eptir þeim, þá náid þér þeim. Og mennirnir fóru eptir þeim, á veginum til Jórdanar, alt ad ferjustadnum; en borgarhlidinn var læst, þegar leitarmennirnir voru út farnir. En ádur en komumenn geingu til hvílu, gekk Rahab til þeirra upp á þakid, og sagdi vid þá: eg veit, ad Drottinn hefur gefid ydur land þetta, þvi Drottinn, ydar Gud, er Gud himins og jardar. Sverjid mér því nú vid Drottinn, ad fyrst eg sýndi ydur miskun, þá skulud þér líka sýna miskun húsi fødur míns, og gefid mér þar um óbrygdult merki, ad þér viljid láta fødur minn og módur, brædur mína og systur, halda lífi, og alt hvad þeirra er, og frelsa oss frá dauda, þegar þér herjid á þessa borg. Þeir svørudu henni: vér viljum setja líf vort í ved fyrir ydur, ef þér ekki opinberid þetta erindi okkar; og ef Gud gefur oss land þetta, þá skulum vér endurgjalda þér med kærleika og trúfesti. Þá lét hún þá síga út um gluggann í festi, því ad hús

hennar var á múrveggnum, og hún bjó á sjálfum borgarveggnum. Og hún sagdi vid þá: farid upp á fjallid, svo leitarmennirnir hitti ydur ekki, og felist þar þrjá daga, þángad til þeir eru komnir aptur, og farid svo leidar ydar. Þeir søgdu vid hana: vér erum lausir eidsins, sem þú tókst af okkur, ef þú ekki, þegar vid komum inn í landid, hefur bundid í gluggann hid rauda band, sem þú lézt okkur síga nidur í, og saman kallad í hús þitt fødur þinn og alt hús fødur þins. Og gángi nokkur út af húsdyrum þinum, þá er hann sjálfur valdur ad dauda sínum, en vér sýknir; en verdi hønd løgd á nokkurn þann, sem er í húsi þinu, þá verdi okkur tilreiknadur daudi hans. Og ef þú opinberar þessi okkar erindi, þá erum vér líka lausir eidsins. Hún sagdi: veri þad, eins og þér segid, og lét þá fara. Og hún batt hid rauda band í gluggann. En þeir fóru, og komu upp á fjallid, og dvøldu þar í þrjá daga, þar til þeir voru komnir heim aptur, er veittu þeim eptirfør; því ad þeir høfdu leitad þeirra á øllum vegum, og ekki fundid. Þá hurfu þeir tveir menn aptur, og fóru yfir um Jórdan, komu til Jósúa, og søgdu honum frá øllu, er

þeim hafdi mætt. Þeir sögdu til Jósúa: Drottinn hefur gefid alt landid oss í hendur, því ad allir innbúar þess eru felmtsfullir fyrir oss.

## 54. For Gydinga yfir Jórdan.

Og Jósúa var snemma á ferli um morguninn, og þeir fóru frá Sittim og komu til Jórdanar. Og Jósúa sagdi vid fólkid: helgid ydur, því ad á morgun mun Drottinn gjöra dásemdarverk mitt á medal ydar. Skulud þér þar af sjá, ad lifandi Gud er med ydur, og ad hann mun út reka frá ydur þjódirnar úr landinu. Sjá, sáttmálsörk hans, sem er Drottinn allrar veraldar, mun fara á undan ydur yfir um Jórdan. Svo takid nú tólf menn af kynkvíslum Israels, einn af hverri ættkvísl. Og þegar prestarnir, sem bera sáttmálsörk Drottins, stíga fæti út á vatn Jórdanar, þá mun vatnid kljúfast, og þad, sem ad ofan kemur, standa sem veggur. Og þá skulu þeir tólf menn taka tólf steina úr Jórdan sér á herdar, úr þeim stad, sem prestarnir stódu, og bera þá med sér yfir um ána, og flytja þá þángad, þar sem þér hafid náttstad, ad þeir séu minnismerki hjá ydur; svo ad nær nidjar ydar á sídan spyrja

fedur sína, hvad steinar þessir merki, þá skuluð þér svara þeim: það, ad Jórdanarvøtn klufust fyrir sáttmálsørk Drottins, þegar hún fór yfir um Jórdan. — Þegar fólkid nú fór úr tjøldum sínum, og prestarnir, sem báru ørkina á undan fólkinu, komu ad Jórdan, og drápu fótum sínum fremst í vatnid — en Jórdan flóir allan uppskerutímann upp á bakka — þá stód vatnid, sem ad ofan kom, kyrt, og hóf sig sem veggur, en það sem rann nidur ad salta hafinu, rann alt burt til þurdar. Og prestarnir, sem báru sáttmálsørkina, stódu þannig á þurru, mitt í Jórdan, og allur Israel gekk yfir um á þurru, þar til alt fólkid var komid yfir um. Og þeir tólf menn tóku hver sinn stein med sér, eins og þeim hafdi verid bodid. Þegar nú allur lýdurinn var kominn yfir um, þá fór og ørk Drottins yfir um; og þegar prestarnir voru komnir upp úr Jórdan, og høfdu stigid fótum á þurt land, þá féll vatnid aptur í farveg sinn, og vard sem ádur bakkafull. Og Israelsmenn slógu tjøldum í Gilgal fyrir austan Jerikó; og Jósúa reisti þar þá tólf steina, sem þeir høfdu tekid úr Jórdan. Og þeir héldu páska í Gilgal, og átu nú aptur af landsins gróda, ósýrt braud

og steikt ox. Daginn eptir þraut manna, og þadan í frá hofdu þeir þad ekki, heldur átu þeir upp frá þessu ávoxtu Kanaanslands.

## 55. Jerikó unnin og hid annad af landinu.

1, Med þessu móti leiddi Drottinn Israelslýd inn í hid fyrirheitna land; og hann hjálpadi þeim mót ollum óvinum þeirra, sem vildu hindra þá frá, ad búa í Kanaanslandi. Þannig var líka konúngurinn í Jerikó þeirra bitur óvinur, og mótstodumadur Drottins; hann reiddi sig á sína oflugu múra, og stadurinn var læstur fyrir Israelsmonnum, svo eingin komst þar út né inn. En Drottinn sagdi vid Jósúa: sjá, eg hefi gefid Jerikó, konúng hennar og strídsmenn, í þitt vald. Lát alla strídsmenn þína gánga í kríngum borgina einu sinni á dag, og gjora svo í sex daga, en á sjounda degi, þá lát prestana bera þær sjo fagnadarbásúnur á undan orkinni, og gángid á þeim degi sjo sinnum í kríngum borgina, og lát prestana blása í básúnurnar. Og þegar þér heyrid hljóm básúnunnar, þá æpi fólkid mikid heróp, skulu borgarveggirnir þá hrynja, og fólkid komast inn, beint af augum. Og Jósúa gjordi

eins og Drottinn hafdi bodid honum; og þeir geingu sjø daga í kríngum borgina, en á sjøunda degi var blásid í básúnurnar, og fólkid æpti mikid heróp, hrundu múrarnir þá strar, og fólkid gekk inn í borgina, hver hid gegnsta fram frá sér. Þannig unnu þeir borgina. En Jósúa sagdi þeim tveimur mønnum, sem høfdu njósnad um landid: farid í hús skækjunnar, og leidid hana út og alla hennar, eins og þér sórud henni. Þá geingu þeir úngu njósnarmenn þar inn, og leiddu Rahab, fødur hennar og módur, brædur hennar og alla hennar ættmenn, út úr borginni, í herbúdir Israelsmanna. — Þegar konúngar þeir, sem bjuggu þessu megin Jórdanar, fréttu þetta, bædi þeir á fjalllendinu og sléttlendinu og á allri strønd hins mikla hafs, gjørdu þeir samband sín á milli, til strids mót Jósúa og Israelsmønnum, og svo þeir rækju þá úr landi því, sem Drottinn hafdi þeim gefid. En Jósúa vann sigur á øllum þessum konúngum med adstod Drottins, og lagdi undir sig alt landid, fjallbygdina, sudurlandid, Israelsfjall og þess undirlendi, frá Seir upp til Libanonsdals undir Hermonsfelli. Alt vann hann þad med herskildi. Eingin var sú borg, sem

gjørdi frid vid Israelsbørn, nema Hevítar, sem bjuggu í Gibeon; þeir gjørdu sáttmála vid þá.

2, Þannig var Drottinn med Jósúa, svo ad menn tøludu um hann í øllum løndum. Og hann fékk Israelsbørnum til eignar alt þad land, sem Drottinn hafdi gefid honum, hverri kynkvísl sinn part, eptir hlutkesti. En Levítarnir feingu eingan arfahluta í Israel, eins og Móses hafdi bodid, heldur lagdi hver kynkvísl af vid þá stadi, til ad búa í, og haglendi hjá hverjum stad, fyrir fénad þeirra; svo ad allir stadir Levíta innan um arfahluta Israelsbarna voru fjørutíu og átta med sínum beitarløndum umhverfis. — Einnig Kaleb, sonur Jefúnnis, gekk þá fyrir Jósúa, og sagdi: þú veizt, hvad Drottinn sagdi vid Móses í Kadesbarnea, áhrærandi mig og þig. Jeg var þá fertugur, þegar Móses þjón Drottins sendi mig, til ad kanna land þetta, og eg sagdi honum satt og rétt frá, eptir samvizku minni. Hinir, sem med mér fóru, tøldu kjark úr fólkinu, en eg fylgdi Drottni, Gudi mínum, trúlega. Þá sór Móses hinn sama dag, og sagdi: land þad, sem þú stést fæti á, skal vera þitt og þinna æfinleg eign, af því þú fylgdir Drottni trúlega.

Og sjá nú, Drottinn hefur látid mig lifa, eins og hann lofadi, í þessi fjørutíu og fimm ár, sem Gydingar hafa verid í eydimørkinni; og sjá, nú hefi eg fimm um áttrætt, og er þann dag í dag eins hraustur og þegar Móses sendi mig; eins og mín orka var þá, eins er hún enn, til ad berjast, og gegna mínum dag-legu størfum. Gef mér nú þessa fjallbygd, sem Drottinn lofadi þann dag; því ad þú heyrdir þá, ad Enakar eru þar, sem búa í stórum og víggirtum stødum. Máske Drottinn veiti mér fulltingi, svo eg fái út rekid þá, eins og hann hefur lofad. Og Jósúa blessadi Kaleb og gaf honum Hebron til eignar. En Hebron var fyrrum kallad Arba-borg, eptir mikilmenni einhverju medal Enakanna. En Jósúa, syni Núns, gáfu Israelsborn, ad bodi Drottins, þann stad, sem hann sjálfur kaus, Timnat-Sera, á Efraims fjalli. Hann víggirti þá borg, og bjó þar sídan. — Svo gaf Drottinn Israelsmønnum frid vid allar þjódir alt um kring, og einginn óvina þeirra fékk þeim mót-stødu veitt. Og ekkert af þeim fyrirheitum brást, sem Drottinn hafdi þeim gefid, heldur rættust þau øll. — Þá kalladi Jósúa Rúbens,

Gads og þá hálfu Manassis ættkvísl fyrir sig, og sagði við þá: dyggilega hafið þér hlýtt öllu því, sem Móses, Drottins þjón, bauð yður; mér hafið þér og í öllu hlýðnir verið. Alt fram á þennan dag, í sjø ár, hafið þér fylgi veitt bræðrum yðar, og varðveitt hlýðni við boðorð Guðs. Þar eð Drottinn nú hefur gefið bræðrum yðar hvíld, þá farið þér til baka til tjalda yðvarra og yðar eignarlands, hinu megin Jórdanar. Gætið þess einúngis, að þér elskið Drottinn, yðar Guð, gángið á øllum hans vegum, geymið hans boð, og haldið yður fastlega til hans af øllu hjarta og allri sálu. Síðan blessaði Jósúa þá, og gaf þeim fararleyfi; og þeir fóru til tjalda sinna. — Og Israelsmenn grófu bein Jóseps, sem þeir høfðu flutt frá Egyptalandi, í Sikem, í akurlendi því, sem Jakob hafði keypt af niðjum Hemors, føður Sikems, og sem varð eign Jóseps niðja.

3, Og það skeði eptir þetta, að Jósúa, þjón Drottins, andaðist, þegar hann hafði tíu um tírætt. Og hann var jarðaður á landamerkjum hans erfðaparts, á Efraims fjalli. Og fólkið þjónaði Drottni svo leingi sem Jósúa lifði, og þeir elztu voru á lífi, sem lifðu leingi

eptir hans dag, hverjir ad séd höfdu öll þau miklu verk, er Drottinn hafdi gjört vid Israel.

---

## 56. Dómarar í Israel.

Þegar nú allir þeir, sem höfdu lifad á þeim tíma, voru safnadir til sinna fedra, kom upp eptir þá annar ættlidur, sem gleymdi Gudi, og þeim verkum, sem hann hafdi gjört vid Israel. Og Israelsmenn gjördu ilt fyrir augum Drottins, og adhyltust gudi þeirra þjóda, sem bjuggu í kringum þá, og tilbádu þá. Og Kananítar bjuggu mitt á medal þeirra, og þeir geingu ad eiga dætur þeirra, og gáfu sonum þeirra dætur sínar, og þjónudu gudum þeirra og þeirra helgu lundum, og urdu líka lastafullir, eins og þeir. Og þar þeir ekki létu af þeirra vonda háttalagi og þeirra þverúd, þá hjálpadi Drottinn ekki framar þessu spilta fólki móti heidingjum, heldur seldi þá í hendur óvina þeirra, svo þeir gátu ekki framar veitt þeim mótstödu. En svo opt sem þeir alvarlega idrudust synda sinna, og sáu ad sér, uppvakti Drottinn d ó m a r a medal þeirra, sem frelsudu þá úr hendi óvina þeirra. Og dómarinn

dæmdi Israel, medan hann lifdi, og fólkid kom til hans til ad sækja rétt sinn; i stridi var hann þeirra fyrirlidi mót óvinum þeirra. Hinir fyrstu dómarar voru Otniel, Ehúd og Samgar.

## 57. Debóra.

En Israelsmenn héldu á fram ad gjøra ilt í augum Drottins; og hann seldi þá i hendur Jabins, Kananita konúngs, sem rikti i Hasor; en Sisera var hershøfdingi hans. Og Israelsbørn hrópudu til Drottins, þvi ad Sisera hafdi níu hundrud járnslegna vagna, og hafdi undirokad Israelsbørn med ofbeldi i tuttugu ár. Á þessum tíma var Debóra, dómari i Israel; hún bjó undir Debóru-pálmatré millum Rama og Betel, á Efraimsfjalli, og Israelsbørn fóru þángad upp til hennar, til ad sækja rétt sinn. Hún sendi til Baraks, sonar Abinóams, og lét segja vid hann: hefur ekki Drottinn, Israels Gud, skipad þér: „far upp á fjallid Tabor, og tak med þér tíu þúsundir manns af børnum Naftalis og Sebúlons; eg vil gefa Sisera, hershøfdingja Jabins, i hendur þér hjá læknum Kison, ásamt vøgnum hans og øllum hans her." Barak svaradi: ef þú ferd med mér,

vil eg fara; en ef ekki, þá fer eg hvergi. Tók Debóra sig þá upp, og fór með Barak til Kedes, og með þeim tíu þúsundir manns. Þegar nú Sísera fékk að vita, að Barak var kominn á fjallið Tabor, tók hann sig upp með sínum níu hundruð járnvögnum og öllum sínum her, og fór til Kíson. Og Debóra sagði við Barak: rís þú upp, því að þetta er sá dagur, á hverjum Drottinn gefur Sísera í hendur þér; því að Drottinn mun fara á undan þér. Svo fór Barak niður af fjallinu Tabor og þær tíu þúsundir manna með honum. Og Drottinn rak á flótta Sísera og alla hans vagna fyrir sverðseggjum Baraks; svo að Sísera stökk af vagni sínum, og flúði undan á fæti. En Barak elti vagnana og herinn alt til Haróset, og allur herinn féll fyrir sverðseggjum hans. En Sísera flúði á fæti í tjaldbúð Jaels, húsfreyu Hebers, hjá eikinni í Saanaim. Og Jael gekk út í móti honum, og sagði við hann: kom inn, herra minn, kom inn til mín, og vertu óhræddur. Og hann kom inn til hennar í tjaldbúðina, og hún lagði ábreiðu yfir hann. Hann sagði þá til hennar: gef mér lítið vatn að drekka, því mig þyrstir. Hún leysti þá frá mjólkurbelg og

gaf honum ad drekka, og breiddi sídan ofan á hann aptur. Og hann sagdi vid hana: stattu úti í tjalddyrunum, og komi einhver, sem spyr, hvort hér sé nokkur, þá seg þú, ad hér sé eing-inn. Sídan sofnadi hann. Þá tók Jael, kona Hebers, tjaldhæl og hamar í hønd sér, gekk hljódlega inn til hans, rak hælinn í gegnum gagnaugu hans, svo ad hann nam stadar í jørdu, (því ad hann lá í fasta svefni og var þreyttur) og hann dó. Og sjá, ad Barak sótti eptir Sísera; þá gekk Jael út í móti honum, og sagdi til hans: kom hingad; svo skal eg sýna þér þann mann, sem þú leitar eptir. Og hann gekk inn til hennar, og sjá, Sísera lá þar daud-ur, og hællinn stód í gegnum gagnaugu hans. Á þennan hátt nidurbeygdi Gud á þeim tíma Jabin, konúng Kananita, fyrir Israelsbørnum, og þeirra hønd vard þýngri og þýngri á hon-um, uns þeir loksins gjørdu út af vid hann.

Þá súngu Debóra ag Barak þennan lof-saung: „Hefndir, já hefndir eru ordnar fyrir „Israel; fólkid var fúst þar til, lofid Drottinn! „Heyrid, þér konúngar, hlustid til, þér høfdingjar. „Jeg vil sýngja Drottni, lofsýngja vil eg Drottni, „Gudi Israels. — Drottinn, þegar þú fórst

„út frá Seir, þegar þú gekkst út frá Edoms-
„völlum, þá hristist jörðin, himnarnir drupu, já,
„úr skýunum streymdi vatnið. Fjöllin runnu burt
„fyrir Drottni, sjálft Sinai fyrir Drottni, Guði
„Israels. — Konúngar komu og stríddu í móti
„oss, konúngar Kananíta stríddu ákaflega, en
„þeir feingu ekkert herfáng. Af himnum var bar-
„izt móti þeim, stjörnurnar frá brautum sínum
„stríddu í móti Sisera. Lækurinn Kison skolaði
„þeim burt, eldgamli lækurinn, lækurinn Kison.
„Þá slitnuðu hófar hestanna af reiðinni, af reið
„kappanna. Við fætur Jaels féll Sisera niður,
„við fætur hennar hné hann niður, steindauður.
„— Móðir Siseras leit út um gluggann, hún
„kallaði í gegnum gluggagrindurnar: „„hví seink-
„ar vagni hans svo mjög, að hann kemur ekki?
„Hví er vagngánga hans svo sein?““ Þær vitru
„höfðingskonur hennar svöruðu, og hún sjálf
„sjálfri sér þannig: „„ætli þeir finni ekki
„herfáng, og séu nú að skipta því? Sérhverjum
„manni einni stúlku eður tveimur? Já, Sisera
„sjálfum að herfángi litklæðum, útsaumuðum
„beggja vegna um hálsmálið?““ — O, þannig
„fyrirfarist allir þínir óvinir, Drottinn! En

„þeir, sem hann elska, verdi sem sólin, þegar „hún brunar fram í krapti sínum!“

## 58. Gídeon.

1, En er Ísraelsbørn gjørdu aptur ilt fyrir augum Drottins, þá gaf hann þá í hendur Midianíta í sjø ár. En sem hønd þeirra vard of þúng á Ísrael, gjørdu Ísraelsbørn sér fylgsni á fjøllum uppi, hella og vígi. Og þegar Ísrael sádi nokkru, þá komu Midianítar og þeir austan ad, settu tjøld sín gagnvart þeim, gjøreyddu ávexti landsins, og skildu Ísrael einga bjørg eptir; því ad þeir komu upp þángad med fénad sinn og tjøld, sem eingisprettur ad fjølda, svo ekki vard tølu komid á þá, né úlfalda þeirra. Þá hrópudu Ísraelsbørn til Drottins, og hann bænheyrdi þá. Eingill Drottins kom, og settist undir eikina í Ofra, sem tilheyrdi Jóas, af kynkvísl Manassis. En sonur hans Gídeon var ad þreskja hveiti í pressu, svo hann gæti flutt þad burt frá augum Midianíta. Þá birtist honum eingill Drottins, og sagdi vid hann: Drottinn er med þér, þú strídskappi! Þá sagdi Gídeon vid hann: æ, herra minn, ef Drottinn er med oss, því hefur þá alt þetta komid fram

vid oss? Og hvar eru allar þær dásemdir hans, sem forfedur vorir hafa skýrt oss frá, segjandi: hefur Drottinn ekki leitt oss úr Egyptalandi? En nú hefur Drottinn yfirgefid oss, og selt í hendur Midianitum. Þá sneri eingillinn sér til hans, og sagdi: far af stad í þessum þínum styrkleika, og þú skalt frelsa Israel af hendi Midianita. Sjá, eg hefi sent þig. En hann sagdi vid hann: æ herra minn, med hverju skal eg frelsa Israel? Minn ættleggur er sá minsti í Manasse, og eg er sá ýngsti í húsi fødur míns. Og eingillinn sagdi vid hann: eg vil vera med þér, og þú munt sigra Midianita, sem væru þeir einn madur. En hann sagdi vid hann: hafi eg fundid nád fyrir þínum augum, þá gjørdu eitt teikn fyrir mér um þad, sem þú talar vid mig. Eg bid þig: far ekki burt, fyr en eg kem aptur til þín, og færi þér gáfu mína, og set hana fram fyrir þig. Hann svaradi: eg vil bída, þángad til þú kemur aptur. Og Gideon fór, og slátradi hafurkidi, og er hann hafdi matreitt þad, og búid til ósýrdar køkur úr einum mæli mjøls, lagdi hann kjøtid í kørfu, en lét sodid í pott, og kom med þetta út til hans undir eikina, og bar þad fram.

Þá sagdi eingill Guds vid hann: tak kjøtid og hid ósýrda braud, og legg þad upp á klett þennan, en steyp sodinu út. Og hann gjørdi svo. Þá rétti eingill Drottins út staf þann, sem hann hafdi í hendi, og snart kjøtid og hid ósýrda braud med enda stafsins; og eldur spratt upp af klettinum, og eyddi fórninni. Og eingillinn hvarf frá augum hans. Sem nú Gideon sá, ad þad var eingill Drottins, sagdi hann: ó Drottinn, Drottinn, þar eg hefi séd eingil Drottins, augliti til auglitis, hlýt eg ad deya. En Drottinn sagdi vid hann: fridur sé med þér! Vertu óhræddur, ekki skaltu deya. Þá bygdi Gideon Drottni þar altari, og þad stendur enn til þessa dags í Ofra. Og þad skedi hina sømu nótt, ad Drottinn sagdi vid hann: tak einn af urum fødur þíns, og brjót nidur þad Baals altari, sem tilheyrir fødur þínum, og høgg upp lundinn, sem þar er hjá; og bygg Drottni, Gudi þínum, altari efst á kletti þessum, á hagkvæmum stad, og tak urann, og offra brennifórn med trjánum úr lundinum, sem þú skalt upp høggva. Þá tók Gideon tíu menn af þénurum sínum, og gjørdi svo sem Drottinn hafdi sagt honum; en af því hann þordi ekki, vegna

húss födur síns og vegna fólksins í stadnum, ad gjöra þad á degi, þá gjördi hann þad um nótt. Þegar nú fólk stadarins reis árla upp um morguninn, sjá, þá var altari Baals nidur brotid, og lundurinn, sem þar var hjá, upp höggvinn, og uxi lá sem brennifórn á altari Drottins, sem upp bygt hafdi verid. Þá sagdi hver vid annan: hver hefur gjört þetta? En sem þeir höfdu ransakad þad og eptir grenslazt, sögdu þeir: Gídeon, sonur Jóas, hefur gjört þad. Þá sagdi fólkid í stadnum vid Jóas: sel son þinn fram; hann skal deya, af því ad hann hefur brotid nidur altari Baals, og höggvid upp lundinn. Þá sagdi Jóas vid alla þá, sem hjá honum stódu: viljid þér taka upp mál fyrir Baal? Viljid þér hjálpa honum? Hver sem reisir þrætur hans vegna, sá skal deya á þessum morgni. Ef hann er Gud, þá sæki hann sjálfur sín vegna þann, sem hefur brotid nidur altari hans.

2, Og allir Midíanítar og Amalekitar, og fólk austan ad, höfdu safnazt saman, og voru komnir yfir um Jórdan, og höfdu sett tjaldbúdir sínar í Jesreels dal. Þá kom Guds andi yfir Gídeon, og hann lét blása í básúnur,

og kvaddi ættíngja sína til fylgdar sér. Og hann sendi boð til allrar ættkvíslar Manassis, til Asser og Sebúlon og Naftali, og þeir komu til móts við hann. Og hann tók sig snemma upp, og alt fólkið, sem með honum var, og settu herbúðir hjá brunninum Haród. En Drottinn sagði við Gídeon: fólkið er of margt, sem með þér er, til þess eg gefi Midíaníta í hendur þeim. Israel kynni þá að stæra sig og segja: mín hönd hefur frelsað mig. Láttu því útkrópa fyrir eyrum fólksins, og segja: hver sem óttasleginn er og hræddur, hann snúi til baka og flýti sér frá fjallinu Gílead. Svo sneru þá aptur af fólkinu tuttugu og tvær þúsundir, og að eins tín þúsundir urðu eptir. Og Drottinn sagði við Gídeon: enn nú er fólkið of margt. Eg vil útvelja handa þér þrjú hundruð manns af öllu fólkinu, og með þeim þremur hundruðum vil eg frelsa yður; en lát alt hitt fólkið fara heim til sín. Og Gídeon gjörði, eins og Drottinn hafði boðið honum. Hann lét alla hina aðra Israelíta fara, hvern til sinna tjaldbúða, og hélt einúngis eptir þeim þremur hundruðum. En her Midíaníta var þar fyrir neðan hann í dalnum. Og Drottinn sagði við hann

hina sömu nótt: farðu á fætur, og gakk niður til herbúða óvinanna, því að eg hefi gefið þá í hendur þér. En ef þú þorir ekki að fara einn, þá lát svein þinn, Púra, fara með þér til herbúðanna, svo þú heyrir, hvað þeir segja. Síðan skaltu fara til þeirra með allan þinn her. Þá fór Gideon og sveinn hans Púra til hinnar yztu raðar stríðsfólksins, sem þar var í herbúðunum. En Midianitar og Amalekitar höfðu lagzt þar í dalnum, svo margir sem eingisprettur, og úlfaldar þeirra voru óteljandi fyrir fjölda sakir, eins og sandur við sjáfarströnd. Þegar nú Gideon kom, sjá, þá var einn að segja öðrum draum, og sagði: sjá, mig dreymdi, að bökuð byggbrauðskaka veltist að herbúðum Midianita; og sem hún kom til aðaltjaldsins, laust hún á það, og varpaði því um koll, svo það vissi niður, sem upp átti. Þá svaraði hinn annar: það þýðir ekkert annað, en sverð Gideons, sonar Jóas, Israelita; Guð hefur gefið Midianita í hönd hans, ásamt öllum her þeirra. Þegar Gideon heyrði drauminn sagðan, og ráðningu hans, baðst hann fyrir, og fór aptur til herbúða Israels, og sagði: takið yður upp, því að Drottinn hefur gefið her Midi-

anita í hendur ydar. Og hann skipti þeim þremur hundrud mønnum í þrjá flokka, og fékk þeim øllum básúnur í hønd og tómar krúsir, med logandi blysum í. Og hann sagdi til þeirra: horfid á mig, og sjá, þegar eg kem til hins yzta af herbúdunum, þá gjørid eins og þér þá sjáid mig gjøra. Nær eg blæs í básúnuna, og allir þeir, sem med mér eru, svo skulud þér líka blása í básúnurnar alt í kringum herbúdirnar, og segja: Drottinn og Gideon! Svo kom Gideon og þeir hundrad menn, sem med honum voru, til hins yzta af herbúdunum, vid byrjun midnæturvaktarinnar, rétt í því þeir ad eins voru búnir ad setja vaktina, blésu í básúnurnar og brutu krúsirnar. Og allir þrír flokkarnir blésu undir eins í básúnurnar og brutu krúsirnar. Og þeir héldu á blysunum í vinstri hendi, en á básúnunum í hinni hægri, blésu í þær og hrópudu: sverd Drottins og Gideons! Og þeir stódu hver á sínum stad í kringum herbúdirnar. Þá tók allur herinn á rás, æpti og flúdi; og sérhvers sverd snerist í móti ødrum um allar herbúdirnar. Og herinn flúdi til Bet-Sitta, og Israelsmenn voru kalladir saman af Naftali og Asser og Manassis

ættkvísl, til ad veita þeim eptirfor. Og Gídeon sendi bod um Efraimsfjall og lét segja þeim: komid nidur í mót Midianitunum, og sitjid fyrir þeim vid øll vøtn, og vid Jórdan. Svo voru saman kalladir allir menn frá Efraim, og þeir sátu fyrir þeim vid øll vøtu, og tóku til fánga tvo af høfdingjum Midianita. Og þeir frá Efraim søgdu vid Gídeon: hví breyttir þú svo vid oss, ad þú kalladir oss ekki, þegar þú fórst ad strída móti Midianitum? Og þeir þráttudu ákaflega vid hann. En hann sagdi vid þá: hvad hefi eg gjørt, sem jafnist vid ydar verk? Er ekki einn vínkvistur Efraims betri, en øll vinyrkja Abiesers? Gud gaf høfdingja Midíanita í ydar høud; hvernig mundi eg hafa orkad því, sem þér gjørdud? Þegar hann hafdi þetta mælt, sefadist reidi þeirra í móti honum.

3, Og Gídeon kom ad Jórdan, og fór yfir hana med þeim þrem hundrud mønnum, sem med honum voru. En þeir voru ordnir þreyttir ad elta óvinina. Og hann sagdi til fólksins í Súkot: æ, gefid fólkinu, sem fylgir mér, nokkud af braudi, því þad er þreytt ordid, þar eg er ad elta Seba og Salmúna, kon-

únga Midianita. En höfdingjarnir í Súkot svörudu: eru Seba og Salmúna nú þegar svo í þínum höndum, ad vér þurfum ad gefa her þínum braud! Gideon svaradi: nú vel, þegar Drottinn gefur þá Seba og Salmúna í hendur mínar, þá skal eg tæta sundur hold ydar med þyrnum af eydimörku og þistlum. Og hann fór þadan upp til Pnúel, og taladi til fólksins þar á sama hátt; en þad svaradi honum eins og þeir í Súkot. Og hann sagdi vid þá: þegar eg kem til baka med fridi, skal eg brjóta nidur kastala þennan. En þeir Seba og Salmúna voru í Karkór, og her þeirra med þeim, hér um 15 þúsundir, sem ad eins voru eptir af öllum hernum austan ad; því ad hundrad og tuttugu þúsundir vopnfærra manna voru fallnar. Og Gideon fór upp veginn til þeirra, sem búa í tjöldum, gegnt austri, og lagdi her Midianita ad velli, þegar hann var óvar um sig. En Seba og Salmúna flúdu, og hann elti þá og hertók þá, en skaut skelk í bringu öllum her þeirra. — Þegar nú Gideon kom til baka frá orustu þessari, fyrir sólaruppkomu, þá tók hann til fánga úngan mann frá Súkot, til ad adspyrja hann; og hann skrifadi upp fyrir

hann alla höfdíngjana í Súkot og öldúngana þar, sjötíu og sjö ad tölu. Og sem hann kom til Súkot, sagdi hann: sjáid, hér eru nú þeir Seba og Salmúna, fyrir hverja þér hæddud mig, segjandi: eru Seba og Salmúna nú þegar svo fallnir í hendur þínar, ad vér þurfum ad gefa mönnum þínum, sem þreyttir eru, braud? Og hann tók öldúngana úr borginni, og refsadi þeim med þyrnum úr eydimörkinni, og lét þá kenna á sinni hegníngu; og kastalann í Pnúel braut hann nidur. Og hann sagdi vid Seba og Salmúna: hvernig voru þeir menn upp á ad sjá, sem þid drápud í Tabor? Þeir svörudu: eins og þú; þeir báru svip, sem þeir væru konúngssynir. Þá sagdi hann: þad hafa verid brædur mínir, synir módur minnar. Svo sannarlega sem Drottinn lifir, ef þid hefdud gefid þeim líf, skyldi eg ekki hafa slegid ydur í hel. Og hann sagdi til Jeters, síns frumgetna sonar: stattu upp, og sládu þá í hel. En pilturinn dró ekki sverd sitt úr slídrum, því ad hann vard hræddur, þar ed hann enn nú var únglingur. En Seba og Salmúna sögdu: stattu sjálfur upp, og vinn á oss; því ad eins og madurinn er, eins er orka hans. Stód þá Gídeon upp og sló Seba og Salmúna í hel.

Þá sagdi hver madur í Israel til Gideons: drottna þú yfir oss, bædi þú og sonur þinn og sonarsonur, því þú hefur frelsad oss af hendi Midianita. En Gideon svaradi þeim: ekki vil eg drottna yfir ydur, og minn sonur skal ekki heldur yfir ydur drottna; Drottinn skal drottna yfir ydur! — Þannig máttu nú Midianitar lúta í lægra haldi fyrir Israelsbörnum, og þeir gátu aldrei uppreisn feingid eptir þetta, og landid hafdi frid í fjörutíu ár, medan Gideon lifdi, og var dómari. Og Gideon átti sjötíu syni, því ad hann hafdi margar konur, og dó í gódri elli, og var grafinn í gröf födur síns í Ofra.

## 59. Abi-Melek.

1, En sem Gideon var daudur, sýndu Israelsbörn ekki miskun vid hans hús fyrir alt þad góda, er hann hafdi audsýnt þeim. Og Gideon átti son vid hjákonu sinni, er hann átti í Sikem, sem hét Abi-Melek. Og Abimelek fór til Sikem til módurbrædra sinna, og taladi vid þá og alla ættingja módur sinnar, og sagdi: talid þetta fyrir eyrum allra manna í Sikem: hvort er ydur betra, ad sjötíu menn, allir synir Gideons, drottni yfir ydur, eda ad einn madur gjöri

það? Minnist þess og, að eg er yðar hold og bein. Þá töluðu móðurbræður hans öll þessi orð hans fyrir eyrum allra manna í Sikem, og hjörtu þeirra hneigðust til Abimeleks, því að þeir sögðu: hann er vor bróðir. Og þeir gáfu honum sjötíu sikla silfurs úr húsi Baal-Berits, og Abimelek leigði fyrir þetta óvandaða landhlaupara, sem fylgðu honum. Og hann fór í hús föður síns í Ofra, og drap bræður sína, sonu Gídeons, sjötíu manns á einum steini. En Jótam, yngsti sonur Gídeons, varð eptir, því að hann hafði falizt. Og allir menn í Sikem, og í kastalanum þar, söfnuðust nú saman, fóru og hyltu Abimelek til konúngs hjá lundi þeim, er stendur hjá Sikem. En er Jótam heyrði það, fór hann upp á hæstu nýpu fjallsins Grísim, hóf upp rödd sína, hrópaði og sagði til þeirra: heyrið mig, þér menn í Sikem, svo að Guð líka heyri yður! „Einu sinni fóru trén að taka konúng yfir sig, og sögðu við viðsmjörsviðinn: vertú vor konúngur! Viðsmjörsviðurinn svaraði: skal eg yfirgefa feitleika minn, með hverjum heiður skal veitast bæði Guði og mönnum, og fara að drottna yfir trjánum? Þá sögðu trén til fíkjutrésins: kom þú, og vertú

vor konúngur! En fíkjutréd svaradi þeim: skal eg yfirgefa sætleika minn og hinn góda ávørt minn, og fara ad sveima upp yfir trjánum? Þá søgdu trén vid vínvidinn: kom þú, og vertú vor konúngur! En vínvidurinn sagdi til þeirra: skyldi eg yfirgefa vøkva minn, sem gledur bædi Gud og menn, og fara ad sveima yfir trjánum? Þá søgdu øll trén vid þyrnibúskinn: kom þú, og vertú vor konúngur! En þyrnibúskurinn svaradi trjánum: ef þad er alvara ydar, ad hylla mig til konúngs yfir ydur, þá komid og skýlid ydur undir skugga minum; en ef ekki, þá komi eldur af þyrnibúskinum, og eydi sedrustrjánum á Libanon. Nú ef þér hafid sýnt trúskap og hreinskilni i því, ad gjøra Abimelek ad konúngi, og ef þér hafid gjørt vel vid Gideon og hans hús, og breytt vid hann, eptir sem hann hafdi unnid til af ydur, þar ed fadir minn hádi strid ydar vegna, og lagdi lif sitt i hættu, til ad frelsa ydur frá hendi Midianita, en þér hafid þó i dag risid upp í móti húsi fødur míns, og slegid i hel syni hans, sjøtín á einum steini, og gjørt Abimelek, son ambáttar hans, ad konúngi yfir ydur, ef þér i þessu hafid breytt med trúskap og hreinskilni vid Gideon og hans hús,

þá látid ydur þykja vænt um Abimelek, og honum vænt um ydur. En ef ekki, þá gángi eldur út fra Abimelek, og eydileggi fólkid í Sikem og í kastalanum þar; og eldur frá fólkinu í Sikem og frá kastalanum þar eydileggi Abimelek"! Þegar Jótam hafdi þetta sagt, flúdi hann burt, og fór til Beer og bjó þar, á laun vid Abimelek bródur sinn.

2, En sem Abimelek hafdi drottnad þrjú ár yfir Israel, þá sendi Gud sundurlyndisanda milli hans og ibúanna í Sikem, og þeir rufu trygdir vid hann. Kom þannig yfir hann og þá, sem höfdu styrkt hann, til ad slá brædur sína í hel, straff fyrir þetta illvirki þeirra. En menuirnir í Sikem voru vondir, og settu launsátur hæst á fjöllum uppi, sem skyldi ræna alla, sem færu þar um; og þad var sagt Abimelek. Sidan fóru þeir út á morkina, söfnudu berjum af vinvidi sínum, pressudu þau, og héldu gledihátíd, fóru í hús afguda sinna, átu þar og drukku, og bannsúngu Abimelek. Og Gaal Ebedsson sagdi: hver er Abimelek, og hver er Sikem, ad vér skulum vera þjónar hans? Þjónid heldur nidjum Hemors, födur Sikems; hví skulum vér þjóna honum? Jeg vildi, ad þetta

fólk vildi gefa sig undir mína hönd, þá skyldi eg sannarlega burtrýma Abímelek. Þegar Sebúl, jarl Abimeleks í Sikem, heyrdi ord Gaals, fyltist hann reidi, sendi á laun bod til Abimeleks, og lét segja honum: sjá, Gaal og brædur hans eru komnir til Sikem, og upp æsa stadinn í móti þér. Tak þig þess vegna upp um nótt med því fólki, sem hjá þér er, og ligg í launsátri fyrir þeim á mörkinni; og ad morgni, tak þig árdeigis upp, um sólaruppkomu, og fall yfir stadinn. Og Abimelek fór af stad um nótt, og fór til Sikem í fjórum fylkingum; og sem dagadi, reis hann upp úr launsátrinu. Og Gaal fór út og stód vid borgarhlidid, og er hann sá fólk Abimeleks, sagdi hann vid Sebúl: sjá, þar kemur fólk ofan af fjallahædunum. Þá sagdi Sebúl: þér sýnist fjallaskugginn vera fólk. Og Gaal sagdi enn fremur: sjá, þad kemur líka fólk mitt nidur af landinu, og einn hópurinn kemur á veginum til spásagnarlundsins. Þá sagdi Sebúl vid hann: hvar er nú munnur þinn, sem sagdi: hver er Abimelek, ad vér séum þjónar hans? Er ekki þetta fólk þad, sem þú fyrirleizt? Fardu út, og berstu vid þad. Svo fór þá Gaal út, sem fyrirlidi þeirra Sikemíta, og bardist vid Abímelek. Og Abimelek

sótti svo hart á hann, ad hann flúdi fyrir honum, og þar féll fjøldi manns í hel sleginn alt ad borgarhlidinu; og Sebúl rak út Gaal og brædur hans úr Sikem. Næsta dag herjadi Abimelek á sjálfan stadinn, allan þann sama dag, vann hann, og sló fólkid í hel, sem þar var inni, braut stadinn í grunn nidur, og sádi yfir hann salti. Þegar nú þeir, sem voru í Sikems kastala, heyrdu þetta, geingu þeir inn í festingu þá, sem var vid hof gudsins Berit. En sem Abimelek fékk þad ad vita, fór hann upp á fjallid Salmon med øllu fólki sínu, tók øxi í hønd sér, hjó eina grein af trjánum, lypti henni upp, lagdi hana á herdar sér, og sagdi til fólksins, sem med honum var: þad sem þid sáud, ad eg gjørdi, þá flýtid ydur nú og gjørid hid sama. Þá hjó alt fólkid líka hver sína grein, fylgdi Abimelek, bar vidinn upp ad turninum, og lagdi med þessu eld í hann, svo ad allir menn í kastalanum Sikem dóu, hér um þúsund karla og kvenna. En Abimelek fór til Tebes, setti herbúdir umkríng hana, og vann hana. En þar var sterkur kastali mitt í stadnum; þángad flúdu allir, karlar og konur, já, alt folkid í stadnum, læstu eptir sér og stigu upp

á þakid á kastalanum. Þá kom Abimelek ad kastalanum og herjadi á hann, og hann gekk nærfelt ad dyrum kastalans, því ad hann vildi brenna hann upp med eldi. En kona nokkur kastadi kvarnarsteinsbroti í höfud honum, og braut hauskúpu hans. Þá hrópadi Abimelek á skjaldsvein sinn og sagdi vid hann: drag sverd þitt og drep mig, svo menn segi ekki um mig: kona sló hann í hel. Þá lagdi sveinn hans hann í gegn, svo hann dó. Þannig komu þá yfir Abimelek og yfir Sikemsmenn óbænir Jótams, sonar Gideons.

## 60. Samson.

1, Eptir Abimelek risu upp sem dómarar, til ad dæma Israel, Tóla, Jair, Jepta og fleiri. En Israelsmenn héldu á fram ad gjöra ilt í augliti Drottins, og hann gaf þá í hendur Filisteum í fjörutíu ár. — En þar var madur nokkur í Sóra af Dans ætt, ad nafni Manóa, og kona hans fæddi honum eingin börn. Og þad skedi einn dag, er hún var á mörkinni, ad hún kom hlaupandi til manns síns, og sagdi: þad kom gudsmadur nokkur til mín, og yfirbragd hans var sem eingils Guds, mjög óttalegt, svo eg spurdi hann ekki, hvadan hann

kæmi, og ei heldur sagdi hann mér nafn sitt. En hann sagdi vid mig: þú munt verda ólétt og son fæda; hann mun verda voldugur í Ísrael, og byrja ad frelsa fólkid frá hendi Filistea. Og sem eingill Drottins birtist aptur, spratt Manóa upp, gekk eptir konn sinni á morkina, kom til mannsins, og sagdi vid hann: ertú madurinn, sem taladi vid konuna? Hann svaradi: já. Þá sagdi Manóa: leyf okkur ad halda þér nokkurn tíma; vid viljum þá matbúa handa þér eitt hafurkid. En eingill Drottins svaradi honum: þótt þú fáir haldid mér hér um tíma, þá et eg samt ekki af mat þínum; en ef þú vilt flytja Drottni brennifórn, þá máttu þad. Og Manóa sagdi vid eingilinn: hvert er nafn þitt, svo vér megum vegsama þig, þegar þad er fram komid, sem þú hefur sagt. En eingillinn svaradi: hvi spyr þú um nafn mitt, því ad þad er undarlegt. Þá tók Manóa hafurkid og matoffur, og offradi Drottni því á kletti einum. En eingillinn gjørdi undur, svo Manóa og kvinna hans horfdu á; því ad þegar logann lagdi upp af altarinu í himininn, þá fór eingill Drottins upp í logannn. Þegar Manóa og kona hans sáu þad, féllu þau fram á ásjónur sínar til

jardar; og eingillinn birtist þeim ekki framar. Þá skildi Manóa, ad þetta var eingill Drottins, og sagdi vid konu sína: vissulega munum vid deya, þar ed vid höfum séd sendiboda Guds En hún svaradi: ef Drottinn hefdi viljad deyda okkur, þá hefdi hann hvorki þegid brennifórnina né matoffrid af höndum okkur; hann hefdi þá ekki heldur látid okkur sjá alt þetta, og ekki unt okkur ad heyra þvílíka hluti. Og konan fæddi son, og kalladi nafn hans Samson, og sagdi: sonur okkar skal vera Gudi helgadur, frá módurlífi til daudadags, því ad hann er Guds gjöf. Einginn rakhnífur skal koma á höfud hans; á eingu skal hann bergja, sem af vínvidi kemur, hvorki á víni né áfeingum drykkjum, og ekkert óhreint eta, alt sitt líf; alt eins og eingillinn hafdi bodid henni. Og þad rættist á honum, sem hún hafdi sagt.

2, Þegar Samson var ordinn stór, fór hann nidur til Timna, og sá þar konu nokkra af dætrum Filistea. Og sem hann kom til baka, sagdi hann födur sínum og módur frá því, og mælti: takid hana handa mér til eiginkonu. En fadir hans og módir sögdu vid hann: er þá eingin kvinna medal dætra brædra þinna, og hjá öllu fólki þínu, ad þú vilt fara, og taka þér

konu af Filisteum, sem ekki eru þinnar trúar? Samson svaradi fødur sínum: lát mig fá þessa, því hún þóknast augum mínum. En fadir hans og módir vissu ekki, ad svo varð ad vera, til þess hann hefdi søk móti Filisteum. Því Filistear drottnudu í þann tíma yfir Israel, og þjáðu fólkid hardlega. Þá gekk Samson og fadir hans og módir til Timna. Og sem þau komu ad Timnas víngørdum, sjá, þá kom úngt ljón øskrandi í móti honum. Og kraptur hans vaknadi med honum, svo hann sundur reif það, eins og þá madur sundur rífur hafurkid, og hafdi þó alls ekkert í hendi sér. En hann sagdi foreldrum sínum ekki, hvad hann hafði adhafzt. Þegar hann nú kom ofan, taladi hann vid konuna, hví hún féll honum vel í geð, og trúlofadist henni. Kom hann þá aptur, eptir nokkurn tíma, til ad giptast henni. Og hann gekk af veginum, til ad sjá ljónshræid, og sjá, þá var bíflugnabú í ljónshræinu, og hunáng. Og hann tók hunángid í hendur sér, og át þar af á leidinni, fór til fødur síns og módur sinnar og gaf þeim, svo þau líka átu. En hann sagdi þeim ekki, ad hann hefdi tekid hunángid úr ljónshræi. Og sem þau komu nidur til Timna, þá gjørdi Samson þar veizlu, eins og

úngir menn eru vanir að gjøra. Og þeim í Timna var vel til hans, og feingu honum þrjátín lagsbræður, fyrir brúðarsveina, sem skyldu vera um hann. En Samson sagði við þá þrjátín: eg vil bera upp fyrir yður gátu; ef þér ráðið hana á þessum sjö veizludøgum, þá skal eg gefa yður þrjátín skyrtur og þriátín hátíðaklæði; en ef þér getið það ekki, þá skuluð þér gefa mér þrjátín skyrtur og þrjátín hátíðaklæði. Þeir svøruðu honum: ber upp gátu þína, og lát oss heyra hana. Hann sagði við þá: „matur gekk út af etanda, og sætleiki af þeim sterka.“ Og þeir gátu ekki ráðið þessa gátu í þrjá daga. Á fjórða degi søgðu þeir við konu Samsons: lokka þú bónda þinn, til að segja þér gátu þessa, ella skulum vér brenna þig og hús føður þíns í bjørtu báli. Eða hafið þér gjørt oss heimboð til að féfletta oss? Þá grét kona Samsons fyrir honum, og sagði: þú hatar mig, en elskar ekki, þar þú hefur borið upp gátu fyrir børnum fólks míns, og ekki sagt mér ráðníngu hennar. Hann svaraði henni: sjá, eg hefi ekki sagt hana føður mínum né móður, og hví skyldi eg þá segja þér hana? Og hún grét fyrir honum alla þá daga, sem eptir voru veizlunar; en á sjöunda degi sagði hann henni ráðnínguna, því hún gekk

svo fast á hann. Og hún sagdi hana aptur börnum síns fólks. Þá sögdu bæarmenn til hans á sjöunda degi, ádur sól settist: „hvad er sætara en hunáng, og hvad er sterkara en ljón?“ En hann sagdi vid þá: ef þér hefdud ekki erjad med minni kvígu, mundud þér eigi hafa rádid gátu mína. Og hann reiddist ákaflega, fór ofan til Asklon, drap þar þrátíu menn, tók klædi þeirra, og gaf þeim til hátídaklædnadar, sem rádid höfdu gátu hans, og fór í brædi sinni upp til húss födur síns. En fadir konu hans tók hana frá honum, og gipti hana einum stallbrædra hans, einum af þeim þrjátíu, sem höfdu verid feingnir honum. — Og þad skedi eptir nokkra daga á hveitikornskurdartímanum, ad Samson fór ad vitja konu sinnar, og hafdi med sér kidling ad gjöf. Og sem hann sagdi: eg vil gánga inn til konu minnar, þá vildi fadir hennar ekki leyfa honum þad, og sagdi: eg ætladi, ad þú mundir henni reidur ordinn, og gipti hana stallbródur þínum. En hún á adra yngri systur, sem er frídari en hún; lát hana vera konu þína í stad hinnar. Þá sagdi Samson vid þá: í þetta sinn hefi eg rétt mál gegn Filisteum, þó eg vinni þeim skada. Og hann fór og veiddi þrjú hundrud refa tók eldskid, sneri einum hala móti ödr-

um, batt eldskíd milli hverra tveggja hala, kveikti í skídunum med eldi og slepti svo refunum lausum inn á kornmerkur Filistea, og brendi þannig upp bædi bindini þeirra og hid standandi korn, og víngarda, og vidsmjörstré. Þá sögdu Filistear: hver hefur gjört þetta? Þeim var svarad: Samson dótturmadur mannsins í Timna, fyrir þad, ad hann tók konu hans, og gaf hana stallbródur hans. Þá fóru Filistear upp þángad, og brendu hana og födur hennar í björtu báli. En Samson sagdi vid þá: þótt þér hafid þetta gjört, vil eg samt hefna mín á ydur, og hætta svo. Og hann sló þá hardlega og veitti þeim mikid tjón. Og hann fór þadan, og settist ad í einum helli í Etam. Þá fóru Filistear upp eptir, og settu herbúdir í Júda, og dreifdu sér út alt til Leki. En þeir í Júda sögdu: hví erud þér komnir hingad í móti oss? Þeir sögdu: vér erum komnir hingad, til ad binda Samson, og til ad gjöra vid hann, eins og hann hefur gjört vid oss. Þá fóru þrjár þúsundir manna af Júda til hellisins í Etam, og sögdu vid Samson: veiztu ekki, ad Filistear drottna yfir oss? Hví hefur þú breytt svo vid oss? Hann sagdi vid þá: eins og þeir gjördu vid mig, eins hefi eg gjört vid þá. Þeir sögdu vid hann: vér erum komnir

hingad, til ad binda þig og selja þig Filisteum í hendur. Samson sagdi vid þá: vinnid mér þá þann eid, ad þér eigi skulud vinna á mér. Þeir svørudu honum: eingan veginn; vér viljum ad eins binda þig og fá þig þeim í hendur; en deyda viljum vér þig eigi. Og þeir bundu hann med tveimur nýum reipum og fluttu hann burt úr hellinum. Og sem hann kom til Leki, komu Filistear í móti honum med fagnadarópi. En styrkur frá Drottni kom yfir hann, svo reipin um armleggi hans urdu sem þrædir í eldi brunnir, og fjøtrin slitnudu af høndum hans. Og hann fann þar asnakjálka, rétti út hønd sína, tók hann, og sló med honum þúsund manna. Þá sagdi Samson: „med asnakjálka hefi eg valkøst hladid; med asnakjálka hefi eg slegid þúsund manna." Og sem hann hafdi þetta sagt, varpadi hann kjálkanum úr hendi sér, og kalladi þann stad Ramat-Leki. En þar hann nú var ordinn sárlega þyrstur, hrópadi hann til Drottins, og sagdi: þennan mikla sigur hefur þú gefid fyrir hønd þénara þíns, en nú hlýt eg ad deya af þorsta, og falla í hendur vantrúadra. Þá klauf Gud jaxlinn í kjálkanum, og vatn spratt þar upp, svo hann drakk; kom andi hans þá til hans aptur, svo hann fékk lífi haldid.

3, Eptir þetta fór Samson til Gasa, og náttadi þar. En er bæarmønnum þar var sagt, ad Samson væri þángad kominn, umkringdu þeir hann og sátu um hann alla nóttina, en voru þó kyrrir um nóttina, segjandi: á morgun, í døgun, skulum vér slá hann í hel. En Samson svaf til midrar nætur; þá stód hann upp, tók hurdirnar á borgarhlidinu med bádum dyrastøfunum, lypti þeim upp med slaglokunni, og lagdi á herdar sér, og bar þær upp á fjallsgnýpuna, gegnt Hebron.

4, Eptir þetta skedi þad, ad hann lagdi ást á konu eina í dalnum Sórek, ad nafna Dalila. Til hennar komu høfdingjar Filistea, og søgdu vid hana: lokka þú hann, og komstu eptir, af hverju hann hefur sitt mikla afl, og med hverju móti vér fáum orkad nokkru vid hann, þá ætlum vér ad binda hann og plága; en vér skulum gefa þér, hver um sig, ellefu hundrud silfurpeninga. Og Dalila sagdi vid Samson: segdu mér, kæri, af hverju þú hefur þitt mikla afl, og med hverju þú verdur bundinn, svo menn rádi vid þig? Samson svaradi henni: ef menn bindu mig med sjø nýum streingjum, sem ekki eru ordnir feyskir, þá yrdi eg máttþrota, og eins og hver annar madur. Þá fluttu høfdingjar Filistea upp til

hennar sjø nýa hampstreingi, og hún batt hann með þeim; en þeir lágu þar í launsátri. Og hún sagði við hann: „Samson, Filistear yfir þér!" En han svipti bøndnum í sundur, eins og hørtigill fer í sundur, þá hann kennir elds; og það varð eigi komizt fyrir afl hans. Þá sagði Dalila við Samson: sjá, þú hefir gabbað mig, og logið að mér; æ segðu mér nú, með hverju þú verður bundinn? Hann svaraði henni: ef þeir bindu mig með nýum reipum, sem til eingrar vinnu hafa verið brúkuð, þá yrði eg máttþrota, sem hver annar maður. Þá tók Dalila ný reipi, og batt hann með þeim, og sagði: „Filistear yfir þér, Samson!" Og hún hafði menn á laun í herberginu. En hann sleit þau, sem þráð af høndum sér. Dalila sagði þá við hann: enn nú hefur þú gabbað mig, og logið að mér. Æ, segðu mér, með hverju þú verður bundinn? Hann svaraði henni: ef þú fléttar saman sjø hárlokka høfuðs míns með þræði. Og hún festi þá við vefjarrifinn, og sagði við hann: „Filistear yfir þér, Samson!" Þá vaknaði hann og svipti burt með sér bandinu og rifnum. Þá sagði hún við hann: hvernig getur þú sagt, að þú elskir mig, þar sem þú ekki ert einlægur við mig? Þrisvar hefur þú nú gabbað mig; og ekki

sagt mér, hvar af þú ert svo sterkur. Og sem hún þannig var alt af ad nauda á honum og leggja ad honum, vard hann daudans leidur á því, lét henni í ljósi alt sitt hjarta, og sagdi vid hana: aldrei hefur rakhnífur komid á høfud mitt, því ad eg er Gudi helgadur frá módurlífi. Væri mér rakad, þá hyrfi styrkur minn frá mér, og eg yrdi máttvana, eins og hver annar madur. Þegar Dalila nú sá, ad hann hafdi látid henni í ljósi alt hjarta sitt, sendi hún, og lét kalla á høfdíngja Filistea, og segja vid þá: komid enn nú í þetta sinn til mín, því ad hann hefur látid mér í ljósi alt hjarta sitt. Þá komu hofdíngjar Filistea til hennar, og báru silfrid med sér. Og sem hún hafdi svæft hann í skauti sínu, kalladi hún mann til sín, og lét raka hans sjø høfud hárlokka; var honum þá horfinn allur hans styrkur. Og hún sagdi vid hann: „Filistear yfir þér, Samson!" Þegar hann nú vaknadi af svefni sínum, hugsadi hann: eg kemst burt, eins og optsinnis ádur, eg slít mig lausan frá þeim; og hann vissi ekki, ad styrkurinn var vikinn frá honum. En Filistear gripu hann, stúngu úr honum augun, og fluttu hann til Gasa; bundu hann med tveimur koparvidjum og létu hann mala þar í myrkvastofu. En høfudhár hans tóku ad vara

aptur, þar sem þau höfdu verid afrökud. Þegar nú höfdíngjar Filistea söfnudust saman, til ad færa gudi sínum Dagon stórar fórnir, og halda gledihátíd, sögdu þeir: vor gud hefur gefid óvin vorn Samson í hendur oss. Og sem fólkid sá hann, lofadi þad gud sinn. Þegar þeir nú voru hjartanlega gladir, sögdu þeir: látid sækja Samson, ad hann skemti oss. Var Samson þá sóttur í fángelsid, og settur milli tveggja stoda. En hann sagdi vid úngmennid, sem leiddi hann sér vid hönd; lofadu mér ad eins ad snerta stodir þær, sem húsid hvílir á, svo eg geti stutt mig vid þær. En húsid var fult af fólki; þar voru líka allir höfdíngjar Filistea og á þakinu um þrjár þúsundir manns, sem horfdu á, hvernig Samson skemti fólkinu. En hann greip um þær tvær midstodir, á hverjum húsid hvíldi, sína med hvorri hendi. Og hann sagdi: deyi nú sála mín med þeim Filisteum, svo eg hefni mín á þeim fyrir bædi augu mín. Og hann lagdist á af öllum kröptum, svo ad húsid féll ofan yfir höfdíngjana og alt fólkid, sem þar var inni; svo þeir voru fleiri, sem hann drap, þá hann sjálfur dó, en þeir, sem hann hafdi drepid alla sína lífstíd. Þá komu brædur hans nidur, og alt hús födur hans, tóku hann upp og fluttu hann þadan, og

gröfu hann í gröf Manóa födur hans. En hann hafdi verid dómari í Israel í tuttugu ár.

## 61. Rut.

1, Og þad skedi á þeim tímum, er dómararnir stýrdu í Israel, ad hallæri var í landinu. Þá fór madur frá Bethlehem í Júdea, til ad taka sér bústad í landi Móabita, hann og kona hans og tveir synir; madurinn hét Elimelek, og kona hans Noomi. Og sem þau komu í land Móabita, stadnæmdust þau þar. En Elimelek dó, og Noomi var eptir med bádum sonum sínum, sem tóku sér móabitiskar konur; hét önnur Orpa, en hin Rut. Og sem þau höfdu búid þar hér um bil tíu ár, dóu líka bádir synir hennar, svo hún lifdi þannig báda syni sína og mann sinn. Þá bjó hún sig á stad, hún og bádar teingdadætur hennar, ad fara til baka úr landi Móabita, því hún hafdi frétt, ad Drottinn hefdi aptur litid í nád til síns fólks, og gefid því braud. Og sem hún fór leidar sinnar til ad hverfa aptur í Júdaland, þá mælti hún vid bádar teingdadætur sínar: farid, snúid vid, hvor fyrir sig í hús mædra ykkar; Drottinn audsýni ykkur nád, eins og þid hafid sýnt hinum dána og mér. Drottinn gefi ykkur, ad þid finnid hvíld, hvor ykkar

fyrir sig í húsi manns síns medal ykkar fólks. Og hún kysti þær. Þá hófu þær upp rodd sína og grétu, og søgdu vid hana: nei, vid viljum fara med þér heim til fólks þíns. Og Noomi mælti: hverfid til baka, dætur mínar, hvers vegna viljid þid fara med mér? Drottinn hefur útrétt hønd sína móti mér. Og þær hófu upp raddir sínar og grétu aptur. Þá kysti Orpa teingdamódur sína, en Rut vard eptir hjá henni. Og Noomi sagdi: sjá, mágkona þín er snúin heim til síns fólks og síns Guds; far þú líka til baka, á eptir mágkonu þinni. En Rut mælti: herd þú ekki ad mér, ad yfirgefa þig, og hverfa til baka frá þér. Hvert sem þú fer, þángad fer eg; hvar sem þú stadnæmist, þar stadnæmist eg. Þitt fólk er mitt fólk, og þinn Gud er minn Gud. Hvar sem þú deyrd, þar dey eg líka, þar vil eg líka grafin vera. Drottinn heyri eid minn. Daudinn einn skal adskilja okkur! Þegar nú Noomi sá, ad hún var einlæg ad fara med sér, hætti hún ad tala vid hana um þad. Og þær héldu bádar á fram, þángad til þær komu til Bethlehem. Og þad skédi, þá er þær komu til Bethlehem, ad allur stadurinn komst í hreifíngu sokum þeirra, og menn søgdu: er þad ekki Noomi? En hún sagdi vid þá: nefnid mig ekki

Noomi (yndi mitt), heldur Mara (hin hnuggna); því ad mikid hefur hinn almáttugi hrygt mig. Rík fór eg hédan, tómhenta hefur Drottinn látid mig koma aptur.

2, En þad var um bygg-uppskerutímann, ad Noomi og teingdadóttir hennar Rut, hin móabitiska, komu aptur til Bethlehem. Og Rut sagdi vid Noomi: lát mig fara út á akur, og tína upp axin eptir þá, í hverra augum eg finn nád. Og hún svaradi: far þú, dóttir min. Og hún fór og tíndi á akri, eptir uppskerumennina; og þad vildi svo heppilega til, ad þessi akur tilheyrdi Bóas, af ætt Elimeleks, manns Noomis, sem var örlátur madur. Og sjá, í þessu bili kom Bóas frá Bethlehem, og sagdi vid uppskerumennina: „Drottinn sé med ydur. Þeir svörudu: „Gud blessi þig". Og Bóas mælti vid svein sinn, sem var settur yfir uppskerumennina: hverjum tilheyrir þessi þerna? Sveinninn svaradi: þad er móabitisk þerna, sem kom med Noomi til baka úr Móabitalandi; og hún sagdi vid mig: leyf mér ad tína upp og safna eptir uppskerumennina milli bindinanna; og hún kom og hefur verid ad safna frá því í morgun og þángad til nú. Þá sagdi Bóas vid Rut: heyr þú, dóttir min, far þú ekki á annan akur til ad tína upp

korn, og far þú ekki héðan, heldur haltu þig til þerna minna. Þitt auga sé á þeim akri, sem þær uppskera, og gakk þú eptir þeim. Eg hefi sagt fólkinu, að amast ekki við þér. Og þegar þig þyrstir, þá gakk þú að drykkjarkonunni, sem það drekkur úr. Þá féll hún á sína ásjónu, og beygði sig til jarðar og mælti: hvers vegna hefi eg fundið náð í augum þínum, að þú líðsinnir mér, sem þó er útlend? Bóas svaraði og sagði við hana: eg hefi frétt alt, sem þú hefur gjört við tengdamóður þína eptir dauða manns þíns; að þú yfirgafst föður þinn og móður þína og föðurland þitt, og fórst til þess fólks, sem þú ekki þektir áður. Drottinn umbuni þér verk þitt, og laun þín verði fullkomin af Drottni, Israels Guði, undir hvers vængi þú ert kominn, til að leita hælis þar. Hún sagði: ó, að eg mætti finna náð í þínum augum, herra minn, því að þú hefur huggað mig og talað blíðlega við mig, og er eg þó ekki sem ein af ambáttum þínum. Þegar matmálstíminn kom, sagði Bóas við hana: kom hingað, og et af brauðinu, og dýfðu bita þínum í edikið. Og hún settist hjá uppskerumönnunum. En hann rétti henni steikt ax, og hún át og varð mett, og leifði. Og er hún stóð upp að tína, bauð Bóas sínu fólki og sagði: látið

hana líka tína medal bindinanna, og gjörid henni ekki til miska. Dragid líka úr kerfunum, og látid liggja eptir, ad hún tíni þad upp, og ámælid henni ekki þar fyrir. Þannig tíndi hún á ákrinum alt til kvölds, og bardi kornid úr hálminum, sem hún hafdi tínt, og þad var hèr um bil ein efa af byggi. Og hún tók þad, og kom í borgina; og teingdamódir hennar sá, hvad hún hafdi tínt. Líka tók hún fram þad sem hún hafdi leift af mat sínum, og fèkk henni. Þá mælti teingdamódir hennar vid hana: hvar hefur þú tínt í dag, og hvadan hefur þú þetta? Blessadur sé sá, sem hefur lidsinnt þèr. Og hún sagdi teingdamódur sinni, hvernig hann hefdi breytt vid sig, og mælti: nafn þess manns, sem eg í dag fèkk þetta hjá, er Bóas. Þá sagdi Noomi vid teingdadóttur sína: blessadur sé hann af Drottni, sem ekki hefur slept elsku sinni vid þá, sem lifa, og þá sem eru dánir. Madurinn er teingdur okkur og er okkar nánasti náúngi. Þad er gott, dóttir mín, ad þú gángir út med þernum hans, svo ad menn ekki amist vid þèr á ödrum akri. Og hún hèlt sig til þerna Bóas og tíndi, þángad til bygg- og hveitiuppskeran var á enda; en hún var þó hjá teingdamódur sinni.

3, Og Noomi, teingdamódir hennar, sagdi

við hana: dóttir mín, eg vil leita þér hvíldar, að þér vel vegni. Bóas, frændi vor, hjá hvers þernum þú hefur verið, kastar í nótt bygginu í sínum láfagarði, svo það hreinsist. Þvoðu þér nú, og smyr þig, og far í stykkju þína, og gakk í láfagarðinn; en láttu manninn ekki verða varan við þig fyrri, en hann hefur etið og drukkið. Þegar hann leggur sig, þá taktu eptir, hvar hann legst niður, og tak upp fötin til fóta og legst þar; og Drottinn mun snúa svo huga hans, að hann talar blíðlega til þín. Hún sagði við hana: alt, sem þú segir mér, það vil eg gjöra. Og svo gekk hún í láfagarðinn, og gjörði eins og teingdamóðir hennar bauð henni. Og þegar Bóas hafði etið og drukkið og var kátur, fór hann og lagði sig við enda kornhrúgunnar. Þá kom hún léttfætt, fletti upp fötunum til fóta hans, og lagðist fyrir. En er miðnætti var komið, varð manninum bilt við, og hann hrökk við; og sjá, kvennmaður lá til fóta hans. Og hann mælti: hver ertu? Hún svaraði: eg er Rut, þerna þín. Tak þernu þína undir þína varatekt, því að þú ert hennar nánasta skildmenni. Hann sagði: blessuð sértu af Drottni, dóttir mín. Þú hefur sýnt betur dygð þína seinast en fyrst, að þú fórst ekki að elska úngu mennina, fátæka eða ríka. Og nú,

dóttir mín, vertu óhrædd; alt hvad þú segir, vil eg gjøra vid þig; þvi alt fólk í borg minni veit, ad þú ert væn kona. Pad er satt, eg er þitt nákomid skildmenni, en til er annar, sem þér er enn skyldari. Vertu hér í nótt og til morgunns; vilji sá, sem þér er nákomnastur, taka þig ad sér, vel og gott, hann má þad; en vilji hann þad ekki, skal eg gjøra þad, svo sannarlega sem Drottinn lifir. Legg þig nú þángad til á morgun. Og hún lá til morguns til fóta hans; þá stód hún upp, ádur enn einn gat þekt annan; og hann sagdi vid hana: kom þú med skykkjuna, sem þú ert í, og haltu henni út; og hún gjordi svo. Og hann mældi henni sex mæla byggs og lypti á hana, og gekk inn í borgina. Pegar hún nú kom til teingdamódur sinnar, mælti hún: hvernig fór, dóttir mín? og hún sagdi henni frá öllu, sem madurinn hafdi sagt vid hana, og mælti: þessa sex mæla byggs gaf hann mér, þvi ad hann sagdi: þú skalt ekki fara tómhent til teingdamódur þinnar. Og hún mælti: vertu nú kyr, dóttir mín, þángad til þú fréttir, hvernig þetta fer; þvi ad madurinn mun ekki hætta fyr, en hann í dag leidir þetta mál til lykta.

4, En Bóas gekk upp í borgarhlidid, og settist þar. Og sjá, þegar nánasti náúngi Noomis gekk

þar fram hjá, taladi Bóas vid hann og sagdi: kom og set þig hér. Og hann kom og settist nidur. Og Bóas tók tíu menn af øldúngum bæarins, og sagdi: setjid ydur hér. Og þeir settust þar. Þá sagdi hann vid þennan náúnga Noomis: Noomi, sem er komin heim aptur úr Móabítalandi, vill selja þann akur, sem bródir okkar Elimelek átti. Þessvegna hugsadi eg mér, ad kunngjøra þér þad, og segja: viljir þú, sem nánasti náúngi, nota þér forgángsrétt þinn, svo kaup hann med vitund innbyggjaranna og øldúnga míns fólks; en viljir þú þad ekki, þá segdu mér þad, svo eg viti þad, þvi ad einginn er til innlausnar, nema þú, og eg þar næst. Hann mælti: eg vil innleysa hann. Bóas sagdi: ef þú kaupir akurinn af hendi Noomis, svo verdur þú líka ad taka Rut, hina móabítisku, þér fyrir konu, til þess ad uppvekja nafn hins framlidna á eign hans. Þá sagdi hann: eg vil ekki nota mér af þessum rétti mínum, svo eg ekki spilli eign minni; leystu inn þad, sem eg skyldi, þvi eg get þad ekki. En þad var forn venja í Israel vid erfdir og øll vidskipti, til ad stadfesta sérhvern samning, ad annar tók af sér skóinn og fékk hinum; þad var lagavenja í Israels. Og hann sagdi vid Bóas: kaup þú! og tók af

sér skóinn. Þá sagdi Bóas vid øldúngana og alt fólkid: verid þér vottar í dag, ad eg hefi keypt alt, sem Elimelek og synir hans áttu, af hendi Noomis; líka Rut, hina móabitisku, konu Malons, mér fyrir konu, til ad koma upp nafni hins framlidna á eign hans, svo ad nafn hans verdi ei upprætt medal brædra hans, né á samkomustad borgar hans. Þér séud hér vitni til í dag. Og alt fólkid, sem í borgarhlidinu var, og øldúngarnir, søgdu: vér erum vitni. En Drottinn gjøri þá konu, sem kemur í hús þitt, eins og Rakel og Leu, sem bádar hafa upp bygt Israels hús; og afla þú auds í Efrata, og útvega þér nafn í Betlehem, af því afkvæmi, sem Drottinn mun gefa þér af konu þessari. Svo tók Bóas Rut, og hún var kona hans, og hún fæddi honum son. Þá søgdu konurnar vid Noomi: lofadur sé Drottinn, sem eigi vildi láta þig verda erfingjalausa. Hans nafn sé vegsamad í Israel. Hann mun verda þín gledi og ellistod; því teingdadóttir þín, sem elskar þig, hefur alid hann, hún, sem er þér betri en sjö synir. Og Noomi tók barnid, lagdi þad í skaut sér, og fóstradi þad upp. Og grannkonur hennar gáfu honum nafn, og søgdu: Noomi er fæddur sonur, og nefndu hann Obed. Hann var fadir Isai, fødur Davids.

## 62. Samúel.

Og það skeði á þeim tíma, þegar einginn konúngur var í Israel, og hver gjørði það, sem honum gott þótti, að þar var maður nokkur í Ramataim Sofim, á Efraims fjøllum, sem hét Elkana; hann átti tvær konur, hét ønnur Anna, en hin Peninna. Peninna átti børn, en Anna ekki. Þessi sami maður fór á hverju ári úr borg sinni, til að biðjast fyrir í Siló, og færa Drottni alsherjar þar fórnir. Og sem hann offraði, gaf hann Peninnu, konu sinni, og øllum sonum hennar og dætrum, sína hlutdeild hverju; en Onnu gaf hann tvofalda hlutdeild, því að hann elskaði hana mjøg. En hún var mjøg hrygg, af því Drottinn eingin børn hafði gefið henni, og grét og át ekki. Og Elkana, maður hennar, sagði við hana: Anna, því grætur þú, og því etur þú ekki, og af hverju er hjarta þitt svo hryggt? Er eg þér ekki betri en tíu synir? Þá stóð Anna upp og var ángurvær í sinni, bað til Drottins og grét. Og hún gjørði heit, og mælti: Drottinn allsherjar, ef þú lítur á eymd ambáttar þinnar, og minnist mín, og gefur ambátt þinni son, þá vil eg gefa hann Drottni alla hans lífdaga, og einginn rakhnífur skal koma á høfuð hans. (En presturinn Eli sat

á stól vid dyrustaf Drottins húss). Og þad skedi, þá hún hafdi leingi bedid frammi fyrir Drottni, ad Eli tók eptir munni hennar; því Anna taladi í hjarta sínu, varir hennar bærdust ad eins, en róm hennar heyrdu menn ekki. Þá hugsadi Eli, ad hún væri drukkin, og sagdi vid hana: ætlar þú leingi ad vera drukkin? Láttu ölid renna af þér. Og Anna svaradi og sagdi: nei, herra minn, eg em kona med þúngbúnu hjarta; vín hefi eg ekki drukkid né áfeingan drykk, en eg hefi út helt hjarta mínu fyrir Drottni. Ætla þú ekki, ad ambátt þín sé Belials barn, því af stórri mædu og sorg hefi eg híngad til talad. Eli svaradi og sagdi: far þú í fridi; Israels Gud mun veita þér bæn þína, sem þú badst hann um. Hún sagdi: ó, ad ambátt þín mætti finna nád í augum þínum. Hún gekk þá burt leid sína, og matadist, og var ei framar med sorgarsvip. Daginn eptir fóru þau snemma á fætur, og sem þau höfdu tilbedid fyrir Drottni, fóru þau heimleidis, og komu til Rama í hús sitt. Og konan vard þúngud, og fæddi son, og nefndi hann Samúel (Gud heyrir). En er Elkana, madur hennar, lagdi aptur á stad med öllu húsi sínu, til ad færa Drottni hina árlegu fórn og sitt áheit, fór Anna ekki med, heldur

sagdi vid mann sinn: þegar sveinninn er vaninn af brjósti, fer og med hann, ad hann birtist fyrir Drottni, og verdi þar ávalt úr því. Og sem hún hafdi vanid hann af brjósti, fór hún med hann í hús Drottins í Siló; en sveinninn var enn þá mjøg úngur. Og þau slátrudu einu nauti til fórnar, og fóru med sveininn til Eli. Og hún sagdi: heyr, herra minn, svo sannarlega sem þú lifir, eg er kona sú, sem stód hér hjá þér og ákalladi Drottinn; um þennan svein bad eg. Nú hefir Drottinn veitt mér bæn mína; þessvegna gef eg hann Drottni aptur alla hans lífdaga.

Og Anna bad, og saung þennan lofsaung: „mitt hjarta gledst í Drottni, minn dugur er af „Drottni hafinn. Einginn er heilagur sem Drott„inn, og ekkert bjarg sem vor Gud. Drottinn „deydir og lífgar, hann færir nidur í helju og „upp þadan aptur. Drottinn gjørir fátækan og „ríkan, hann nidurlægir og upp hefur. Hann „lyptir hinum lítilmótlega úr duptinu, úr saurn„um upp hefur hann hinn fátæka, til ad setja hann „hjá furstunum, og hann fær honum stól heid„ursins. Því Drottins eru stodir jardarinnar, „og hann setti jardríkid á þær. Hann vardveitir „fótspor sinna gudhræddu, en þeir gudlausu tor-

„þýnast í myrkri. Því með styrkleika sínum megn-
„ar madurinn eingu.“

Og Elkana fór heim til sín í Rama, en sveinninn varð Drottins þénari undir umsjón Eli og var í línhökli. Þar að auki gjørdi módir hans honum litla yfirhøfn, og færdi honum hana ár eptir ár, þegar hún kom með manni sínum, að frambera hina árlegu fórn. Og Eli blessaði Elkana og konu hans, og mælti: Drottinn gefi þér afkvæmi með þessari konu í stadinn fyrir það, sem þið hafið léð Drottni! Og þau fóru heim til sín. En Drottinn heyrði orð Elis, og gaf Önnu enn nú þrjá syni og tvær dætur. Og sveinninn Samúel óx upp hjá Drottni, og var geðþekkur bæði Gudi og mønnum.

## 63. Afdrif Elis ættar.

1, En synir Elis, Hofni og Pineas, voru vondir menn, og hirtu ekki um Drottinn né um skyldur prestanna við fólkið. Þegar einhver færdi fórn, þá kom þénari prestsins, þegar kjøtið var soðið, og hafði þríyddan sodkrók í hendi, og rak ofan í ketilinn eða pottinn eða eldsgagnið, og hvað sem kom upp á króknum, það tók presturinn. Svo gjørdu þeir øllum Israel, sem kom til Siló. Sømuleiðis, áður en þeir upp tendr-

udu fituna, kom þénari prestsins, og sagdi vid hann, sem færdi fórn: láttu mig fá kjøt í steik handa prestinum, því ad hann vill ekki taka vid sodnu kjøti af þér, heldur hrán. Ef nú einhver sagdi vid hann: þeir munu strax brenna hid feita, eins og vera ber, taktu svo þad, sem þitt hjarta girnist, þá svaradi hann: þú skalt strax gefa mér þad; en ef ekki, tek eg þad med valdi. Og synd sona Elís var mjøg mikil fyrir Drottni, og þeir drýgdu mørg fleiri vonzkuverk í Israel. En Eli var mjøg gamall, og fékk ad vita, hvernig synir hans breyttu vid allan Israelslýd. Og hann sagdi vid þá: hví hegdid þid ykkur þannig? Því eg heyri ilt umtal um ykkur af øllu þessu fólki. Ekki svo, synir mínir; sá ordrómur er ekki gódur, sem eg heyri; þid komid Drottins fólki til syndar. Syndgi madur móti manni, þá getur dómarinn jafnad þad; en syndgi nokkur móti Drottni, hver getur þá bedid fyrir hann? En þeir gegndu ekki rødd fødur síns. Og Drottinn lét advara Eli søkum misgjørda sona hans; en hann vægdi til vid þá, og setti sig ekki med fylgi móti þeim. Og þad skedi um þessar mundir, ad Eli lá í rúmi sínu, og augu hans voru farin ad sljófgast, svo hann gat ekki séd. Og Samúel hafdi lagt sig í musteri Drottins, þar sem sátt-

málsorkin var, ádur hinn helgi lampi var slokkuadur. Þá kalladi Drottinn á Samúel. Hann sagdi: hér em eg, hljóp til Elí og mælti: hér em eg; því kalladir þú á mig? Hann sagdi: eg kalladi ekki á þig; fardu aptur og legg þig. Og hann fór og lagdi sig. Þá kalladi Drottinn aptur: Samúel. Og hann stód upp, fór til Elí og mælti: hér em eg, því kalladir þú á mig? En hann sagdi: eg kalladi ekki á þig, sonur minn; fardu aptur og legg þig. En Samúel þekti ekki enn þá Drottinn, og enn nú var honum ekki ord Drottins opinberad. Þá kalladi Drottinn aptur í þridja sinn. Og hann stód upp, gekk til Elí og sagdi: hér em eg; því kalladir þú á mig? Þá skildi Elí, ad Drottinn hafdi kallad á sveininn, og sagdi vid hann: fardu aptur og legg þig; og verdi nú á þig kallad, þá svara þú: tala þú, Drottinn, þinn þjón heyrir. Og Samúel fór og lagdist fyrir á sinn stad. Þá kalladi Drottinn eins og fyrri: Samúel, Samúel! Og hann svaradi: tala þú, þinn þjón heyrir. Þá bodadi Drottinn honum afdrif ættar Elís, ad Elí og synir hans mundu fyrirfarast á sama degi, sokum misgjørda sonanna, og af því ad Elí vissi, hversu illa synir hans breyttu, og hindradi þá þó ekki. Og Samúel lá alt til morguns, og

lauk upp dyrunum á húsi Drottins. En ekki þordi hann, ad segja Eli frá þessu. Þá kall-adi Eli á hann og mælti: Samúel, son minn. Hann svaradi: hér em eg. Eli sagdi: hvad var þad, sem var sagt vid þig? Leyndu mig því ekki. Gud straffi þig, ef þú leynir mig nokkru af því, sem vid þig var sagt. Þá sagdi Samúel honum þad alt, og leyndi hann eingu. En hann mælti: hann er Drottinn, hann gjori, hvad honum gott þykir.

2, En Israel lá enn alt af í ófridi vid Fili-stea; og þeir fóru út á móti þeim, til bardaga, og settu herbúdir hjá Eben-Eser. En Filistear höfdu sett herbúdir sinar hjá Afek, og fylktu lidi gegnt Israel. Hófst þá bardaginn, og Israel var rekinn á flótta af Filisteum, sem feldu af þeim í valinn á vígvellinum hér um bil fjórar þúsundir manns. Þegar nú fólkid kom í her-búdirnar, sögdu hinir elztu í Israel: því hefur Drottinn í dag látid oss bída þennan ósigur fyrir Filisteum? Látum oss sækja sáttmálsörk Drott-ins til Siló, svo hún sé hér vor á medal, og frelsi oss af hendi óvina vorra. Og fólkid sendi til Siló, og lét sækja þadan sáttmálsörk Drottins alsherjar, sem situr í hásæti yfir þeim Kerúbim, og bádir synir Eli, Hofni og Pineas, voru med

sáttmálsørkinni. Og sem hún kom í herbúðirnar, þá hóf allur Israel mikið fagnaðaróp, svo að jörðin bifaðist. En er Filistearnir heyrðu þetta óp, sögðu þeir: hvað merkir þetta mikla óp í herbúðum hinna Ebresku? Og sem þeir feingu að vita, að örk Drottins var komin í herbúðirnar, sló ótta yfir þá, og þeir sögðu: Guð þeirra er kominn í herbúðirnar. Vei oss, því að slíkt hefur ekki áður verið. Vei oss, hver mun bjarga oss undan hendi þessa volduga Guðs? það er sá Guð, sem sló Egypta með als konar plágum. Neytið nú hreysti yðar, Filistear, og verið menn, svo þér þurfið ekki að þjóna Ebreskum, eins og þeir hafa þjónað yður; verið menn og berjist öturlega. Og Filistear börðust, og Israel hafði ósigur, og hver flúði til síns tjalds. Var mannfallið mjög mikið, svo að af Israel féllu þrjátíu þúsundir fótgaunguliðs. Og örk Guðs var tekin, og báðir synir Elís féllu, Hofni og Pineas. Þá hljóp maður af Benjamín af vígvellinum, og kom til Síló þann sama dag, í rifnum klæðum, og hafði ausið mold yfir höfuð sér. Og sem hann kom, sjá, þá sat Eli á stól fyrir utan hús sitt, og horfði út á veginn, því hjarta hans var skelkað vegna Guðs arkar. Þá nú maðurinn kom og sagði frá þessu í bænum, harmaði

allur bærinn. Og Eli heyrdi óminn af harma-tølunum, og mælti: hvada háreysti er þetta? Þá kom madurinn hlaupandi til Eli, (en Eli var þá niutíu og átta ára gamall og næstum blindur) og sagdi vid hann: eg kem frá vígvellinum, og flúdi í dag úr bardaganum. Hann mælti: hvernig geingur þad, son minn? Madurinn svaradi og sagdi: Israel er flúinn fyrir Filisteum, og mikid mannfall ordid medal fólksins; bádir synir þínir, Hofni og Pineas, eru fallnir, og ørk Guds tekin. En sem hann mintist á ørk Drottins, þá féll Eli aptur á bak af stólnum vid dyrnar, og hálsbrotnadi, og dó, því hann var gamall og þúngur. En hann hafdi dæmt Israel í fjørutíu ár. Og teingdadóttir hans, kona Pineas, var þúngud; og sem hún heyrdi þau tídindi, ad ørk Guds væri tekin, og teingdafadir hennar og madur væru daudir, átti hún barnid, því ad hennar stund var komin. Og er hún var ad deya, søgdu þær, sem hjá stódu: vertu óhrædd, þú hefur son fætt. En hún ansadi ekki, og gaf því eingan gaum, heldur sagdi: farinn er heidurinn frá Israel. Og hún sagdi aptur: burtu er heidurinn frá Israel, því ad Guds ørk er tekin.

## 64. Sáttmálsørkin hjá Filisteum.

En Filistear tóku ørk Guðs og fluttu hana til Asdod, og settu hana í musteri guðs síns Dagons, hjá bilæti hans. Og sjá, morguninn eptir, lá Dagon á andliti sínu á gólfinu, fyrir framan ørk Drottins. En þeir tóku hann og settu hann aptur á sinn stað. Og er þeir annars dags fóru snemma á fætur, sjá, þá lá Dagon aptur á andliti sínu fyrir framan ørk Drottins, og var høfuð hans og báðar hendur afhøggnar. En þar eð þeir ekkert skeyttu þessum táknum, og héldu ekki ørk Drottins í heiðri, og vildu ekki skila Israelsbørnum henni aptur, þá voru borgir þeirra slegnar margs konar plágum. Og þeir sendu og saman søfnuðu øllum høfðingjum og søgðu: sendum burt ørk Israels Guðs aptur á sinn stað, svo hún deyði oss ekki og fólk vort. Og þeir kølluðu á presta sína og spáfararmenn, og søgðu: hvað eigum vér að gjøra við ørk Drottins? Segið oss, með hverju vér eigum að senda hana á sinn stað. Þeir søgðu: ef þér sendið ørkina burt, þá sendið hana ekki tóma, heldur greiðið henni skuldafórn; þá mun yður batna, eða yður mun verða kunnugt, hvers vegna hans hønd hefur ekki frá yður vikið. En þeir søgðu: hver er sú skuldafórn, sem vér eigum

ad greida honum? Þeir svørudu: eptir tølu høfd-ingja Filisteanna fimm kýli úr gulli, og fimm mýs úr gulli, því ein plága hefur verid yfir ydur øllum, og yfir høfdingjum ydar. Og gjørid nú myndir eptir kýlum ydar og músum ydar, sem hafa skemt land ydar, og gefid Israels Gudi heidurinn, máske hønd hans verdi þá léttari á ydur og landi ydar. Og gjørid nú líka nýan vagn, og takid tvær úngar kýr, sem kálfar gánga undir, á hverjar ekki hefur komid ok, og spennid þær fyrir vagninn, og látid kálfa þeirra verda eptir. Og takid ørk Drottins og látid gullgrip-ina, sem þér greidid honum í skuldafórn, í kistil vid hlid hennar, og sendid hana á stad, svo hún fari. Og sjáid, ef hún fer veginn til landa-merkja Israels, til Betsemes, þá hefur Gud gjørt oss alla þessa miklu ólukku; en ef ekki, þá vit-um vér, ad hønd hans hefur ekki slegid oss, held-ur hefur þad þá verid einber tilviljan. Og mennirnir gjørdu svo: þeir spentu tvær úngar kýr, sem kálfar geingu undir, fyrir vagninn, en héldu kálfunum inni. Og kýrnar fóru rakleidis veginn til Betsemes, og baulundu í því þær fóru á fram, og viku hvorki til hægri né vinstri; og høfdingjar Filistea geingu á eptir þeim, alt ad landamerkjum Betsemis. En Betsemitar voru

ad hveitiuppskeru í dalnum, og hófu upp augu sín, og sáu örkina, og glöddust af ad sjá hana. Og vagninn kom á akur Jósúa Betsemita, og nam þar stadar. En þar var steinn mikill; og þeir klufu vidinn, sem vagninn var gjørdur af, og fórnfærdu kúnum Drottni til brennifórnar. En Levitarnir tóku ørk Drottins af vagninum og settu hana á hinn stóra stein. Þegar hinir fimm høfdingjar Filistea høfdu horft á þetta, fóru þeir til baka til Ekron þann sama dag. En ørk Drottins var flutt til Kiriat-Jearim.

## 65. Samúel, dómari í Israel.

En Samúel var nú ordinn fulltída, og Drottinn var med honum, og lét ekkert bregdast af því, sem hann hafdi sagt vid hann. Og allur Israel, frá Dan til Bersaba, kannadist vid, ad Samúel var trúr spámadur Drottins; og hann tók til ad prédika fyrir øllum Israelslýd, og hvatti fólkid til ad fjarlægja frá sér gudi hinna útlendu, og ad dýrka Gud einan, herra himins og jardar. Og þeir gjørdu, eins og hann hafdi sagt, fjarlægdu Baal og Astarot, saman søfnudust í Mispa, føstudu og beiddust fyrir, og søgdu: „vér høfum syndgazt móti Drottni". Og Samúel dæmdi fólkid í Mispa. — En sem Filistear

heyrdu, ad Israelssynir saman sofnudust í Mispa, fóru høfdíngjar þeirra í móti þeim. Þegar Israelsmenn heyrdu þad, urdu þeir hræddir, og søgdu vid Samúel: hættu ekki ad ákalla Drottinn, vorn Gud, fyrir oss, ad hann frelsi oss af hendi Filistea. Samúel flutti Drottni þá brennifórn, og ákalladi hann fyrir fólk sitt; og Drottinn bænheyrdi hann. Og einmitt þegar Samúel frambar brennifórnina, logdu Filistear til orustu vid Israel. En Drottinn sendi á hinum sama degi mikid þrumuvedur yfir Filistea, og skelfdi þá, svo þeir voru reknir á flótta af Israel. Þá fóru menn út frá Mispa, og eltu Filistea, og ráku flóttann þar til fyrir nedan Betkar. Þá tók Samúel stein, reisti hann milli Mispa og Sen, nefndi hann Ebeneser, og sagdi: „hingad ad hefur Drottinn hjálpad oss." Þannig voru þá Filistear beygdir, og komu ekki framar í Israels land. Og hønd Drottins var sterk í móti þeim, medan Samúel lifdi. — En Samúel dæmdi Israel, medan hann lifdi; og hann fór árlega til Betel, Gilgal og Mispa. Og sem hann hafdi dæmt fólkid á øllum þessum stødum, hélt hann heim aptur til Rama, því þar var hús hans, og þar dæmdi hann Israel, og þar byggdi hann Drottni altari.

## 66. Israelsmenn bidja um konúng.

Þegar Samúel var ordinn gamall, gjørdi hann syni sína ad dómurum yfir Israel. Hét hans frumgetni sonur Jóel, og hinn Abía, og voru dómarar í Bersaba. En synir hans geingu ekki á hans vegum, heldur hneigdust til ágirndar, tóku mútur, og hölludu rétti manna. Þá saman søfnudust allir hinir elztu í Israel, komu til Samúels í Rama, og sögdu vid hann: sjá, þú ert ordinn gamall, og synir þínir gánga ekki á þínum vegum; settu oss nú konúng, sem dæmi oss, eins og allar þjódir hafa. Þessi ord líkudu Samúel illa, ad þeir sögdu: gef oss konúng, sem dæmi oss. Og hann bad til Guds. En Drottinn sagdi vid hann: gegn þú rødd fólksins í því, sem þeir hafa sagt vid þig; aptradu þeim ad eins alvarlega, og kunngjørdu þeim háttu þess konúngs, sem yfir þeim mun drottna. Og Samúel sagdi vid fólkid: þér hafid ekki útskúfad mér, heldur Drottni, ad hann skuli ekki vera konúngur yfir ydur. Þér breytid, eins og þér ávalt hafid breytt frá þeim degi, ad Drottinn flutti ydur út af Egyptalandi, alt til þessa dags. En sá mun verda háttur þess konúngs, sem yfir ydur mun drottna: syni ydar mun hann taka fyrir vagnmenn og reidmenn, og ad þeir

hlaupi fyrir vagni hans; fyrir höfudsmenn yfir þúsund og yfir fimmtíu; og ad þeir plægi akur hans og uppskeri uppskeru hans; og gjöri strídstól hans og vagntól. En dætur ydar mun hann taka til þess, ad þær búi til smyrsli og reikelsi, eldi og baki. Ydar beztu akra og víngarda og olíugarda mun hann taka, og gefa þrælum sínum og geldíngum, og láta ydur tíunda sádlönd ydar og víngarda. Og hann mun taka þræla ydar og ambáttir, og ydar fridustu úngmenni, og asna ydar, og brúka til verka sinna. Hann mun láta ydur tíunda hjardir ydar, og þér sjálfir munud vera þrælar hans. Og sem þér þá æpid vegna konúngs ydar, sem þér hafid ydur valid, þá mun Drottinn ekki heyra ydur. En fólkid vildi ekki gegna raust Samúels, og þeir sögdu: nei, konúngur skal vera yfir oss, ad vér séum eins og allar adrar þjódir, og konúngur dæmi oss, og fari út á undan oss, og heyi vor stríd. — Og Samúel gegndi öllu því, sem fólkid sagdi, og sagdi vid Israelsmenn: farid burt, hver til síns stadar.

## 67. Sál.

1, Og þar var madur af Benjamín, ad nafni Kis, hraustur madur. Hann átti son, sem hét Sál, úngan og fridan; var einginn af Israels-

sonum frídari en hann, og hann var høfdi hærri en allir adrir. En Kis, fødur Sáls, vantadi øsn-ur; og hann sagdi vid son sinn: tak med þér einn af sveinunum, og far og leita ad øsnunum. Og hann fór um Efraims-fjøll, og um Salisa-land, og fann þær ekki; þeir fóru þá um Saal-imsland; þær voru þar ekki heldur. Þá fóru þeir um Jemínisland, og þeir fundu þær ekki heldur þar. En sem þeir komu í landid Súf, sagdi Sál vid sveininn, sem med honum var: kom, látum okkur hverfa heim aptur, máske fadir minn hafi gleymt øsnunum, en sé hræddur um okkur. Hann svaradi: heyrdu samt, nafnkendur Gudsmadur er í þessum stad; alt sem hann talar, geingur eptir; látum okkur fara þángad, máske hann segi okkur, hvert vid skulum leita. Og Sál sagdi vid sveininn: ef vid førum þángad, hvad færum vid þá manninum? Því braudid er upp geingid úr malpoka okkar, og vid høfum einga gjøf ad færa þessum Gudsmanni. Hvad høfum vid hjá okkur? Sveinninn svaradi: eg hefi hjá mér fjórda part af silfursikli, hann vil eg gefa Guds-manninum, ad hann gjøri okkur kunnan veg okkar. Og Sál sagdi vid svein sinn: þitt rád er gott; kom, látum okkur fara. Og þeir geingu til stad-arins, þar sem Gudsmadurinn var; og sem þeir

nú geingu upp á hæð staðarins, hittu þeir ambáttir, sem geingu út að sækja vatn, og sögðu við þær: er sjáandinn hér? Þær svörudu: já, hann er hér; flýtið ykkur, því að hann kom í dag í staðinn, af því fólkið færir í dag fórnir á hæðinni. Þegar þið komið í staðinn, munuð þið finna hann, áður en hann geingur upp á hæðina, til að eta. Því fólkið vill ekki eta fyr en hann kemur, því að hann blessar fórnina; þareptir eta þeir, sem boðnir eru. Gángið nú upp þángað, því að einmitt nú munuð þið hitta hann. Og sem þeir komu inn í staðinn, sjá þá gekk Samúel út í móti þeim, til að gánga upp á hæðina. En Drottinn hafði opinberað Samúel einum degi áður en Sál kom, og sagt: á morgun í þetta mund mun eg senda til þín mann úr Benjamínslandi, smyr hann til höfðíngja yfir fólk mitt Israel, svo að hann frelsi það af hendi Filistea; því eg hefi litið til míns fólks, og þess óp er komið mér til eyrna. Þegar nú Samúel sá Sál, mælti Drottinn til hans: sjá, það er maðurinn, sem eg talaði um við þig, að hann skuli drottna yfir mínum lýð. Þá gekk Sál til Samúels í borgarhliðinn, og mælti: segðu mér, hvar er hús sjáandans? Samúel svaraði: eg em sjáandinn, gakk á undan mér upp á hæðina,

því þið skuluð eta með mér í dag. Á morgun mun eg láta þig fara, og alt það, sem þú hefur í huga, mun eg kunngjøra þér. Hvað øsnurnar snertir, sem nú í dag fyrir þremur døgum týnd-ust, þá kærðu þig ekki um þær; þær eru fundnar. Og hverjum mun til heyra alt það, sem er bezt í Israel, nema þér og øllu húsi føður þíns? — Sál svaraði: er eg ekki Benjaminíti, af minstu ættkvísl Israels, og mín ætt hin minsta af øllum ættum Benjamíns? Því segir þú þá þetta við mig? En Samúel tók Sál og svein hans, leiddi þá í borðstofuna, og setti þá efst meðal þeirra, sem boðnir voru, en það voru nálægt þrjátíu. Og Samúel sagði við matsveininn: fá mér stykkið, sem eg fékk þér, um hvert eg sagði: tak það frá. Þá bar matsveinninn fram lærið, og það, sem þar með fylgir; og Samúel lagði það fyrir Sál og mælti: sjá, það er fráskilið; legg það fyrir þig, og et, því þér var það geymt, einmitt til þessa tíma, er eg bauð fólkinu. Svo át Sál með Samúel hinn sama dag. Og þeir geingu af hæðinni niður í staðinn, og Sál var hjá honum um nóttina, og svaf á þakinu. Og þeir risu snemma upp, og sem morgunroðinn rann upp, kallaði Samúel Sál upp á þakið, og mælti: far nú á stað, að eg fylgi þér. Og Sál

stód upp, og þeir geingu bádir út, hann og Samúel. Og sem þeir komu til enda stadarins, mælti Samúel vid Sál: segdu sveininum, ad hann fari á undan okkur. Og hann fór á undan þeim. En stattu nú vid, ad eg láti þig heyra, hvad Gud hefur sagt. Þá tók Samúel vidsmjørsflǿsku, helti yfir høfud honum, kysti hann, og mælti: sjá, svo smyr Drottinn þig til høfdingja yfir sitt fólk. Þegar þú nú geingur frá mér, muntu hitta tvo menn hjá grøf Rakelar vid landamerki Benjamins, sem munu segja vid þig: øsnurnar eru fundnar, sem þú fórst ad leita ad, og sjá, fadir þinn hefur eingan gaum gefid øsnunum, og er hræddur um ykkur, og segir: hvad skal eg gjøra vidvíkjandi syni mínum? Og er þú heldur áfram þadan, og kemur til eikarinnar Tabor, munu þrír menn þar hitta þig, sem gánga upp til Guds í Betel. Einn þeirra ber þrjú kid, annar þrjá brandhleifa, og hinn þridji vínbrúsa. Þeir munu heilsa þér vinsamlega, og gefa þér tvø braud; þigg þú þau af þeim. Eptir þad muntu koma til Gibea Elohim, Guds hædar, þar sem verdir Filistea standa; og þegar þú kemur þar til stadarins, mun þér mæta hópur spámanna, sem kemur nidur af hædinni, og á undan þeim hørpur, trumbur, flautur og hljód-

pípur, og þeir munu sýngja af gudlegri anda-
gipt. Og Guds andi mun koma yfir þig, svo
ad þú munt spá með þeim, og verda annar mad-
ur. Þegar nú þessi teikn mæta þér, þá gjør hvad
þér bezt sýnist, því Gud er med þér. En far nú
á undan mér til Gilgal; sjá, eg vil koma þángad
til þín, til ad frambera brennifórn og þakkar-
fórn. Sjø daga skaltu bída, þángad til eg kem
til þín, og læt þig vita, hvad þú skalt gjøra.

2, Og sem hann sneri sér vid, og gekk burt
frá Samúel, þá gaf Gud honum annad hjarta,
og øll þessi teikn komu fram hinn sama dag.
Og sem þeir komu til Gibea, sjá, þá kom hópur
spámanna í móti honum, og Guds andi kom
yfir hann, og hann spádi medal þeirra. En sem
þeir, sem ádur høfdu þekt hann, sáu hann, søgdu
þeir allir hver vid annan: hvad er þá sked syni
Kis? Er Sál og medal spámannanna? (Þadan
er máltækid komid: er Sál og medal spámann-
anna.) Og hann hætti ad spá, og kom upp á
hædina. En fødurbródir Sáls sagdi vid hann
og svein hans: hvert fórud þid? Þeir svørudu:
ad leita ad øsnunum; og þegar vid sáum þær
hvergi, fórum vid til Samúels. Þá mælti fødur-
bródir Sáls: hvad sagdi Samúel vid ykkur?
Sál svaradi: hann sagdi okkur, ad øsnurnar

væru fundnar. En um konúngdóminn sagdi hann honum ekki. Og Samúel kalladi fólkid til Drottins i Mispa, og sagdi vid Israelslýd: komid nú fram fyrir Drottinn, eptir ættkvíslum ydar og kynþáttum, svo ad vér veljum konúng eptir hlutkesti. Þá lét Samúel allar ættkvíslir Israels gánga fram, og kasta um hlutkesti, og féll þad á ættkvísl Benjamins. Og sem hann lét ættkvísl Benjamins gánga fram eptir kynþáttum hennar, féll hlutkestid á kynþátt Matris og Sál, son Kis. Þeir leitudu hans þá, en hann fanst eigi. Þá spurdu þeir Drottinn aptur: mun madurinn koma híngad? Drottinn sagdi: sjá, hann hefur falid sig hjá áholdunum. Þá hlupu þeir þángad, og sóttu hann, og er hann gekk fram medal fólksins, var hann hofdi hærri, en allir adrir. Og Samúel sagdi til fólksins: þar sjáid þér þann, sem Drottinn hefir útvalid; því ad eínginn er sem hann medal als fólksins. Þá æpti alt fólkid upp og mælti: konúngurinn lifi! En Samúel sagdi fólkinu oll réttindi konúngdómsins, og skrifadi þad i bók, og lagdi hana nidur fyrir Drottni. Og hann lét alt fólkid frá sér, hvern heim til sín. Og Sál gekk líka heim til Gibea, og skari med honum af þeim, hverra hjarta Gud hafdi hrært. En nokkrir unrenn-

ingar sögdu: hvad mun þessi hjálpa oss? Og þeir fyrirlitu hann, og færdu honum eingar gáfur; en hann lét, sem hann tæki ekki eptir því.

3, Og Ammonítinn Nahas dró út, og settist um Jabes í Gilead. Og þeir í Jabes sögdu vid Nahas: gjör sáttmála vid oss, svo viljum vér þjóna þér. En Nahas svaradi þeim: med þeim kostum vil eg gjöra sáttmála vid ydur, ad eg stíngi út á ydur öllum hid hægra auga, og med því móti gjöri öllum Israel hádúng. Þá sögdu hinir elztu í Jabes vid hann: gef oss sjö daga frest, til þess vér sendum bod um alt Israelsland; og sé einginn, sem bjargar oss, þá skulum vér gánga út til þín. Og sendibodarnir komu til Gibea til Sáls, og töludu þessi ord í áheyrn fólksins. Þá hóf alt fólkid upp raust sína og grét. Og sjá, Sál kom á eptir akneytum af akri, og sagdi: hvad geingur ad fólkinu, ad þad grætur? Þeir sögdu honum ord mannanna frá Jabes. Þá kom Guds andi yfir hann, er hann heyrdi þessi ord, og reidi hans upptendradist mikillega. Og hann tók tvo uxa, brytjadi þá, sendi stykkin um alt Israelsland med sendibodum, og lét segja: hver sem ei leggur á stad med Sál og Samúel, þess manns naut skal þannig med fara. Þá kom ótti Drottins yfir fólkid, og

þeir fóru út, sem einn madur. Og hann kannadi lidid í Besek; voru synir Israels þrjú hundrud þúsund, og menn af Júda þrjátíu þúsund. Og þeir sögdu vid sendimennina, sem komid höfdu: segid mönnunum í Jabes: á morgun, þegar sólin skín heitt, skulud þér fá hjálp. Þegar sendimennirnir sögdu þetta þeim í Jabes, urdu þeir gladir, og sögdu vid Ammonita: á morgun viljum vér gánga út til ydar, ad þér gjörid vid oss, hvad ydur gott þykir. Morguninn eptir skipti Sál lidinu í þrjá flokka, og þeir brutust inn í herbúdirnar um morgunvaktartímann, og ráku Ammonita á flótta alt til middegis; en þeim, sem eptir voru, var svo tvístrad, ad ekki voru tveir saman medal þeirra. Þá sagdi fólkid vid Samúel: hverjir eru þad, sem sögdu: skyldi Sál drottna yfir oss? Seljid þá fram, ad vér drepum þá. En Sál mælti: á þessum degi skal einginn deya, því ad í dag hefur Drottinn veitt Israel mikla frelsun. Og Samúel sagdi vid fólkid: komid, látum oss fara til Gilgal, og stadfesta þar á ný konúngdóminn. Þá fór alt fólkid til Gilgal, og stadfesti þar konúngdóm Sáls fyrir Drottni, og færdu Drottni þakkarfórn. Og Sál og allir Israelsmenn voru næsta gladir.

## 68. Ræda Samúels til fólksins.

Þá taladi Samúel til als Israels, og sagdi: sjá, eg hefi hlýtt raust ydar i øllu; sem þér hafid til mín talad, og sett konúng yfir ydur. Og sjá, þarna er konúngurinn. En eg er ordinn gamall og grár, og synir minir eru á medal ydar; og eg hefi geingid fyrir ydar augliti frá únga aldri alt til þessa dag. Sjá, hér em eg, vitnid nú í móti mér fyrir Drottni og hans smurda: hef eg tekid frá nokkrum manni hans uxa eda asna? Hefi eg sýnt nokkrum manni ofriki eda órétt? Hefi eg þegid mútu, og látid þannig blinda augu mín? Sé svo, skal eg skila því aptur. Þeir søgdu: þú hefur ekki sýnt oss ofriki eda órétt, og af eingum þegid mútu. Og Samuel sagdi enn fremur til fólksins: gángid nú fram, ad eg færi søk vid ydur um alla velgjørninga Drottins, sem hann hefur audsýnt ydur og fedrum ydar. Þegar Jakob var kominn til Egyptalands, hrópudu fedur ydar til Drottins; og hann sendi Móses og Aron, ad þeir leiddu fedur ydar út af Egyptalandi, og gæfu ydur bústad í þessu landi. En þegar þeir gleymdu Drottni, Gudi sínum, seldi hann þá í hønd Siseras og Filistea og Móabítakonúngs. Þá hrópudu þeir til Drottins aptur og søgdu:

vér höfum syndgad, ad vér yfirgáfum Drottinn, og þjónudum Baal og Astarot; frelsa oss nú af hendi óvina vorra, svo viljum vér vera þér hlýdnir. Þá sendi Drottinn Gideon, og Bedan, og Jepta, og Samúel, og frelsadi ydur af hendi óvina ydar, og þér bjuggud óhultir. En sem þér sáud, ad Nahas, konúngur Ammoníta, kom móti ydur, sögdud þér vid mig: ekki þú, heldur konúngur skal drottna yfir oss, þar sem þó Drottinn, ydar Gud, var ydar konúngur. Nú, þarna hafid þér konúnginn, sem þér hafid valid og bedid um; því sjá, Drottinn hefur sett yfir ydur konúng. Ef þér nú óttist Drottinn, og hlýdid raust hans af öllu hjarta, bædi þér og konúngur ydar, sem ríkir yfir ydur, þá mun Drottinn ekki yfirgefa sinn lýd. En ef þér hlýdid ekki raust hans, og breytid illa, þá mun Drottinn svipta sinni hendi af ydur, og bædi þér og konúngur ydar vera glatadir. Óttist samt ekki; þér hafid ad vísu adhafzt alt þetta illa, en þad sé fjærri mér, ad syndga svo móti Drottni, ad eg skyldi af láta, ad bidja fyrir ydur, og kenna ydur hinn góda og rétta veg. Víkid ad eins ekki frá Drottni, heldur þjónid honum af öllu hjarta. Snúid ydur ekki til hinna fánýtu afguda, sem hvorki geta hjálpad né frelsad, því ad þeir eru ekkert.

## 69. Hardstjórn Filistea yfir Israel.

Þegar Sál hafdi ríkt yfir Israel á annad ár, valdi hann sér þrjú þúsund manns, en hid annad af fólkinu lét hann fara, hvern til síns tjalds. Og Sál hafdi tvø þúsund manns hjá sér, en Jónatan sonur hans hafdi þúsund, og rak burt setulid Filistea, sem var í Gíbea. Þá lét Sál blása í básúnur um alt landid, og sagdi: heyrid þad, þér menn ebreskir. Og allur Israel heyrdi, hversu menn søgdu: Sál hefur rekid burt setulid Filistea, og Filisteum er ílla vid Israel. Og fólkid var kallad saman til Sáls í Gilgal. Þá søfnudust Filistear saman til ad berjast vid Israel, þrjátíu þúsund vagnar, sex þúsund reidmenn og fólkid eins margt og sandur á sjáfarstrøndu. En sem Israelsmenn sáu, ad þeir voru í neyd, því ad fólkid var hrætt, þá fólu þeir sig í hellum, þyrnirunnum, giljum, turnum, og gryfjum; og margir ebreskir menn fóru yfir Jórdan í landid Gad og Gilead. En Sál var enn nú í Gilgal, og alt fólkid fylgdi honum skelkad, og dreifdist burt frá honum. Og Sál taldi þá, sem eptir voru hjá honum, og þad voru hér um bil sex hundrud manns. Med þeim fór hann til Gíbea-Benjamín og tjaldadi þar. En Filistear héldu til skardsins hjá Mikmas,

og settu þar herbúdir sínar. Lagdi óvígur her frá herbúdum þeirra í þremur flokkum; stefndi einn flokkurinn til Ofra, annar til Bethoron, hinn þridji til dalsins Seboim, út til eydimerkurinnar. En einginn smidur var í øllu Ísraelslandi, því ad Filistear hugsudu sér, ad ebreskir menn skyldu eigi gjøra sér sverd eda spjót. Og allur Ísrael fór til Filistea, þegar einhver þurfti ad hvessa plógjárn sitt, pál, oxi eda spada; og á orustudeginum fanst hvorki sverd né spjót í hendi als fólksins. En Sál og Jónatan høfdu vopn.

## 70. Hetjumódur og hætta Jónatans.

1, Og þad skedi einn dag, ad Jónatan, sonur Sáls, sagdi vid skjaldsvein sinn, sem bar vopn hans: kom þú, og látum okkur gánga yfir til vardmanna Filistea, sem eru gagnvart; og hann lét ekki fødur sinn vita af því. En Sál hafdi tjald sitt vid endann á Gibea undir kjarneplatrénu í Migron, og þeir sex hundrud menn, sem hann hafdi med sér; og þeir vissu ekki, ad Jónatan var burt geinginn. En hjá skardinu, sem Jónatan vildi fara um til vardmanna Filistea, voru tveir hamrar, sinn á hverja hond. Og Jónatan sagdi til sveinsins, sem bar hertigi hans: kom, lát-

um okkur fara yfir til herbúda þessara vantrúundu; máske Drottinn láti okkur eitthvad framkvæma; því Drottni er ekki erfitt ad veita sigur med mørgum eda fáum. Skjaldsveinninn mælti: gjør þú, eins og þér býr í brjósti, far þú, sjá, eg er med þér, hvert sem þú ferd. Jónatan mælti: þegar vid komum yfir um til mannanna, og komum þeim í augsýn, og þeir þá segja: bídid, þángad til vér komum til ykkar; þá skulum vid standa kyrrir á okkar stad og ekki fara til þeirra. En ef þeir segja: komid híngad upp til vor, þá viljum vid gjøra þad, því þá hefur Drottinn gefid þá í hønd okkar. Og þad sé okkur til merkis. Þegar þeir nú bádir komu í augsýn Filistea, søgdu þeir: sjá, ebreskir menn eru komnir fram úr holum sínum, sem þeir høfdu skridid í. Og vid Jónatan og skjaldsvein hans søgdu þeir: komid híngad upp til vor, vér skulum segja ykkur nokkud. Þá sagdi Jónatan vid skjaldsvein sinn: kom þú eptir mér, því Drottinn hefur gefid þá í hendur Israels. Og Jónatan klifradist upp á høndum og fótum, og skjaldsveinn hans eptir honum. Féllu þeir þá fyrir sverdi hans, og skjaldsveinn hans lagdi þá líka ad velli á eptir honum; svo ad þeir, sem Jónatan og skjaldsveinn hans løgdu fyrst ad velli, voru hér um

vil 20; lágu þeir svo sem á hálfri reim litils akurs. Og ótta sló yfir herbúdirnar og yfir alt fólkid; vardmennirnir og herinn skelfudust, og landid nötradi, og þad vard ad Guds skelfingu. Og vardmenn Sáls í Gibea sáu ysinn í herbúdum Filistea, hversu ad múgurinn tvistradist, og hljóp sinn í hverja áttina. Þá sagdi Sál til fólksins, sem hjá honum var: teljid og sjáid, hver frá oss er farinn. Og er þeir töldu, sjá, þá var þar ekki Jónatan og skjaldsveinn hans. Þá mælti Sál vid Ahia: kom þú med ork Guds. Og medan hann var enn ad tala vid prestinn, vard ysinn og hlaupin í herbúdum Filistea enn meiri. Og Sál og fólkid, sem med honum var, safnadist saman og fór í orustuna; og sjá, sverd hins eina medal Filistea var móti hinum ödrum, og þeir ridludust hver um annan. Einnig hinir ebresku, sem ádur voru hjá Filisteum, og höfdu farid med þeim til herbúdanna, geingu í lid med þeim, sem voru med Sál og Jónatan. Og allir Israels menn, sem höfdu laumazt í felur á Efraimsfjalli, þegar þeir heyrdu, ad Filistear flúdu, fóru þeir og eptir þeim til orustu. Þannig hjálpadi Drottinn á þeim degi fyrir hönd Jónatans, og stridid þokadist fram hjá Betaven.

2, Og sem Israelsmenn voru ordnir þreyttir

hinn sama dag, þá skoradi Sál á fólkid, særdi þad og sagdi: bølvadur sé sá, sem etur nokkud til kvølds, þángad til eg hefi hefnzt á fjandmønnum minum. Þá smakkadi einginn mat af fólkinu, en eltu Filistea. Og þeir komu ad skógi einum, þar var hunáng á jørdu, og er þeir komu inn í skóginn, sjá, þá flaut þar hunáng. En einginn bar høud ad munni, því fólkid hræddist bølvan Sáls. En Jónatan hafdi ei heyrt, hversu fadir hans hafdi skorad á fólkid, rétti út staf sinn, sem hann hafdi í hendi, dýfdi brodd hans í hunángsseiminn og bar hønd sína ad munninum; og augu hans urdu aptur lifleg. Þá tók einn af fólkinu til orda og mælti: fadir þinn skoradi fast á fólkid og sagdi: bølvadur veri sá, sem etur nokkud í dag. Og fólkid var ordid mjøg þreytt og húngrad. Þá sagdi Jónatan: fadir minn hefir ørmagnad fólkid, sjáid, hversu augu mín eru lifleg, af því eg ad eins smakkadi á þessu hunángi. En af því fólkid ekki hefur í dag mátt eta af herfángi fjandmanna sinna, sem þad hefur fundid, þá hefur mannfallid ekki heldur ordid meira en þetta milli Filistea. Þá fleygdi fólkid sér yfir herfángid, og þeir tóku sandi, kýr og kálfa, og slátrudu því á jørdu, og átu þad med blódinu. Og menn søgdu Sál frá og mæltu:

sjá, fólkid syndgar móti Drottni, því pad etur blódid, og brýtur þann eid, sem þú tókst af því. Hann sagdi: þér hafid breytt illa; veltid strax til mín stórum steini, dreifid ydur út medal fólksins, og segid þeim: flytjid til mín hver og einn sinn sand og sinn uxa, og slátrid hér, og etid, og syndgid ekki med því ad eta blódid. Þá kom alt fólkid, hver og einn med sinn uxa um nóttina, og slátrudu þar. Og Sál byggdi Drottni altari; það var hid fyrsta altari, sem hann bygdi Drottni. Og Sál mælti: gángid híngad allir höfdingjar fólksins, og grenslist eptir og sjáid, hvern veg þessi synd er sken í dag. Því svo sannarlega, sem Drottinn lifir, frelsan Israels, þó hún lenti á syni mínum Jónatan, þá skal hann deya. Og einginn svaradi honum af öllu fólkinu. Og hann sagdi vid Israel: verid þér ödru megin, eg og Jónatan sonur minn viljum vera hinu megin. Fólkid svaradi og sagdi: gjör eins og þér lízt. Og Sál sagdi til Drottins: Gud Israels, lát koma upp hid rétta. Þá hitti hlutfallid Jónatan og Sál, en fólkid slapp. Þá mælti Sál: kastid hlut um mig og son minn. Þá vard Jónatan fyrir hlutfallinu. Og Sál sagdi vid Jónatan: segdu mér, hvad hefur þú gjört? Jónatan sagdi honum pad og mælti:

eg smakkadi med stafnum í hendi mér lítid eitt á hunángi, á eg þess vegna ad deya? Þá mælti Sál: Gud gjøri mér svo; og enn framar: Jónatan, þú verdur ad deya. En fólkid sagdi vid Sál: á Jónatan ad deya, sem hefur feingid þennan mikla sigur í Israel? Fjærri sé þad; svo sannarlega sem Drottinn lifir skal ekki eitt høfudhár hans falla til jardar; því med Gudi hefur hann gjørt þetta í dag. Þannig frelsadi fólkid Jónatan, svo hann hélt lífi. Og Sál slepti því ad fara eptir Filisteum, og þeir fóru á land sitt.

## 71. Mikilleiki og hrøsun Sáls.

Þegar Sál var ordinn konúngur yfir Israel, átti hann stríd vid alla fjandmenn sína, alt umkríng: vid Móabita, Ammonita og Edomita; vid konúngana af Soba og vid Filistea; og hvert sem hann sneri sér, vann hann sigur. Og hann sýndi mikla hreysti, og sigradi Amalekita, og frelsadi Israel af hendi allra þeirra, sem áreittu þá. En strídid vid Filistea var ákaflegt, svo leingi sem Sál lifdi. Og sæi hann einhvern sterkan og hugadan mann, tók hann þann hinn sama til sín. — En eptir þad syndgadi Sál mikillega á móti Gudi, og braut hans bod og réttindi. Hann

fór meir ad óskum fólksins, en ad vilja Guds, og hlýddi fremur raust þeirra, en raust Drottins. Þá kom ord Drottins til Samúels: jeg hefi burt skúfad Sál, svo ad hann og hans ætt skal ekki ríkja yfir Israel; því ad hann hefur snúid sér frá mér, og ekki hlýtt ordum mínum. Af þessu vard Samúel mjøg hryggur, og kalladi til Drottins alla þá nótt. En um morguninn reis hann snemma upp til ad hitta Sál. Og sem hann kom til hans, sagdi hann vid hann: þú hefur breytt illa í augliti Drottins. Og af því ad þú hefur burt snarad ordi Drottins, þá hefur hann einnig burt snarad þér. Sál svaradi og sagdi: hefi eg þó ekki tekid hid bezta, til ad fornfæra Drottni, Gudi þínum? En Samúel sagdi: heldur þú ad Drottinn hafi meiri mætur á brennifórn og sláturfórn, en á hlýdni vid sig? Sjá, hlýdni er betri en fórn, og gaumgæfni betri en feiti hrútanna. — Svo fór Samúel til Rama, en Sál fór heim í hús sitt til Gibea, og var mjog hryggur. Og Samúel sá ekki Sál upp frá því til sins daudadags. En hann var þó sorgmæddur út af Sál, af því ad hann hafdi syndgad, og gjort sig óverdugan þess, ad vera konúngur yfir Israel.

## 72. David.

Og Drottinn sagdi vid Samúel: hvad leingi ætlar þú ad vera sorgmæddur vegna Sáls? Fyll horn þitt med vidsmjøri, og legg af stad; eg ætla ad senda þig til Isai, Betlehemítans, þvi eg hefi útséd mér konúng medal sona hans. Tak med þér kálf, og segdu: eg kem til ad færa Drottni fórn. Og þú skalt bjóda Isai til fórnarmáltidarinnar; mun eg þá láta þig vita, hvad þú átt ad gjøra; og þú skalt smyria mér þann, sem eg mun segja þér. Samúel gjørdi þad, sem Drottinn sagdi, og kom til Betlehem. Þá komu hinir elztu í stadnum med flýti á móti honum, og søgdu: bodar koma þín gott? Hann mælti: ja, eg kem til ad færa Drottni fórn; helgid ydur, og komid med mér til fórnarinnar. Og hann helgadi Isai og syni hans, og baud þeim til fórnarmáltidarinnar. Þegar þeir nú komu, horfdi hann á Eliab, elzta son Isais, og hugsadi: vissulega er þessi fyrir Drottni hans smurdi. En Drottinn sagdi til hans: líttu ekki á hans skapnad eda líkama-vøxt, eg hefi ekki útvalid hann; þvi eg lít ekki á þad, sem madurinn litur á; madurinn litur á þad, sem fyrir augunum er, en Drottinn litur á hjartad. Þá kalladi Isai á Abinadab, og lét

hann gánga fram hjá Samúel. En hann mælti: ekki hefur Drottinn heldur kosid þennan. Þá lét Ísai Samma gánga fram hjá. En hann mælti: ekki heldur hefur Drottinn útvalid þennan. Og svo lét Ísai sjö syni sína gánga fram hjá frammi fyrir Samúel. En Samúel mælti: eingan þessara hefur Drottinn útvalid. Og hann sagdi enn fremur vid Ísai: eru þetta allir sveinarnir? Hann svaradi: enn er sá ýngsti eptir; og sjá, hann gætir sauda. Þá sagdi Samúel vid Ísai: send eptir honum, og lát hann koma; því vér setjumst ekki til bords, fyr en hann kemur. Þá sendi hann, og lét sækja hann: en hann var raudur á hár, eygdur vel og svípgódur. Og Drottinn sagdi: stattu upp, og smyr þennan, hann er þad. Þá tók Samúel vidsmjörshornid, og smurdi hann mitt á medal brædra hans. Og andi Drottins kom yfir Davíd upp frá þeim degi; en frá Sál veik hann. Og Samúel tók sig upp, og fór til Rama.

## 73. Risinn Goliat.

Og Filistear drógu saman her sinn til strída, og söfnudust saman í Sokó í Júda ættkvísl, og settu þar herbúdir sínar. Sál og Ísraelsmenn söfnudust líka saman, og settu herbúdir sínar

i Eikidalnum, og bjuggu sig út til stríds móti Filisteum. Voru Filistear á hæd hinu megin, og Israel á hæd hérna megin, svo ad dalur var milli þeirra. Þá gekk fram úr herbúdum Filistea kappi frá Gat, sem hét Goliat, á hæd sex álnir og spönn. Hann hafdi eirhjálm á høfdi sér, og var í spángabrynju, sem vóg vid fimm þúsund sikla af eiri. Á fótum sér hafdi hann brynhosur úr eiri, og á herdum eirspjót; var spjótsskapt hans sem vefjarrifur, og falurinn á spjóti hans vóg vid sex hundrud sikla járns. Skjaldsveinn hans gekk á undan honum. Og hann gekk fram, kalladi til fylkinga Israelsmanna, og sagdi vid þá: því dragid þér út til ad strída? Er eg ekki Filistei, og þér þrælar Sáls? Veljid ydur mann, sem komi til mín híngad. Ef hann megnar ad berjast vid mig, og fellir mig, þá viljum vér vera ydar þrælar; en ef eg sigra hann og felli hann, þá skulud þér vera þrælar vorir og þjóna oss. Og Filisteinn mælti enn fremur: eg hefi gjørt hádúng í dag Israels herfylkingum; fáid til mann, ad berjast vid mig. Þegar Sál og allur Israel heyrdu þetta tal Filisteans, skelkudust þeir og urdu mjøg hræddir. Og Filisteinn gekk þannig fram hvern morgun og hvert kvøld, og baud sig til bardaga

í fjørutíu daga. En þrír elztu synir Isai, brædur Davíds, høfdu farid med Sál í strídid; hétu þeir Eliab, Abinadab og Samma. Þá sagdi Isai vid son sinn David: tak handa brædrum þínum þennan mæli af steiktu korni, og þessi tíu braud, og far med þad í herbúdirnar til brædra þinna; og færdu líka þessar tíu sneidir af mjólkurosti høfudsmanninum yfir þúsund; og findu brædur þína, til ad vita, hvort þeim lídur vel, og kom med jarteiknir frá þeim. Þá reis David snemma um morguninn á fætur, fékk saudi fødur síns hirdi nokkrum til geymslu, og tók þad, sem Isai hafdi sagt, og kom til vagnborgarinnar. Og herinn, sem fór med fylktu lidi, æpti heróp; því Gydingar og Filistear stódu hverjir gegnt ødrum, fylking gegnt fylking. Þá slepti David því, sem hann hafdi medferdis, vid þann, sem geymdi fansinn, hljóp í fylkinguna, og kom og heilsadi brædrum sínum. Og sem hann enn var ad tala vid þá, sjá, þá gekk fram kappinn Goliat, úr fylkingu Filistea, og taladi sem ádur; og David hlýddi á. En hver madur í Israel hopadi, þegar hann sá manninn, og vard mjøg hræddur. Og Israelsmenn søgdu sín í milli: hafid þér séd manninn gánga fram? Hann geingur fram til ad gjøra Israel hádúng. Hvern,

sem fellir hann, vill konúngurinn audga miklum aud, og gefa honum dóttur sína, og húsi fødur hans frelsi frá øllum opinberum áløgum. Davíd spurdi þá, sem hjá honum stódu: hvad fær sá, sem fellir Filistea þennan, og snýr hádúnginni frá Israel? þvi hver er þessi Filistei, þessi vantrúadi, ad hann gjørir hádúng herfylkingu hins lifanda Guds? Þá sagdi fólkid vid hann, eins og ádur: þetta fær sá, sem hann fellir. Og Eliab, elzti bródir hans heyrdi hann tala vid mennina, og reidi hans upptendradist i móti Davíd, og hann mælti: hvi ertu híngad kominn og hverjum hefur þú feingid til vøktunar á eydimørkinni hina fáu saudi? Eg þekki þína ofdirfsku, og ilsku þins hjarta. Þvi til ad horfa á strídid ertu híngad kominn. Davíd mælti: hvad hefi eg nú gjørt? Var mér ekki skipad þetta? Og hann sneri sér frá honum til annars, og mælti sømu ordum; og folkid svaradi honum sem fyrri. En þau ord, sem Davíd taladi, urdu hljodbær, og menn søgdu Sál frá þeim, og hann lét sækja hann. Davíd sagdi þá vid hann: eingínn láti sér hugfallast þessa vegna; þjón þinn vill fara, og berjast vid þennan Filistea. Þá sagdi Sál vid Davíd: þú ert ekki fær um ad fara móti þessum Filistea, til ad berjast vid hann,

því að þú ert úngmenni, en hann strídsmadur frá barnæsku. David svaradi og sagdi: þión þinn gætti sauda fødur sins; þá kom einn sinni lión og einn sinni bjørn, og tók einn saudinn af hjørdinni. En eg rann eptir honum og reif hann úr gini hans; og þá hann reisti sig á móti mér, greip eg í kampa hans, feldi hann og drap. Bædi ljónid og líka bjorninn hefur þión þinn þannig felt, og þessum Filistea, þessum vantrúada, skal reida af, eins og ødruhverju þeirra, því hann hefir gjørt hádúng fylkíngum hins lifanda Guds. Drottinn, sem frelsadi mig frá lióninn og birninum, hann mun líka frelsa mig frá þessum Filistea. Þá sagdi Sál vid David: far þú þá, Drottinn sé med þér. Og Sál færdi Davíd í kyrtil sinn, setti eirhjálm á høfud hans, lét hann fara í brynju; og girti sverdi sínu yfir kyrtil hans; og hann fór nú ad gánga, því hann hafdi ekki reynt það ádur. Þá sagdi hann vid Sál: eg get ekki geingid í þessu, því eg hefi aldrei gjort það. Og hann fór úr því, tók staf sinn í hønd sér, valdi sér fimm hála steina úr lækuum, lét þá í smalatosku sína, sem hann hafdi med sér, tók slaungu í hønd sér, og gekk í móti Filisteanum. Og Golíat gekk líka fram í móti Davíd, og skjaldsveinn hans á undan honum.

Þegar nú Filisteinn leit upp, og sá Davíd, fyrirleit hann hann; því ad hann var úngmenni, raudur á hár og fridur sýnum. Og Filisteinn sagdi vid hann: er eg þá hundur, ad þú kemur í móti mér med staf? Og hann formælti honum vid Gud sinn, og sagdi: kom þú til mín, svo eg gefi hold þitt fuglum himins og dýrum merkurinnar. En Davíd svaradi honum og sagdi: þú kemur móti mér med sverd, spjót og lensu, en eg kem í móti þér í nafni Drottins alsherjar, Guds Israels fylkínga, sem þú hefur gjørt hádúng. Á þessum degi mun Drottinn gefa þig í hønd mína, og eg mun leggja þig ad velli, og høggva af þér høfudid, og lík Filistea mun eg í dag gefa fuglum himins og dýrum merkurinnar svo ad øll lønd vidurkenni, ad Israel hefur Gud, og allur þessi søfnudur sjái, ad Drottinn veitir sigur hvorki med sverdi né spjóti. Því stridid er Drottins, og hann mun gefa ydur í hendur vorar. Þegar nú Golíat tók sig til, gekk fram og nálgadist hann, þá flýtti Davíd sér og hljóp í móti honum, stakk hendi sinni í tøskuna, tók úr henni stein, slángradi og hæfdi enni Filisteans; festi steininn í enni hans, og hann féll á andlit sitt til jardar. Þannig yfirvann Davíd Filisteann med slaungu og med steini, feldi hann

og drap hann. Og þar ed hann hafdi ekkert sverd í hendi sér, hljóp hann ad, gekk til Filisteans, tók sverd hans, dróg þad úr skeidum, og hjó af honum høfudid med því. En sem Filistear sáu, ad kappi þeirra var daudur, flúdu þeir; og Israels- og Júdamenn tóku sig til, æptu heróp, og eltu þá alt ad Ekronsborgarhlidi. Lágu þeir þar fallnir á veginum til Saaraim alt til Gat og Ekron. Og Israelsmenn snéru aptur og hættu ad elta Filistea, og rændu herbúdir þeirra. En er Sál sá Davíd fara móti Golíat, mælti hann vid Abner, hershøfdingja sinn: hvers son er þessi úngi madur? Abner svaradi: svo sannarlega sem þú lifir, konúngur, eg veit þad ekki. Konúngurinn sagdi: spyr ad því, hvers son þessi úngi madur er. Þegar nú Davíd kom til baka og hafdi lagt Filisteann ad velli, tók Abner hann, og leiddi hann fyrir Sál; en hann hafdi í hendi sér høfud Filisteans. Og Sál sagdi vid hann: hvers son ertu, úngi madur? Davíd svaradi: eg er sonur þénara þíns Isai, Betlehemita. Og þad skedi, þegar hann hafdi endad tal sitt vid Sál, þá batt sál Jónatans sig vid sál Davíds, og Jónatan elskadi hann, sem sína eigin sál. Og Davíd tók høfud Filisteans, og fór med þad til Jerusalem; en vopn hans lagdi hann í tjald sitt.

## 74. Illur andi Sáls.

En Sál var þúnglyndur og myrkur í skapi frá þeim tíma, ad hann hafdi syndgazt og andi Guds var vikinn frá honum. Og þjónar hans søgdu vid hann: sjá illur andi ángrar þig; herra vor bjódi þjónum sínum, sem standa frammi fyrir þér, ad þeir leiti upp mann, sem kann vel hljódfæraslátt, til þess ad hann spili med hendi sinni, þegar hinn illi andi kemur yfir þig, svo þér batni. Þá sagdi Sál vid þjóna sína: finnid mér mann, sem kann vel á hljódfæri, og færid mér hann. Þá svaradi einn af þjónunum og sagdi: sjá, Davíd, sonur Isai Betlehemíta, sem þú þekkir, kann vel á hljódfæri; hann er hraustur kappi, og strídsmadur, vel máli farinn, og vel varinn, og Drottinn er med honum. Þá gjørdi Sál sendimann til Isai, og lét segja honum: send mér Davíd, son þinn, sem er hjá saudunum. Þá tók Isai asna, lét upp á hann braud, vínbelg og geithafur, og sendi þad Sál med Davíd syni sínum. Svo kom Davíd til Sáls, og þjónadi hjá honum; og hann vard honum mjøg kær, og vard skjaldsveinn hans. Og Sál sendi til Isai, og lét segja honum: láttu Davíd vera hjá mér, því ad hann hefur fundid nád í augum mínum. Þegar nú hinn illi andi

kom yfir Sál, þá tók Davíd hljódfæri sitt, og lék á þad med hendi sinni; vard Sál þá léttara og betra, og þúnglyndid veik frá honum. Og Jónatan gjørdi fóstbrædralag vid Davíd, því ad hann elskadi hann, sem sína eigin sál. Fór Jónatan úr skikkju sinni, sem hann var í, og gaf Davíd, somuleidis kyrtil sinn, sverd sitt, boga og belti. Og Davíd fór, hvert sem Sál sendi hann, og bar sig hyggilega ad; og hann setti hann yfir stridsfólkid, og hann var elskadur af øllu fólkinu, og líka af þjónum Sáls. — En þad skedi svo, er þeir fóru til baka frá strídinu vid Filistea, ad konur úr ollum borgum Israels geingu med saung og dansleik í móti Sál konúngi, med bumbum, básúnum og miklu fagnadarópi. Og konurnar súngu hver med annari, og léku á hljódfærin, og sogdu: „Sál feldi þúsund, en Davíd tíu þúsund." Þá vard Sál æfareidur, og honum mislikudu þessi ord, og sagdi: Davíd hafa þeir gefid tíu þúsund og mér þúsund; konúngsríkid mun líka verda hans. Og Sál leit øfundaraugum til Davíds ávalt upp frá þeim degi. — En annan dag þar eptir, kom illur andi yfir Sál, og hann æddi í húsinu; lék Davíd med hendi sinni á hljódfæri sitt, eins og hann daglega var vanur. Og Sál hafdi þá spjót í

hendi, skaut því ad Davíd, og hugsadi: eg vil nísta hann í gegn upp vid vegginn; en hann skaut sér tvívegis undan. Og Sál ottadist Davíd; því ad Drottinn var med honum, og var vikinn frá Sál. Þá lét Sál hann frá sér, og gjørdi hann ad høfudsmanni yfir þúsund mønnum: og hann gekk út og inn fyrir þeim, bar sig hyggilega ad í øllum sínum verkum, og Drottinn var med honum. Þegar nú Sál sá, ad hann bar sig svo hyggilega ad, vard hann hræddur vid hann; en allur Israel og Júda elskadi Davíd, því ad hann gekk út og inn fyrir þeim. En Mikal, dóttir Sáls elskadi líka Davíd. Þegar Sál var sagt þad, sagdi hann: þad er vel. Eg vil gefa honum hana, svo hún verdi honum ad snoru, og hønd Filistea komi yfir hann. Og hann baud þjónum sínum: talid vid Davíd heimuglega og segid: sjá, konúngurinn er þér velviljadur, og allir þjónar hans elska þig, vertu nú teingdason konúngsins. Og þjónar Sáls tøludu þessi ord fyrir eyrum Davíds. En hann sagdi: hver er eg, og hvad er líf mitt og ætt fodur míns í Israel, ad eg skyldi verda teingdason konúngsins? Þykir ydur þad litid, ad mægjast vid konúnginn? Eg er fátækur og litilsháttar madur? Og þjónar Sáls báru honum þetta, og

mæltu: þetta hefur David sagt. Þá mælti Sál: segid vid David; konúngurinn girnist einga brúdargáfu, heldur ad eins ad þú leggir ad velli hundrad Filistea, svo ad hefnd verdi goldin fjandmønnum konúngsins. Því ad Sál hugsadi: mína hønd skal eg ekki leggja á hann, heldur hønd Filistea; og hann leitadist vid ad fella hann fyrir hønd þeirra. Þá báru þjónar hans David þessi ord; og David líkadi þad vel, ad mægjast vid konúnginn. Og hann tók sig til, fór med mønnum sínum, og feldi tvø høndrud menn af Filisteum. Gaf Sál honum þá Mikal dóttur sína fyrir konu, og hún elskadi hann mjøg. En Sál hræddist David enn meir, og sýndi honum fjandskap alla æfi. Og þegar høfdíngjar Filistea fóru í hernad, bar David sig ætíd hyggilegar ad, en allir þjónar Sáls, svo ad mikid ord fór af honum.

## 75. Hatur Sáls. Vinátta Jónatans.

1, Og Sál taladi vid Jónatan, son sinn, og vid alla þjóna sína um þad ad drepa David. En Jónatan var ástvinur Davids, og sagdi honum því frá þessu, og mælti: Sál, fadir minn, sækist eptir ad deyda þig; gættu þín því á morgun, og fel þig, svo ad þú finnist ekki. En eg vil

gánga út, og vera með födur mínum í þeim stað, þar sem þú ert, og tala um þig við hann, og vita, hvað það er, og segja þér aptur. Og Jónatan talaði vel um Davíð við födur sinn, og sagði við hann: konúngurinn syndgist ekki á þjón sínum Davíð, því að hann hefur ekki syndgað í móti þér, og verk hans eru þér mjög gagnleg. Hann hefur hætt lífi sínu, og lagt að velli Filisteann, og Drottinn hefir veitt Ísrael hans vegna mikinn sigur. Þú hefur séð það, og glaðzt af því. Hví viltu þá flekka þig á saklausu blóði, og deyða Davíð án sakar? Þá skipaðist Sál við orð Jónatans, og sór: svo sannarlega sem Drottinn lifir, hann skal ekki deyðast. Þá kallaði Jónatan á Davíð, og sagði honum öll þessi orð, leiddi hann til Sáls, og hann var frammi fyrir honum, eins og áður. Og þar hófst aptur stríð, og Davíð fór út móti Filisteum, og háði mikinn bardaga, svo að þeir flúðu fyrir honum. Hinn illi andi kom þá aptur yfir Sál, og hann sat í húsi sínu, og hafði spjót í hendi sér; en Davíð lék á hljóðfæri sitt. Og Sál leitaðist við, að nísta hann með spjótinu við vegginn; en hann skauzt undan, svo spjótið lenti í veggnum, og Davíð flúði burt í hús sitt. Þá sendi Sál sendimenn þángað, til að sitja um hann, og drepa

hann um morguninn. En Mikal, kona hans, sagdi honum frá, og mælti: ef þú ekki fordar lifi þínu í nótt, verdur þú drepinn á morgun. Þá lét Mikal hann út um glugga, og hann fór, og flúdi, og komst undan. Og hún tók líkneski, og lagdi í rúmid, lét geitastöku undir höfud þess, og breiddi ábreidu yfir. Og er Sál sendi menn til ad sækja Davíd, sagdi hún: hann er sjúkur. Þá sendi Sál aptur menn til ad sjá hann, og mælti: færid mér hann í rúminu, ad eg geti drepid hann. En er sendimennirnir komu, sjá, þá lá líkneskid í rúminu, og geitastaka undir höfdi þess.

2, En Davíd flúdi, og kom til Samúels í Rama, og sagdi honum frá öllu, sem Sál hafdi gjört honum. Og hann fór med Samúel og bjó í húsi spámannsins. Þetta frétti Sál, ad Davíd væri hjá spámanninum í Rama, og hann sendi menn til ad sækja hann. En Davíd flúdi frá Rama, kom, og sagdi vid Jónatan: hvad hefi eg gjört? Hver er yfirsjón mín? Hvad hefi eg syndgad mót födur þínum, ad hann situr um líf mitt? Hann sagdi vid hann: þad sé fjærri. Þú skalt ekki deya. Sjá, fadir minn gjörir ekkert, hvorki smátt né stórt, ad hann láti mig eigi vita þad; hví skyldi hann þá leyna mig þessu? Nei,

það er ekki svo. Þá sór Davíd aptur, og sagði: fadir þinn veit, ad eg hefi fundid náð í þínum augum, þess vegna hugsar hann: Jónatan skal ekki vita þetta; það hlyti ad ángra hann. Svo sannarlega sem Drottinn lifir og þú lifir, milli mín og dandans er ad eins eitt fótmál. Jónatan mælti: Hvad girnist hjarta þitt. Eg vil gjora það fyrir þig. Davíd svaraði: sjá, á morgun er tánglkomudagur, og mér ber þá ad sitja til bords med konúnginum; leyfðu mér, ad fela mig út á mörkinni, alt til þridja kvölds. Skyldi nú fadir þinn spyrja eptir mér, þá segðu: Davíd bad mig, ad hann mætti hlaupa til borgar sinnar Betlehem, því þar er ársfórn fyrir alla ætt hans. Segi hann þá: það er gott, þá á þjón þinn von á fridi; en verdi hann illur, svo vit, ad hann hefur ílt í huga; sýn nú góðsemi þjóni þínum, því í fóstbrædralag hefur þú geingid vid mig frammi fyrir Drottni. En sé nokkur yfirtrodsla á mína hönd, svo drep þú mig; því hví skyldir þú vilja fara med mig til fodur þíns? Jónatan mælti: fjærri sé mér það, ad eg skyldi ei láta þig vita, ef eg yrdi var vid, ad eitthvad ílt sé ákvedid móti þér af hendi fodur míns. Davíd sagði: hver lætur mig vita það, ef fadir þinn svarar þér eitthvad þúnglega? Þá sagði

Jónatan: kom, látum oss gánga út á mørkina. Og þeir geingu báðir út á mørkina. Jónatan mælti þá við Davíð: Drottinn, Israels Guð, sé vitni, ef eg merki á føður minum á morgun eða daginn þar eptir, að þér sé fritt, og sendi ekki til þín og opinbera þér það, þá gjori Drottinn við Jónatan það eður það ilt. En ef faðir minn hefur ilt í sinni við þig, þá mun eg líka láta þig vita það, og láta þig burtu, svo þú farir í friði. Og Drottinn sé með þér, þegar þú verður konúngur, eins og hann hefur verið með føður minum. En þú munt auðsýna á mér miskunsemi Drottins ef eg þá lifi, og ekki taka náð þína frá húsi mínu að eilífu; ekki heldur þá, þegar Drottinn útrýður óvinum Davíðs, einum og sérhverjum úr landinu. Þannig gjorði Jónatan sáttmála við Davíðs hús; og sór honum enn nú eið; svo mjog elskaði hann hann, því að hann elskaði hann eins heitt, og sína eigin sál. Og hann sagði enn fremur við hann: á morgun er túnglkoma, þá mun verða spurt eptir þér, því menn munu sakna þín úr sæti þínu. En daginn eptir, þá hraða þú þér, og kom á þann stað, þar sem þú fólst þig vonda daginn, og vertu hjá klettinum Asel. Þá mun eg skjóta þremur pílum á hlið við hann, eins

og eg vildi skjóta til marks. Og sjá, eg mun senda dreinginn, og segja: „fardu, og sæktu örvarnar.“ Segi eg vid dreinginn: „sjá, örvarnar eru hérna megin, bak vid þig, sæktu þær“, þá skaltu koma, því ad þá er þér óhætt og ekkert ad óttast, svo sannarlega sem Drottinn lifir. En segi eg vid dreinginn: „sjá, örvarnar eru hinn megin, framundan þér,“ þá far þú, því Drottinn hefur skipad þér ad fara. En hvad því vidvíkur, sem eg og þú nú höfum talazt vid, þá sjá, Drottinn er milli mín og þín ad eilífu.

3, Og svo fól Davíd sig út á mörkinni. Og sem nú túnglkomudagurinn kom, þá settist Sál ad máltíd til ad eta. Og er hann hafdi sezt i sæti sitt, eins og hann var vanur, vid vegginn, komu líka Jónatan og Abner og settust vid hlid hans. Og menn sáu, ad sæti Davíds var autt. En Sál sagdi ekkert þennan dag, því ad hann hugsadi: honum hefur eitthvad þad til viljad, ad hann er ekki hreinn. En daginn eptir, þegar menn sáu sæti Davíds aptur autt, sagdi Sál vid son sinn Jónatan: hvers vegna hefur sonur Ísai hvorki i gær né í dag komid til máltídar? Jónatan svaradi: hann bad mig, ad lofa sér til Bethlehem, og sagdi: „leyfdu mér ad fara, því ad ætt vor á ad flytja ársfórn þar i

borginni, og bródir minn hefur bodid mér; hafi eg fundid nád í þínum augum, þá leyfdu mér ad fara og sjá brædur mína." Þess vegna er hann ekki kominn til borðs konúngsins. Þá vard Sál mjøg reidur vid Jónatan, og mælti: ó þú þverbrotni þrákálfur, eg veit vel, ad þú elskar son Ísai, þér til skammar. Því ad svo leingi sem sonur Ísai lifir á jørdinni, munt þú og konúngdómur þinn ekki standast. Þess vegna send nú og lát koma med hann til mín; því ad hann hlýtur ad deya. Jónatan svaradi fødur sínum og sagdi: hví skal hann deya? Hvad hefur hann gjørt? Þá snaradi Sál ad honum spjóti, til ad leggja hann í gegn. Þá sá Jónatan, ad þad var fastrádid af fødur sínum, ad deyda David. Og hann stód upp frá bordinu æfareidur, og át ekki þann dag; því ad hann var ángurvær vegna Davíds, af því ad fadir hans áfeldist hann svo. En morguninn eptir gekk Jónatan út á mørkina, á þann stad, sem til tekid var vid David, og litill dreingur med honum. Og hann sagdi vid dreinginn: hlauptu og sæktu ørvarnar, sem eg ætla ad skjóta. En er dreingurinn hljóp, skaut hann einni fram fyrir hann. Og sem nú dreingurinn kom á þann stad, hvar hann hafdi skotid ørinni, kalladi

hann eptir dreingnum og sagdi: örin er hinu megin, fram undan þér. Og hann kalladi aptur til hans: flýttu þér, stattu ekki kyrr. Þá tíndi dreingurinn örvarnar upp og færdi þær herra sínum; og dreingurinn vissi ekkert; ekki nema Davíd og Jónatan vissu, hvad þetta átti ad þýda. Og Jónatan fékk dreingnum vopn sín og sagdi vid hann: fardu nú, og ber þetta inn í borgina. Þá fór dreingurinn; og Davíd stód upp frá sínum stad, féll á andlit sitt til jardar, og hneigdi sig þrisvar sinnum; og þeir kystu hvor annan, og grétu hvor med ödrum, en Davíd þó mest. Og Jónatan sagdi vid Davíd: far þú í fridi. Þad sem vid bádir höfum svarid í nafni Drottins, og sagt: Drottinn vitni milli mín og þín, og milli minna nidja og þinna nidja, þad standi ad eilífu. Og Jónatan tók sig upp, og kom til stadarins.

## 76. Davíd á flótta.

En Davíd kom til Nobe, til prestsins Abimeleks; og Abimelek gekk strax í móti honum og mælti: hví ertu einsamall, og eingínn madur med þér. Davíd svaradi: konúngurinn hefur trúad mér fyrir erindi nokkru, og mælti vid mig: lát eingan vita, vegna hvers eg hefi sent þig,

og hvad eg hefi bodid þér; og sveinana hefi eg sent til annars stadar. Ef þú nú hefur eitthvad fyrir hendi, svo sem fimm brand, eda hvad þú hefur, þá gef mér þad. Þá gaf presturinn honum hid heilaga brand, því þar var ekkert brand, nema skodunarbrandin. Og Davíd sagdi vid Abimelek: er þér ekki vid hönd spjót eda sverd? Hvorki sverd mitt né vopn mín hefi eg tekid med mér, því konúngserindid bar brátt ad. Presturinn mælti: sverd Goliats, Filisteans, sem þú feldir í Eikidalnum, er hér, sveipad í dúk. Viljir þú þad svo tak þad, því hér er ekkert annad en þad. Davíd mælti: þess maki er ekki til, fá mér þad. Og Davíd tók sig upp, og flúdi leingra á fram. En þar var þennan dag einn madur í Nobe af þjónum Sáls, ad nafni Doeg, Edomiti, umsjónarmadur yfir hjardmönnum Sáls; hann sá alt þetta. — Og Davíd kom á flóttanum til Akis, Filistea konúngs í Gat. En þjónar Akis sögdu vid hann: er þetta ekki Davíd, konúngur landsins, um hvern súngid var: Sál feldi þúsund, en Davíd tíu þúsund? Og Davíd lagdi þessi ord á hjarta sér, og hræddist mjög Akis konúng. Og hann lézt vera vitskertur fyrir augum þeirra, og hagadi sér álfslega, rispadi á hurdirnar og skyrpti í skeggid. Þá sagdi Akis vid þjóna sína:

þér sjáid, ad madurinn er vitskertur; því komid þér med hann til mín? Hefi eg ekki nóg af vitfirríngum, ad þér komud med þennan, til ad láta aflægislega hér fyrir mér? Skyldi hann koma í mitt hús? Og David fór þadan, og komst undan í hellinn Adúllam. Þegar brædur hans og alt hús fødur hans heyrdu þad, komu þeir þángad til hans. Og þad dróguſt ad honum allir þeir, sem voru í krøggum og skuldum og hryggir í huga; og hann gjordist høfdingi þeirra, svo ad med honum voru nærfelt fjøgur hundrud manns. Og hann fór þadan til Mispa í landi Móabíta, og sagdi vid konúng þeirra: leif fødur mínum og módur minni ad vera hér, þángad til eg sé, hvad Gud gjørir vid mig. Og hann leiddi þau fyrir konúng Móabíta, ad þau væri hjá honum, svo leingi sem hann sjálfur vard ad ráfa um kring. Og hann fór hédan, og kom í skóginn Haret í Júdalandi. Og þad barst til Sáls, ad menn vissu af David og þeim mønnum, sem med honum voru. Og Sál sat í Gibea undir runnanum á hædinni, og hafdi spjót sitt í hendi sér, og allir þjónar hans stódu hjá honum. Þá sagdi hann vid þjóna sína: heyrid, þér Beniaminítar, ætla Ísaí sonur líka gefi ydur øllum akra og víngarda, og gjøri ydur alla ad høfuds-

mønnum yfir þúsund og yfir hundrad, ad þér allir hafid samsvarizt í móti mér, og er einginn sem opinberar mér, ad einnig sonur minn hefur gjørt sáttmála vid Isai son? Er einginn ydar á medal, sem taki upp þykkjuna fyrir mig, og opinberi mér þad? Því sonur minn hefur upp egnt þræl minn móti mér, til ad sitja um mig, eins og nú er opinbert. Þá svaradi Doeg, Edomiti, sem stód hjá þjónum Sáls, og sagdi: eg sá son Isai koma til Nobe, til Abimeleks prests, og hann adspurdi Drottinn fyrir hann, gaf honum matvæli, og sverd Goliats, Filisteans. Þá sendi konúngurinn eptir Abimelek og øllu húsi fødur hans, prestunum, sem voru í Nobe. Og þeir komu allir til konúngsins. Sál mælti: heyr, þú sonur Ahitúbs. Hann sagdi: hér er eg, herra minn. Sál mælti þá til hans: því hafid þér samsvarizt í móti mér, þú og sonur Isai, þar ed þú fékkst honum brand og sverd, og spurdir Gud fyrir hann, svo ad hann gjørir uppreisn í móti mér, og situr um mig, eins og nú er opinbert? Abimelek svaradi konúnginum og sagdi: hver er medal allra þinna þjóna svo trúr sem Davíd, teingdason konúngsins, og hefur adgáng til leyndarráda þinna, og er heidradur í húsi þínu? Hefi eg þá fyrst byrjad í dag, ad spyrja Gud fyrir hann?

Fjærri sé mér það. Konúngurinn leggi ekki þetta þjóni sínum til lasts, né öllu húsi föður míns; því að þjón þinn hefur ekki vitað neitt af öllu þessu, hvorki mikið né lítið. Konúngurinn mælti: deya hlýtur þú, Abímelek, þú og alt hús föður þíns. Og hann sagði við hirðmenn sína, sem stóðu hjá honum: gángið að, og drepið prestana, því að hönd þeirra er líka með Davíð, og þeir vissu, að hann flúði, en opinberuðu mér það þó ekki. En þjónar konúngsins vildu ekki rétta út hönd sína til að drepa presta Drottins. Þá sagði konúngurinn við Doeg: gakk þú hér að, og drep prestana. Og Edómítinn Doeg gekk að, og vann á prestunum, og deyddi á þeim degi áttatíu og fimm menn, sem báru línhökul. En einn af sonum Abímeleks, að nafni Abiatar, komst undan, og flúði til Davíðs, og sagði honum frá, að Sál hefði myrt presta Drottins. Og Davíð sagði við Abiatar: eg er sekur í lífláti allra ættmanna þinna. Vertu með mér, og óttast ekki; sá sem sækist eptir lífi mínu, sækist og eptir lífi þínu, og þér skal borgið með mér. Og Davíð og menn hans, sem voru hér um bil sex hundruð, ráfuðu um kríng í eyðimörkinni og á fjöllum; og Sál ofsótti hann, meðan hann lifði, en Guð gaf hann ekki í hönd hans. Og

Davíd vissi, ad Sál var farinn á stad, til ad sækjast eptir lifi hans; var hann þá í eydimörkinni Sif, í skóginum. Þá tók Jónatan sig upp, og fór til Davíds í eydimorkina, hughreysti hann og sagdi vid hann: vertu óhræddur; hönd födur míns mun ekki hitta þig, og þú munt verda konúngur yfir Israel, og eg vil gánga þér næst; og fadir minn veit þad. Og þeir endurnýudu þann sáttmála, sem þeir höfdu gjört sín í milli; og Davíd var kyrr í skóginum, en Jónatan fór heim aptur. En Sifitar fóru til Sáls í Gíbea og sögdu: Davíd hefur falid sig hjá oss í skóginum á fjöllunum, ad sunnanverdu vid eydimörkina; ef konúnginum því lizt ad fara, þá legg nú af stad; oss er auddvelt, ad afhenda hann í hönd konúngsins. Þá sagdi Sál: blessadir séud þér af Drottni, ad þér hafid aumkazt yfir mig. Farid nú og takid vel eptir, og njósnid og sjáid þann stad, hvar hann heldur til, og hver hafi séd hann þar; því mér er sagt, ad hann sé mjög kænn. Sjáid til og njósnid um öll fylgsni hans, sem hann felur sig í; og komid aptur til mín, þegar þér hafid feingid vissu ydar, ad eg fari med ydur. Ef hann er í landinu, skal eg finna hann medal allra þúsunda í Júda. Þá tóku þeir sig upp og fóru á undan Sál til Sif. En

En er Sál fór með mönnum sínum, að leita Davíðs, var honum sagt það, og hann flúði í eyðimörkina Maon; en Sál fór þángað eptir honum. Og Sál og menn hans fóru öðru megin við fjallið, en Davíð og menn hans hinu megin; og Davíð flýtti sér að komast undan konúnginum, en Sál og menn hans umkríngdu hann og hans menn, til að ná þeim. Þá kom sendimaður til Sáls, og mælti: kom fljótt, því Filistear eru komnir inn í landið. Þá sneri Sál tilbaka, og hætti að elta Davíð, og fór í móti Filisteum. Og Davíð fór þaðan upp á við, og staðnæmdist á fjöllunum hjá Engedi.

## 77. Sál og Davíð í hellinum.

Þegar nú Sál kom til baka frá Filisteum, var honum sagt: sjá Davíð er í Engedis eyðimörku. Og hann tók þrjú þúsund manns einvalalið af öllum Israel, og lagði af stað, til að leita Davíðs og manna hans í steingeita hömrum. Og er hann kom til fjárborga hjá veginum, var þar hellir, og hann gekk inn í hann, til að sofa. En Davíð og menn hans sátu inst í hellinum. Þá sögðu menn Davíðs við hann: sjá, þessi er dagurinn, um hvern Drottinn hefur talað við þig: sjá, eg gef óvin þinn í hönd þína, að

þú gjørir vid hann, hvad þér gott þykir. Og David stód upp, og skar hægt lafid af skikkju Sáls. En hjarta hans straffadi hann á eptir fyrir þad, ad hann hefdi skorid lafid af skikkju Sáls, og hann sagdi vid menn sína: Drottinn láti þad vera fjærri mér, ad eg gjøri slíkt, og leggi høud mína á herra minn, Drottins smurda; því ad Drottins smurdi er hann. Og hann aptradi mønnum sínum med ordum, og leyfdi þeim ekki ad rádast ad Sál. En Sál stód upp úr hellinum, og gekk út á veginn; og David stód líka upp eptir þad, og gekk út úr hellinum, kalladi eptir Sál, og mælti: minn herra, konúngur! Sál leit vid. David beygdi þá andlit sitt til jardar, laut hønum, og sagdi: hví hlýdir þú á tal þeirra manna, sem segja: David vill ógæfu þína? Sjá, á þessum degi hafa augu þín séd, ad Drottinn gaf þig í dag í høud mína í hellinum. Og menn eggjudu mig, ad eg skyldi drepa þig; en eg sparadi þig, og hugsadi: eg skal ekki leggja høud mína á herra minn, því ad hann er Drottins smurdi. Fadir minn, sjá lafid af yfirhøfu þinni í hendi mér; af því ad eg sneid lafid af yfirhøfu þinni og deyddi þig ekki, af því skaltu þekkja og sjá, ad mér býr ekkert ílt í sinni, einginn glæpur, og ad eg hefi ekki syndgazt á

þér; en þú sækist eptir lífi mínu, ad ná því. Drottinn dæmi milli mín og þín, og hefni mín á þér; en mína hönd legg eg ekki á þig. Eins og gamalt orðtæki segir: af vondum kemur vont; en eg legg ekki hönd mína á þig. Hvern eltir konúngur af Israel, hvern ofsækir þú? Daudan hund, eina fló! Drottinn sé dómari, og dæmi milli mín og þín; og sjái til, og taki minn málstad og frelsi mig af hendi þinni. Þegar Davíd hafdi talad þessum orðum til Sáls, sagdi hann: er þad raust þín, Davíd, sonur minn? Og Sál hof upp raust sína, og grét, og sagdi vid Davíd: þú ert réttvísari en eg; þú hefur sýnt mér gott, en eg hefi sýnt þér ilt. Og þú hefur látid sjá í dag, ad þú hefur gjørt mér gott, ad þú deyddir mig ekki, þó Drottinn gæfi mig í þína hönd. Því ad hitti einhver óvin sinn, mun hann þá láta hann fara í fridi? Gud umbuni þér gódu fyrir þad, sem þú gjordir mér í dag. Og sjá, eg veit, ad þú munt verda konúngur, og Israels konúngdómur stadfestast í hendi þinni; svo sver mér nú vid Drottinn, ad þú skulir ekki útrydja nidjum mínum eptir mig, og ekki afmá nafn mitt úr húsi fodur míns. Og Davíd sór þad. Þá fór Sál heim, en Davíd og menn hans fóru upp á fjallid.

## 78. Hin hyggna Abigael.

Um þessar mundir dó Samúel, og allur Israel saman safnadist, og þeir syrgdu hann, og gröfu hann í húsi sínu í Rama. En Davíd tók sig upp, og fór í eydimörkina Paran. Þar var madur í Maon, sem hafdi fé sitt á Karmel; hann var stórríkur, og átti þríú þúsund fjár og þúsund geitur, og var nú ad klippa fé sitt á Karmel. Madurinn hét Nabal, en kona hans Abigael; var hún vitur og fríd sýnum, en hann hardur og vondur vidureignar. Þegar nú Davíd frétti í eydimörkina, ad Nabal væri ad klippa fé sitt, sendi hann til hans tíu sveina sína, og sagdi vid þá: farid til Karmel og gángid fyrir Nabal; heilsid honum blídlega frá mér, og mælid svo: Gud gefi þér til hamingju! vegni þér vel og húsi þínu og öllu, sem þér vidvíkur. Jeg hefi heyrt, ad þú sért ad klippa fé þitt; hirdar þínir hafa verid med oss, og vér höfum ekkert mein gjört þeim, og þeir hafa ekkert mist nokkurn tíma, svo leingi sem þeir voru á Karmel; spyr sveina þína þar ad; þeir munu segja þér þad. Svo lát nú sveina mína finna nád í augum þínum, því á gódum degi erum vér komnir til þín. Gef þjónum þínum og syni þínum Davíd þad, sem þú hefur fyrir hendi. Og sveinar Da-

vids komu til Nabals; og sem þeir höfdu talad öllum þessum ordum vid hann í nafni Davíds, þögnudu þeir. En Nabal svaradi þeim: hver er Davíd, og hver er Isai son? Nú á dögum gefast margir þénarar, sem strjúka frá húsbændum sínum. Skal eg taka brand mitt, vatn og kjöt, sem eg hefi slátrad handa þeim, sem klippa féd, og gefa þad mönnum, sem eg ekki veit hvadan eru? Og sveinar Davíds snéru til baka, fóru leidar sinnar, komu og sögdu honum öll þessi ord. Þá mælti Davíd til manna sinna: gyrdist nú, hver og einn ydar, sverdi sínu. Og þeir gyrtust hver sinu sverdi, og Davíd líka, og fóru med honum nálægt fjögur hundrud manns, en tvö hundrud voru eptir hjá farángrinum. — Þá sagdi einn af sveinunum vid Abigael, konu Nabals, og mælti: sjá Davíd sendi sendimenn úr eydimörkinni, til ad óska húsbónda vorum til hamingju, en hann jós yfir þá fáryrdum. Og þeir voru oss þó til mikils lids, og gjördu oss ekkert mein; og vér mistum aldrei neitt, medan vér vorum med þeim og héldum fénu til haga. Hugsadu nú um, og sjádu til, hvad þú skalt gjöra; því ad ógæfa er búin húsbónda vorum og öllu húsi hans; en hann er vondur madur, svo madur getur ei vid hann talad. Þá brá Abigael vid,

og tók tvø hundrud braud, tvo vínbrúsa, fimm mæla af steiktu axi, hundrad vínberjakøkur, og tvø hundrud fíkjukokur, klyfjadi asna, og sagdi vid sveina sína: farid á undan mér, sjá, eg kem á eptir ydur. En mann sinn Nabal lét hún ekkert vita af þessu. Og er hún reid asnanum, og fór nidur á afviknum stad á fjallinu, sjá, þá komu þeir Davíd og menn hans í móti henni. En Davíd hafdi sagt: já, til einkis hefi og verndad alt, sem þessum manni til heyrdi í eydimørkinni, svo ad ekkert mistist af því, sem hann átti; og hann launar mér gott med illu. Gud gjøri svo og enn fremur vid óvini Davíds, ef eg ekki straffa hann, ádur en birtir á morgun. Þegar nú Abigael sá Davíd, sté hún í skyndi nidur af asnanum, féll fram á andlit sitt, og beygdi sig til jardar; féll honum til fóta og mælti: herra minn, alt bytni þetta á mér; en leyf ambátt þinni ad tala fyrir eyrum þínum, og hlýd á ord hennar. Minn herra gefi eingan gaum þessum vonda manni, Nabal. Því ad eins og nafn hans þýdir, eins er hann; Nabal (flón) er hans nafn, og flónska er honum eiginleg. En eg, þerna þín, hefi ekki séd sveina þá, sem þú sendir. Og nú, herra minn, svo sannarlega sem Drottinn lifir og þín sál lifir, þá hefur Drottinn aptrad

þér frá, að út hella blóði, og hefna þín. Þess-vegna verði þá þínir óvinir eins og Nabal, og þeir sem leita ófara herra míns. Hér er sú gáfa, sem þerna þín hefur fært herra mínum; gef hana sveinunum, sem með þér eru. Fyrirgef afbrot ambáttar þinnar. Drottinn mun staðfesta hús þitt, því að þú heyir stríð Drottins, og ílt mun ekki finnast hjá þér, svo leingi sem þú lifir. Og risi nokkur upp, til að ofsækja þig, og sækja eptir lífi þínu, þá mun líf herra míns vera bundið í bindini hinna lifendu hjá Drottni, Guði þínum; en lífi óvina þinna mun hann þeyta mitt úr slaungunni. Og þegar nú Drottinn hefur veitt herra mínum alt hið góða, sem hann hefur heitið þér, og gjört þig að höfðingja yfir Israel, þá mun það ekki verða hjarta þínu til ásteytingar eða hjartasorgar, að þú án orsaka hafir út helt blóði, til að hefna þín; þá mun Drottinn gjöra vel við herra minn, og þú minnast ambáttar þinn-ar. Þá sagði Davíð við Abigael: lofaður sé Drott-inn, Israels Guð, sem sendi þig í dag á móti mér. Vegsamað sé vit þitt, og vegsömuð sért þú, að þú í dag hindraðir mig frá, að út hella blóði, og að hefna mín sjálfur. Svo sannarlega sem Drottinn lifir, sem aptraði mér frá, að gjöra þér ílt, hefðir þú ekki komið svo fljótt í móti

mér, þá hefdi eg hefnt mín á Nabal, ádur en morgundagurinn kom. Og Davíd tók á móti af hendi hennar, því sem hún kom med, og sagdi: far þú í fridi heim til þín; sjá, eg hefi hlýtt raustu þinni, og gefid gaum málefni þínu. En er Abigael kom til Nabals, sjá, þá hafdi hann veizlu í húsi sinn, sem konúngaveizlu; og hjarta hans var kátt, og hann var mjøg drukkinn. En hún lét hann ekkert vita, hvorki mikid né lítid, alt til þess ad morgni. En um morguninn, þegar ølid var runnid af honum, sagdi hún honum frá þessu. Þá dó hjarta hans í búk hans, og hann vard sem steinn. Og eptir tín daga sló Drottinn hann, svo hann dó. Þegar Davíd heyrdi, ad Nabal væri daudur, sendi hann, og lét tala vid Abigael, til ad fá hana sér fyrir konu. Og þjónar Davíds komu til Abigael til Karmel, tøludu vid hana og søgdu: Davíd hefur sent oss til þín, til ad taka þig handa sér fyrir konu. Þá stód hún upp, beygdi andlit sitt til jardar, og sagdi: sjá, þín ambátt er þerna þín, til ad þvo fætur á þjónum herra míns. Og Abigael tók sig fljótt upp, og reid á asna, og fimm þernur hennar med henni; og hún fór med sendimønnum Davíds, og vard kona hans. En

Mikal, dóttur Sáls, fyrstu konu Davíds, hafdi Sál gefid Palti, syni Lais.

## 79. Spjót og vatnsskál Sáls.

Og Sifítar komu í annad sinn til Sáls til Gíbea, og søgdu: Davíd hefur falid sig á hædinni Hakila fyrir framan eydimørkina. Þá tók Sál sig upp, og fór til eydimerkurinnar Sif med sína þríú þúsund menn, og setti herbúdir sínar á hædinni Hakila. Og Davíd fékk þad ad vita af njósnarmønnum, tók sig upp, og kom þángad, sem Sál hafdi herbúdir sínar, og sá stadinn, þar sem Sál lá, og Abner, sonur Ners, hershøfdíngi hans; en Sál lá í vagnborg, og herinn í kríngum hann. Þá sagdi Davíd vid Abísai, son Seruju, bródur Jóabs: hver vill fara med mér í herbúdir Sáls? Abísai mælti: eg skal fara med þér. Svo kom Davíd og Abísai til fólksins um nótt, og sjá, Sál lá og svaf í vagnborginni, og spjót hans var rekid í jørdina til høfda honum, en Abner og fólkid lá í kríngum hann. Þá sagdi Abísai vid Davíd: í dag hefur Gud gefid óvin þinn í hønd þína; láttu mig nú reka spjótid gegnum hann. En Davíd sagdi vid Abísai: drep þú hann ekki; því ad hver leggur svo hønd á Drottins smurda, ad

hann sleppi hjá straffi? Svo sannarlega sem Drottinn lifir, ef hann ekki slær hann, eda hans tími kemur, svo hann deyr, eda hann fer í stríd og fellur, þá láti Drottinn þad vera lángt frá mér, ad eg leggi hönd mína á hans smurda. Og tak nú spjótid vid höfdalag hans, og vatnsskál hans, og látum oss fara. Svo tók Davíd spjótid og vatnsskálina til höfda Sáls, og gekk burt; og þar var einginn, sem sá þad, eda tók eptir því eda vaknadi, heldur svásu þeir allir; því ad fastur svefn af Drottni var fallinn á þá. Og Davíd fór til fjalls þess, sem þar var gagnvart, og gekk upp á brún þess, svo ad mikid bil var í milli þeirra, kalladi til fólksins og Abners, sonar Ners, og sagdi: svarar þú ekki Abner? Og Abner svaradi og sagdi: hver ertu, sem hrópar til konúngsins? Davíd mælti til Abners: ertu ekki madur? Og hver er sem þú í Israel? Hví hefur þú þá ekki vakad yfir herra þínum, konúnginum? Því ad einn af fólkinu hefur komist ad, til ad drepa konúnginn, herra þinn. Þad er ekki gott, sem þú hefur gjört, svo sannarlega sem Drottinn lifir, erud þér dauda sekir, ad þér ekki hafid vakad yfir Drottins smurda. Og sjá, hér er spjót konúngsins og vatnsskálin, sem stód vid höfdalag hans. Þá þekti Sál mál-

róm Davíds, og mælti: er þad ekki þín raust, Davíd sonur minn? Davíd svaradi: jú, mín raust, herra konúngur. Og hann sagdi enn fremur: hvers vegna ofsækir þá herra minn þræl sinn? Hvad hefi eg gjørt, hvad ílt adhafzt? Svo heyri konúngurinn þó nú rædu þræls síns: ef Drottinn hefur egnt þig upp í móti mér, þá snú þér til hans, og bid hann, ad bót verdi þar á; en ef menn hafa gjørt þad, þá veri þeir bølvadir fyrir Drottni, ad þeir út reka mig úr arfleifd Drottins, til heidingja. Þessvegna falli nú blód mitt á jørd ekki lángt frá augliti Drottins. Því ad Israels konúngur er lagdur á stad, til ad elta mig, eins og menn elta rjúpu á fjøllum. Sál sagdi: eg hefi syndgad: hverf aptur, sonur minn Davíd, eg skal nú ekki framar gjøra þér mein, af því þú á þessum degi þyrmdir lífi mínu; sjá, eg hefi breytt heimskulega og mér mikillega yfirsézt. Davíd svaradi og sagdi: sjá, hér er spjót konúngsins, einn af sveinunum komi hingad, ad sækja þad. En Drottinn mun umbuna sérhverjum réttvísi og rádvendni hans, þar ed hann í dag gaf þig í hønd mína, og eg vildi ekki leggja hønd mína á hans smurda. — Og eins og líf þitt var í dag mikils metid í augum mínum, eins verdi líf mitt mikils metid

í augum Drottins, að hann frelsi mig úr allri neyð. Þá sagði Sál við Davíð: blessaður sértu son minn Davíð; þú munt áorka og framkvæma. Og Davíð fór leið sína, en Sál sneri aptur á sinn stað.

## 80. Davíð í Siklag.

En Davíð sagði í hjarta sínu: einhvern tíma mun þó Sál takast að drepa mig; það er ekkert betra fyrir mig, en að flýja í land Filistea; þá hættir Sál að elta mig um alt Israelsland, og eg slepp úr hendi hans. Og hann tók sig upp, og fór ásamt þeim sex hundruð manns, sem með honum voru, til Akis, konúngs í Gat, og var hjá honum með báðum konum sínum, Abigael og Ahinóam, frá Jesreel. Og er Sál frétti, að Davíð væri flúinn til Gat, leitaði hann hans ekki framar. En Davíð sagði við Akis: hafi eg fundið náð fyrir þínum augum, svo ljá mér rúm í einhverjum stað úti á landinu, að eg búi þar; því hvers vegna skal þinn þénari búa hjá þér í konúngsborginni? Þá gaf Akis honum þann sama dag Siklag. En tala þeirra daga, sem Davíð bjó í landi Filistea, var eitt ár og fjórir mánuðir. — Og það skeði eitt sinn, þegar Davíð var farinn burt með mönnum sínum frá Siklag,

að Amalekítar komu, og gjørdu áhlaup á landið, unnu Siklag, brendu það með eldi, og fluttu burt með sér konur, sem þar voru, smáar og stórar. Eingan drápu þeir samt, en fluttu alt burt, og fóru sína leið. Þegar nú Davíð og menn hans komu aptur til staðarins, og sáu að hann var brendur með eldi, og að konur þeirra, synir og dætur voru herteknar, þá hóf hann og fólkið, sem með honum var, raust sína, og grétu, þángað til þeir gátu ekki grátið leingur. Því báðar konur Davíðs voru líka herteknar, Ahinóam og Abigael. Og Davíð var í mestu kröggum, því að fólkið ætlaði að grýta hann, af því að það var mjøg sorgbitið, hver og einn vegna sona sinna og dætra. En Davíð huggaði sig við Drottinn, Guð sinn. Og hann spurði Drottinn fyrir milligaungu prestsins Abiatars, sonar Abímeleks: á eg að elta þennan herflokk, og mun eg ná þeim? Hann sagði: eltu þá; þú munt ná þeim, og ná af þeim. Þá lagði Davíð á stað og þeir sex hundruð menn, sem með honum voru; og sem þeir komu að lækinum Besor, urðu þar eptir tvö hundruð manns, því að þeir voru of þreyttir til að fara yfir lækinn; en Davíð og fjøgur hundruð manns eltu þá. Og þeir fundu egyptzkan mann á mörkinni og leiddu hann

fyrir Davíd; hann hafdi ekkert etid, og ekkert vatn drukkid í þrjá daga og þrjár nætur; og þeir gáfu honum braud ad eta, og vatn ad drekka; líka gáfu þeir honum sneid af fíkjukoku og tvær vínberjakøkur. Og sem hann hafdi etid og drukkid, hvarf andi hans til hans aptur. Davíd sagdi þá vid hann: hvers ertu, og hvadan ertu? Hann mælti: eg em egyptzkur, þræll Amalekíta nokkurs, og húsbóndi minn yfirgaf mig, af því eg vard veikur, fyrir þrem døgum. Vér gjørdum áhlaup inn í landid, og brendum Siklag med eldi. Davíd sagdi vid hann: viltu vísa mér á þennan herflokk? Hann sagdi: sver þú mér vid Gud, ad þú skulir ekki drepa mig, og ekki framselja mig í hønd herra míns, þá skal eg vísa þér á þá. Og hann vísadi þeim veg, og sjá, þeir voru hér og hvar um alla mørkina, átu og drukku, og héldu sér gledi-dag, vegna þess mikla herfángs, sem þeir høfdu tekid í Filistea- og Júda-landi. Og Davíd bardi á þeim frá því í døgun og allt til kvølds á ødrum degi, svo ad einginn komst undan, nema fjøgur hundrud úngir menn, sem stigu á bak úlføldum og flúdu. Þannig nádi Davíd því øllu aptur, sem Amalekítar høfdu tekid, og bádum konum sínum. Og eingan mann vantadi, hvorki smáan né stóran, hvorki

sonu né dætur, og ekkert af herfánginu, sem þeir høfdu tekid; med alt kom David aptur. Og sem þeir komu til þeirra tvø hundrud manna, sem høfdu ordid of þreyttir til ad fylgja þeim, og ordid eptir hjá lækmum Besor, þá komu þeir mót Davíd og fólkinu, sem med honum var; og Davíd gekk til þeirra og heilsadi þeim blídlega. Þá byrjudu vondir og einkisnýtir menn, sem høfdu farid med Davíd, á því ad segja: fyrst þeir fóru ekki med oss, skulu þeir ekkert hafa af herfánginu, sem vér høfum nád, nema hver einn skal fá konu sína og børn, og fara svo. Þá sagdi Davíd: eigi skulud þér, brædur mínir, fara svo med þad, sem Drottinn hefur gefid oss. Hver mun í þessu verda á ydar máli. Eins stór og þeirra hlutur verdur, sem í strídid fóru, eins stór sé líka þeirra hlutdeild, sem hjá faráugrinum voru; því skal skipta jafnt. Þetta er upp frá þeim degi ordid ad venju og løgum í Israel, sem vidhelzt enn.

## 81. Mesta hrøsun og daudi Sáls.

Og þad skedi á þeim døgum, ad Filistear drógu saman her sinn, til ad fara í stríd vid Israel; og þeir komu, og settu herbúdir sínar í Súnem. Þá safnadi Sál líka øllum Israel, og setti

herbúdir sínar í Gilboa. En sem Sál sá her Filistea, skelkadist hann, og vard mjøg huglaus. Og hann sagdi vid þjóna sína: leitid mér ad konu, sem hefur spásagnar anda og tøk á ad leita frétta af daudum, ad eg fari til hennar og spyrji hana. Þjónar hans søgdu vid hann: sjá, kona nokkur er í Endór, sem fer med galdur. Sál skipti þá klædum og gjørdi sig óþekkilegan, fór af stad og tveir menn med honum, kom til konunnar um nótt, og sagdi: spádu mér med spásagnaranda þínum, og vek mér upp þann, sem eg mun nefna þér. Konan svaradi honum: sjá, þú veizt, hvad Sál hefur gjørt, ad hann hefur rekid úr landi spásagnarmenn og fjølkýngismenn; hví leggur þú þá snøru fyrir mig, til ad deyda mig? En Sál sór henni vid Drottinn, og mælti: svo sannarlega sem Drottinn lifir, skal þig ekkert ilt henda hér fyrir. Þá sagdi konan: hvern á eg þá ad vekja upp fyrir þig? Hann svaradi: vektu upp fyrir mig Samúel. Þá hljódadi konan upp yfir sig og sagdi vid Sál: hví hefur þú svikid mig? Þú ert Sál. Og konúngurinn mælti til hennar: vertu óhrædd; en hvad sér þú? Konan svaradi: eg sé anda koma upp úr jørdunni. Hann sagdi: hvernig er hann útlits? Hún svaradi: gamall madur stígur upp, og er klæddur

skikkju. Þá sá Sál, að það var Samúel, og hneigði andlit sitt til jarðar. En Samúel sagði við Sál: hví hefur þú ónáðað mig, og látið mig koma fram? Sál mælti: eg er í kröggum, því að Filistear stríða móti mér, og Guð er vikinn frá mér, og svarar mér ekki, hvorki fyrir milligaungu spámannanna né í draumum; þess vegna lét eg kalla þig, til að segja mér, hvað eg skuli gjöra. Samúel mælti: hví spyr þú mig, fyrst Drottinn er vikinn frá þér? Drottinn mun gjöra, eins og hann hefur sagt fyrir minn munn; hann mun rífa konúngsríkið úr hendi þér og gefa það Davíð, sem mun koma eptir þig, af því að þú hlýddir ekki raust Drottins. Og Drottinn mun líka gefa Ísrael með þér í hönd Filistea. Á morgun munt þú og synir þínir verða hjá mér. Þá féll Sál endilángur til jarðar, og varð mjög hræddur við ræðu Samúels; einginn máttur var heldur í honum, því hann hafði á eingu nærzt allan þann dag og alla þá nótt. Og konan gekk til Sáls, og sá, að hann var mjög skelkaður, og sagði við hann: sjá, þerna þín hefur hlýtt raust þinni, og eg hefi hætt lífi mínu og hlýtt orðum þínum. Svo hlýð nú líka orðum þernu þinnar, og leyfðu mér að leggja fyrir þig bita brauðs, og et, svo

kraptur sé i þér, og þú getir farið leiðar þinnar. En hann færðist undan, og mælti: eg vil ekki eta. Þá neyddu þjónar hans hann, og líka konan, og hann gegndi raust þeirra, stóð upp af jörðunni, og settist á rúmið. En konan hafði alikálf i húsinu; honum slátraði hún strax, tók mjöl, og bakaði af ósýrðar kökur. Og hún bar það fyrir Sál og þjóna hans. Og er þeir höfðu etið, stóðu þeir upp, og lögðu af stað hina sömu nótt til hers Israelsmanna. En Filistear fóru á móti Israel og börðust við þá; flúðu Israelsmenn fyrir þeim, og féllu margir á Gilboa fjöllum. Og Filistear eltu Sál og syni hans, og feldu Jónatan og Abinadab og Malkísúa, syni Sáls. Og bardaganum hallaði á Sál, og skotmennirnir hittu hann með bogum sínum, og hann varð mjög sár af skotunum. Þá sagði Sál við skjaldsvein sinn: bregð sverði þinu, og legg mig i gegn með því, svo þessir vantrúuðu komi ekki, og sálgi mér og svívirði. En skjaldsveinninn vildi ekki, því hann var mjög hræddur. Þá tók Sál sverðið, og lét fallast á það. En er nú skjaldsveinn hans sá, að hann var dauður, lét hann líka fallast á sverð sitt, og dó með honum. Þannig dó Sal og þrír synir hans, og skjaldsveinn hans, og allir menn

hans, hinn sama dag. En sem Israelsmenn hérna megin við sléttlendið og hérna megin við Jórdan sáu, að Israelsmenn flúðu, og að Sál og synir hans voru dauðir, yfirgáfu þeir staðina, og flúðu líka; og Filistear komu og bjuggu þar. Daginn eptir komu Filistear, að fletta þá klæðum, sem fallnir voru, og fundu Sál og syni hans þrjá fallna á Gilboa fjalli. Og þeir hjuggu af honum höfuðið, tóku vopn hans og sendu þau um kring í Filistealandi, til að auglýsa boðskapinn í húsum goða þeirra, og fyrir fólkinu. Og þeir lögðu vopn hans í hús Astarots; en lík hans festu þeir á borgarvegginn í Betsan. Þegar þeir í Jabes í Gilead fréttu, hvernig Filistear höfðu farið með Sál, tóku þeir sig til, allir sem vopnfærir voru, héldu á fram alla nóttina, og tóku lík Sáls og sona hans af borgarveggnum í Betsan, fluttu þau til Jabes, og brendu þar. Og þeir tóku bein þeirra, og grófu þau hjá lundinum í Jabes, og föstuðu í sjö daga.

**82. Sorg Davíðs eptir Sál og Jónatan.**

Eptir dauða Sáls, og eptir að David var kominn aptur frá bardaganum við Amalekíta, og hafði verið tvo daga í Siklag, sjá, þá kom á þriðja degi maður af her Sáls, í rifnum klæð-

um, og hafdi ausid mold yfir höfud sér. Og sem hann kom til Davids, féll hann til jardar, og laut honum. En David sagdi vid hann: hvadan kemur þú? Hann svaradi: eg komst undan af her Israels. David sagdi vid hann: segdu mér, hvernig gekk? Hinn mælti: fólkid er flúid úr bardaganum, og margir fallnir; Sál og Jónatan eru líka daudir. David sagdi vid hinn únga mann, sem sagdi honum þetta: af hverju veiztu ad Sál og Jónatan, son hans, eru daudir? Hinn úngi madur svaradi: eg kom af tilviljan á fjallid Gilboa, og sjá, Sál studdist vid spjótt sitt, og vagna- og reidmanna-lid sótti ad honum. Og hann sneri sér vid, og leit mig, og kalladi á mig. Og eg svaradi: hér em eg. Þá sagdi hann: hver ertu? Eg svaradi honum: eg er Amalekíti. Hann sagdi vid mig: kom til mín, og deyd mig, því nú þreyngir ad, en eg er med öllu lífi. Þá gekk eg ad honum, og deyddi hann, því ad eg vissi vel, ad hann gat ekki lifad eptir fall sitt. Og eg tók kórónuna af höfdi hans, og armspángirnar af armi hans, og kem nú med þad hingad til herra míns. Þá reif David klædi sín, og allir þeir menn, sem hjá honum voru; og þeir syrgdu og grétu og föstudu alt til kvölds, sakir Sáls og Jónatans sonar hans, og sakir fólks

fólks Drottins og húss Israels, ad þeir høfdu fallid fyrir sverdi. Og Davíd sagdi vid manninn, sem færdi honum tídindin: hvernig gazt þú verid svo djarfur, ad leggja hønd á Drottins smurda, og deyda hann? Og Davíd sagdi vid einn af sveinum sínum: kom hér, og líflattu þennan mann. Og hann vann á honum, svo hann dó. Þá sagdi Davíd: þitt blód sé yfir høfdi þínu, því ad munnur þinn vitnadi í móti þér, er þú sagdir: eg hefi deytt Drottins smurda. Og Davíd kvad þetta sorgarkvædi eptir Sál og Jónatan: „Sál og Jónatan voru elskulegir og ástúd„legir í lífinu, og þeir skildu ekki heldur í daudanum.
„Þeir voru fljótari en ernir, sterkari en ljón.
„O hvernig eru kapparnir fallnir mitt í bardag„anum, Jónatan lagdur í gegn á hædum þínum?
„Jeg kenni til sakir þín, bródir minn Jónatan,
„þú varst mér mjøg kær; eg mat meir elsku þína,
„en konuást. Æ, kapparnir eru fallnir, hertýgin
„mist."

Eptir þetta spurdi Davíd Drottinn, og mælti: skal eg fara hédan til einhverrar borgar í Júden? Drottinn sagdi vid hann: far þú. Davíd sagdi þá: hvert á eg ad fara? Hann sagdi: til Hebron. Svo fór Davíd þángad og bádar konur hans, og þeir menn, sem med honum voru,

hver og einn og hús hans, og bjuggu í borgum Hebrons. Og þeir í Júdeu komu og smurdu Davíd þar til konúngs yfir hús Júda. Og er Davíd var sagt, ad þeir frá Jabes í Gilead hefdu grafid Sál, sendi hann sendiboda til þeirra, og lét segja þeim: verid blessadir af Drottni, ad þér gjørdud þetta kærleiksverk á Sál, konúngi ydar, og grófud hann. Drottinn sýni ydur elsku og trúfesti, og eg vil líka gjora ydur gott, sakir þess, ad þér gjørdud þetta. Og verid nú hugrakkir og røskvir menn, þó ad Sál herra ydar sé daudur. Hús Júda hefur smurt mig til konúngs yfir sig.

## 83. Abner, fyrirlidi Sáls ættar.

En Abner, sonur Ners, hershøfdingi Sáls, tók Isbóset, son Sáls, og fór med hann til Mahanaim, og gjordi hann ad konúngi yfir øllum hinum Israel. Og Isbóset var fertugur, þegar hann vard konúngur, og hann ríkti í tvø ár. En Júda ættkvísl ein hélt med Davíd. Og Abner fór med þénurum Isbósets til Gibeon; og Jóab, sonur Serujn, hershøfdíngi Davíds, fór líka út ásamt þjónum Davíds, og þeir hitt-ust vid Gibeons vatn; lagdist Jóab og hans menn þessu megin, en Abner og hans menn hinu megin vatnsins. Og Abner sagdi vid Jóab: láttu svein-

ana standa upp, og leika fyrir oss. Jóab mælti: Þad skal vera. Þá stódu upp tólf ad tølu af Beniamin, fyrir hønd Isbósets, og tólf af þénurum Davids. Og hver greip hendi i annars høfud, og lagdi sverd i sídu hans, og þeir féllu hver med ødrum. Var hardur bardagi á þeim degi, og Abner og Israelsmenn voru sigradir af mønnum Davids. En þar voru þrír synir Seruju: Jóab, Abisai og Asahel. Asahel var fótfrár sem rádýr. Hann rann eptir Abner, og veik hvorki til hægri né vinstri frá honum. Þá snéri Abner sér vid, og mælti: ertu Asahel? Hann svaradi: já. Abner sagdi vid hann: vík annadhvort til hægri eda vinstri, og nádu einhverjum úngu mannanna, og flettu hann vopnum. En Asahel vildi ekki fara frá honum. Þá mælti Abner aptur vid hann: vík burt frá mér. Hvi viltu ad eg drepi þig? Hvernig gæti eg þá litid upp á Jóab, bródur þinn? En hann vildi ekki víkja. Þá sneri Abner sér vid, og lagdi hann i kvidinn med spjótinu, svo út kom um bakid; og hann hné nidur, og andadist þegar. Og hver sem kom á þann stad, þar sem Asahel hafdi fallid, hann nam þar stadar. En Jóab og Abisai eltu Abner, þar til sól gekk undir. Og sem þeir komu ad hædinni Amma, þá søfnudust synir Beniam-

ins að Abner, og urðu flokkkorn, og numu staðar efst á hól nokkrum. Þá kallaði Abner til Jóabs, og mælti: skal sverðið þá alt af torthýna? Veiztu ekki, að seinast kemur heipt? Hve leingi ætlar þú að draga, að segja fólkinu, að hætta ofsókn bræðra þess? Jóab mælti: svo sannarlega sem Guð lifir, hefðir þú í morgun talað þannig, og ekki krafizt sveinanna, þá hefði fólkið hætt að ofsækja hver annan. Og Jóab blés í básúnu, og alt fólkið stöðvaðist, og þeir eltu ekki Israel meir, og börðust ekki framar. En Abner og menn hans geingu hina sömu nótt yfir sléttlendið, og fóru yfir Jórdan, og yfir alt héraðið Bitron, og komu til Mahanaim. En Jóab safnaði saman öllu fólkinu, og þeir tóku Asahel, og jörðuðu hann hjá föður hans í Betlehem. Og Jóab og menn hans voru á ferð alla þá nótt, og komu til Hebron í dögun. — Og stríðið var lángt milli húss Sáls og húss Davíðs. En hús Davíðs efldist meir og meir: húsi Sáls aptur á mót hnignaði meir og meir. Var Abner stoð og stytta húss Sáls. En það skeði nokkru eptir þetta, að Isbósct varð sundurorða við Abner, og atyrti hann harðlega. Þá varð Abner mjög reiður, og mælti: er eg þá sá hundur, að halda með Júda, eg sem sýni elsku húsi Sáls,

føður þíns, og sem ekki hefi framselt þig í hønd Davíðs? Og þó segir þú þetta við mig? Guð gjøri Abner það og það, ef eg ekki gjøri Davíð, eins og Drottinn hefur honum svarið, og flyt konúngdóminn frá húsi Sáls, og reisi hásæti Davíðs yfir Ísrael og Júda, frá Dan til Bersaba. Þá gat Ísbóset ekki svarað honum einu orði framar, svo hræddur var hann við hann. Og Abner sendi sendimenn fyrir sig til Davíðs, og lét segja honum: gjør sáttmála við mig; sjá, hønd mín skal vera með þér, að snúa øllum Ísrael til þín. Hann sagði: vel og gott, eg vil gjøra sáttmála við þig. En eins krefst eg af þér, að þú sjáir ekki auglit mitt, fyr en þú færir mér Míkal, dóttur Sáls, sem eg festi mér fyrir konu. Þá lét Abner taka hana frá manni sínum Paltíel; og maður hennar gekk með henni, og grét á eptir henni, alt til Bahúrím. Þá sagði Abner við hann: farðu nú heim aptur. Og hann fór heim aptur; en Míkal var flutt til Davíðs. Og Abner átti tal við oldúnga Ísraels og mælti: þér hafið leingi viljað taka Davíð til konúngs yfir yður. Gjørið það nú, því að Drottinn hefir sagt um Davíð: fyrir hønd þénara míns Davíðs vil eg frelsa fólk mitt Ísrael af hendi Filistea, og af hendi allra óvina þess.

Þannig talaði Abner, og Israel og øllu húsi Benjamíns féll það vel í geð. En sem Abner kom til Davíðs í Hebron, gjørði Davíð honum heimboð. Og Abner sagði við hann: eg vil taka mig til, og fara, og safna øllum Israel til herra míns, konúngsins. Þá gaf Davíð Abner fararleyfi, og hann fór í friði. En sjá, þá kom Jóab og herinn með honum til baka; og Jóab var sagt: Abner kom til konúngsins, og hann gaf honum fararleyfi, og hann fór í friði. Þá gekk Jóab fyrir konúnginn og mælti: hvað hefur þú gjørt? Sjá, Abner kom til þín; hví sleptir þú honum frá þér? Þekkirðu ekki Abner, son Ners? Hann kom híngað til að svíkja þig, til að þekkja þinn inngáng og útgáng, og til að frétta alt, sem þú hefur fyrir stafni. Og sem Jóab var geinginn út frá Davíð, sendi hann menn eptir Abner, að þeir kæmu með hann til baka aptur, en Davíð vissi ekki af þessu. Þegar nú Abner kom aptur til Hebron, leiddi Jóab hann afsíðis í borgarhliðinu, eins og hann vildi tala við hann heimuglega, og hann lagði hann þar í kviðinn með sverði sínu, svo hann dó. Þannig myrtu Jóab og Abísai, bróðir hans, Abner, af því að hann drap bróður þeirra Asahel í bardaganum hjá Gibeon. Þegar Davíð seinna fékk þetta að vita, sagði hann:

saklaus em eg og ríki mitt fyrir Drottni ad eilífu af blódi Abners; þad komi yfir høfud Jóabs, og alt hús fødur hans. Og hann sagdi vid alla, sem hjá honum voru: sundur rifid klædi ydar, og leggid sekki um ydur, og syrgid Abner. Vitid þér ekki, ad á þessum degi er fallinn høfdingi og mikill madur í Israel? En eg em enn nú veiklida og nýsmurdur til konúngs; og þessir menn, Seruju synir, eru voldugri en eg. Drottinn endurgjaldi þeim, sem ilt adhefst, vonzku hans. Og konúngurinn gekk eptir líkbørunum, og grét vid grof Abners, og fastadi allan þann dag.

## 84. David verdur konúngur yfir øllum Israel og Júda.

Þegar sonur Sáls heyrdi, ad Abner væri daudur í Hebron, féllust honum hendur, og allur Israel skelkadist. En þar voru tveir menn, strídsmanna foríngjar, undir syni Sáls; hét annar Baena, og hinn Rekab, af Benjamíns ættkvísl. Þeir komu í hús Isbósets, ad sækja hveiti, þegar heitast var dags; hafdi hann þá lagt sig um middegid í svefnherbergi sínu. Og sem þeir komu inn í húsid, unnu þeir á honum, hjuggu af honum høfudid, tóku þad med sér og fóru veginn yfir sléttlendid alla nóttina. Og þeir færdu Davíd í Hebron høfud Isbósets og søgdu

vid konúnginn: sjá, þarna er höfud Isbósets, sonar Sáls, fjandmanns þíns, sem sat um líf þitt. Drottinn hefir í dag hefnt konúngsins á Sál og ætt hans. Þá svaradi Davíd þeim: svo sannarlega sem Drottinn lifir, sem hefur frelsad líf mitt úr öllum háska, þann, sem kunngjördi mér og sagdi: Sál er daudur, og hugsadi, ad hann færdi mér góð tídindi, hann handtók eg og drap í Siklag, til ad umbuna honum tídindin. Skyldi eg þá ekki miklu fremur nú, þegar óbótamenn hafa myrt réttlátan mann í hans eigin húsi, og í sæng hans, krefjast blóds hans af hendi ydar, og afmá ydur af jördunni? Og svo baud Davíd þénurum sínum, og þeir aflífudu þá, hjuggu af þeim hendur og fætur, og heingdu þá upp hjá Hebrons vatni. En höfud Isbósets tóku þeir, og grófu í Hebron í gröf Abners. Og allar ættkvíslir Israels komu til Davids í Hebron, og sögdu: sjá, vér erum þín bein og þitt hold; já, ádur fyrri, þegar Sál var konúngur yfir oss, leiddir þú líka Israel út og inn, og Drottinn hefur sagt vid þig: þú skalt vera hirdir míns fólks Israels, þú skalt vera höfdingi yfir Israel. Þá gjördi Davíd konúngur sáttmála vid öldúnga Israels í Hebron, frammi fyrir Drottni, og þeir smurdu hann til konúngs yfir Israel. Var Da-

við þrjátín ára gamall, þegar hann varð konúngur, og hann ríkti í fjørutíu ár. Í Hebron ríkti hann sjø ár og sex mánuði yfir Júda einni, en í Jerúsalem ríkti hann þrjátíu og þríú ár yfir øllum Israel og Júda.

## 85. Lofsaungvar Davíðs.

Og Davíð saung þessa lofsaungva Guði til dýrðar:

1, Náðugur og miskunsamur er Drottinn, þolinmóður og harla góðgjarn; hann er øllum góður, og miskunar sig yfir øll sín verk. Allra augu vona til þín, Drottinn: þú gefur þeim þeirra fæðu í hæfilegan tíma; þú upplýkur þinni hendi, og seður alt, sem lifir, með þinni blessan. Þín miskunsemi, Drottinn, nær eins lángt og himininn er, og þín trúfesti eins lángt og skýin gánga. Hve dýrðleg er þín náð, ó Guð, að mannanna børn búa undir skugga þinna vængja. Þú drykkjar þá með náðargæðum þíns húss, þú drykkjar þá með unaðsemd, eins og með øðrum drykk. Því hjá þér eru upptøk lífsins, og í þínu ljósi sjáum vér ljósið.

2, Drottinn er mitt ljós og mitt hjálpræði, hvað skyldi eg óttast? Drottinn er styrkur míns

lífs, hvad skyldi eg skelfast? Drottinn er minn styrkleiki og mín hlíf; á hann vonar sála mín og hann hjálpar mér. Haf unad þinn í Drottni; hann mun veita þér þad, sem hjarta þitt girnist. Fel Drottni þína vegu, og vona á hann; hann mun því vel til vegar koma. Smakkid og sjáid, hve gódgjarn Drottinn er; sæll er sá, sem á hann treystir. Drottinn er þeim nálægur, sem hafa sundurkramid hjarta; hann hjálpar þeim, sem hafa sundurknosadan anda.

3, Drottinn, vor Gud, þú ert vort athvarf frá eilífd til eilífdar. Ádur en fjöllin voru til, og þú til bjóst jördina og heiminn, ertu, Gud, frá eilífd til eilífdar. Þess vegna óttumst vér ekki, þó ad heimurinn lidi undir lok, og fjöllin sykkju nidur mitt í hafinn; þó ad hafid ókyrdist og ólgadi, og fjöllin bifudust fyrir ædi þess. Himin og jörd munu lida undir lok, en þú varir vid; þau munu öll eldast, sem fat, þú skiptir um þau, sem annan fatnad; en þú verdur hinn sami, og þín ár fá eingan enda. Þúsund ár eru fyrir þér, sem dagurinn í gær, þá hann er lidinn, og eins og næturvaka.

4, Þitt ord, Drottinn, varir eilíflega, eins lángt og himininn er; þín trúfesti varir frá ei-

lífd til eilífdar. Eg hefi séd enda allra hluta, en þín bod vara víd. Þitt ord er munni mínum sætara en hunáng; þad gjørir mig hygginn, þess vegna hata eg alla ránga vegu. Þitt ord er lampi minna fóta, og ljós á mínum vegum.

5, Þad er yndi og eptirlæti hjarta míns, ad lofa þig med gladri túngu. Þegar eg legst til hvílu, hugsa eg til þín; þegar eg vakna, tala eg um þig. Því þú ert minn hjálpari, og undir skugga vængja þinna hrósa eg sigri. Jeg held mér stødugglega til þín, því ad þú heldur í hægri hønd mína; þú leidir mig eptir þínu rádi, og medtekur mig loksins med heidri. Drottinn, þegar eg hefi þig ad eins, þá hirdi eg hvorki um himin né jørd; þó ad líf og sál vanmegnist, ertu samt, Drottinn, alla tíma huggan hjarta míns og mitt hlutskipti. Þad er mín gledi, ad vera Gudi nálægur, og ad setja mitt traust á Gud.

6, Rannsaka mig, ó Gud, og reyn hjarta mitt; prófa mig, og rannsaka mína hugsanir. Og sjá, hvort eg er á vondum vegi, og leid mig á eilífum vegi. Kenn mér ad breyta eptir þinni velþóknan, því ad þú ert minn Gud. Þinn gódi andi leidi mig á réttum vegi.

Og Davíd saung enn fremur:

7, Drottinn, vor Gud, hve dýrdlegt er þitt nafn i øllum løndum, þitt hrós hafid yfir alla himna. Af munni úngbarnanna og brjóstmylkínganna hefur þú þér lofid tilreitt. — Þegar eg sé himininn, verkin þinna handa, túnglid og stjørnurnar, sem þú til bjóst, þá kemur mér til hugar: hvad er madurinn, ad þú minnist hans, og mannsins barn, ad þú vitjar þess? Þú gjørdir hann litlu óædri en einglana, og krýndir hann sæmd og heidri; þú gjørdir hann ad herra yfir handaverkum þínum, og lagdir alla hluti undir fætur hans, saudi og naut, hin viltu dýr merkurinnar, fuglana undir himninum, og fiskana i sjónum, sem fara um veg vatnsins. — Drottinn, vor Gud, hve dýrdlegt er þitt nafn á allri jørdunni.

## 86. Blómi konúngdæmis Davíds.

Þannig bjó Davíd i Jerúsalem, á kastalanum Sion, og kalladi hann Davidsborg. Og Hiram konúngur i Týrus sendi honum sedrus-vid frá Libanon, og trésmidi, og steinhøggvara, ad þeir bygdu honum hús. Og Davíd tók sér enn fleiri konur i Jerúsalem, og eignadist fleiri syni og dætur. Hann efldist meir og meir, og Drott-

inn, Gud allsherjar, var med honum. Og Davíd kannadist vid, ad Drottinn hefdi stadfest hann sem konúng yfir Israel, og eflt konúngsríki hans, sakir fólks síns; og hann flutti sáttmálsörk Drottins upp til Jerúsalem ásamt öllum Israel, med gledióp og básúnuhljómi, og setti hana á sinn stad, mitt í tjaldi því, sem Davíd hafdi látid búa til fyrir hana. Og Davíd sagdi: er nokkur madur ordinn eptir af ætt Sáls, ad eg geti audsýnt honum nád sakir Jónatans, vinar míns? Síba, þræll af húsi Sáls, svaradi og sagdi: enn er á lífi Mefibóset, sonur Jónatans, og er fótlama. Þá sagdi konúngurinn vid hann: hvar er hann? Hann svaradi: hann er í Lódebar, í húsi Makírs. Þá sendi konúngurinn þángad, og lét sækja hann, og Mefibóset féll fram á andlit sitt til jardar fyrir Davíd. En Davíd mælti: Mefibóset. Hann svaradi: hér em eg, þræll þinn. Davíd sagdi vid hann: vertu óhræddur, því ad eg vil gjöra miskunnarverk á þér sökum Jónatans, födur þíns; eg vil gefa þér aptur alla akra Sáls födur þíns, og þú skalt jafnan eta vid bord mitt. Og konúngurinn kalladi á Síba, þjón Sáls, og sagdi vid hann: alt þad, sem til heyrdi Sál, og öllu húsi hans, þad gef eg syni herra þíns; yrk þú nú landid fyrir hann,

þú og synir þínir og þrælar þínir, og hirð af þeim, að herra þinn hafi brauð, og eti. En Siba átti fimmtán syni og tuttugu þræla, og alt sem var í húsi Siba, þjónaði Mefibóset. Og Mefibóset bjó í Jerusalem, og sat ávalt til borðs með konúnginum; en hann var haltur á báðum fótum.

Þannig var Davíð konúngur, og lét alt fólk njóta laga og réttinda. Jóab, sonur Seruju, var fyrir herunum; Jósafat, sonur Ahiluds, var sagnameistari; Sadok og Abiatar voru prestar; Seraja var skrifari; Benaja, sonur Jojada, var yfir lífverðinum; og synir Davíðs voru klerkar. En þetta eru nøfn hinna helztu af hinum þrjátíu koppum Davíðs: 1, Jasebeam, sonur Hakmonis, var helztur af þeim þremur mestu hetjum Davíðs. Hann veifaði spjóti sínu, og lagði átta hundruð að velli í einu. — 2, Eptir hann var Eleasar, sonur Dodos; hann var einn af þeim þremur koppum með Davíð, þegar þeir gjørðu Filisteum háðúngina; hann stóð þá upp, og feldi Filistea, þángað til hønd hans varð þreytt, og toldi við sverðið. Og Drottinn gaf mikinn sigur á þeim degi. — 3, Eptir hann var Samma, sonur Ages. Þegar Filistear søfnuðust saman í einn hóp, þar sem

var akur nokkur fullsprottinn með bannir, og fólkið flúði fyrir Filisteum, þá gekk hann mitt á akurinn, og frelsaði hann, og lagði Filistea að velli, og Drottinn veitti mikinn sigur. Og þessir þrír helztu af hinum þrjátíu koppum Davíðs fóru á stað, og komu um uppskerutímann til Davíðs í hellinn Adullam; og hópur af Filisteum lá í dalnum Refaim. Davíð fékk þá eptirlanngun, og mælti: hver sækir mér vatn að drekka í brunninn í Betlehem, þar við hliðið? Þá brutust þeir þrír kappar inn í herbúðir Filistea, og jusu vatn úr brunninum í Betlehem við hliðið, tóku það, og færðu Davíð. En hann vildi ekki drekka það, heldur helti því niður fyrir Drottni, sem drykkjarfórn, og sagði: fjærri sé mér, Drottinn, að drekka það. Er það ekki blóð þeirra manna, sem hættu lífi sínu og fóru þángað? Og hann vildi ekki drekka það. Þetta gjörðu þeir þrír kappar. — 4, Abisai, bróðir Jóabs, var einnig helztur af hinum þremur næstu. Hann veifaði spjóti sínu, og lagði að velli þrjú hundruð; og var næst heiðraður af þeim þremur koppum af annari röð, og þeirra höfuðsmaður, en ekki kom hann til jafns við hina þrjá. Einu sinni í bardaga við Filistea, þegar Davíð var orðinn þreyttur, hugsaði Jespi, Filistei, einn af sonum Rafas

ad fella David; spjót hans vóg þrjú hundrud sikla eirs, og hann var gyrtur nýu sverdi. En Abísai hjálpadi þá Davíd, lagdi Filisteann ad velli, og drap hann. Þá sóru menn Davíds honum og sögdu: þú skalt ei hér eptir fara med oss í stríd, ad ei slokkni Israels ljós. — 5, Og Benaja, sonur Jojadas, feldi tvo kappa af Moabitum, og drap ljón í gryfju í kafaldi. Hann feldi líka egypzkan mann nokkurn, sem hafdi mikid álit, og stórt spjót í hendi sér; fór hann í móti honum med staf, reif spjótid úr hendi hans, og drap hann med hans eigin spjóti. Þessir voru hinir fimm helztu af koppum Davíds.

Og Davíd átti í mörgum strídum, en Drottinn var med honum, svo hann rak ætíd óvini sína á flótta, hann og kappar hans, og lagdi þá undir sig. Hann vann sigur á Filisteum og lagdi þá undir sig, sömuleidis líka Móabita og Edomita. Hann yfirvann líka Hadadeser, konúng í Soba, þá hann fór leidángur til ad ná aptur ríki ad ánni Frat. Líka vann hann Damaskus í Syríu, og lagdi undir sig, sem og alla sýrlenzka konúnga. Allir urdu þeir Davíd undirgefnir, svo þeir færdu honum gáfur; svo ad ríki hans nádi frá landamærum Egyptalands alt ad fljótinu mikla (Evfrat). Og þad

voru í Israels 800,000 vopnfærra manna, og í Júda 500,000.

## 87. Synd og iðran Davíðs.

Að ári liðnu, um það leyti, sem konúngar eru vanir að fara í leiðángur, sendi Davíð Jóab og allan her Israels, til að eyðileggja Ammons börn, og þeir settust um Rabba; en Ammons börn höfðu áður gjört mjög á hluta Israelsmanna. En Davíð sat kyrr heima í Jerúsalem. Það bar þá svo til, er hann á áliðnum degi stóð upp af sæng sinni, og gekk um gólf á þaki konúngshallarinnar, að hann sá af þakinu konu, sem laugaði sig, og sú kona var mjög fríð sýnum. Og hann sendi og lét spyrjast fyrir um hana; og honum var sagt: það er Batseba, kona Uria, Hetita. Hann sendi þá menn, og lét sækja hana, og fékk mikla ást á henni. En maður hennar Uría var með Jóab og herunum hjá Rabba. Og Davíð sendi boð til Jóabs og sagði: send mér Hetítann Uría; og Jóab sendi hann. En sem Uria kom, spurði Davíð, hvernig Jóab og fólkinu liði, og hvernig stríðið geingi. Og hann hélt honum hjá sér tvo daga, þá sendi hann hann aptur með bréfi til Jóabs. En svo skrifaði hann í bréfið: „setjið Uria þar í bardaganum,

sem hann er hardastur, svo hann verdi borinn ofurlida og falli.“ Þegar nú Jóab sat um stadinn, skipadi hann Uría til orustu, þar sem hann vissi, ad hraustir menn voru fyrir; féllu þar nokkrir af þénurum Davíds í bardaganum, og Uría líka. Þá sendi Jóab, og lét Davíd vita, hvar komid væri, og sagdi vid sendimanninn: þegar þú hefur sagt frá bardaganum hid ljósasta, og þú sérd, ad konúngurinn verdur reidur, og segir vid þig: „hví fórud þér svo nærri borginni í orustunni? Vissud þér ekki, ad þeir mundu skjóta á ydur nidur af borgarveggnum? Hver feldi Abimelek, son Gideons? Kastadi ekki kona nokkur kvarnarsteinsbroti á hann nidur af borgarveggnum, svo hann dó í Tebes? Hví fórud þér inn undir borgarvegginn?“ — þá segdu: þinn þénari, Hetítinn Uría, féll líka. Og sendimadurinn kom til Davíds, og sagdi: þeir í Rabba báru oss ofurlida, og fóru í móti oss út á vollinn, en vér þreyngdum þeim alt ad borgarhlidinu. Skutu þeir þá á oss nidur af borgarveggnum, og féllu nokkrir af þénurum konúngsins, og líka þinn þénari, Hetítinn Uría. Þá mælti Davíd vid sendimanninn: seg þú Jóab: „láttu þetta ekki fá á þig, þad geingur svona til í strídinu; haltu áfram umsátrinu og eydilegg borgina.“ Og skaltu

þannig hughreysta hann. En sem kona Uría frétti, að maður hennar væri fallinn, harmaði hún hann. Og þá sorgardagarnir voru liðnir, sendi Davíð og tók hana í hús sitt; og hún varð kona hans og ól honum son. En Drottni mislíkaði það, sem Davíð hafði gjört, og hann sendi Natan, spámann, til hans. Þegar hann kom til konúngsins, sagði hann við hann: „tveir menn voru í einni borg; annar ríkur, en hinn fátækur. Hinn ríki átti fjölda sauða og nauta, en hinn fátæki átti ekkert nema eitt lamb, sem hann hafði keypt og alið, og það óx upp hjá honum með sonum hans. Það át af mat hans, og drakk af bikar hans, og svaf í skauti hans, og var eins og dóttir hans. Þá kom ferðamaður til hins ríka manns, og hann tímdi ekki, að taka neinn af sauðum sínum eða nautum, til að matreiða fyrir ferðamanninn, heldur tók hann lamb fátæka mannsins, og matbjó það fyrir manninn, sem kominn var til hans.“ Þá upp tendraðist reiði Davíðs ákaflega, og hann sagði við Natan: Svo sannarlega sem Drottinn lifir, sá maður, sem þetta hefur gjört, er dauða sekur! Og hann skal borga lambið fjórum sinnum, fyrst hann gjörði þetta. Þá sagði Natan við Davíð: þú ert maðurinn! Svo segir Drottinn, Israels Guð,

vid þig: „eg hefi smurt þig til konúngs yfir Israel, og frelsad þig af hendi Sáls, og eg gaf þér hús herra þins, og hús Israels og Júda. Og hefdi þad verid oflitid, mundi eg hafa bætt vid þig því og því. Því hefur þú þá litilsvirt ord Drottins, og drýgt slíkan glæp fyrir augum hans? Konu Uría hefur þú tekid þér fyrir konu, en drepid hann med sverdi Ammons sona!" Þá sagdi Davíd vid Natan: „eg hefi syndgad móti Drottni!" — og grét beisklega.

Og hann beiddi efalaust þannig til Guds, eptir sem lesa má í sálmum hans:

1, „Drottinn, þú ransakar og þekkir mig; þú veizt, hvort eg sit eda stend; þú skynjar minar hugrenningar áleingdar. Hvort sem eg geing eda ligg, svo ertu mér nálægur, og sérd alla mína vegu. Þar er ekki eitt ord á túngu mér, ad þú, Drottinn, ekki vitir þad alt saman. Þú ert í kríngum mig á alla vegu, og heldur hendi þinni yfir mér. Þín augu sáu mig, ádur en eg var til; og allir dagar míns lífs, þeir ed verda mundu, voru skrifadir í þína bók, ádur en nokkur þeirra var til." — „Hvert skal eg fara frá þínum anda, Drottinn? Hvert get flúid, svo ad þú sjáir mig ekki? Þó eg færi upp í himininn, þá ertu þar, og þó eg byggi mér legurúm í undirdjúpunum, þá ertu

einnig þar. Þó eg tæki vængi morgunroðans og byggi við hið yzta haf, þá mundi þín hönd einnig þar leiða mig, og þín hægri hönd halda mér föstum. Þó eg segði: myrkrið falli yfir mig, þá mundi nóttin vera ljós í kríngum mig; því sjálf dimman er ekki dimm fyrir þér, og nóttin lýsir sem dagur; myrkrið er sem ljós." — 2, „Guð, vertu mér náðugur af gæzku þinni, og af má syndir mínar af þinni miklu miskun. Heyr bæn mína, og veit áheyrn grátbeiðni minni; gakk ekki í reikníng við þjón þinn, því að fyrir þér er eínginn lifandi réttlátur. Jeg játa yfirsjón mína, og mín synd stendur mér fyrir augum afmáluð; í móti þér hefi eg syndgað, og breytt illa fyrir þínu heilaga augliti; Drottinn, vertu mér náðugur, og miskuna þig yfir mig, því að mín sál er mjög skelfuð." — „Þú hefur einga vild á offri, annars mundi eg greiða þér það; á brennifórn hefur þú ekki velþóknan. Það offur, sem Guði þóknast, er sá andi, sem iðran og yfirbót gjörir. Harmþrúngið og sundurkramið hjarta munt þú, ó Guð, ekki fyrirlíta." — „Skapa í mér, ó Guð, hreint hjarta, og gef mér nýjan, staðfastan anda; kasta mér ekki burt frá þínu augliti, og tak þinn heilaga anda ekki frá mér!"

Og Natan sagdi vid David: fyrst þú idrast einlæglega, þá mun Drottinn líka fyrirgefa þér þína synd, og þú munt ekki deya. Svo gekk Natan heim í hús sitt. En það barn, sem Batseba hafdi fætt, vard daudveikt. Og Davíd bad til Guds vegna dreingsins, og fastadi og gekk inn í innri hluta húsins, og lá á gólfinu þá nótt. Þá tóku hinir elztu af húsi hans sig til, og vildu fá hann til ad rísa upp af gólfinu; en hann vildi ekki, og át ekki heldur med þeim. En á sjøunda degi dó barnid. Og þjónar Davíds þordu ekki ad láta hann vita, ad barnid væri dáid; því ad þeir søgdu med sér: medan barnid lifdi, tøludum vér vid hann, og hann svaradi oss ekki; hvernig getum vér þá sagt vid hann: barnid er dáid? En sem Davíd sá, ad þjónar hans voru eitthvad ad pískra, og rédi þar af, ad barnid væri dáid, sagdi hann vid þá: er barnid dáid? Þeir svorudu: já. Þá stód hann upp af gólfinu, þvódi sér og smurdi sig, skipti um klædi, gekk í hús Drottins, beiddist þar fyrir, og sagdi: „Drottinn er réttlátur í øllum sínum vegum, og heilagur í øllum sínum verkum!" Og sem hann kom heim aptur, lét hann færa sér mat, og át. Þá søgdu þjónar hans vid hann: hvad er það, sem þú nú

hefur gjørt? Medan barnid lifdi, fastadir þú, og grézt; en nú þegar það er dáid, stendur þú upp og matast? Hann sagdi: medan barnid lifdi fastadi eg og grét, því ad eg hugsadi: hver veit, nema Drottinn miskunni mér, svo ad barnid lifi. En fyrst það nú er dáid, hví skyldi eg þá fasta? Mun eg geta feingid það aptur? Eg fer til þess, en það kemur ei aptur til mín. Og Batseba, kona hans, fæddi honum eptir þetta enn nú einn son, sem hann kalladi Salómon; og Drottinn elskadi hann. Og hann lét hann undir hönd Natans spámanns.

## 88. Hinir vondu brædur.

Og það skedi eptir þetta, ad Amnon, sonur Davíds, fekk ást á hálfsystur sinni Tamar, alsystur bródur hans Absalons, sem var mjøg frid sýnum. En er hann um tíma hafdi haft hana hjá sér, fékk hann svo mikla óbeit á henni, ad hatur hans til hennar vard meira en ást sú, sem hann hafdi haft á henni. Og hann sagdi vid hana: stattu upp, og far burt. En hún sagdi: gjør ekki á mér slíkt vonzkuverk, ad þú útskúfir mér frá þér! En hann vildi ekki gegna henni, heldur kalladi á þjón sinn, og sagdi: kom þú þessari burt frá mér, og læstu dyrunum eptir henni. Og þjóninn gjørdi, eins og hús-

bóndi hans band honum; þá stráði Tamar ösku yfir höfuð sér, reif kyrtil þann, sem hún var í, og gekk burt grátandi. En Absalon, bróðir hennar, sagði við hana: heyrðu, systir mín; þegi þú, hann er bróðir þinn; láttu þetta ekki fá á þig. Svo var Tamar í húsi Absalons, bróður síns. Og sem konúngurinn heyrði alt þetta, varð hann mjög reiður. En Absalon talaði ekki við bróður sinn Amnon, hvorki gott né ilt; en hann hataði hann fyrir það, að hann hafði útskúfað systur hans. Og það skeði tveimur árum síðar, að Absalon klipti sauði sína í Baalhasor, sem liggur í Efraim. Og hann gjörði heimboð öllum sonum konúngsins, bræðrum sínum, gekk fyrir konúnginn, og mælti: sjá, þjón þinn klippir hjörð sína, konúngurinn og þjónar hans komi því með mér! Davíð svaraði: nei, sonur minn, lát oss ei fara alla, að vér gjörum þér ei slíkan átroðning. Og þó hann legði að honum, vildi hann samt ekki fara, en óskaði honum til hamingju. Absalon sagði: leyfðu samt, að Amnon, bróðir minn, fari með oss. Konúngurinn svaraði: hví skal hann fara með þér? Þá lagði Absalon að honum, svo hann lét Amnon fara með honum, og alla syni konúngsins. En Absalon bauð sveinum sínum, og sagði: sjáið nú til, þegar Amnon er farinn

ad hýrna við vínið, og eg segi við ydur: drepið Amnon, þá sláið hann í hel, og verið óhræddir; því hefi eg ekki skipad ydur það? Verið hugaðir og ötulir. Og sveinar Absalons gjörðu við Amnon, eins og Absalon hafði boðið þeim, og þeir drápu hann. Þá tóku allir konúngssynirnir sig upp, og hver þeirra sté á bak sínum múl, og flúðu burt. En meðan þeir voru á leiðinni, flaug sá kvittur fyrir Davíð, að Absalon hefði slegið í hel alla bræður sína, og einginn þeirra undan komizt. Þá stóð konúngurinn upp, reif klæði sín og lagði sig niður á jörðina, og allir þjónar hans stóðu þar í sundurrifnum klæðum. En Jónadab, sonur Simeas, sem var mjög vitur maður, sagði við konúnginn: herra minn hugsi ekki, að allir hinir úngu menn, synir konúngsins, séu drepnir, heldur er Amnon einn dauður. Absalon hefur búið yfir því frá þeim degi, að hann burtskúfaði systur hans. Minn herra, konúngurinn, láti þetta því ekki sér til hjarta gánga, og hugsi ekki, að allir synir sínir séu dauðir, heldur er Amnon einn dauður. Og þeim sveini, sem hélt vörð, varð litið upp, og sjá, mikill skari kom veginn, hver eptir annan með fjallshlíðinni. Þá sagði Jónadab við konúnginn: sjá, synir konúngsins koma, alt hefur það til geingið, eins

og þinn þjón sagdi. Og sem hann hafdi endad tal sitt, sjá, þá komu synir konúngsins, og þeir grétu hástøfum. Konúngurinn og þjónar hans grétu líka ákaflega. En Absalon flúdi, og fór til Talmai, konúngs í Gesúr, og var þar þrjú ár. Og Davíd syrgdi son sinn Amnon alla daga. En sem Jóab, sonur Serujn, sá ad hjarta konúngsins hneigdist aptur til Absalons, fann hann ráð til, ad fá konúnginn til, ad láta hann koma aptur til Jerúsalem. Og Jóab tók sig til og fór til Gesúr, og kom med Absalon aptur. En konúngurinn sagdi: lát hann fara aptur í hús sitt, en auglit mitt skal hann ekki sjá! Svo fór Absalon aptur í hús sitt, en auglit fødur síns sá hann ekki. En medal Israelsmanna var einginn svo fríður, sem Absalon, og fór mikid ord af því; milli hæls og hvirfils voru eingin lýti á honum. Og þegar hann lét klippa hár sitt, — en þad gjørdi hann einu sinni á ári, því ad annars vard þad honum of þúngt, — þá vóg hárid af høfdi honum tvø hundrud sikla eptir konúngsvigt. Og Absalon var tvø ár í Jerúsalem og sá ekki auglit konúngsins. Þá gjørdi hann bod eptir Jóab, til ad senda hann til konúngsins, en hann vildi ekki koma til hans; og hann sendi aptur í annad sinn, en hann vildi ekki koma. Þá sagdi Absalon til

þjóna sinna: Jóab á akur, áfastan vid minn, og þar á hefur hann bygg; farid, og kveykid í því med eldi. Og þeir gjördu þad. Þá tók Jóab sig til, og kom til Absalons í hús hans, og sagdi: hví hafa þjónar þínir kveykt í akri mínum med eldi? Absalon svaradi: sjá, eg sendi til þín og lét segja vid þig: kom, ad eg sendi þig til konúngsins; en þú vildir ekki koma. Svo seg nú vid födur minn: hví em eg kominn frá Gesúr? Mér væri betra, ad vera þar enn. Svo lát mig nú sjá auglit konúngsins. En sé eg sekur, þá deydi hann mig. Og Jóab gekk fyrir konúnginn og sagdi honum þetta; þá kalladi fadir hans á hann; og hann féll á andlit sitt til jardar fyrir David; og David kysti hann.

## 89. Uppreisn Absalons.

Eptir þetta skedi þad, ad Absalon útvegadi sér vagna og hesta, og fimmtíu menn, sem hlupu fyrir honum; og hann var árla á fótum, og gekk á veginn, sem lá ad borgarhlidinu; og hvern þann mann, sem hafdi mál ad kæra fyrir konúnginum, þann hinn sama kalladi hann til sín, og sagdi vid hann: frá hvada stad ertu? Og segdi madurinn: þjón þinn er af einni ættkvísl Israels, þá sagdi Absalon vid hann: þitt málefni er rétt og hreint, en þú færd einga áheyrn

hjá konúnginum. Og hann sagdi enn fremur: „hver setur mig til dómara í landinu, svo ad hver madur, sem hefur misklíd eda mál ad sækja, komi til mín, ad eg hjálpi honum til ad ná rétti sínum.“ Og þegar einhver nálægdist hann til ad lúta honum, rétti hann fram hondina, og greip til hans, og kysti hann. Þannig breytti Absalon vid alla Ísraelsmenn, sem í málum sínum komu fyrir konúnginn; og stal þannig hjörtum Ísraelsmanna. Og þad skedi eptir fjøgur ár, ad Absalon kom ad máli vid konúnginn, og sagdi: leyf mér ad fara, til ad leysa heit mitt í Hebron, sem eg hefi gjort Drottni. Konúngurinn sagdi vid hann: far þú í fridi. Og hann tók sig upp, og fór til Hebron; en sendi njósnarmenn til allra ættkvísla Ísraels, og lét segja: þegar þér heyrid hljóm básúnunnar, þá segid: „Absalon er ordinn konúngur í Hebron!“ Hann sendi líka eptir Akítófel, rádgjafa Davíds, og lét kalla hann úr borg hans Giló, þá hann var ad flýtja fórn sína. Og samsærid vard mikid, og mikill lidsafli drógst ad Absaloni. Þá kom madur nokkur, sem sagdi Davíd þad, og mælti: hjarta hvers manns í Ísrael hneigist ad Absalon. En Davíd sagdi vid alla þjóna sína, sem voru hjá honum í Jerúsalem: tøkum oss upp og flýum;

því ad ekki mun Absalon gefa oss grid. Hradid ydur ad flýa, svo hann ekki nái oss, leidi yfir oss ógæfu, og slái borgina med sverdseggjum. Þá søgdu þjónar hans vid hann: hvad sem helzt herra minn, konúngurinn, velur, þá sjá, vér erum þínir þjónar. Og konúngurinn lagdi af stad fótgángandi og alt hús hans; og allir þjónar hans geingu med honum, og allur lífvørdurinn; og sex hundrud Gatítar, sem hofdu komid fótgángandi frá Gat, geingu á undan honum. Þá sagdi Davíd vid Itai, Gatíta: hví viltu og fara med oss? Snú þú aptur, og vertu hjá hinum nýa konúngi, því ad þú ert útlendur madur, og fórst sjálfkrafa burt úr landi þínu. Í gær komst þú, og í dag skyldi eg hafa þig med á þessum flótta? Snú þú aptur, og tak med þér brædur þína med elskusemi og trygd; en eg mun fara þángad, sem audid er. Itai svaradi og sagdi: svo sannarlega sem Drottinn lifir, og minn herra, konúngurinn, lifir, á hverjum stad, sem herra minn, konúngurinn, verdur, þad sé til dauda, þad sé til lífs, þar mun og þjón þinn vera. Þá sagdi Davíd vid Itai: kom þú þá og far med. — Og alt landid grét hástofum, þegar alt fólkid fór á stad. Og konúngurinn fór yfir um lækinn Kedron, og alt fólkid hélt á fram veginn til óbygdanna. Og

sjá, Sadok var þar líka, og allir Levítar með honum, og báru sáttmálsörk Guðs. En konúngurinn sagði við Sadok: far þú aptur með örk Guðs inn í staðinn. Finni eg náð í augum Drottins, mun hann leiða mig heim aptur, og láta mig sjá hana og sinn bústað. En segi hann svo: „eg hefi ekki velþóknan á þér", sjá hér em eg; hann gjöri við mig, það sem honum gott þykir. — Þess vegna fluttu þeir Sadok og Abíatar örk Guðs aptur til Jerúsalem, og voru þar. En Davíð fór upp viðsmjörsviðarfjallið, og gekk grátandi með huldu höfði og berfættur. Og alt fólkið, sem með honum var, huldi líka höfuð sitt, og gekk grátandi. En sem Davíð kom upp á hæðina, þar sem menn voru vanir að tilbiðja Guð, sjá, þá mætti honum vinur hans Húsai, Arkíti, í rifnum klæðum, og með mold yfir höfði sér. Og Davíð sagði við hann: farir þú með mér, verður þú mér til tafar; en ef þú ferð aptur til staðarins, og segir við Absalon: þinn þjón, ó konúngur, vil eg vera; þjón föður þíns var eg fyrir skemstu, en nú er eg þinn þjón, — þá muntu gjöra ráð Akitófels að engu, mér í hag. Og Davíð bað til Guðs: Drottinn, gjör ráð Akitófels að heimsku! Svo kom Húsai, vinur Davíðs, aptur í staðinn. Og sem

Davíd var kominn spölkorn frá hæðinni, sjá, þá mætti honum Siba, þjón Mefibósets, með tvo klyfjaða asna, og á þeim tvo hundruð brauð, og hundrað vínberja køkur, og hundrað fíkjukøkur og brúsa með vín. Og konúngurinn mælti við hann: hvað ætlarðu að gjöra við þetta? Siba svaraði: asnarnir séu til reiðar handa konúnginum og húsi hans, og brauðið og fíkjurnar til matar handa sveinunum, og vínið til drykkjar fyrir þá, sem kunna að ørmagnast í eyðimørkinni. En sem Davíð konúngur kom til Bahúrim, sjá, þá kom þaðan maður nokkur, af ætt Sáls, Simei að nafni. Hann gekk fram bølvandi, og kastaði steinum eptir Davíð og øllum þjónum hans; því að allt fólkið og allir kapparnir voru á hægri og vinstri hønd konúngsins. Komst Simei þannig að orðum í formælingum sínum: „á fram, þú blóðhundur, þú illmenni! Nú lætur Drottinn þér í koll koma allt blóð húss Sáls, í hvers stað þú ert orðinn konúngur. Nú lætur Drottinn konúngsríkið koma í hendur Absalons sonar þíns. Og sjá nú ertu í krøggum, því að þú ert blóðhundur. En Abisai, sonur Seruju, bróðir Jóabs, sagði við konúnginn: hví skal þessi dauði hundur formæla herra mínum, konúnginum? Lofaðu mér að fara, og høggva af honum høf-

udið. Konúngurinn sagði: hvað á eg að sýsla við ykkur Serujnsynir? Formæli hann. Drottinn hefur skipað honum: formæl þú Davíð. Hver þorir því að segja: hví gjörir þú það? Og hann sagði enn fremur við Abísai og alla þjóna sína: sjá, sonur minn, sem af mér er getinn, sækir eptir lífi mínu; hví þá ekki þessi Beniamíníti? Látið hann formæla. Ske má að Drottinn líti á eymd mína og bæti mér með góðu þessa formæling hans í dag. Svo fór Davíð leið sína og menn hans, en Símei fór formælandi með fjallshlíðinni gagnvart honum, og kastaði steinum og moldarhnausum. Og konúngurinn og alt það fólk, sem með honum var, kom örþreytt í áfángastað, og hvíldi sig þar. En Absalon og alt fólk Ísraelsmanna kom til Jerúsalem, og Akitófel með honum. Og Húsai vinur Davíðs, sem að boði hans hafði snúið við, var líka með Absalon, til að ónýta ráð Akitófels. En þau ráð, sem Akitófel gaf í þá daga, giltu, sem menn hefðu ráðfært sig við Guð um þann sama hlut. Svo giltu ráð hans bæði hjá Davíð og Absalon. Og Akitófel sagði við Absalon: láttu mig nú velja mér tólf þúsundir manns, og taka mig til, og fara eptir Davíð í nótt, eg vil ráðast á hann, meðan hann er

magnlaus af þreytu, og hræda hann; og alt fólkid, sem med honum er, mun flýa, og þá mun eg fella konúnginn, þegar hann er ordinn einn, og leida alt fólkid aptur til þín, og mun þá alt verda rólegt. Þetta ráð líkadi Absalon vel, og öllum hinum elztu í Israel. En Absalon mælti: kallid samt Húsai, Arkíta, ad vér heyrum líka, hvad hann segir. Og sem nú Húsai kom til Absalons, sagdi hann vid hann: þetta hefur Akitófel sagt; seg þú, eigum vér ad gjöra þad eda ekki? Húsai svaradi: þad ráð er ekki gott, sem Akitófel hefur nú gefid. Þú þekkir födur þinn og menn hans, ad þeir eru hetjur, og illir í skapi, sem byrnan á mörkinni, þá hún er rænd húnum sínum. Þar ad auki er fadir þinn hermadur, og verdur ekki í nótt hjá fólkinu. Sjá, sked getur, ad hann hafi nú falid sig í einhverjum helli eda á ödrum stad. Og falli nú nokkrir í fyrstunni af mönnum þínum, þá fréttist þad, og allir segja: fólkid, sem Absalon fylgir, hafdi ósigur; og jafnvel hinir hraustari, sem höfdu hug sem ljón, geta þá ordid huglausir. Því allur Israel veit, ad fadir þinn er hetja, og þeir röskvir menn, sem med honum eru. En þetta er mitt ráð: safna þú ad þér öllum Israel frá Dan til Berseba, svo mörgum sem sandi á sjáfar-

strønd, og far sjálfur með þeim í orustuna. Svo viljum vér falla yfir hann, hvar sem vér hittum hann, eins og dogg fellur yfir jordina, og ekki láta einn eptir verda af honum og øllum mønnum hans. En flýi hann í einhverja borgina, þá skal allur Israel bera reipi ad sømu borg, og draga hana í læk, þángad til þar finst ekki einn steinmoli framar. Þá sagdi Absalon og allir Israelsmenn: betra er ráð Húsais en Akitófels. Og Drottinn hagadi því svo, ad Akitófels góda ráð vard ad eingu. En sem Akitófel sá, ad ekki var farid ad rádum hans, sødladi hann asna sinn, tók sig til, og fór heim í borg sína, rádstafadi húsi sínu og heingdi sig, og var jardadur í grøf fødur síns. En Húsai lét segja David heimuglega: þad og þad hefur Akitófel rádlagt Absalon og hinum elztu í Israel; og þad og þad hefi eg rádlagt. Vertu nú ekki í nótt á sléttlendinu í eydimørkinni, heldur fardu yfir Jórdan, svo ad konúngurinn tortýnist ekki, og þad fólk, sem er med honum. Þá tók David sig upp, og alt fólkid, og fóru yfir um Jórdan, ádur en lýsti af degi, og komu til Mahanaim. Og sem hann kom þar, færdi Sobi og Makir og Barsilai David og fólkinu, sem med honum var, sængur, skálar, potta, hveiti, bygg, mél, steikt ax, ertur,

baunir, hunáng, mjólk, sandi og osta; því ad þeir hugsudu: fólkid er húngrad, þreytt og þyrst í eydimørkinni.

## 90. Daudi Absalons.

Og Davíd kannadi fólkid, sem med honum var, og setti høfudsmenn yfir þúsund og yfir hundrad; fékk hann Jóab þridjúng fólksins, Abísai, bródur Jóabs þridjúng, og Gatítanum Itai, sem ekki hafdi viljad fara frá honum, þridjúng. Og konúngurinn sagdi vid fólkid: eg vil líka fara í orustuna med ydur. En fólkid sagdi: þú skalt ekki fara; því ad þeir munu einúngis sækja ad þér, og þú einn ert sem tíu þúsundir af oss, þess vegna verdur þú ad lifa; og þad er betra, ad þú verdir oss ad lidi úr borginni med rádum, nýu lidi og matvælum. Konúngurinn sagdi til þeirra: þad sem ydur lízt, vil eg gjora. Og hann stód vid borgarhlidid, en alt fólkid fór út hundrudum og þúsundum saman. Og hann bad Jóab, Abísai og Itai, og sagdi: farid vægilega med únglínginn Absalon. Heyrdi alt fólkid, ad hann bad þeim þetta um Absalon. Þegar nú fólkid kom út á mørkina, mót Israel, hófst bardagi í Efraims skógi; beid fólk Absalons þar ósigur fyrir mønnum

Davids, og féllu þar hinn sama dag tuttugu þúsundir manns. Og strídid dreifdist út um alt landid, og skógurinn vard fleirum mönnum ad liftjóni þann dag, heldur en sverdid. Og Absalon vard fyrir mönnum Davids; hann reid á múlasna, en er múlasninn kom undir þéttar greinir stórrar eikar, festist höfud hans í eikinni, og hann dingladi þar milli himins og jardar; en múlasninn rann fram undan honum. Þá kom madur auga á hann, sagdi Jóab frá, og mælti: sjá, eg sá Absalon hánga í eik. Og Jóab sagdi vid manninn: fyrst þú sást þad, því vanstu þá eigi á honum? Þad hefdi þá verid mitt ad gefa þér tíu sikla silfurs, og belti. Madurinn svaradi: þó eg hefdi feingid út í hönd þúsund sikla silfurs, mundi eg ekki hafa lagt hönd á son konúngsins. Því ad í áheyrn vorri baud konúngurinn þér og Abisai og Itai, og sagdi: hafid gát á únglingnum Absalon. Og ef eg hefdi unnid á honum, þá mundi þad ekki hafa dulizt konúnginum, og þú sjálfur verid í móti mér. Jóab mælti: eg má ekki leingur tefja hjá þér. Og hann þreif þrjú spjót í hönd sér, hljóp á stad, og lagdi þeim í gegnum hjarta Absalons, sem enn nú lifdi í eikinni. Og tíu menn, skjaldsveinar Jóabs, geingu þar ad, unnu á Absalon, og drápu

hann. Þá blés Jóab í básúnu, og fólkið hætti að elta Israel, því að Jóab bannaði því það. Og þeir tóku Absalon, og snöruðu honum í stóra gryfju í skóginum, og gjörðu yfir honum mikinn grjót-haug. En Absalon hafði, meðan hann lifði, sett sér minnismerki, sem stóð í konúngsdalnum; því að hann sagði: eg á eingan son, til að halda uppi minníngu nafns míns; og hann kallaði minnismerkið sínu nafni. — En allur Israel flúði, hver í tjald sitt. — Og Akimas, sonur Sadoks prests, sagði við Jóab: eg ætla að hlaupa, og láta konúnginn vita, að Drottinn hafi rétt hluta hans á óvinum hans. En Jóab sagði við hann: þú berð eingin góð tíðindi í dag; annan dag skaltu fara með boðskap, í dag ekki, því að sonur konúngsins er dauður. En við Kúsíta nokkurn sagði Jóab: far þú, og seg konúnginum, hvað þú hefur séð. Og Kúsítinn laut Jóab, og rann af stað. En Akimas kom aptur að máli við Jóab, og mælti: lofaðu mér að hlaupa á eptir Kúsítanum. Jóab mælti: hvers vegna viltu fara það, son minn? Þú hefur eingin góð tíðindi að bera. Hinn mælti: hvað sem sker og eptir fer, eg vil hlaupa. Jóab mælti: svo hlauptu þá. Og Akimas hljóp veginn yfir eingið, og komst á undan Kúsítanum. En David sat milli

beggja borgarhlidanna; og vardmadurinn gekk á þaki hlidsins á veggnum, og leit upp, og sjá, þar kom madur hlaupandi; og vardmadurinn kalladi, og sagdi þad konúngi. En konúngur mælti: ef hann er einsamall, þá er gódur bodskapur í munni hans. Og hann kom alt af nær og nær. Þá sá vardmadurinn annan mann koma hlaupandi; og hann kalladi nidur í hlidid og mælti: madur kemur hlaupandi einsamall. Konúngur mælti: hann kemur líka med gód tídindi. Vardmadurinn mælti: hlaup hins fyrra er líkt hlaupi Akimas, sonar Sadoks. Konúngur svaradi: þad er gódur madur, og kemur med gódan bodskap. En Akímas kalladi og mælti til konúngsins: fridur! laut konúngi til jardar, og mælti: lofadur sé Drottinn, Gud þinn, sem hefur hegnt monnum þeim, er lyptu upp hond sinni í móti konúnginum, herra mínum. Konúngur mælti: lídur únglingnum Absalon líka vel? Akímas svaradi: eg sá þyrpingu mikla, þegar Jóab sendi mig, þjón þinn, en veit ekki, hvad þad var. — Og konúngurinn mælti: gakk þú til hlidar, og og vertu þarna; og hann gekk, og stód þar. — Þá kom Kúsítinn og mælti: eg kem med gódan bodskap, herra konúngur. Drottinn hefur í dag frelsad þig úr hondum allra þeirra, sem gjordu

uppreisn i móti þér. Konúngur mælti: lídur únglíngnum Absalon líka vel? Kúsitinn svaradi: fari eins fyrir øllum óvinum konúngsins, herra minn, eins og fyrir þessum únglíngi. Þá vard konúngurinn mjøg hryggur, gekk upp í salinn yfir borgarhlidinu, grét og sagdi í því hann gekk burt: sonur minn Absalon, sonur minn, sonur minn Absalon! Æ, ad eg hefdi dáid í þinn stad! O Absalon, sonur minn, sonur minn! — Og Jóab var sagt: sjá, konúngurinn syrgir og grætur Absalon. Og sigurinn á þeim degi vard ad sorg fyrir alt fólkid, því ad þad heyrdi, ad konúngurinn harmadi son sinn. Og fólkid læddist á þeim degi inn í stadinn, eins og þad fólk lædist inn, sem hefur ordid fyrir sneipu þeirri, ad flýa úr orustu. — En konúngurinn byrgdi audlit sitt, og kveinadi hástøfum: sonur minn Absalon, Absalon, sonur minn, sonur minn! Þá gekk Jóab fyrir konúng inn í húsid, og mælti: þú hefur í dag sneipt alla menn þína, sem í dag hafa frelsad líf þitt, og sona þinna; ad þú elskar þá, sem hata þig, og hatar þá, sem elska þig. Því ad þú hefur sýnt þad í dag, ad þú metur einkis høfudsmenn þína og þénara; og eg sé þad vel, ad hefdi Absalon einn lifad, en vér allir fallid í dag, þá hefdi þad verid rétt í þínum augum.

Og stattu nú upp, og gakk út, og tala vinsamlega vid þjóna þína. Því ad eg sver vid Drottinn, ad ef þú geingur ekki út, þá verdur einginn madur hjá þér þessa nótt alla; og þad yrdi þér verra, en alt þad ílt, sem yfir þig hefur komid, frá barnæsku og til þessarar stundar. Þá stód konúngurinn upp, og settist í borgarhlidid. Og menn søgdu þad øllu fólki, og mæltu: sjá, konúngurinn situr í borgarhlidinu. Þá komu þeir fyrir konúnginn.

## 91. Apturkoma Davíds til Jerúsalem.

Og alt fólkid í øllum kynkvíslum Israels þráttadi, og sagdi: konúngurinn hefur frelsad oss af hendi óvina vorra, og af hendi Filistea, og nú er hann flúinn úr landi fyrir Absalon. En Absalon, sem vér smurdum til konúngs yfir oss, er nú fallinn í orustu; hví haldid þér þá kyrru fyrir, og sækid ekki konúnginn? Þetta tal als Israels kom fyrir eyru konúngsins, og hann sendi til Jerúsalem, til prestanna Sadoks og Abiatars, og lét segja vid þá: talid vid hina elztu í Júda, og segid: hví viljid þér vera hinir seinustu, til ad flytja konúnginn aptur heim til sín? Þér erud minir brædur, bein mitt og hold, hví viljid þér verda seinastir til þess? Og

segid vid Amasa, hershøfdingja Absalons þessi ord min: ertu ekki hold mitt og bein? Gud gjøri mér þad og þad, ef þú skalt ekki vera hershofdingi minn alla tíma, í stad Jóabs. Og hann hneigdi hjørtu allra Júda-manna, sem eins manns; og þeir gjordu konúngi þessi bod: „kom til baka, þú og allir þjónar þínir!" Svo kom konúngurinn til baka. Og sem hann kom ad Jórdan, voru Júda-menn komnir til Gilgal móti konúnginum, til ad flytja hann yfir Jórdan. Og Símei, Benjaminiti, sem hafdi atyrt Davíd, kom med flýti med Júda-mønnum móti Davíd konúngi, og þúsund manns af Beniamín med honum. Féll Símei þá til fóta konúngi, og mælti: herra minn tilreikni mér einga synd, og minnist þess ekki, hversu þjón þinn módgadi þig á þeim degi, er þú fórst frá Jerúsalem. Því eg kannast vid, ad eg syndgadi. Og sjá, eg er í dag kominn fyrstur af húsi Jóseps, til ad koma til móts vid konúnginn herra minn; En Abisai, bródir Jóabs, svaradi og sagdi: ætti Símei ekki ad missa lífid fyrir þad, ad hann formælti Drottins smurda? Davíd sagdi: hvad á eg ad sýsla vid ydur, þér Serujusynir, ad þér í dag viljid leida mig til ills? Skyldi nokkur madur í Israel verda liflátinn í dag? Heldurdu ad eg viti

ekki, ad eg í dag verd konúngur í Israel? Og vid Símeí sagdi hann: þú skalt ekki deya. Og konúngur sór honum þad. Mefíbóset, sonarsonur Sáls, kom líka í móti konúnginum. Hann hafdi hvorki þvegid fætur sínar né greitt skegg sitt, né þvegid klædi sín frá þeim degi, ad konúngurinn flúdi og alt til þess dags, þá hann kom heill á húfi heim aptur. Og hann fagnadi mjøg apturkomu konúngsins. Og Gileadítinn Barsillai kom frá Roglim, og fylgdi konúnginum yfir Jórdan. Hann var þá mjøg gamall, um áttrætt, og hafdi fært konúnginum vistir, medan hann var í Mahanaim; því ad hann var mikid audugur madur. Og konúngur sagdi vid hann: kom þú med mér; eg vil ala ønn fyrir þér hjá mér í Jerúsalem. En Barsillai svaradi konúnginum: hve margir munu verda dagar lífs míns hér eptir, ad eg skyldi fara med konúnginum til Jerúsalem? Eg er í dag áttrædur, hvernig skyldi eg þá enn nú leingur fá gjort grein á gódu og illu, eda finna smekk ad því, sem eg et og drekk, eda geta med heyrninni haft unadsemd af saung karla og kvenna? Hví skyldi þjón þinn vera til armædu herra mínum, konúnginum? Dálitid mun þjón þinn samt fara med þér yfir um Jórdan. Hví vill konúngurinn

veita mér slík laun? Láttu mig snúa heim, ad eg deyi í borg minni, nálægt grøf fødur míns og módur minnar. En sjá, þar er sonur minn Kimham, lát hann fara yfir um med herra mínum, konúnginum, og gjør vid hann, hvad þér gott þykir. Konúngur mælti: Kimham skal fara med mér yfir um, og eg skal gjøra vid hann, hvad þér gott þykir, og alt sem þú óskar þér af mér, skal eg gjøra. Og svo fór alt fólkid yfir um Jórdan; og sem konúngurinn líka kom yfir um, kysti hann Barsillai og blessadi hann; og hann fór aptur heim til sín. En Kimham fór med konúnginum. Þegar Davíd konúngur nú kom heim til Jerúsalem, vildi hann gjøra Amasa ad hershöfdíngja yfir hernum, og sagdi vid hann: kalla þú saman fyrir mig alla Júda-menn til þridja dags. Og Amasa fór ad kalla Júda saman; en sem hann kom ad hinum stóra steini hjá Gibeon, kom Jóab þar í móti honum. Og Jóab hafdi belti um klædi sín; og vid beltid sverd, sem hékk á hlíd honum, í slídrum; og sem hann gekk áfram, rann þad úr slídrum. Jóab sagdi þá vid Amasa: „heill sértu, bródir minn!" og tók hægri hendi í skegg hans, til ad kyssa hann. En Amasa varadi sig ekki á sverdinu, sem var í hendi Jóabs; og Jóab stakk hann med því í

kvidinn, svo ad innifli hans féllu á jørdina; og hann stakk hann ekki aptur, því ad hann dó. Og Amasa veltist í blódi sínu þar á veginum, og alt fólkid sem kom ad honum, nam þar stadar; bar einn hann þá burt af veginum út á morkina, og lagdi fat yfir hann.

## 92. Lofgjørd skaparans.

Þegar David var kominn aptur í Jerúsalem, og sá aptur helgidóm Drottins, saung hann Gudi til dýrdar:

1, „Jeg vil vegsama Drottinn alla tíma; hans lofgjørd skal ætíd vera í munni mínum." „Himnarnir fram telja Guds dýrd, og festingin kunngjørir verkin hans handa. Einn dagurinn segir þad ødrum, og hver nóttinn kunngjørir þad annari. Þeirra hljómur er út geinginn um øll lønd, og þeirra tal til enda jardríkisins, þar sem hann á himninum reisti sólunni bústad. Hún fram geingur sem brúdgumi úr brúdarherbergi sínu, og gledur sig vid þad, sem hetja, ad hlaupa leid sína; uppgánga hennar er vid annan enda himinsins, og rás hennar varir til hins endans, og ekkert felst fyrir hennar heita geisla." Himininn er gjørdur fyrir ord Drott-

ins, og fyrir anda hans munns allur her himinsins; því að hann talaði, og þá skeði það; hann bauð, svo stóð það þar."

2, „Drottinn, minn Guð, þú ert mjøg veg-samlegur; þú hefur í klætt þig dýrð og hátign. Þú klæðir þig í ljós, eins og í annað fat; þú út þenur himininn eins og tjald; þú gjørir hvelf-ingar af vatni á sal þínum; þú brúkar skýin fyrir vagn, og ferð á vængjum vindsins; þú hefur vindana fyrir eingla þína, og eldslogana fyrir þénara þína." — „Þú festir jørðina á hennar grundvelli, svo hún fer ei úr skorðum að eilífu. Með hafinu hafðir þú hulið hana eins og með fati, og vatnið náði upp yfir fjøllin; en þegar þú hastaðir á það, þá flúði það, fyrir þinni þrumuraust hljóp það fljótt í burt; fjøllin hófust upp, dalirnir sigu niður, þángað sem þú ætlaðir þeim stað. Þú settir takmørk vötnunum, sem þau ei mega fara yfir, svo þau ei skuli byrgja jørðina aptur. Þú safnaðir vötnunum í hafið, eins og í belg, og geymir ølduruar í forðabúri." „Þú lætur uppsprettur út hella sér í læki, að þeir renni milli fjallanna; þeir veita drykk øllum villu-dýrum skógarins, asnar skógarins svala sér þar; fuglar himinsins búa hjá þeim, og sýngja í grein-

um trjánna.“ „Þú vøkvar fjøllin ofan að, og fyllir landið ávøxtum, sem þú gefur. Þú lætur grasið spretta handa fénaðinum, og jurtir mønnunum til nota, svo þú út leiðir brauðið af jørðunni, og vínið, sem gleður hjarta mannsins, svo andlit hans verður af því hýrlegra, en af viðsmjöri; og brauðið, sem endurnærir hjarta mannsins.“ „Tré Drottins mettast, Libanons sedrusviður, sem hann plantaði; fuglarnir hreiðra sig þar; og hin háu fjøllin eru hæli steingeitanna.“ „Þú skópst túnglið til merkis fyrir tiltekuar tíðir, sólina, sem þekkir niðurgaungu sína. Þú út breiðir myrkrið, og það verður nótt: þá fara út villudýr skógarins; ljónin, sem øskra eptir bráð, og heimta fæðu sína af Guði. En sólin kemur upp, og þau fara heim aptur, og liggja kyr í bæli sínu. Þá geingur maðurinn út, að verki sínu, og til vinnu til sinnar, alt til kvølds.“ „D r o t t i n n, h v e r s u m ø r g o g m i k i l e r u þ í n v e r k; þ ú g j ø r ð i r þ a u ø l l m e ð v í s d ó m i, j ø r ð i n e r f u l l a f þ í n u m g æ ð u m. Hafið, sem er svo mikið og vítt um sig, það er fullt af ótal skepnum, smáum og stórum; um það fara skipin, þar leika hvalfiskarnir sér, sem þú til bjóst. Þær vona allar á þig, að þú munir gefa þeim þeirra fæðu í hæfilegan tíma. Þegar þú gefur þeim,

saman safna þær; þegar þú upp lýkur þinni hendi, þá mettast þær af gæðum. Þegar þú byrgir auglit þitt, þá skelkast þær; þegar þú tekur anda þeirra frá þeim, þá deya þær, og verða aptur að dupti. Þegar þú út sendir anda þinn, skapast þær, og þú endurnýar mynd jarðarinnar." — Vegsemd Drottins er eilíf; Drottinn hefur velþóknan á sínum verkum."

3, „Þakkið þér Drottni, því að hann er góður, og hans miskunsemi varir eilíflega." — „Drottins orð er sannarlegt, og hverju sem hann lofar, það efnir hann vissulega. Hann elskar réttinn og réttvísi; jörðin er full af hans miskunsemi." — „Augu Drottins líta til þeirra, sem hann óttast, og sem vona til hans miskunar." — „Eg vil lofa Drottinn, svo leingi sem eg lifi, og lofsýngja mínum Guði, meðan eg er til. O að tal mitt mætti þóknast honum; eg vil fagna í Drottni." — „Lofa þú Drottinn, sála mín, Halelúja!"

## 93. Davíd nefnir Salómon til eptirmanns síns og deyr.

En sem Davíd var orðinn gamall og hniginn á efra aldur, tók Adonia, er hann átti við Ha-

git, bródir Absalons, sig til, og mælti: „eg vil verda konúngur. Og hann útvegadi sér vagna og riddara, og fimmtíu menn, sem runnu fyrir honum. En fadir hans hafdi aldrei á æfi sinni hrygt hann, ekki svo mikid, ad hann hefdi sagt: hví gjørir þú þetta? Og hann var líka mjøg fridur sýnum, og módir hans hafdi fætt hann næst eptir Absalon. Og hann kom ad máli vid Jóab, og vid prestinn Abiatar. En presturinn Sadok, og Benaja, sonur Jojada, og spámadurinn Natan, og Simei, og Rei, og kappar Davíds, voru ekki med Adonia. Og Adonia fórufærdi saudum og nautum og alikálfum, hjá steininum Sohelet, sem er hjá brunninum Rogel, og baud øllum brædrum sínum, sonum konúngsins, og øllum Júda-mønnum, þénurum konúngsins. En Natan spámanni, og Benaja, og koppunum, og Salómon bródur sínum, baud hann ekki. Þá sagdi Natan vid Batsebu, módur Salómons: hefur þú ekki heyrt, ad Adónia Hagitarsonur er ordinn konúngur, og Davíd, herra vor, veit þad ekki? Kom þú því nú, eg skal kenna þér ráð, ad þú bjargir sálu þinni, og sálu Salómons, sonar þíns. Far þú nú, og gakk inn til Davíds konúngs, og seg vid hann: „hefur þú ekki svarid ambátt þinni og sagt:

Salómon, sonur þinn, skal verda konúngur eptir mig, og sitja í hásæti minu? Hvernig er þá Adonia ordinn konúngur?" Og sjá medan þú ert ad tala um þetta vid konúnginn, skal eg koma á eptir þér, og enda tal þitt. Og Batseba fór til konúngsins, inn í herbergi hans, og laut honum. En konúngur mælti: hvad er erindi þitt? Hún sagdi vid hann: Þú hefur, herra minn, svarid ambátt þinni vid Gud þinn, og sagt: Salómon, sonur þinn, skal verda konúngur eptir mig, og sitja í hásæti minu. En sjá, Adonía er ordinn konúngur, án þess þú vitir. Hann hefur fórnfært nautum, saudum og alikálfum, og bodid øllum sonum konúngsins, en Salómon, þénara þinum, hefur hann ekki bodid. En allur Israel horfir augum sínum til þín, minn herra konúngur, ad þú látir menn vita, hver skal sitja í hásæti þínu eptir þig. Þad mun fara svo, ad þegar minn herra konúngur hefur safnazt til fedra sinna, þá mun eg og sonur minn, Salómon, gjalda mega. Og sjá, medan hún enn var ad tala vid konúnginn, kom spámadurinn Natan, og taladi vid Davíd á sømu leid og Batseba. Þá sór konúngurinn, og sagdi: svo sannarlega sem Drottinn lifir, sem hefur frelsad sáln mína úr øllum þrautum, þá vil eg

i dag gjøra svo sem eg ádur hefi svarid þér, ad Salómon, sonur þinn, skal vera konúngur, og sitja i hásæti minu i minn stad. Þá hneigdi Batseba sig til jardar, og sagdi: minn herra, konúngur Davíd, lifi eiliflega. Og Davíd konúngur mælti: kallid fyrir mig prestinn Sadok, og Benaja, og sem þeir komu inn fyrir konúnginn, mælti hann vid þá: takid med ydur þjóna herra ydvars, og setjid Salómon, son minn, á múlasnа minn, og farid med hann til Gihon. Þar smyrji presturinn Sadok og spámadurinn Natan hann til konúngs yfir Israel, og blásid i básúnuna, og hrópid: lifi konúngur Salómon! Þá svaradi Benaja og sagdi: amen, og þad segi einnig Drottinn, Gud herra mins konúngsins Davíds. Eins og Drottinn hefur verid med herra minum konúnginum, eins sé hann og med Salómon, svo ad veldi hans verdi meira en veldi herra mins, Davíds konúngs. Þá fóru þeir med Salómon. Og Sadok tók vidsmjørshornid úr tjaldbúdinni, og smurdi Salómon; og þeir blésu i básúnuna, og alt fólkid sagdi: „lifi konúngurinn Salómon!“ Og alt fólkid fór med honum, og lék á hljódfæri, og voru mjøg kátir, svo ad jørdin skalf af hárevsti þeirra. Og Adonía heyrdi þad, og allir þeir, sem hann hafdi i

bodi sínu; en þeir höfdu þá lokid máltid. Og sem Jóab heyrdi hljóm básúnunnar, mælti hann: hverju gegnir þetta hróp og háreysti í borginni? En sem hann var enn ad tala um þetta, sjá, þá kom Jónatan, sonur Abiatars prests. Og Adonia mælti: vertu velkominn, því ad þú ert gódur madur, og munt koma med góð tidindi. Jónatan svaradi: nei, vor herra, David konúngur, hefur gjört Salómon ad konúngi; og þeir hafa smurt hann í Gihon, og eru farnir þadan med fögnudi, og stadurinn er allur uppvægur. Þad er hávadinn, sem þér hafid heyrt. Situr Salómon í hinu konúnglega sæti, og þjónar konúngsins hafa geingid inn, til ad blessa konúng og sagt: þinn Gud gjöri nafn Salómons stærra en nafn þitt, og hefji hásæti hans yfir hásæti þitt. Og konúngurinn hefur bedizt fyrir í sæng sinni. Þá skelfudust allir þeir, sem höfdu verid í heimbodi Adonia, og stódu upp, og hver fór sína leid. En Adonia hræddist Salómon, gekk burt, og greip um altarishornin. Og þad var sagt Salómoni med þessum ordum: sjá, Adonia er hræddur vid Salómon, og hefur tekid um altarishornin, og segir: Salómon konúngur sverji mér í dag, ad hann skuli ekki deyda þjón sinn med sverdi. Salómon sagdi: verdi hann vænn madur, skal

ekki snert eitt hár á høfdi hans; en verdi hann fundinn ad illu, þá kostar þad líf hans. Hann sendi þá og lét sækja hann frá altarinu; og sem hann kom, féll hann nidur fyrir Salómon. En hann sagdi vid hann: far heim í hús þitt!

Þegar nú sá tími kom, ad Davíd skyldi deya, baud hann syni sínum Salómon, og sagdi: eg fer veg allrar veraldar. Vertu hughraustur, og vertu madur. Gættu þess, er gæta ber, vid Drottinn, Gud þinn, ad þú gángir á hans vegum, haldir hans setningar og bod, hans réttindi og tilskipanir, eins og skrifad er í Mósis løgum, svo þú verdir gæfumadur í øllu, sem þú gjørir, og hvert sem þú snýr þér; og svo ad Drottinn efni ord sitt, sem hann hefur talad til mín, þá hann mælti: „ef synir þínir gá ad vegum sínum, svo ad þeir gángi dyggilega fyrir mér, og af øllu hjarta, og af allri øndu, þá skal aldrei vanta af þinni ætt mann í hásæti Israels." Og sjá, sonum Barsillai, Gileadita, skaltu vera nádugur; þeir skulu eta vid þitt bord; því ad svo gjørdu þeir mér, þegar eg flúdi fyrir bródir þínum Absalon. Og Davíd badst fyrir fyrir dauda sinn: 1, „Miskunsamur og nádugur er „Drottinn, þolinmódur og harla gód- „gjarn. Hann breytir ekki vid oss

„eptir vorum syndum, og endurgeldur „oss ekki eptir vorum misgjørdum. „Því svo hátt sem himininn er yfir „jordunni, svo máttug er hans miskun„semi yfir þeim, sem hann óttast. Eins „og fadirinn miskunar sig yfir sin børn, „eins miskunar Drottinn sig yfir sínar „mannskepnur.“ — 2, „Drottinn, kenn oss „ad gæta þess, ad vér hljótum ad deya, svo vér „forsjálir verdum. Æfidagar vorir eru sjøtíu ár, „og med sterkri heilsu áttatíu ár; og hid kostuleg„asta af þeim er sorg og mæda. Því ad þeir „lída skjótt hjá, og vér erum eins og á flugi.“ „— Mannsins dagar, eru eins og gras, sem ad „morgni blómstrar, og ad kvøldi er visnad, eins „og blómid á vellinum blómstrar hann; þegar „vindurinn fer yfir þad, þá er þad ekki framar „til, og þess stadur sést ei meir.“ — „En nádin „Drottins varir frá eilífd til eilífdar.“ — Svo safnadist Davíd til fedra sinna, og var jardadur í Davídsborg. En sá tími, sem Davíd hafdi ríkt yfir Israel, var fjørutíu ár.

---

## 94. Salómons réttlæti og speki.

Salómon settist í hásæti føður síns, og konúngsríki hans var mjøg stadfast. — En Adonia, sonur Hagítar, sat aptur á svikrádum vid hinn nýa konúng, og presturinn Abiatar og Jóab med honum. Þegar Salómon fekk þad ad vita, sagdi hann: svo sannarlega sem Drottinn lifir, sem hefur stadfest mig, og sett mig í hásæti Davíds føður míns, þá skal Adonia deya þegar í dag, af því ad hann hefur ekki haldid ord sitt, er hann lofadi, ad vera trúr og fridsamur. Og hann sendi Benaja, son Jojada, sem vann á honum, svo hann dó. — Og vid prestinn Abiatar sagdi konúngurinn: far þú til Anatot, til akurs þíns. Þú ert dauda sekur, en eg vil ekki deyda þig í dag; því ad þú barst ørk Drottins fyrir føður mínum Davíd, og þoldir ílt, þegar fadir minn þoldi ílt. Þannig rak Salómon Abiatar burt, svo hann var ekki leingur prestur Drottins. — Þetta spurdi Jóab, sem einnig hafdi haldid med Adonia. Hann flúdi þá í tjaldbúd Drottins, og greip um altarishornin. Þegar Salómon konúngur frétti þad, sendi hann Benaja, og sagdi: far þú, og vinn á honum. Þegar nú Benaja kom í tjaldbúd

Drottins, sagdi hann vid Jóab: svo segir konúngurinn: gakk þú út hédan. Hann svaradi: nei, hér vil eg deya. Og Benaja sagdi konúnginum þad aptur, en konúngurinn sagdi vid hann: gjör þú, sem hann sagdi, og vinn á honum, og graf hann, svo þú komir af mér og húsi fødur míns blódi því, sem Jóab án saka hefur út hellt. Og Drottinn láti blód hans koma yfir høfud hans, þar ed hann hefur drepid tvo menn, sem voru réttvísari og betri en hann, og myrt þá med sverdi, án þess fadir minn Davíd vissi, Abner, hershøfdíngja Sáls, og Amasa, hershøfdíngja Júda. En Davíd, og nidjar hans, og hásæti hans, hafi frid af Drottni eilíflega. Þá gekk Benaja burt, og vann á honum med sverdi, og deyddi hann; og hann var grafinn í húsi sínu í eydimørkinni. Og konúngurinn setti Benaja, son Jojada í hans stad yfir herinn, og Sadok prest í stad Abiatars. — Og Salómon mægdist vid Farao, konúng í Egyptalandi, og tók dóttur hans, og flutti hana til Davídsborgar. Sídan fór hann til Gibeon til ad fórnfæra þar. Hér birtist Drottinn honum í draumi um nótt, og sagdi: bid þú einhvers, og skal eg veita þér þad. Salómon sagdi: Þú audsýndir fødur mínum Davíd, þjón þínum,

mikla náð, af því að hann gekk fyrir þér í sannleika, réttvísi, og hjartans einlægni; og þú efndir við hann náðarheit þitt, og gafst honum son, sem nú situr í hásæti hans. Og nú, Drottinn minn Guð, þú hefur gjört þjón þinn að konúngi, og eg er enn únglingur, og veit hvorki minn inngáng né útgáng. Og þjón þinn er mitt á meðal fólks þíns, sem þú hefur útvalið, svo mikils fólks, sem hvorki verður talið né reiknað fyrir fjölda sakir. Gef því þjón þínum skynugt hjarta, að hann fái dæmt fólk þitt, og aðgreint gott frá illu. Og Drottni líkaði vel, að hann bað um þetta, og sagði við hann: „sökum þess þú baðst um þetta, og baðst ekki um lánga lífdaga, né auðlegð, ekki heldur um líf óvina þinna, heldur um skilning, svo þú hefðir vit á að dæma, og stjórna fólki þínu, sjá, svo veiti eg þér það, sem þú baðst um. Eg gef þér hyggið og skilníngsfult hjarta, svo að þinn líki hefur ei verið á undan þér og skal ekki koma eptir þig. Og eg gef þér líka það, sem þú ekki baðst um, auðlegð og heiður, svo að þinn líki sé ekki meðal konúnganna alla þína daga. Og ef þú geingur á mínum vegum, svo að þú gætir minna réttinda og boða, eins og Davíð faðir þinn, þá skal eg veita þér lángt

líf." Og Salómon kom til Jerúsalem, og gekk fyrir sáttmálsørk Drottins, og bar fram brennifórn og þakkarfórn, og gjørdi øllum þjónum sínum mikid heimbod. Um þad leyti komu tvær konur til konúngsins, og geingu fyrir hann. Önnur konan sagdi: æ herra minn, eg og kona þessi bjuggum í sama húsi, og eg ól barn í húsinu hjá henni; en á þridja degi, eptir ad eg hafdi fætt, ól hún líka barn. Og vid vorum bádar einar saman í húsinu, og eingjinn annar var þar hjá okkur. Þá dó sonur konu þessarar um nóttina, af því ad hún hafdi lagzt á hann. Og hún stód upp um nóttina, og tók son minn frá hlid mér, medan eg svaf, og lagdi hann í fadm sér, en sinn dauda son lagdi hún í fadm mér. Og þá eg stód upp um morguninn, til ad gefa syni mínum ad sjúga, sjá, þá var hann daudur; en er eg virti hann fyrir mér, sjá, þá var þad ekki minn son, sem eg hafdi fætt. Hin sagdi: nei, sonur minn lifir, en þinn sonur er daudur. Þá sagdi hin: nei, þinn sonur er daudur, en minn lifir. Þá mælti konúngurinn: þessi segir, minn sonur lifir, og hin segir þad líka, færid mér sverd. Og þeir færdu honum sverd. Þá mælti konúngur: høggvid barnid, sem lifir í tvo hluti, og fáid sinn

helminginn hvorri. Þá sagdi sú konan, hverrar sonur lifdi, vid konúnginn (því móðurhjarta hennar sagdi til sín): æ! herra minn, gefid henni barnid lifandi, og deydid þad ekki. En hin sagdi: þad sé hvorki mitt né þitt, høggvid þad í sundur. Þá svaradi konúngurinn og mælti: fáid henni hid lifandi barn, og deydid þad ekki; hún er módir þess. Og allur Israel heyrdi dóminn, sem konúngur hafdi dæmt, og þeir óttudust konúnginn; því ad þeir sáu, ad speki Guds var í honum, til ad leggja á dóma. Og Gud gaf Salómon speki og skilning mikinn, og margfalda þekkíngu, eins og sandur er margur á sjáfarstrønd; speki Salómons var meiri en speki allra sona austurlanda, og meiri en øll speki Egyptalands. Og hann var øllum mønnum vitrari, og vitrari en skáldin Etan, Heman, Kalkol og Darda; og nafn hans var vídfrægt medal allra þjóda alt um kríng. — Og hann taladi þrjú þúsund ordskvidu, og vísur hans voru þúsund og fimm. Og hann taladi um trén, frá sedrustrénu á Líbanon, til ísópsins, sem sprettur á vegg; líka taladi hann um fénadinn og fuglana, ormana og fiskana. Og menn komu frá øllum þjódum til ad heyra speki Salómons, og frá øllum konúngum jardarinnar, sem høfdu heyrt um speki hans.

## 95. Spakmæli Salómons.

Þetta eru nokkur af spakmælum Salómons:

1) Son minn, ef þú meðtekur orð mín, og geymir boðorð mín hjá þér, svo að þú lætur eyra þitt gefa gaum að spekinni, og beigir hjarta þitt til hygginda; já, ef þú kallar eptir skilningi og hrópar á vizku, ef þú leitar hennar eins og silfurs, og grennslast eptir henni sem fólgnu fé: þá muntu finna þekkingu Guðs. — 2) Því að Drottinn veitir speki; frá hans munni kemur þekking og hyggindi. — 3) Otti Guðs er upphaf speki; heimskingjarnir fyrirlíta vizku og aga. — 4) Sæll er sá maður, sem finnur spekina. Vegur hennar er yndislegur vegur, og allar hennar götur eru friður. Hún er lífsins tré fyrir þá, sem ná henni, og sæll er sá, sem heldur henni fast. — 5) Heyr, hvernig spekin hrópar. Hún stendur á tindum hinna háu fjalla, hjá vegunum, við húsin, við inngáng staðarins, og hrópar hátt: „við yður tala eg, þér menn: heyrið orð mín; því að sannleika mælir munnur minn, og í honum er ekkert aflagað eða rángsnúið. Meðtakið lærdóm minn fremur en silfur, og metið þekkingu meir en bezta gull. Því speki er betri en gimsteinar, og allir dýrgripir jafnast ei við hana." — „Hjá mér er ráðdeild og staðfesta, eg hefi

hyggni og styrkleika. Med minni adstod ríkja konúngarnir, og med minni hjálp skipa hofdíngjarnir réttinum." — „Drottinn átti mig í byrjun sinna vega, ádur en hann byrjadi verk sitt. Eg em fædd frá eilífd, ádur en jørdin var til, þá undirdjúpin voru enn ekki, ádur en fjøllin voru látin nidur. Þegar hann til bjó himininn, var eg hjá honum; þegar hann lagdi grundvøll jardarinnar, var eg smidurinn vid hlid hans." — „Jeg hefi minn føgnud af mannanna sonum. Og nú børn, hlýdid rædu minni, og sleppid henni ekki. Hver sem finnur mig, hann finnur lífid, og nær velþóknan Guds. En allir, sem hata mig, elska daudann." — 6) Upphaf speki er: ad vilja gjarna heyra hana, og ad elska hyggindi, meir en alla fjársjódu. — 7) Speki ber af heimsku, eins og ljós af myrkri.

8) Vitur sonur gledur fødur sinn, en fávís sonur er raun módur sinnar. — 9) Hádgjarn madur leitar speki, og finnur hana ekki; en hyggnum manni er spekin audfundin. — 10) Hver sem umgeingst hyggna menn, hann verdur hygginn; en stallbródir dáranna mun í ógæfu rata. — 11) Hver sem elskar aga, hann elskar hyggindi, en hver sem hatar umvøndun, hann mun heimskur verda. — 12) Son minn,

virð ekki litils umvandan Drottins, og örvinglast ekki, þá hann agar þig; því að hvern sem Drottinn elskar, þann agar hann, og hefur velþóknan á honum, sem faðir á syni. — 13) Hlýð umvandan föður þíns og vík ekki frá boðum móður þinnar, því að slíkt er fegursta prýði þín. — 14) Hve fast sem heimskan situr í hjarta hins únga, mun þó vöndur agans reka hana lángt frá honum. — 15) Kenn hinum únga þann veg, sem hann á að gánga, og þegar hann eldist, mun hann ekki af honum víkja.

16) Eins og eldurinn reynir silfrið, og ofninn gullið, eins reynir Drottinn líka hjörtun. — 17) Þar eru margar ráðagjörðir í hjarta mannsins, en ráð Drottins stendur stöðugt. — 18) Spor sérhvers manns koma frá Drottni; hver er sá maður, sem skilur veg sinn? — 19) Hverjum manni þykja sínir vegir réttir, en Drottinn prófar hjörtun. — 20) Hlutum er kastað í skaut, en hlutfallið kemur frá Drottni.

21) Hugsa til skapara þíns í æsku þinni, áður hinir vondu dagarnir koma, og árin nálgast, sem þú munt segja um: þau líka mér ekki. — 22) Vertu glaður á hinum góðu dögum, og á hinum vonda degi, þá hugleið þetta: Guð hefur gjört þennan sem

hinn, til þess madurinn viti ekki, hvad á eptir kemur. — 23) Gladvært ged gjørir lífid gledilegt, en hryggur hugur skrælir beinin.

24) Ekkert er betra fyrir manninn en ad gjøra verk sitt med gledi, því ad það er hans hlutdeild. — 25) Vinna veitir gnægtir, en ordin tóm leida af sér skort. — 26) Hver á sínum akri erfidar, mun hafa gnægd brauds; en hver sem fylgir idjuleysinu, mun hafa nægilega fátækt. — 27) Þú letingi, fardu til maursins, og sjádu háttu hans, og lær af honum. Þótt hann hafi eingan hofdíngja, yfirbodara eda herra, aflar hann sér samt forda á sumrum, og safnar sér fædu á haustin. — 28) Elska ekki svefninn, svo þú verdir ekki snaudur; haf augu þín opin, þá muntu hafa gnægd brauds. — 29) Af því vetur er, vill hinn lati ekki plægja; þess vegna hlýtur hann ad snikja um uppskerutímann. — 30) Eg gekk um akur letíngjans, og fram hjá víngardi hins fávísa, og sjá, þar voru eintómir þistlar, og netlur, og steingirdíngin nidurfallin. Þegar eg sá það, setti eg það á mig, og lærdi af því, viltu enn nú sofa dálitid, blunda litid eitt, liggja nokkud enn med samanløgdum høndum? Þá mun fá-

tæktin koma yfir þig sem ræníngi, og skorturinn sem hermaðr.

31) Gef mér hvorki fátækt né auðæfi, en lát mig hafa mitt afskamtað uppeldi. Eg kynni máske annars, ef eg hefði ofmikið, að afneita þér, og segja: hvar er Drottinn? Eða, ef eg yrði snauður, kynni eg máske að stela, og glæpast á nafni míns Guðs. — 32) Stolið brauð smakkar í fyrstu vel, en eptir á fyllist munnurinn með aur. — 33) Fátækur maður, sem fram geingur í hreinskilni, er betri, en ríkur, sem hefur vondar varir. — 34) Á degi neyðarinnar stoða auðæfi ekki, en réttlæti frelsar frá dauða. — 35) Mörgum finnst, að þeir sén ríkir, og hafa þó ekkert; öðrum, að þeir sén fátækir, og hafa þó mikinn auð. — 36) Gott mannorð er meira vert en mikil auðæfi, vinsæld betri en silfur og gull. — 37) Hver sem líða á undir lok, hann verður fyrst drambsamur; dramb er falli næst.

38) Trúr vinur elskar opt meir, og er tryggari, en bróðir. — 39) Tal hins vingjarna er húnángsseimur, sætt fyrir sálina og lækning fyrir beinin. Þegar sorg beigir hjarta mannsins, gleður eitt vingjarnlegt orð. — 40) Ef óvin þinn húngrar, þá gef honum að eta, ef hann

þyrstir, þá gef honum að drekka; þú safnar þá glóðum elds yfir höfuð honum, og Drottinn mun þér það endurgjalda. — 41) Betri er einn rétt- ur af kálmeti með kærleika, heldur en alinn uxi með hatri. — 42) Sá, sem ekki getur stjórnað geði sínu, er eins og opin borg án múrveggja. — 43) Það er betra að mæta byrnu, sem rænd er húnum sínum, heldur en dáranum í flónsku hans. — 44) Bráðlyndur maður vekur þrætur, en hóglyndur stillir kíf. — 45) Hóglyndi er mikil vizka, en hver sem er óþolugur, hann lýsir heimsku sinni. — 46) Hóglyndur maður er betri en kappi, og sá, sem stjórnar geði sínu, er betri en sá, sem yfirvinnur borgir. — 47) Orð rógber- ans eru eins og krásir; þær þreingja sér niður, inst í magann. — 48) Sannsögull munnur stend- ur stöðugur, en lygin túnga stenzt ekki nema eitt augnablik. — 49) Þar sem mörg orð eru töluð, vantar ekki yfirtroðslur; en sá er hygginn, sem fer spart með munn sinn. — 50) Orð í tíma talað, er sem gullepli í silfurskál. — 51) Gráar hærur eru heiðurskrans, sem finst á vegi réttlæt- isins. — 52) Duptið hlýtur að hverfa til jarðarinnar aptur, hvar það áður var, en andinn til Guðs, sem gaf hann.

53) Aðalinntak efnisins, þegar alls er gætt,

verdur þetta: óttastu Gud, og haltu hans bodord, því ad þad ber öllum mönnum ad gjöra.

## 96. Musteri Drottins.

Hiram, konúngur í Thyrus, sendi þjóna sína til Salómons, af því hann hafdi frétt, ad þeir hefdu smurt hann til konúngs í stad födur hans; því ad Hiram hafdi ávalt verid vinur Davíds. Og Salómon sendi aptur til Hirams og lét segja vid hann: Þú veizt, ad Davíd fadir minn mátti ekki byggja hús nafni Drottins, Guds síns, vegna þess ófridar, sem hann átti í alt um kring, þángad til Drottinn lagdi óvini hans undir fætur honum. En nú hefur Drottinn, minn Gud, gefid mér frid alt um kring, svo ad einginn mótstödumadur er framar, og eingin óhöpp. Og sjá, eg hefi nú hugsad, ad byggja hús nafni Drottins. Bjód þú því, ad menn höggvi mér sedrusvid á Líbanon, og ad þjónar mínir séu med þjónum þínum; eg vil gjalda þér kaup fyrir þjóna þína, eins og þú segir: því ad þú veizt, ad einginn vor á medal kann ad höggva tré, eins og þeir í Sídon. Þegar Hiram heyrdi ord Salómons, vard hann mjög gladur, og mælti: lofadur sé Drottinn, sem hefur gefid Davíd vitran

son yfir þetta mikla fólk. Og hann sendi til Salómons og lét segja honum: eg skal gjöra alt, sem þú vilt, viðvíkjandi sedrusviðnum og furuviðnum. Þjónar mínir skulu flytja viðinn frá Líbanon til sjáfar, og flytja hann í flotum á sjónum til þess staðar, sem þú til tekur, og taka hann þar í sundur; en þú lætur sækja. En þú verður líka að gjöra bón mína, og gefa húsi mínu vistir. Svo gaf Híram Salómon sedrusvið og furuvið eptir bón hans, og Salómon gaf Híram tuttugu þúsund mæla hveitis handa húsi hans að eta, og tuttugu mæla af steyttu viðsmjöri. Það gaf Salómon Híram árlega. Og það var friður milli Hírams og Salómons, og þeir gjörðu sáttmála hver við annan. — Og Salómon hafði als sjötíu þúsund lestamenn og áttatíu þúsund, sem hjuggu á fjallinu stein og tré, auk umsjónarmanna yfir verkinu, sem voru þrjú þúsund og þrjú hundruð. Og konúngurinn bauð, að þeir skyldu brjóta upp og höggva stóra og kostulega steina, til grundvallar hússins; og byggingarmenn Salómons og Hírams, og Gíblítar, hjuggu þá, og bjuggu undir viðinn og steinana til byggingar hússins. Og það skeði fjögur hundruð og áttatíu árum eptir að Ísraelsmenn fóru úr Egyptalandi, á fjórða ári ríkisstjórnar

Salómons, ad hann bygdi Drottni musteri. Heyrdist hvorki hamar né øxi né nokkurt járntól hjá húsinu, þegar þad var bygt; svo vel voru steinarnir ádur til hogguir. Og hann klæddi veggina ad innan med sedrusvid frá gólfi upp ad þaki, svo hvergi sá í stein; voru þeir allir ad innan med útskornum Kerúbum, pálmavidi, og útspríngandi blómum. Sidan fódradi hann alt, bædi veggina og gólfid med dýru gulli, svo ad alt húsid var gulli búid. En insta part hússins gjordi hann svo, ad þángad mætti flytja logmálsørk Drottins, og var þad hid allrahelgasta; gjordi hann þar tvo Kerúba úr olíuvid, alla gulli búna, sem breiddu út vængi sína í húsinu, svo ad vængur annars þeirra nam vid vegginn og vængur hins vid hinn vegginn, og mættust vængir þeirra í midju húsinu. Atti sáttmálsørk Drottins ad standa undir þeim, og þeir ad hylja hana med vængjum sínum. Og Salómon var í sjo ár ad byggja musterid. Og hann tilbjó líka hid mikla steypta ker úr kopar, tin álna frá einum barmi til annars, og þrjátin álna ummáls. Stód þad á tólf steyptum nautum; sneru þrjú hofdunum til nordurs, þrjú til vesturs, þrjú til austurs. Þyktin á þvi var þverhond, og barmarnir sem á bikar, settir liljublómum. Stód ker

þetta í hinum mikla musterisforgardi, hægra megin austan til, og var kallad eirkerid. Líka gjørdi Salómon øll áhøldin í húsi Drottins: gullaltarid, skodunarbrauda-bordid, ljósahjálmana, skálarnar, reikelsiskerin og glódarkerin, alt úr skíru gulli. Var þannig lokid øllu verki á húsi Drottins. Þá saman safnadi Salómon konúngur til sín í Jerúsalem øllum øldúngum Israels, øllum foríngjum ættanna, til þess ad flytja þángad sáttmálsørk Drottins úr Davidsborg, þad er: frá Síon. Og prestarnir fluttu þángad ørkina, samkundutjaldid og øll þess áhøld; og Salómon og allur Israels lýdur geingu fyrir ørkinni, og fórnfærdu saudum og nautum, er ekki vard talid og reiknad fyrir fjølda sakir. Og prestarnir báru sáttmálsørkina á sinn stad, inn í hid allra helgasta, undir vængi Kerúbanna. Og Salómon blessadi allan Israels lýd, gekk fyrir altari Drottins, og mælti: „Drottinn, Israels Gud, einginn Gud er sem þú, á himnum uppi eda á jørdu nidri, þú, sem heldur sáttmála þinn og nád vid þjóna þína, sem gánga fyrir þér af øllu hjarta. En haldid þér, ad Gud búi á jørdu? Sjá, himininn og allir himnanna himnar rúma hann ekki, hvad þá þetta hús, sem eg hefi bygt. Snú þér samt ad

bæn þíns þjóns, og að hans grátbeiðni, Drott-
inn, minn Guð. Lát þitt auga vera opið nótt
og dag yfir þessu húsi, yfir þessum stað, um
hvern þú hefur sagt: þar skal mitt nafn vera.
Hlýð á grátbeiðni þjóns þíns og lýðs þíns,
Israels, þegar þeir biðja á þessum stað; heyr
það og vert náðugur. Allar bænir, alla grát-
beiðni, sem hér mun gjörð verða, af hverjum
sem helzt manni, og af öllu þínu fólki Israel,
þegar þeir kenna hver til sinna meina, og út
breiða hendur sínar til þessa húss, — heyr þær
og vert náðugur, og gef sérhverjum eptir hans
breytni, eins og þú þekkir hjarta hans; því að
þú einn þekkir hjörtu allra mannanna
barna. Og þegar hinn útlendi, sem ekki er af
þínu fólki Israel, kemur úr framandi landi
vegna nafns þíns, og biðst fyrir í þessu húsi,
þá heyr þú hann á himnum, og gjör það, sem
hann biður þig um." Og konúngurinn og allur
Israel færðu Drottni fórnir, og Salómon flutti
þakkarfórn, tuttugu og tvær þúsundir nauta og
hundrað og þuttugu þúsundir sauða, og hélt öll-
um Israel hátíð. Þannig vígðu þeir hús Drott-
ins þann sama dag. Og fólkið blessaði konúng-
inn, og fór burt til tjaldbúða sinna, glatt og

með glöðu geði af öllu hinu góða, sem Drottinn hafði auðsýnt Israel.

## 97. Veldi og frægð Salómons.

Og konúngurinn bygði sér líka mikil hús af viði frá Líbanon, með mörgum og miklum forbyrgjum og stólpagaungum. Og í dóms-forbyrginu, þar sem hann dæmdi, lét hann gjöra mikið filabeinsbásæti, sem hann bjó skíru gulli. Voru sex stig upp í hásætið, og tvö ljón stóðu við hliðarbríkur þess, og tólf ljón á þeim sex stigum til beggja hliða. Þvílíkt hefur ekki gjört verið í nokkru konúngsríki. Líka lét konúngurinn Salómon gjöra fimm hundruð skildi af drifnu gulli, og heingdi þá upp í höll sinni. Og öll drykkjarker konúngsins voru úr gulli, og öll búsgögn í húsi hans; því að á dögum Salómons var silfur einkis metið. Og hann lét líka gjöra skip í Escon-Geber, á strönd hafsins rauða, í landi Edomíta, og Híram sendi á skipið, með þjónum Salómons, þjóna sína, sem voru góðir sjómenn, og vanir við sjó. Og þeir komu til Ofír, og sóttu þángað gull, silfur, íbenholt, filabein, apaketti og páfugla. Kom það einusinni á þremur árum. Og Salómon hafði hús fyrir fjörutíu þúsund vagnhesta og tólf þúsund reiðmenn. Hann hafði

tólf lénsmenn yfir öllum Israel, sem létu til vistir handa konúnginum, og húsi hans, og öllum, sem sátu við borð hans, og létu ekkert vanta; átti hver þeirra að veita honum vistir einn mánuð. Og Salómon hafði daglega til matar níutíu mæla mjöls, tíu alda uxa og tuttugu haggeingna uxa, og hundrað sauði, fyrir utan hirti, ráðýr, steingeitur, og alifugla. Hann drottnaði yfir öllum löndum þessu megin árinnar, og hafði frið á allar hliðar alt um kríng. Og Júda og Israel bjó óhultur, hver undir sínu víntré og undir sínu fíkjutré, meðan Salómon lifði; og þeir voru margir, sem sandur í sjó, og átu og drukku, og voru glaðir.

Þannig var Salómon meiri enn allir konúngar jarðarinnar að auðlegð og vizku; og menn frá öllum löndum girntust að sjá hann, og heyra þá speki, sem Guð hafði gefið hjarta hans. Og hver maður kom með gáfu sína, silfur- og gullgripi, klæði og vopn, og ilmjurtir, hesta og múlasna, ár eptir ár. — Og sem drottníngin af Saba heyrði orðstír Salómons og nafn Drottins, kom hún til að reyna hann með gátum. Kom hún til Jerúsalem með mjög miklum skara, með úlfalda, sem báru ilmjurtir, gull mikið og dýra steina. Og er hún kom til konúngsins,

taladi hún vid hann alt, sem henni bjó í skapi; og Salómon sagdi henni það alt; og honum var ekkert hulid, ad hann ekki segdi henni það. En sem drottníngin sá alla hans vizku og það hús, sem hann hafdi bygt, réttina á bordi hans, þjóna hans, og fórnir hans í húsi Drottins, þá vard hún frá sér numin, og sagdi vid hann: satt var það, sem eg heyrdi í landi mínu um aud þinn og speki. Eg trúdi því ekki, þángad til eg kom, og sá það med mínum eigin augum; og sjá, eg hafdi ekki frétt helmínginn. Sælir eru þjónar þínir, sem ávalt standa frammi fyrir þér, og heyra speki þína. Og lofadur sé Gud, sem hefur sett þig í hásæti Israels, af því ad hann elskar Israel. Og hún gaf konúngi harla mikid af gulli og fílabeini og ilmjurtum.

En sem Salómon konúngur gjørdist gamall, vard andi hans þreklitill, og konur hans sneru hjarta hans til annara guda; því ad hann unni mjøg útlendum konum. Og hann gjørdi það, sem Drottni líkadi illa, og adhyltist Drottinn ekki svo fullkomlega sem fadir hans Davíd; svo ad hann í elli sinni dróg skugga á ordstír þann, sem farid hafdi af speki hans. Og Drottinn gat ekki verid honum eins nádugur, og hann hafdi ádur verid. Og Salómon ríkti í Jerúsalem yfir øllum Is-

rael í fjørutín ár; sofnadi hann þá med fedrum sínum, og var jardadur í borg Davíds, fødur síns. En Róbóam, sonur hans, vard konúngur í hans stad.

## 98. Ríkid skiptist í Júda- og Israelsríki.

Róbóam fór til Síkem, því allur Israel kom þángad til ad gjora hann ad konúngi. Og allur lýdurinn sagdi vid Róbóam, og mælti: fadir þinn hafdi gjort ok vort þúngt, gjor þú nú léttari hina hørdu vinnu og hid þúnga ok, sem hann lagdi á oss, þá viljum vér þjóna þér. Hann sagdi vid þá: farid burt í þrjá daga, og komid svo aptur til mín. Og fólkid fór burt. Þá rádfærdi konúngurinn sig vid hina gomlu, sem hofdu stadid frammi fyrir fodur hans Salómon, medan hann var á lífi, og sagdi: hvada svar rádleggid þér, ad eg gefi þessu fólki? Þeir svørudu honum: ef þú í dag verdur audsveipur og eptirlátur þessu fólki, og hlýdir þeim, þá munu þeir þjóna þér æfinlega. En hann hlýddi ekki rádum þeim, sem hinir gømlu gáfu honum, og rádfærdi sig vid hina úngu menn, sem høfdu uppalizt med honum, og stódu frammi fyrir honum. Og hann sagdi vid þá: hvada svar rádid þér mér ad gefa fólki þessu, sem hefur sagt vid

mig: gjør léttara ok það, sem faðir þinn lagði á oss? Hinir úngu menn søgðu við hann: svona skaltu segja við fólkið: minn litli fingur er þykkari en lendar føður míns. Faðir minn lagði á yður þúngt ok, en eg vil enn nú bæta á ok yðar. Faðir minn refsaði yður með svipum, en eg mun refsa yður með sporðdrekum. Svo kom fólkið á þriðja degi til hans aptur, og hann svaraði því harðlega, eins og hinir úngu menn høfðu ráðið honum. En sem allur Israel sá, að konúngur vildi ekki gegna þeim, svøruðu þeir honum og søgðu: hvað er oss þá vant við Davíð? Vér eigum einga hlutdeild í syni Isai. Heim Israel í tjøld þín. Sjá þú nú til þíns húss, Davíð. Og svo fór Israel í tjøld sín. En þar var meðal þeirra Jeróbóam, sonur Nebats. Hann var duglegur maður, og spámaðurinn Ahia hafði áður boðað honum, að hann mundi verða konúngur yfir Israel; hann gjørðu hinar tíu Israels ættkvíslir að konúngi yfir sér; hélt einginn með húsi Davíðs nema Júda og Benjamíns ættkvísl. Þannig skiptist þá ríkið, og tveir konúngar ríktu yfir því. Róbóam í Jerúsalem yfir Júðaríki, og Jeróbóam í Sikem á Efraimsfjalli yfir Israelsríki. Voru

þessi ríki ávalt síðan aðskilin, og hafði hvort þeirra sinn konúng, og áttu opt í stríðum saman.

En flestir konúngar yfir Israels- og Júda-ríki viku af vegum Davíðs, og gættu ekki boða Guðs í öllum greinum, og hlýðnuðust honum ekki af öllu hjarta, svo að þeir gjörðu það, sem honum vel líkaði. Og fólkið í Israels- og Júda-ríkjum breytti eptir konúngum sínum í margs konar syndum og yfirtroðslum. Upp vakti Drottinn þá á milli spámenn á meðal þeirra, sem refsuðu þeim með orðum, og hvöttu þá til trúmensku og hlýðni við Drottinn, þeirra Guð. En þeir hlýddu sjaldan orðum þessara Guðsmanna.

## 99. Spámaðurinn Elias.

1) Á dögum Akabs, konúngs í Israel, lifði spámaður Drottins, að nafni Elias, góður maður og Guði geðþekkur. En Akab gjörði það, sem Drottni líkaði illa, fremur en allir, sem á undan honum höfðu verið. Hann tók Jesabel, dóttur Sidonita konúngs, sér fyrir konu, og þjónaði Baal, afguð hennar, og tilbað hann; bygði hann Baal musteri í Samaríu, þar sem hann bjó, og reisti honum þar altari. Og Israelsmenn þjónuðu líka Baal, og syndguðu eins og

konúngurinn. En Elias gekk til konúngsins, og mælti við hann: svo sannarlega sem Drottinn, Israels Guð, lifir, sem eg þjóna, þá skal hvorki døgg né regn falla á þessum missirum, ef þér ekki látið af yðar syndsamlega athæfi. En þeir bættu ekki ráð sitt. Þá kom orð Drottins til Elíasar, svo látandi: far þú héðan, og austur á við, og fel þig hjá lœknum Krít, sem er fyrir austan Jórdan, því að konúngurinn leitast eptir að deyða þig; skaltu drekka úr lœknum, en hrøfnum hefi eg boðið, að veita þér þar uppeldi. Og hann fór eptir orði Drottins, og var hjá lœknum Krít; færðu hrafnar honum brauð og kjöt kvöld og morgna, og hann drakk úr lœknum. Og það skeði eptir nokkurn tíma, að lœkurinn þornaði, því að ekkert regn var í landinu. Þá kom orð Drottins til hans, svo látandi: tak þig upp, og far til Sarepta, og vertu þar. Og hann tók sig upp, og fór til Sarepta; en sem hann kom að borgarhliðinu, sjá, þá var ekkja þar að tína saman við. Hann kallaði til hennar, og mælti: sæk mér dálitið vatn í ílátinu, að eg fái að drekka. En er hún fór að sækja það, kallaði hann til hennar, og mælti: færðu mér líka brauðbita með. Hún svaraði: svo sannarlega sem Drottinn lifir, eg hefi ekki brauð, heldur að eins

svo sem hnefa mjøls í iláti, og litid eitt af vidsmjöri í krús; og sjá, eg tíni saman vidarsmælki, og ætla heim ad matbúa þetta handa mér og syni mínum, ad vid etum þad, og deyum svo. Elias svaradi henni: vertu hughraust; far þú og gjørdu eins og þú sagdir; mjølid í ilátinu skal ekki minka, og vidsmjørskrúsin ekki tæmast, alt til þess dags, ad Drottinn gefur regn á jørdina. Og hún fór, og gjørdi eins og Elias mælti; og hann át og hún og hennar hús; og mjølid í ilátinu, og vidsmjörskrúsin tæmdist ekki eptir ordi Eliasar.

2) Laungu seinna, á þridja ári eptir þetta, kom ord Drottins til Eliasar, svo látandi: far þú og lát sjá þig í Samariu. Og konúngurinn kalladi fyrir sig Obadia, sem var yfir húsi hans. (En Obadia óttadist Drottinn; því ad þegar Jessabel fyrirfór spámønnum Drottins, tók Obadia hundrad spámenn, og fól þá, sína fimmtíu í hvorum helli, og lét þá hafa braud og vatn.) Og Akab sagdi vid Obadia: far þú um landid til allra vatnslinda og lækja, máske vid finnum gras, og getum haldid hrossum og múlum, svo ad ekki falli allur fénadurinn; og eg vil líka fara um kring. Og þeir skiptu med sér landinu til yfirferdar. Fór Akab einn adra leidina, og Obadia

einn hina. En sem Obadia var kominn á ferd-
ina, sjá, þá mætti Elías honum; og er hann
þekti hann, féll hann fram á ásjónu sína, og
mælti: eg em þad; far, og seg herra þínum: sjá,
Elías er hér. En hann svaradi: hvad hefi eg
syndgad, ad þú vilt gefa þjón þinn í vald Akabs,
ad hann deydi mig? Svo sannarlega, sem Drott-
inn, Gud þinn, lifir, þad er eingin þjód og ekk-
ert konúngsríki til, ad herra minn hafi ekki sent
þángad til ad leita þín. Og segdu menn: hann
er ekki hér, lét hann konúngsríkid og fólkid sverja,
ad þú findist þar ekki. Og nú segir þú: far,
og seg herra þínum: sjá, Elías er hér. Og þegar
eg fer nú frá þér, og andi Drottins flytur þig,
eg veit ei hvert, og eg kem og segi Akab frá, og
hann finnur þig ekki, þá deydir hann mig. En
þinn þjón hefur óttazt Drottinn frá barnæsku;
eda hefur ekki herra minn frétt, hvad eg gjørdi,
þegar Jessabel deyddi spámenn Drottins? Og
nú segir þú: far, og seg herra þínum, Elías er
hér, ad hann deydi mig. Elías sagdi: svo sann-
arlega sem Drottinn alsherjar lifir, hverjum eg
þjóna, eg vil láta hann sjá mig í dag. Þá fór
Obadia til Akabs, og sagdi honum frá. Og
Akab fór til fundar vid Elías; og sem hann sá
hann, sagdi hann vid hann: ertu sá, sem leidir

óhamingju yfir Israel? Hann svaradi: ekki leidi eg óhamingju yfir Israel, heldur þú, og hús fødur þíns, þegar þér yfirgáfud bod Drottins, og eltud Baal. Sendu nú, og safna saman til mín øllum Israel til fjallsins Karmel, og þeim fjøgur hundrud og fimmtíu Baals prestum, sem eta vid bord Jessabelar. Þá sendi Akab út medal allra Israels sona, og safnadi spámønnum Baals til fjallsins Karmel. Þá gekk Elías fram fyrir alt fólkid, og mælti: hversu leingi ætlid þér ad haltra til beggja hlida? Sé Drottinn ydar Gud, þá adhyllist hann; en sé Baal þad, þá adhyllist hann. Og fólkid svaradi honum eingu. Þá sagdi hann enn fremur til fólksins: eg er einn eptir ordinn af spámønnum Drottins, en spámenn Baals eru fjøgur hundrud og fimmtíu. Svo fáid oss nú tvo naut, og látid þá velja, hvort nautid sem þeir vilja, og brytja þad til fórnfæringar, og leggja á vidinn, en eingan eld leggja ad; þá vil eg taka hitt nautid, og fara eins ad. Skulu þeir þá ákalla nafn guds þeirra, og eg nafn Drottins. Sá Gud, sem þá svarar med eldi, hann sé hinn sanni Gud. Alt fólkid svaradi, og sagdi: þetta er vel sagt. Spámenn Baals tóku þá annad nautid, og fórnfærdu því, og ákølludu nafn Baals frá morgni til middegis. En þad

kom eingin raust og ekkert svar. Og þeir høltr-
udu í kringum altarid, sem þeir høfdu reist.
Þegar nú middagur kom, gjørdi Elias gis ad
þeim, og mælti: kallid hátt, því ad hann er Gud;
hann er líklega í þaunkum, eda hann hefur ein-
hvers ad gæta, eda hann er á ferd, eda er sofn-
adur, svo ad hann vakni. Og þeir kølludu med
hárri raust, og rispudu sig med hnífum og ølum,
eptir þeirra sid, þángad til þeim blæddi. En
þad kom eingin rødd, ekkert svar og eingin bæn-
heyrsla. Þá sagdi Elías til als fólksins: komid
nú til mín. Og er alt fólkid gekk til hans, tók
hann tólf steina, eptir tølu ættkvísla sona Jakobs,
bygdi af þeim altari í nafni Drottins, brytjadi
nautid, og lagdi þad ofan á vidinn; og er sá
tími kom, þá matoffur skal fram bera, gekk hann
nær, og sagdi: Drottinn, Gud Abrahams, Isaks
og Jakobs, lát þad verda opinbert í dag, ad þú
ert Gud í Israel, og eg þjón þinn, og ad eg
hefi gjørt alt þetta eptir þínu ordi. Bænheyr
mig, Drottinn, bænheyr mig, svo ad þú snúir
hjørtum þessa fólks. Þá féll nidur eldur Drott-
ins, og eyddi brennifórninni, vidunum, steinun-
um og jørdunni, og þurkadi upp vatnid í grøf-
unum. Þegar alt fólkid sá þetta, féll þad fram
á andlit sitt, og sagdi: Drottinn er Gud! En

Elias sagdi vid þá: handtakid spámenn Baals, svo ad einginn þeirra komist undan. Og þeir handtóku þá, og fóru med þá til lækjarins Kison; þar voru þeir deyddir. Og Elias sagdi vid Akab: far nú af stad, et og drekk, því eg heyri þyt af regni. Og Akab fór, en Elias fór upp á hæd Karmels, beygdi sig til jardar, og sagdi vid þjón sinn: far þú upp, og lít út til sjáfar. Og hann fór upp, og litadist um, og mælti: þar er ekkert. Hinn sagdi: far þú aptur sjø sinnum. Og í sjøunda sinni sagdi hann: litid ský, svo sem hönd á manni, stígur upp úr sjónum. Hann sagdi þá: far þú nú og seg Akab: spenn fyrir vagninn, og far á stad, svo regnid nái þér ekki. Og þegar vard himininn dimmur af skýum og vindi, og þad kom regn mikid. En Akab fór til Israel.

3) Og Akab sagdi Jessabel frá øllu, sem Elias hafdi gjørt, og hversu hann hefdi deytt spámenn Baals. Þá sendi Jessabel sendimann til Eliasar, og lét segja honum: gudirnir gjøri mér þad og enn fremur, ef eg ekki á morgun gjøri líf þitt jafnt lífi sérhvers þeirra. Þegar Elias heyrdi þad, tók hann sig upp og fór á stad, til ad forda lífi sínu; og hann fór eina dagleid út á eydimørkina, kom þar, sem var hrísrunni,

og settist þar, óskadi sér dauda, og mælti: nóg er komid; tak nú, Drottinn, líf mitt; eg er ekki meiri en fedur minir. Og hann lagdist fyrir undir hrísrunnanum, og sofnadi. Og sjá, eingill snart hann, og mælti vid hann: statt upp og et. Hann leit upp, og sjá, vid höfdalag hans var kaka og vatnskanna. Og hann át og drakk, og lagdist aptur fyrir ad sofa. Eingill Drottins kom þá aptur í annad sinn, snart vid honum og mælti: statt upp og et; þvi ad þú átt lánga leid fyrir hendi. Og hann stód upp, og át og drakk, og gekk í krapti þessara fædu í fjörutín daga og fjörutín nætur, alt til Guds fjalls Hórebs. Og hann gekk þar inn i helli, og var þar um nóttina. Og ord Drottins kom til hans um nóttina; og sjá, mikill og sterkur stormur, sem sundur tætti fjallid og sundur moladi klettana, fór fram hjá á undan Drottni; en Drottinn var ekki i storminum. Eptir storminn kom jardskjálfti; en Drottinn var ekki i jardskjálftanum. Eptir jardskjálftann kom eldur; en Drottinn var ekki i eldinum. Eptir eldinn kom hægur og blídur vindblær; þegar Elias heyrdi þad, byrgdi hann andlit sitt med mottli sinum, og gekk út, fram i hellismynnid. Og sjá, þá kom raust til hans, og mælti: hvad adhefst þú hér,

Elias? Hann svaradi: eg hefi vandlætt fyrir Drottinn, Gud alsherjar, því ad Israelsmenn hafa yfirgefid þinn sáttmála, rifid nidur ølturu þín, deytt spámenn þína med sverdi, og eg er einn eptir ordinu, og þeir sitja um líf mitt. En Drottinn sagdi vid hann: far þú nú sama veg til baka um eydimørkina, og smyr Elísa, son Safats, í þinn stad. Hann fór þá þadan, og kom til baka til Israels, og fann Elísa, þar sem hann plægdi med tveunum tólf akneytum, og hann var sjálfur med tveimur hinum sídustu. Og Elias gekk til hans, og kastadi møttli sínum yfir hann. Hann yfirgaf þá akneytin, hljóp eptir Eliasi, og mælti: leyfdu mér þó ad kyssa fødur minn og módur, svo vil eg fara med þér. Hann svaradi honum: far þú, og kom aptur, Drottinn hefur kallad þig. Þá gekk hann til baka frá honum, tók tvø akneyti, fórnfærdi þeim, saud kjøtid, og gaf fólkina ad eta. Og hann tók sig upp, fylgdi Eliasi, og þjónadi honum.

4) Og þad skedi, þegar Drottinn vildi taka Elías í stormvidri til himins, ad þeir Elías og Elísa fóru frá Gilgal. Og Elías sagdi vid Elísa: vertu hér eptir, því ad Drottinn sendir mig til Betel. Elísa svaradi: svo sannarlega sem Drottinn lifir og þú lifir; þá skil eg ekki

við þig. Og sem þeir komu til Betel, þá komu synir spámanna út í móti Elísa, og sögðu við hann: veiztu það, að nú í dag mun Drottinn taka herra þinn frá þér? Hann svaraði: eg veit það; verið hljóðir. Og Elías sagði við hann: vertu hér eptir, Elísa, því að Drottinn sendir mig til Jerikó. Hann mælti: svo sannarlega sem Drottinn lifir og þú lifir, þá skil eg ekki við þig. Og sem þeir komu til Jerikó, geingu synir spámannanna, sem voru í Jerikó, til Elísa, og sögðu: veiztu það, að í dag mun Drottinn taka herra þinn frá þér? Hann svaraði: eg veit það; verið hljóðir. Og Elías sagði við hann: vertu hér eptir, því að Drottinn sendir mig til Jórdanar. Hann svaraði: svo sannarlega sem Drottinn lifir, og þú lifir, þá skil eg ekki við þig. Og þeir geingu hvor með öðrum, og komu til Jórdanar. En fimmtíu menn af lærisveinum spámannanna geingu með þeim, og geingu gagnvart þeim lángt frá. Þá tók Elías möttul sinn, braut hann saman, sló á vatnið, og það skipti sér til beggja hliða, svo að þeir geingu báðir yfir um á þurru. En er þeir voru komnir yfir um, sagði Elías við Elísa: bið þú einhvers, er eg veiti þér, áður en eg verð frá þér numinn. Elísa mælti: eg bið þess, að tveir partar af anda

þínum komi yfir mig. Elías sagdi: þú hefur bedid þess, sem er torvelt. Ef þú samt sér mig, þegar eg verd frá þér numinn, þá mun þér veitast þetta; en sjáir þú mig ekki, þá mun þad ekki verda. Og sem þeir nú geingu, og tøludust vid, sjá, þá kom eldlegur vagn, med eldlegum hestum fyrir, og ad skildi þá; fór Elías þannig í stormvidrinu upp til himins. En Elísa sá þad, og kalladi: fadir minn, fadir minn! Israels vagn og reidmadur hans! og hann sá hann ekki framar. Og hann þreif til klæda sinna, og reif þau sundur í tvo hluti; og hann tók upp møttul Elíasar, sem hafdi dottid frá honum, sneri vid, og kom á bakka Jórdanar; tók møttul Elíasar, og sló honum á vatnid, en þad skipti sér til beggja hlida, og Elísa fór yfir um.

## 100. Spámadurinn Elísa.

1) Þad bar til nokkru eptir þetta, ad Elísa fór til Súnem. Þar var gøfug kona, sem sárbad hann, ad þiggja mat hjá sér. Og svo opt sem hann fór þar um, gekk hann þar inn, til ad matast. Og hún sagdi vid mann sinn: heyrdu, eg sé, ad þad er heilagur gudsmadur, sem jafnadarlega fer hér um. Látum oss gjøra honum lítid herbergi upp á loptinu, og setja þángad rúm, bord, stól og ljósastjaka, svo ad

hann geti farid þángad, þegar hann kemur til okkar. Og þad skedi einn dag, ad hann kom, og gekk inn í herbergid og svaf þar. Og hann sagdi vid svein sinn Gehasi: kalladu á hina súnamitisku konu, og segdu vid hana: sjá, þú hefur sýnt oss allan þennan gódvilja; hvad á eg ad gjøra fyrir þig? Hefur þú nokkud ad tala vid konúnginn eda herforíngjann? Hún svaradi: eg bý medal ættíngja minna. Elísa mælti: hvad á eg þá ad gjøra fyrir hana? Gehasi mælti: hún á eingan son, en hún er gømul, og madur hennar líka. Hann sagdi: kalla þú á hana. Og er hann kalladi á hana, stód hún í dyrunum. Og hann sagdi vid hana: ad ári um þetta leyti muntu fadma ad þér son. Hún sagdi: nei, herra minn, þú gudsmadur, skrøkva ekki ad ambátt þinni. Og konan fæddi son um sama bil á næsta ári, eins og Elísa hafdi sagt henni. Og barnid óx upp; og þad skedi einhvern dag, ad dreingurinn gekk út til fødur síns til kornskurdarmannanna. Þá sagdi hann vid fødur sinn: høfud mitt, høfud mitt! Hann sagdi þá vid svein sinn: far þú med hann til módur sinnar. Og hann tók hann, og færdi hann módur sinni; og hann sat í kjøltu hennar til middegis, þá dó hann. Og hún gekk upp á loptid, og lagdi hann

í sæng guðsmannsins, læsti að honum, og gekk burt, gjørði boð manni sínum og sagði: sendu mér einn af sveinunum, og øsnu, eg vil fara sem fljótast til fundar við guðsmanninn, og koma svo aptur. Hann svaraði: hví viltu fara til hans í dag, þar eð nú er hvorki túnglkomudagur né hvíldardagur? Hun mælti: vertu sæll. Og hún søðlaði øsnuna, og sagði við sveininn: haltu nú áfram, og tefðu ekki reið mína, nema eg segi þér. Hún fór þá, og kom til guðsmannsins á fjallinu Karmel. En sem guðsmaðurinn sá hana álengdar, sagði hann við Gehasí, þjón sinn: sjá, þarna er hin súnamitiska kona. Hlauptu út í móti henni, og spurðu hana, hvernig henni, manni hennar og barni liði? Hún svaraði: vel. En sem hún kom til guðsmansins á fjallinu, tók hún um fætur honum. Þá gekk Gehasí að, og vildi hrinda henni frá. En Elísa sagði: láttu hana vera, því að sál hennar er harmþrúngin, og Drottinn hefur leynt mig því, og ekki látið mig vita það. — Hún sagði: hefi eg beðið herra minn um son? Sagði eg ekki: prettaðu mig ekki? Hann sagði við Gehasí: gyrð lendar þinar, og tak staf minn þér í hönd, og far á stað; þótt einhver mæti þér, þá heilsa honum ekki, og

þótt einhver heilsi þér, þá tak ekki undir við hann; og legg staf minn yfir andlit sveinsins. En móðir dreingsins mælti: svo sannarlega sem Drottinn lifir, og þú lifir, eg fer ekki frá þér. Þá tók hann sig til, og fór með henni. En Gehasi var farinn á undan þeim, og hafði lagt stafinn yfir andlit sveinsins; en þar var hvorki mál né heyrn. Og hann fór til baka á móti honum, og sagði honum frá, og mælti: sveinninn vaknar ekki. Og sem Elísa kom í húsið, þá lá pilturinn dauður í sæng hans. Hann gekk inn, læsti að þeim báðum, og bað Drottinn. Og hann lagðist yfir barnið, lagði munn sinn við munn þess, augu sín yfir augu þess, og hendur sínar yfir hendur þess, og breiddi sig þannig yfir það, svo að líkami barnsins hitnaði. Síðan stóð hann aptur upp, og gekk um gólf í húsinu, steig upp, og breiddi sig aptur yfir barnið. Þá hnerraði sveinninn sjø sinnum, og lauk upp augunum. Og Elísa kallaði á Gehasi, og sagði: kallaðu á hina súnamitisku konu. Og hún kom inn til hans. Hann mælti: tak við syni þinum. Þá kom hún, féll til fóta honum, laut til jarðar, tók við syni sínum, og gekk út.

2) Naeman, hershøfðingi Sýrlands konúngs, var í miklum metum hjá herra sínum, og var

nafnkunnur madur; því ad fyrir dugnad hans gaf Drottinn Sýrlendíngum sigur. Og madurinn var hetja, en holdsveikur. Einn sinni høfdu Sýrlendíngar farid herfør í smáflokkum, og hertekid í Israelslandi únga perun, sem þjónadi konu Naemans. Hún sagdi vid húsmódur sína: æ, ad húsbóndi minn væri kominn til spámannsins í Samaríu; hann mundi frelsa hann frá líkþrá sinni. Þá gekk Naeman fyrir herra sinn, konúnginn, sagdi honum frá, og mælti: svona sagdi þernan úr Israelslandi. Og Sýrlands konúngur sagdi: legg af stad; eg skal senda konúngi Israels bréf. Og hann fór, og tók med sér tíu vættir silfurs, og sex þúsund sikla gulls, og tíu hátídaklædnadi. Og hann fór med bréfid til Israels konúngs, sem hljódadi þannig: „þegar þetta bréf kemur til þín, sjá, þá sendi eg þér Naeman, þjón minn, ad þú frelsir hann frá líkþrá hans.“ Þegar konúngur Israels hafdi lesid bréfid, reif hann klædi sín, og mælti: er eg Gud, ad eg geti deytt og lífgad, ad hann sendir til mín, til ad frelsa manninn frá líkþrá hans? Takid þó eptir, og sjáid, hversu hann leitar saka vid mig. Þegar gudsmadurinn Elísa heyrdi, ad konúngurinn hafdi rifid klædi sín, sendi hann til hans, og lét segja vid hann: hví hefur þú rifid klædi

þín? Lát hann koma til mín, svo hann kannist vid, ad spámadur er í Israel. Svo kom Naeman, med hestum og vognum, ad húsdyrum Elísa, og nam þar stadar. Elísa sendi honum þá bod og lét segja vid hann: far og lauga þig sjø sinnum í Jórdan, þá mun hold þitt komast í samt lag aptur, og þú verda hreinn. — Þá vard Naeman reidur, fór burt og mælti: eg hugdi, ad hann mundi koma út til mín, gánga ad mér, ákalla nafn Drottins, Guds síns, fara hondum um hinn veika stad, og þannig koma holdsveikinni burtu. Eru ekki fljótin í Damaskus, Amana og Farfar, betri en oll votn í Israel? Get eg ekki laugad mig í þeim, ad eg verdi hreinn? Og hann sneri vid, og fór af stad í reidi. Þá geingu þjónar hans til hans, toludu vid hann, og mæltu: fadir minn, ef spámadurinn hefdi skipad þér eitthvad torvelt, mundir þú ekki hafa gjort þad? Hve miklu heldur þá, er hann ad eins sagdi: lauga þig, svo muntu hreinn verda. Hann fór þá til, og dýfdi sér sjø sinnum nidur í Jórdan, eptir ordi gudsmannsins; og hold hans vard aptur eins og únglingshold, og hann vard hreinn. — Og hann hvarf aptur til gudsmannsins, hann og allur flokkur hans, gekk fyrir hann og mælti: heyr nú, eg hefi vidurkent, ad einginn Gud er á

allri jørdinni, nema í Ísrael. Þigg því nú gáfu af þjón þínum. Hann svaradi: svo sannarlega sem Drottinn lifir, hverjum eg þjóna, eg tek vid eingu. Og hann lagdi ad honum, en hann færd-ist undan. Þá sagdi Naeman: leyf samt þjóni þínum ad taka med sér klyfjar tveggja múlasna af jørd þessari. Því ad ekki mun þjón þinn hér eptir færa ødrum gudum brennifórnir og slátursfórnir, heldur Drottni. Hann sagdi vid hann: far þú í fridi. En sem hann var kom-inn burtu frá honum svo sem eina mílu veg-ar, hugsadi Gehasi, þjón Elísa: sjá, herra minn hefur vægt Naeman, hinum sýrlenzka, og ekki tekid vid neinu, sem hann kom med; svo sannarlega sem Drottinn lifir, eg vil hlaupa eptir honum og þiggja eitthvad af honum. Þá rann Gehasi eptir Naeman hid skjótasta. Og sem Naeman sá mann hlaupa eptir sér, støkk hann af vagninum í móti honum, og mælti: geingur nokkud ad? Hann sagdi: nei; en herra minn gjørir þér þessa ordsendingu: sjá, einmitt nú komu til mín tveir úngir menn frá Efraims fjøllum, af sonum spámannanna; gef þeim eina vætt silfurs og tvennan hátídaklædnad. Naeman sagdi: tak tvær vættir. Og hann lagdi ad hon-um, og batt tvær vættir silfurs í tveimur sekkj-

um, og tvenn hátíðaklæði, og fékk það tveimur þjónum sínum. En sem hann kom á hæðina, tók hann við því úr höndum þeim, geymdi það þar í húsi, og lét mennina fara. Og sem þeir voru farnir, gekk hann fyrir herra sinn. Elísa sagði þá við hann: hvaðan kemur þú, Gehasi? Hann svaraði: þjón þinn hefur ekkert farið. Hann sagði við hann: hjarta mitt var ei að heiman farið, þegar maðurinn gekk úr vagni sínum móti þér. Er nú tími til, að taka við silfri og klæðum? Svo festist nú holdsveiki Naemans við þig að eilífu. Og hann gekk út frá honum, hvítur sem snjór af líkþrá.

3) Eptir þetta skeði það, að Benhadað, annar konúngur Sýrlands, safnaði saman öllum her sínum, fór leiðángur, og settist um Samaríu. Og þar varð mikið húngur í Samaríu, svo að margir menn dóu úr húngri. Þá sagði Jóram, Israels konúngur, við Elísa: sjá, þessi óhamíngja kemur frá Drottni; hvað skal eg leingur bíða Drottins? En Elísa mælti: heyrið orð Drottins. Svo segir Drottinn: á morgun um þetta leyti mun einn mælir hveitis kosta einn sikil, og tveir mælar byggs einn sikil, í Samaríu borgarhliði. Þá svaraði riddari, við hvers hönd konúngur studdist, guðsmanninum, og mælti:

mundi þetta geta sked, þó að Drottinn gjørdi glugga á himininn? Hinn mælti: þú munt sjá það með eigin augum, en ekki eta af því. Og þar voru hinn sama dag fjórir holdsveikir menn við inngáng borgarhliðsins, sem søgðu hver við annan: hví dveljum vér hér, þángað til vér deyum? Þó vér nú segdum: vér skulum gánga inn í borgina, þá er þar húngur og vér hlytum samt að deya þar; og ef vér erum hér, deyum vér líka. Látum oss því fara, og strjúka í herbúðir Sýrlendinga. Ef þeir láta oss lifa, þá lifum vér; ef þeir deyða oss, svo deyum vér. Og þeir tóku sig upp í birtíngu, til að komast í herbúðir Sýrlendinga. Og sem þeir komu að ødrum enda herbúdanna, sjá, þá var þar eínginn. Því að Drottinn hafði um nóttina látið Sýrlendinga heyra vagnagný, og hestaþyt, og eins og að heyrist, þar sem að mikill her fer, svo að hver sagði við annan: sjá, nú hefur Israels konúngur leigt konúnga Hetíta, og konúnga Egyptalands móti oss, svo þeir yfirfalli oss. Og þeir tóku sig upp, og flúðu í birtíngunni, og létu eptir tjøld sín, og hross, og asna, og herbúðir, eins og þær voru, og flúðu, til að forða lífinu. Þegar hinir holdsveiku komu til herbúdanna, geingu þeir í eitt tjald, átu og drukku,

tóku þadan silfur, gull og klædi, geingu burt og fólu þad. Þá søgdu þeir hver vid annan: þetta er ekki rétt gjørt; þessi dagur er dagur góds bødskapar. Látum oss þá fara, og bera tídindi í konúngshúsid. Og sem þeir komu, kølludu þeir vid borgarhlidid, og mæltu: vér komum til herbúda Sýrlendinga, og sjá, þar var einginn, og ekki heyrdist þar manns mál; en hestar og asnar stódu þar bundnir, og tjøldin eins og þau voru. Og vardmenn borgarhlidsins létu þetta berast í konúngshúsid. Þá stód konúngur upp um nóttina, og mælti til manna sinna: eg vil segja ydur, hvad Sýrlendingar ætla sér nú. Þeir vita, ad vér erum húngradir, og eru svo farnir út úr herbúdunum, til ad fela sig á fjøllunum; því ad þeir hugsa: þegar þeir fara út úr borginni, skulum vér hertaka þá lifandi, og brjótast inn í borgina. Þá svaradi einn af mønnum hans: menn taki þá fimm hesta, sem eru eptir ordnir í stadnum, af øllum fjøldanum í Israel, og sendum þá til ad vita, hvad um er ad vera. Þá tóku þeir tvo vagna med hestum fyrir, og konúngurinn sendi þá eptir her Sýrlendinga, og sagdi vid þá: farid og sjáid. Og þeir fóru eptir þeim alt ad Jórdan, og sjá, allur vegurinn var þakinn klædum og áhøldum, sem Sýrlendingar

höfdu kastad frá sér á flóttanum. Og sendimennirnir komu aptur, og sögdu konúngi frá; og alt fólkid gekk út og rændi herbúdir Sýrlendínga. Kostadi mælir hveitis þá einn sikil, og tveir mælar byggs líka einn sikil, eptir ordi Drottins. En riddarinn, sem ekki hafdi viljad trúa, var líka í borgarhlidinu; tródst hann þar undir, þegar fólkid þusti út, svo ad hann dó, eins og gudsmadurinn hafdi sagt. Þegar tíminn var kominn, vard Elísa sjúkur og dó, og var grafinn. Um sömu mundir kom flokkur Móabíta í landid; vildi þá svo til, ad menn voru ad jarda mann; en er þeir sáu flokkinn köstudu þeir manninum í gröf Elísa. Og sem hann snerti bein Elísa, vard hann lifandi, og stód á fætur.

## 101. Endir Israels-ríkis.

En syndir Israels húss fyrir Drottni fóru alt af vaxandi, svo þeir hættu öldúngis ad gefa gaum ad lærdómum og bodum hans, og geingu eptir sínum fráhverfa huga, og breyttu eptir heidíngjum, sem bjuggu í kríngum þá. Og þó ad Drottinn, fyrir milligaungu spámanna sinna og sjáanda, advaradi Israel, áminti og upphvetti, þá gegndu þeir ekki, heldur voru þverbrotnir og

vantrúa. — Og Hósea, hinn seinasti konúngur í Israel, adhafdist einnig þad, sem Drottni illa líkadi. Móti honum fór Salmanassar, konúngur í Assyríu, leidángur, og Hósea vard þegn hans, og galt honum skatt. En sem Assyríu konúngur vard áskynja um uppreisn af Hósea, því ad hann galt ekki skatt, eins og ádur, árlega, þá tók hann hann til fánga, setti hann bundinn í fángelsi, sat um Samaríu í þrjú ár, og vann hana; flutti hann alla Israelsmenn burt til Assyríu, tvístradi þeim, og fékk þeim bústadi í borgum landsins. — Vard þá ekkert eptir í Kanaanslandi, nema Júda ættkvísl ein og Beniamíns, og konúngar þeirra bjuggu í Jerúsalem. En í land Samaríu setti Assyríu konúngur, í stadinn fyrir Israelsmenn, fólk úr sínu landi, frá Babel og Ava og Hemat og Sefarvaim; og þeir lögdu undir sig Samaríu, og bjuggu í stödum hennar, og hver þjód fyrir sig gjördi sér sinn gud, og setti hann í musterin á hædunum, sem þeir gjördu; og af því ad þeir líka óttudust Drottinn, sem þeir héldu vera gud landsins, gjördu þeir honum einnig musteri á hædunum, og settu presta, og færdu honum fórnir, eins og hinum ödrum gudum þeirra. Þannig breyttu þeir nýu Samaritanar.

## 102. Spámaðurinn Esaias.

1) Um þær mundir, þegar Israels lýður var herleiddur, ríkti yfir Júda, í Jerúsalem, Esekías konúngur; hann gjørði það, sem Drottni vel líkaði, eins og Davíð, forfaðir hans, og treysti Drottni, svo að eptir hann var einginn hans líki meðal allra Júða konúnga, og ekki heldur meðal þeirra, sem fyrir hann høfðu verið. Og Drottinn var með honum, og hann breytti hyggilega í øllu, sem hann tók sér fyrir hendur. — En Sankerib, Assyríu konúngur, sem kom á eptir Salmanassar, sendi hershøfðingja sinn með mikinn her til Jerúsalem. Og sem þeir komu þángað, tóku þeir sér støðu við vatnsrennur hins efra díkis. Og Rabsake, hershøfðingi Assyríumanna, kallaði á konúnginn. Þá gekk út til hans Eliakim, sem var settur yfir hús konúngsins, og skrifarinn Sebna. Og Rabsake sagði við þá: segið Esekíasi konúngi: svo segir hinn mikli konúngur, Assyríu konúngur: á hvað treystir þú svo, að þú vilt ekki gefa þig á mitt vald? Þú segir: það er ráð og afli til stríðs. Sjá, þú reiðir þig á brotinn reyrlegg, á Egyptaland; ef einhver styður sig við hann, geingur hann inn í hendina, og stíngst í gegnum hana. Svona er Faraó, Egyptalands konúngur, øllum,

sem reida sig á hann. Og hvernig getur þú rekid af höndum þér einúngis einn landsstjórnara, einhvern hinn minsta af þjónum herra míns? Hurar þú eg sé kominn hingad til ad herja á þennan stad án tilhlutunar Drottins? Drottinn hefur til mín sagt: „far þú mót þessu landi, og eydilegg þad.“ Þá mælti Eliakim vid Rabsake: tala sýrlenzku vid þjóna þína, því ad vér skiljum hana; en tala ekki vid oss ebresku fyrir eyrum fólksins, sem stendur á borgarveggnum. En Rabsake sagdi vid þá: hefur herra minn sent mig til herra þíns eda til þín, til ad tala þessi ord, og ekki til mannanna, sem á veggnum sitja? Og hann hrópadi med hárri raust á ebresku og sagdi: heyrid ord hins mikla Assyrin konúngs. Svo segir konúngurinn: látid Esekias ekki draga ydur á tálar, því ad hann megnar ekki ad frelsa ydur af minni hendi. Látid ei heldur Esekias hughreysta ydur med trausti til Drottins, er hann segir: Drottinn mun bjarga oss, og stadurinn mun ei verda gefinn i hönd Assyrin konúngs. Hafa þá gudir þjódanna frelsad hver sitt land af hendi Assyrin konúngs? Hvar eru gudir þeirra i Hemat og Arpad? Hver er Drottinn? Frelsadi hann Samariu af hendi minni? Og skyldi hann þá geta frelsad Jerúsalem af hendi minni?

Hlustid ekki á Esekias. Gjørid frid vid mig, og komid út til mín, þá skulud þér fá ad eta, hver af sinn víntré og fíkjutré, og drekka, hver úr sínum brunni, þángad til eg kem, og flyt ydur í annad eins land og ydar land, þar sem er korn og vín, brand og víngardur, vidsmjørsvidur og hunáng. Þá munud þér lifa og ekki deya. En fólkid þagdi og svaradi honum eingu; því ad konúngurinn hafdi bodid þeim og sagt: svarid honum eingu. Þá komu þjónar Esekiasar til hans aptur í rifnum klædum, og søgdu honum ord Rabsakes. Þá reif konúngur klædi sín, fór í sorgarbúníng, gekk í hús Drottins, og beiddist þar fyrir. Og hann sendi þjóna sína ásamt hinum elztu prestum í sorgarbúníngi til spámannsins Esaiasar, sonar Amos. Og þeir søgdu vid hann: svo segir Esekias: þetta er dagur neydarinnar, hegníngarinnar og hádúngarinnar. Send því nú bæn þína í hædir fyrir þær leifar, sem eru ordnar eptir af fólkinu. Esaias sagdi vid þá: segid herra ydar: svo segir Israels Gud: „hrædstu ekki þau ord, sem þú heyrdir, med hverjum þjónar Assyríu konúngs løstudu mig. Sjá, eg vil skjóta honum skelk í bríngu, og hann mun snúa heim aptur í land sitt. Hann skal ei koma á þennan stad, eingri ør þángad skjóta, eingum

skildi ad honum snúa, og eingan veg, sem hann kom, mun hann fara til baka, og eg mun verja þennan stad, og frelsa hann, segir Drottinn." Og á sømu nótt dóu í herbúdum Assyríumanna hundrad áttatíu og fimm þúsundir manns. Og er menn risu upp um morguninn, sjá, þá var alt fult af daudum líkum. Þá sneri Sankerib vid, og fór burt. Og sem hann badst fyrir í húsi Nisroks, guds síns, unnu synir hans, Adramelek og Sareser, á honum med sverdi, flúdu sídan burt í landid Ararat; en sonur hans Assarhaddon vard konúngur í hans stad.

2) Nokkru sídar sendi Berodak, konúngur í Babel, bréf og gáfur til Esekiasar; en Esekias fagnadi þeim vel, og sýndi þeim alt sitt féhirzluhús, silfur, gull, ilmjurtir, og alt vopnahús sitt, og alt, sem var í féhirzlum hans. Þá kom spámadurinn Esaias til Esekiasar konúngs, og mælti: hvadan komu þessir menn, hvad sáu þeir í húsi þínu? Esekias svaradi: alt, sem í húsi mínu er, sáu þeir, og þad er ekkert í hirzlum mínum, sem eg ekki hefi sýnt þeim. Þá mælti Esaias: heyr ord Drottins: „sjá, þeir dagar munu koma, ad alt, sem í húsi þínu er, verdur flutt burt til Babel, og þad, sem fedur þínir hafa safnad, alt til þessa dags; ekkert mun eptir verda. Einnig syni þína,

sem af þér koma, munu þeir taka, ad þeir verdi herbergissveinar í höll konúngsins í Babel.“ Esekias sagdi: þad er gott, sem Drottinn hefur talad, því ad þad, sem hann gjörir, er gott.

3) Og Esaias áminti allan Israelslýd um þessar mundir sem dyggur spámadur Drottins, og sagdi til þeirra:

1. Í vitran hefi eg séd Drottinn, sitjandi í háreistu og háttgnæfandi hásæti. Höfudeinglar stódu umhverfis hann, og hver þeirra kalladi til annars og sagdi: „heilagur, heilagur, heilagur er Drottinn alsherjar; öll jördin er full af hans dýrd!“ Og eg heyrdi raust Drottins, ad hann sagdi: hvern skal eg senda? Hver vill vera vor erindisreki? Eg svaradi: sjá, hér em eg, send mig.

2. Svo heyrid þá ord Drottins, þér Israelsmenn, og leggid ydur á hjarta lögmál Guds vors: „til hvers skulu mér ydar mörgu fórnir? segir Drottinn. Eg em leidur ordinn á brennifórnum hrútanna, og eg hefi einga lysting á blódi uxanna, því ad hendur ydar eru fullar af blódi. Hreinsid ydur, takid ydar ilskubreytni í burt frá augum mínum; Lærid gott ad gjöra; leitid þess, sem rétt er; hjálpid þeim, sem fyrir ofríki verda; unnid réttra laga hinum munadarlausa,

og takid málstad ekkjunnar; þad er sú gudsþjónusta, sem mér vel líkar.“ En vei hinni syndugu þjód, sem hefur yfirgefid Drottinn og snúid vid honum baki.

3. Eg vil kveda kvædi af vini mínum, kvædi vinar míns um víngard sinn. Vinur minn átti víngard í felli nokkru, þar sem var frjóssamur jardvegur; hann stakk upp gardinn, ruddi grjótinn burt úr honum, og gródursetti þar einn hinn bezta vínvid. Líka bygdi hann turn þar í gardinum, hjó þar út vínlagarþró, og nú vonadi hann, ad gardurinn mundi bera vínber; en hann bar ad eins vínmudlinga. „Dæmid nú, þér innbyggendur Jerúsalemsborgar, og þér Júdaríkismenn, milli mín og víngards míns. Vard nokkud framar gjört vid víngard minn, en eg hafdi gjört vid hann? Hvi gaf hann þá af sér vínmudlinga, þegar eg vonadi, ad hann mundi bera vínber? Eg vil nú segja ydur, hvad eg vil gjöra vid víngard minn: Eg vil taka burt þyrnigerdid, sem í kring um hann er, svo hann verdi upp svidinn, og rífa nidur steingard hans, svo hann verdi fótum trodinn. Eg vil láta hann liggja í eydi, og ekki láta snidla hann né hreinsa; þyrnar og þistlar skulu vaxa í honum, og eg vil bjóda skýunum ad þau láti

ekki rigna á hann. „Israels nidjar eru vingardur Drottins, og Júdaríkismenn hans ástkær gródursetning. Hann vonadi eptir rétti, en sá ekki annad en manndráp; hann vænti eptir réttvísi, en heyrdi ekki annad en neydarkvein. Vei þeim, sem kalla hid vonda gott, og hid góda vont, sem gjøra myrkur ad ljósi, og ljós ad myrkri, beiskt ad sætu, og sætt ad beisku. Vei þeim, sem taka fé til sýknar hinum ógudlega, og halla rétti hinna rádvondu. Vei þeim, sem leggjast svo djúpt, ad þeir vilja dylja áform sín fyrir Drottni, og fela athafnir sínar í myrkri, og segja: Hver sér til vor, hver veit af oss? Hvi erud þér svo rángsnúnir!

4. Þess vegna, eins og eldsloginn eydir hálmleggjunum, og sinan hnigur nidur í bálid, eins mun rót þessara manna verda sem eisa, og blóm þeirra upp rjúka sem moldarryk. Því ad þeir fyrirlíta logmál hins heilaga Guds Israels; þeir nálgast hann med munninum, og heidra hann med vorunum, en hjarta þeirra er lángt frá honum. Þess vegna reisir Drottinn hermerki sitt fyrir fjarlægum þjódum, og stefnir þeim hingad frá yztu landsálfum; og sjá, fljótt og skyndilega koma þeir. Örvar þeirra eru bryndar og allir bogar þeirra upp dregnir, hófar hesta

þeirra sem steinn, og vagnhjólin sem vindbylur. Þeir øskra sem ljónsmædur, og grenja sem ljónskálfar; þeir geysa á fram, grípa herfángid, og hafa þad á burt, án þess nokkur fái því bjargad. Øskur þeirra er eins og sjáfarólga; þegar litid er á land, þá er þar myrkt; þad leiptrar, verdur bjart, og aptur fylgir myrkur í Guds dimmu skýum. Þannig mun Drottinn reka Israelslýd lángt burtu, svo ad landid mun verda ad stórri audn; borgirnar standa í eydi og óbygdar, húsin mannlaus, og landid verda gjøreytt. Þess bezta mannval mun deya af húngri, vanmegnast af þorsta. Fólkid mun reika eins og drukkinn madur, og verda flutt burt, eins og tjald; því ad misgjørd þess liggur þúngt á því, svo þad hlýtur ad hníga nidur, og getur ekki stadid.

5. En vei Assyríukonúngi, segir Drottinn, þeim vendinum minnar reidi; sproti sá, sem er í hendi hans, þad er reidisproti minn. Eg sendi hann mót andvaralausri þjód, hverri eg er reidur ordinn, ad hann ræni og rupli hana, og fóttrodi, sem saur á strætum. En þegar eg hef fram komid allri fyrirætlan minni á Sionsfjalli og í Jerúsalem, þá mun eg refsa drambi Assyríukonúngs, og hinn hrokafulla yfir-

læti hans, er hann segir: „Með styrk handar minnar hefi eg þessu til leiðar komið, og með viturleik minum, því að eg em hygginn. Eg hefi tekið upp eigur þjóðanna, eins og fuglshreiður, og safnað saman öllum löndum, eins og menn safna eggjum, þá fuglinn er floginn úr hreiðrinu, án þess nokkur blakaði vængjum, eða lyki upp nefinn, eða tísti." En þorir öxin að dramba í mót þeim, sem höggur með henni? Eða sögin að miklast í gegn þeim, sem sagar með henni? Þess vegna mun Drottinn alsherjar senda megrusótt meðal hans sællegu hermanna, og loginn leika undir hans einvalaliði, eins og í eldsbruna. Þá munu þeir, sem eptir verða af Israelsmönnum, og afkomast af niðjum Jacobs, aptur staðfastlega reiða sig á Guð, og hverfa til hans aptur. Þá mun byrði sú, sem Assyrinkonúngur hefur lagt á herðar þeim, ofan falla, og ok hans af hálsi þeim; Drottins endurkeyptu munu hverfa aptur með fögnuði til Sionsborgar; eilíf gleði mun leika yfir höfði þeim, fögnuður og kæti falla í skaut þeirra, en hrygð og andvarpan burtu víkja.

6. Á þeim degi mun þessi lofsaungur verða súnginn í Júdalandi: Treystið Drottni sí og æ, því að Drottinn vor Guð er

eilíft bjarg; hann er mikill í rádum og mektugur í athøfnum". — „Hver hefur leidbeint anda Drottins, hver hefur hans rádgjafi verid? Mínar hugsanir eru ekki ydar hugsanir, segir Drottinn, og ydar vegir ekki mínir vegir, heldur svo miklu, sem himininn er hærra en jørdin, svo miklu hærri eru mínar hugsanir ydrum hugsunum. Eins og regn og snjór fellur af himnum ofan og hverfur ei þángad aptur, heldur vøkvar jørdina, gjørir hana frjófsama og gróandi, svo ad hún gefur fræ til fædis og braud til fædslu, eins á líka mitt ord ad vera, þad er út gengur af mínum munni; þad á ekki ad hverfa tómt til mín aptur, heldur framkvæma þad, sem mér vel líkar, og koma því greidlega til vegar, sem eg hefi til ætlazt." — „Ef þú medtekur Guds ord, þá mun hamíngja þín upp renna sem morgunrodi, og sár þín brádlega grædast: þá mun réttlæti þitt fara fyrir þér, og dýrdin Drottins fylgja á eptir þér. Því ad ef þú kallar, þá mun Drottinn svara þér; ef þú hrópar, þá mun hann segja: sjá, hér em eg!" — „Hefjid upp auga ydar í hædirnar, og litist um, hver hefur skapad jørdina, hver hefur med tølu fram leitt her himintúnglanna, og kallad

þau öll með nafni, og eingu þeirra gleymt? Hönd Drottins hefur grundvallað jörðina, hans hægri hönd til búið festingu himinsins; hann þenur himininn út, sem þunna voð, og slær honum sundur, eins og öðru tjaldi, til að búa í. Hvað hann býður, það skeður alt." — „Hefjið augu yðar til himins, og lítið á jörðina hér niðri; himininn mun hverfa sem reykur, jörðin fyrnast sem klæði, þeir, sem á henni búa, deya sem mý; en hans hjálpræði varir að eilífu, og hans réttlæti mun aldrei linna."

## 103. Endir Júdaríkis.

En hinir síðustu konúngar, sem komu á eptir Esekías í Júdaríki, voru vondir, eins og þeir í Israelsríki höfðu verið. Og það skeði á þeim tíma, þegar Jojakin var konúngur í Júdaríki, og konúngurinn og alt fólkið gjörði það, sem Drottni líkaði illa, að þjónar Nebukadnesars, konúngs í Babel, komu til Jerúsalem, settust um hana, og unnu hana. Og Nebukadnesar tók konúnginn og móður hans, og alla þjóna hans til fánga, og flutti til Babel. Og hann tók þaðan alla fjársjóðu í húsi Drottins og í húsi konúngsins, og gullbúnaðinn af öllum þeim

áhøldum, sem Salómon hafdi látid gjøra í húsi Drottins. Og hann flutti burt alla Jerúsalem, alla herforíngja og alla gøfuga menn, alla hermenn, alla smidi og trésmidi, alla vopnfæra menn og hæfa til hernadar; alla flutti hann þá fángna til Babel, og lét ekkert vera eptir nema almúgafólkid í landinu. Yfir þad setti hann fødurbródur hans Sedekía til konúngs í Jerúsalem. En Sedekía gjørdi einnig þad, sem Drottni illa líkadi; og gekk undan konúnginum í Babel. Þá fór Nebukadnesar med allan her sinn til Jerúsalem, settist aptur um hana, vann hana og feldi dóm yfir Sedekía. Voru børn hans høggvin fyrir augum hans, hann sjálfur blindadur á bádum augum, bundinn vidjum og fluttur til Babel. Og hid litla sem eptir var af fólkinu, flúdi einnig úr landi burt, því ad þeir voru hræddir vid Kaldeumenn, og fóru til Egyptalands. En Kaldeumenn, þjónar Nebukadnesars, brendu hús Drottins, og hús konúngsins, og øll stór hús í Jerúsalem. Og allur herinn reif nidur veggi Jerúsalems alt um kríng. Þannig var einnig Júdafólk flutt burt úr sínu landi.

## 104. Spámadurinn Jeremías.

Um þessar mundir, þegar Jerúsalem var eydd og fólkid flutt burt til Babel, mælti Jeremías spámadur þessi harmakvein yfir borginni: „O hve einmana er nú borgin, sem ádur var svo fjølbygd. Hún, sem var svo voldug medal þjódanna, er nú eins og ekkja, hún, sem ádur drottnadi yfir ødrum, er nú ordinn skattskyld. Hún grætur sáran um nætur, svo tárin streyma ofan eptir kinnum hennar, og þad er enginn af øllum vinum hennar, sem huggi hana. Vegir Sionar syrgja, af því einginn fer um þá til hátídahalds; øll hlid hennar eru í audn, prestar hennar andvarpa, meyar hennar eru sorgbitnar. Drottinn hefur hrelt hana vegna hennar mørgu synda, og børn hennar eru ad hrekjast í útlegd fyrir óvinum hennar. Allt skart Sionsdóttur er horfid. Dýrd Israels er frá himni til jardar hrapad!" — „Eg vesall madur, ad eg hlýt ad horfa á alt þetta. Med galli hefur Gud mettad mig, og med malurt drykkjad; sálu mína hefur hann svipt fridi, og varpad mér í myrkur." — „En eg bid Gud; hann mun minnast mín, þad segir mér sála mín; þess vegna er eg enn nú vongódur. Nád Drottins er enn nú ekki þrotin, hans miskunsemi ekki á enda,

heldur er hún ný hvern morgun, og hans trúfesti mikil. Drottinn er mitt hlutskipti, segir sála mín, því vil eg vona á hann. Það er ágætur hlutur að vera þolinmóður, og vona á hjálp Drottins. Því að Drottinn útskúfar ekki æfinlega; hann hrellir að vísu, en hann miskunar aptur af sinni miklu náð; því hann hefur ekki yndi af að þjá og hrella mannanna börn." — „Því andvarpar maðurinn þá svo meðan hann lifir? Sérhver andvarpi yfir sinni synd. Látum oss kanna og ransaka breytni vora, og snúa oss til Drottins." — „Svikult og spillt er hjarta mannsins, segir Drottinn, hver fær það ransakað? Eg Drottinn ransaka það, og prófa nýrun, og endurgeld sérhverjum eptir breytni hans, eptir ávexti verka hans. Er eg að eins Guð í nánd, og ekki Guð í fjarska? Heldur þú að nokkur geti svo leynilega falið sig, að eg sjái hann ekki? Er eg ekki sá, sem upp fylli himin og jörð? segir Drottinn. Hinn vísi stæri sig ekki af vizku sinni, hinn sterki ekki af styrkleika sínum, hinn ríki ekki af ríkdómi sínum; en hver sem vill hrósa sér, hann hrósi sér af því, að hann þekkir mig, og veit að eg er

Drottinn, sem idka í landinu miskunsemi, réttvísi og réttindi."

Og þannig skrifadi Jeremias til øldúnga Israelsmanna, og til fólksins, sem flutt var frá Jerúsalem til Babel: „Svo segir Drottinn alsherjar øllum herteknum: byggid hér og búid; sáid garda og etid ávexti þeirra; takid konur og aflid sona og dætra, aukist þar og margfaldist. Eflid heill stadarins í hvern eg flutti ydur, og bidjid til Drottins fyrir honum, því ad hans velgeingni mun verda ydar velgeingni." — „Svo segir Drottinn, þegar fullkomnud eru sjøtín ár í Babel, þá mun eg vitja ydar, og efna mín gódu fyrirheit vid ydur, ad flytja ydur aptur til baka á þennan stad, hvadan eg hefi flutt ydur. Því ad eg hefi rádsályktanir, er ydur snerta, til heilla, en ekki óheilla, ad láta ydar fá þá lausn, sem þér væntid eptir. Og þér munud ákalla mig og bidja mig, og eg mun bænheyra ydur; þér munud leita mín og finna mig. Því ef þér snúid ydur til mín af øllu hjarta, þá mun eg láta ydur finna mig. Eins og eg hefi látid alla þessa miklu ógæfu koma yfir ydur, eins mun eg og láta allt hid góda koma fram vid ydur, sem eg hefi lofad ydur — segir Drottinn."

## 105. Danjel.

Þegar Nebukadnesar konúngur flutti Gydínga hertekna til Babylonar, baud hann Aspenasi, ædsta hirdstjóra sínum, ad velja nokkra únga menn medal Israelsmanna af konúngsættinni, er væru fridir sýnum, skynsamir og vel viti bornir, og hæfilegir til ad þjóna í høll konúngsins, og ad læra bókmentir og túngumál Kaldeumanna. Lét hann gefa þeim daglegan skamt af kræsum sjálfs sín, og víni sínu; skyldi þá þannig upp ala í þrjú ár, og ad þeim lidnum áttu þeir ad þjóna frammi fyrir konúnginum. — Medal þessara manna voru þeir Danjel, Hanania, Misael og Asaria; en hinn ædsti hirdstjóri breytti nøfnum þeirra, og kalladi Danjel Beltsasar, Hananíu Sadrak, Misrael Mesak og Asaríu Abednegó. En Danjel einsetti sér ad saurga sig ekki á kræsum né víni konúngs, og bad hirdstjórann ad gefa þeim einúngis kálmat ad eta og vatn ad drekka. Hirdstjórinn svaradi: eg óttast, ad herra minn, konúngurinn, sem hefur til tekid mat ydar og drykk, sjái ydur yfirbragdsdaufari, en adra jafnborna sveina, og þér verdid svo þess ollandi, ad eg fyrirgjøri lífi mínu vid konúnginn. Þá sagdi Danjel: Gjør tilraun vid oss þjóna þína í tíu daga. Og hann lét þetta eptir þeim,

og gjørdi tilraun vid þá í tíu daga. En ad þeim tíu døgum lidnum, voru þeir yfirbragdsbetri og feitari, en allir þeir æskumenn, sem lifdu vid krásir konúngsins; tók hann þá frá þeim fædu þá, sem þeim hafdi verid ætlud, og gaf þeim ad eins kálmat. En Gud gaf þessum fjórum mønnum kunnáttu og greind í als konar bókmentum og vísindum. Og er tíminn var lidinn, sem konúngur hafdi til tekid, leiddi hirdstjórinn þá fram fyrir Nebukadnesar. En er konúngur taladi vid þá, fanst einginn, sem væri jafníngi þeirra Danjels, Hananíu, Mísraels og Asaríu, og hvervetna er konúngurinn rádfærdi sig vid þá, fann hann þá tíu sinnum fremri øllum kunnáttumønnum og stjørnuvitríngum í øllu ríki hans; og þeir voru teknir í þjónustu konúngs. Og Danjel var í miklu geingi hjá konúnginum, søkum hans miklu vitsmuna; og konúngurinn gjørdi hann ad miklum manni, gaf honum stórgjafir, og gjørdi hann ad forstjóra yfir øllum vísindamønnum í Babel. En Danjel bad konúnginn, ad hann gjørdi þá Sadrak, Mesak og Abednegó ad yfirmønnum yfir Babelshéradi; en sjálfur var hann vid hird konúngs.

Og þad skedi svo, ad Darius frá Medíu braut undir sig Babyloníuríki; setti hann yfir

alt ríkid hundrad og tuttugu þjóðjarla, og yfir þá aptur þrjá yfirhøfdingja, sem jarlarnir áttu ad standa reikníng; var Danjel einn af þeim. En þar ed Danjel bar af øllum yfirhøfdingjunum og jørlunum, af því hann hafdi meiri andagipt, þá hugdi konúngurinn ad setja hann yfir alt ríkid. Þá leitudust hinir yfirhøfdingjarnir og jarlarnir vid, ad finna Danjel eitthvad til saka, þad er landstjórnina snerti, en gátu einga søk fundid, því ad hann var trúr, svo ekkert afbrot fanst í fari hans. Þá søgdu þeir: Vér munum ekkert geta fundid honum til saka, nema ef þad skyldi vera í því, er snertir átrúnad hans. Og þeir geingu fyrir konúnginn, og søgdu vid hann: Daríus konúngur njóti lángra lífdaga! Øllum yfirhøfdingjum ríkisins, þjóðjørlum, ráðgjøfum og undirjørlum hefur komid saman um, ad láta þá konúngsskipan út gánga, og þad forbod, ad hver sem í þrjátín daga gjørir bæn sína til nokkurs Guds eda manns, nema til þín, konúngur, þeim skal varpa í ljónagryfju. Skaltu, konúngur, stadfesta þetta bod, og láta þad skriflegt út gánga, svo því eptir órjúfanlegu løgmáli Meda og Persa aldrei verdi umbreytt. Þess vegna lét Daríus konúngur þetta bod skriflega út gánga. En þó Danjel yrdi þess vísari,

ad þessi skipun væri út geingin, gekk hann samt inn í hús sitt, (en hann hafdi upp á loptsalnum opna glugga, sem snéru mót Jerúsalemsborg,) kraup á kné þrem sinnum á dag, bad til Guds og vegsamadi hann, eins og hann var vanur. Þá þustu þessir menn ad, og fundu Danjel, þar sem hann var ad bidja og ákalla sinn Gud; geingu þeir þá fyrir konúnginn, og sögdu vid hann: Danjel, einn af hinum herleiddu Gydíngum, skeytir hvorki um þig né bod þitt, sem þú hefur látid út gánga, heldur gjörir bæn sína þrem sinnum á dag. Þegar konúngur heyrdi þetta, féll honum þad næsta illa, og lagdi allan hug á, ad frelsa Danjel. En þeir sögdu: Þú veizt, konúngur, ad þad eru lög hjá Medum og Persum, ad ekki má raska því bodi eda banni, sem konúngur hefur sjálfur gefid. Þá baud konúngur, ad leida Danjel fram og kasta honum í ljónagryfjuna; en konúngur sagdi vid hann: Þinn Gud, sem þú dýrkar án afláts, hann frelsi þig. Sídan var sóttur steinn, og lagdur fyrir grafarmunnann, og innsigladi konúngur hann sjálfur med sínum innsiglishring, og med innsiglishríngum stórhöfdingja sinna, svo ad sú rádstöfun, sem var gjörd vid Danjel, skyldi ei raskast. Eptir þad gekk konúngur til hallarinnar,

og neytti einkis, og lét eingan mat bera fyrir sig; ekki vard honum heldur svefnsamt. Undir eins og lýsti af degi, stód konúngur upp, skundadi til ljónagryfjunnar, kalladi á Danjel med sorglegri raust, og sagdi: Danjel, þjón hins lifanda Guds, hefur þá einnig þinn Gud, sem þú dyrkar án afláts, megnad ad frelsa þig frá ljónunum? Danjel svaradi: Njóti konúngurinn lángra lífdaga! Minn Gud sendi eingil sinn, til ad loka aptur munni ljónanna, svo þau skyldu ekki granda mér, því ad eptir hans dómi er eg saklaus fundinn, eins og eg líka eptir þínum dómi, konúngur, hefi einga misgjörd framid. Þá vard konúngurinn næsta gladur, og baud ad draga Danjel upp af gröfinni. Var hann dreginn upp, og fanst ekki ad honum hefdi neitt ad meini ordid, því ad hann trúdi Gudi sínum. Þá baud konúngur ad leida fram þá menn, sem höfdu rægt Danjel, og kasta þeim í ljónagryfjuna; en ádur þeir komust til botns í gryfjunni, hremdu ljónin þá, og muldu sundur í þeim hvert bein. Ritadi Daríus konúngur þá bréf öllum þjódum í ríki sínu: „Gud gefi ydur mikinn frid! Það er skipan mín, ad menn hvervetna í ríki mínu skuli hrædast og óttast Danjels Gud; því ad hann er lifandi Gud, og varir ad eilífu,

hans ríki getur ei undir lok lidid, og hans veldi nær til enda heims; hann er sá, sem hjálpar og vardveitir, hann gjørir tákn og furdnverk, á himni og á jørdu." Og Danjel vard enn þá voldugri í ríki Daríusar, og lifdi alt til hins fyrsta stjórnarárs Sýrusar konúngs, hins persneska.

## 106. Tobias.

Þar var madur nokkur, ad nafni Tobias, af kynþætti Naftali. Hann var hertekinn á døgum Salmanassars, Assyrínkonúngs; en þótt hann væri þannig fánginn í Niníve, medal framandi manna, þá féll hann samt ekki frá Guds ordi, heldur óttadist Drottinn af ollu hjarta; og øllu, sem hann hafdi, skipti hann med sínum herteknu brædrum, og veitti þeim huggan af Guds ordi. Og hann átti einn son, sem hann líka kalladi Tobias, og hann kendi honum Guds ord þegar í æsku, svo hann skyldi óttast Gud og fordast synd. — Eptir dauda Salmanassars, þegar sonur hans Sennakerib ríkti, sem var óvinveittur Israelsmønnum, gekk Tobias daglega til brædra sinna, og huggadi þá, mettadi húngrada, klæddi nakta, og gróf þá, sem dánir voru og drepnir, jafnvel þótt konúngurinn hardlega

ávítadi hann og hegndi honum fyrir þad; en Tobías óttadist Gud meir en konúnginn. En þad bar vid einn dag, er hann kom heim eptir ad hann hafdi grafid dauda, og var mjøg þreyttur, og snaradi sér nidur vid vegginn og sofnadi, ad svala dreit úr hreidri sínu heitu driti í augu hans, og vid þad vard hann sjónlaus. En þessa mædu lét Gud hitta hann til þess, ad eptirkomendurnir skyldu þar hafa annad eins þolgædisdæmi, og á hinum heilaga Job. Því ad eins og hann frá æsku hafdi óttazt Gud, eins møgladi hann ekki heldur nú gegn Gudi fyrir þad, ad hann lét hann verda blindan, heldur stód hann stødugur í Guds ótta, og þakkadi honum alt sitt líf. Og er vinir hans hæddu hann, og søgdu: hvar er nú traust þitt, vegna hvers þú hefur gefid ølmusur þinar, og grafid svo marga dauda? — þá ávítadi hann þá, og sagdi: talid ekki svo, því ad vér erum synir heilagra manna, og væntum þess lífs, sem Gud mun gefa þeim, er í trúnni standa styrkir og stødugir frammi fyrir honum. Þegar nú Tobías hugsadi, ad hann mundi deya, kalladi hann son sinn til sín, og sagdi vid hann: ástkæri son, heyr ord mín, og geym þau inst í hjarta þér. Haf Gud þér fyrir augum og í hjarta alla þina líf-

daga, og gæt þess, ad þú ekki samþykkir í nokkurri synd, og ekki gjørir mót bodum Guds. Nær þú getur, þá veit hjálp bágstøddum; ef þú hefur lítid, þá gef samt hid litla med gódu hjarta. Lát drambsemi aldrei drottna hjá þér, hvorki í hjarta þínu né ordum, því ad hún er upphaf allrar óhamingju. Pad sem þú ekki vilt ad adrir gjori þér, þad máttu ekki heldur ødrum gjøra. Leita ætíd ráda hjá hyggnum mønnum, og þakka Gudi ávalt, og bid hann ad stjórna þér, og gefa þér í øllum áformum þínum ad fylgja hans ordi. Og hann sagdi enn fremur vid son sinn: þú skalt líka vita, son minn, ad þegar þú varst barn, lánadi eg Gabael, í borginni Rages í Medín, tín pund silfurs, og handrit hans hefi eg hjá mér; hugsa því um, hvernig ad þú getir komizt til hans, og krafizt þessa fjár, og feingid honum aptur handrit sitt. Óttast ekki, son minn, vid erum ad vísu fátækir, en vid eigum mikid, ef ad vid óttumst Gud, vørumst alla synd, og gjørum þad, sem gott er. Þá svaradi hinn úngi Tobias fødur sínum, og sagdi: fadir, eg skal gjøra alt, sem þú hefur bodid mér. Og hann fór út, og fann fridan úngan mann, alklæddan og búinn til ferdar. Og Tobias vissi ekki, ad þad var

eingill Drottins, heilsadi honum og sagdi: hvadan ertu: Hann sagdi: eg er Israeliti. Tobias sagdi: veiztu veginn til Medinlands? Hann svaradi: eg veit hann vel, og hefi opt farid hann, og gist hjá bródur vorum Gabael í Rages. Og Tobias vard gladur vid, og leiddi hann inn til fødur síns; og hinn úngi madur heilsadi honum, og sagdi: Gud gledji þig. Hann svaradi: hvada gledi skyldi eg hafa, sem hlýt ad sitja í myrkri, og fæ ekki ad sjá ljós himinsins? Þá mælti hinn úngi madur til hans: vertu þolinmódur; Gud mun brádum hjálpa þér. Eg skal fara med syni þinum til Rages í Mediu og færa þér hann hingad heilan aptur. Tobias svaradi: farid þá, Gud sé med ykkur á leidinni, hans eingill fylgi ykkur. En módir hans fór ad gráta, og sagdi: þú hefur tekid frá okkur huggun elli okkar, og sent í burt. Eg vildi ad fé þad, vegna hvers þú hefur sent hann burt, hefdi aldrei verid til. Vid hefdum látid okkur lynda fátækt okkar; þad væri mikill ríkdómur, ef sonur okkar væri hjá okkur. Og Tobias sagdi: grát ekki, sonur okkar mun koma heill heim aptur, og augu þin munu sjá hann aptur; þvi ad gódur eingill Guds mun fylgja honum. Þá þagnadi módir hans, og hætti ad gráta.

Og hinn úngi Tobías fór á burt með Asarias, förunaut sínum, og litill hundur rann með honum. Eptir hina fyrstu dagferð náttaði hann við ána Tigris; og hann fór niður í ána til að lauga sig. Og sjá, stór fiskur stökk fram og ætlaði að gleypa hann. Við þetta varð Tobías hræddur, hrópaði með hárri raust, og sagði: herra, hann ætlar að eta mig. Og eingillinn sagði við hann: tak hann á uggunum, og drag á land. Og hann dróg hann á land, og hann spriklaði við fætur hans. Þá sagði eingillinn, slæg fiskinn, og tak úr honum hjartað og lifrina og gallið, og geym vandlega, því þau eru mjög góð til lækninga; er gallið til þess, að strjúka því um blind augu, til að burt taka sjónleysi. Og þeir steiktu nokkuð af fiskinum, og höfðu með sér á veginn. Þá spurði Tobías eingilinn, og sagði: hvar eigum við að gista? Eingillinn svaraði: hér er maður að nafni Ragúel, hann er ættingi þinn, og á dóttur eina barna, sem heitir Sara, þú munt fá hana fyrir konu, og þér eru ætluð öll andæfi hans. Því hef upp bónorð um hana við föður hennar, og hann mun gefa þér hana til konu. Þá sagði Tobías: eg hefi heyrt, að hún nú þegar hafi verið lofuð sjö mönnum, og að þeir allir séu dauðir; því óttast

eg, ad mér muni fara eins; og mundu þá for-
eldrar mínir deya af sorg, þar sem eg er þeirra
einka-son. En eingillinn svaradi: þeir sjø menn
eru daudir, af því þeir lítilsvirtu Gud, og tóku
sér konu med vondu og óskírlífu hugarfari. En
ef þú ert gudhræddur, og bidur Gud af hreinu
hjarta, þá mun Gud vera þér nádugur, og láta
þig verda lángefinu med henni. Því ad Sara
er fríd og skynsøm, og Gud hefur tekid hennar
sjø menn frá henni, af því þeir voru hennar ekki
verdugir, og geymt þér hana fyrir konu. — Og
þeir fóru til Ragúels, og Ragúel tók þeim med
gledi. Og hann stardi á Tobias, og sagdi vid
konu sína: hve líkur er þessi úngi madur frænda
mínum Tobias. Og hann spurdi þá: hvadan
eru þid, brædur? Þeir søgdu: af Naftali kyn-
kvísl, af hinum hertekuu í Ninive. Ragúel sagdi
vid þá: þekkid þid Tobias, bródur minn? Þeir
svørudu: vid þekkjum hann. Og er hann nú tal-
adi margt gott um Tobias, sagdi eingillinn vid
hann: sá Tobias, sem þú spyrd um, er fadir
þessa únga manns. Og Ragúel hneigdi sig fyrir
honum, grét, féll um háls honum, kysti hann,
og sagdi: ástkæri son, vertu blessadur, því ad þú
ert sonur góds og ágæts manns. Og Edna kona
hans, og Sara dóttir hans, fóru líka ad gráta.

Síðan lét Ragúel búa til veizlu; og er þau báðu þá að setjast til borðs, sagði Tobías: eg vil hvorki eta né drekka í dag, nema þú veitir mér eina bæn, og lofir að gefa mér Sörn, dóttur þína. Þegar Ragúel heyrði það, varð hann hræddur, því að honum kom til hugar, hvernig farið hefði fyrir hinum sjø mönnum, sem hann áður hafði gefið dóttur sína. Og sem hann ekki vildi neinn svara, sagði eingillinn við hann: óttast ekki að gefa honum stúlkuna; dóttir þín er honum ætluð fyrir konu, af því að hann óttast Guð. Þá sagði Ragúel: eg efast ekki um, að Guð hafi heyrt bænir mínar og heit tár, og trúi því, að hann hafi leitt ykkur hingað. Eg vil gefa þér hana. Og hann tók hönd dóttur sinnar, og lagði í hönd Tobíasar, og blessaði þau; og hann gaf Tobías helmínginn af öllum sínum eigum, og skrifaði kaupmálabréf, að hann eptir sinn dag skyldi líka fá hinn helmínginn. Þannig tók hinn úngi maður Sörn til konu og hélt brúðkaup sitt ásamt henni í bæn og guðsótta; og Guð var honum náðugur, svo að ekki fór fyrir honum eins og hinum sjø fyrri mönnum, heldur varð hann heill og hraustur. Þá kallaði hann eingilinn til sín, (því að hann hélt, að hann væri maður,) og sagði við hann: bróðir Asaría, eg bið þig, heyr orð

min; þó eg gæfi þér sjálfan mig fyrir þræl, þá væri það ekkert hjá þínum velgjörðum. Ekki að síður bið eg þig: tak með þér þessa þræla og úlfalda, og far til Gabaels í Rages, og fá honum þessa handskript, og tak fyrir mig silfrið, og kom með hann sjálfan til brúðkaups míns. Því að þú veizt, að faðir minn telur dagana, og sé eg of leingi burtu, verður hann sorgmæddur. Þá tók eingillinn fjóra þræla Ragúels, og tvo úlfalda, og fór til Rages, fann Gabael og fékk honum handskriptina, og tók við fénu. Og Gabael fór með honum til Ragúels til brúðkaupsins, og gladdist, og grét, er hann sá hinn únga mann, og blessaði hann sakir hans góða föður, sem svo mikið gott hafði gjört fátækum. En Ragúel sagði við dóttur mann sinn Tobías: vertu hjá oss. Eg skal senda til föður þíns, og láta hann vita, að þér líður vel. En Tobías svaraði: eg veit að faðir minn og móðir mín telja nú daga og stundir, og eru hrygg mín vegna. Og er Tobías með eingu móti vildi vera leingur, gaf hann honum helming af eigum sínum, þræla, fénað og silfur, og fékk honum dóttur sína Soru, og lét þau heil og fagnandi frá sér fara. Og foreldrarnir tóku dóttur sína, og kystu hana, og áminntu hana, að hafa teingdaforeldra sína í

heidri, eins og sína eigin foreldra, ad elska bónda sinn, sjá fyrir hjúum sínum, og halda sig sjálfa hæverskloga. — En er hinn úngi Tobias dvaldist svo leingi burtu sakir brúdkaupsins, urdu foreldrar hans mjøg hryggir, og módir hans bar sig mjøg illa, og mælti: ó sonur minn, ó sonur minn, hví høfum vid sent þig frá okkur, sem ert okkar gledi, okkar einkahuggun í elli okkar, hjarta okkar og okkar erfd? Og Tobias sagdi vid hana: þegi þú, og vert hughraust, syni okkar lidur vel med Guds hjálp, hann hefur trúan félaga med sér. En hún vildi ekki huggast láta, og var daglega á farins fæti, og leit á allar þjódbrautir, þar sem hans var ad vænta, til ad vita, hvort hún sæi ekki til hans; og hún sat á hæd einni vid veginn, svo hún gæti séd lángt í kring. Og sjá, þá hljóp hundurinn á undan, sem hinn úngi Tobias hafdi haft med sér, dingladi rófunni, støkk upp og lét gladlega. Og hún sá til sonar síns álengdar, og þekti hann þegar, hljóp inn, og sagdi vid mann sinn: sonur þinn kemur. Og fadir hans blindur, spratt þegar á fætur, og flýtti sér svo mjøg ad hann meiddi sig. Þá kalladi hann á sveininn, er hélt í hønd honum, og leiddi hann í móti syni sínum. En eingillinn sagdi vid Tobias: jafnskjótt og þú kemur

í húsid, þá bid þú, og ákalla Drottinn, og þakka honum, og far svo til fødur þíns, og kyss hann. Skaltu þá þegar rjóda á augu hans fiskgallinn, er þú hefur med þér, og jafnskjótt munu augu hans upp ljúkast, og fadir þinn fá sýn aptur og verda hardla feginn. Og sjá, þá komu fadir hans og módir, og kystu hann, og grétu bædi af gledi. Og sem þau høfdu gjort bæn sína, og þakkad Gudi, tók hinn úngi Tobias fiskgallid, og reid því á augu fødur síns; fór slímid þá af augum hans, sem himna af eggi. Og Tobías tók þad, og dróg af augum hans; fékk hann þá þegar sýn. Og þau lofudu Gud, hann og kona hans og allir, sem þad spurdu. Og Tobías kalladi søn sinn til sín og sagdi: hvad eigum vid ad gefa hinum heilaga manni, félaga þínum, sem fór med þér? Tobías svaradi: hvernig getum vér launad honum hina miklu velgjord, sem hann hefur audsýnt mér? En eg bid þig, fadir, ad þú bjódir honum helming als þess fjár, sem eg kom med. Og þeir budu honum þad bádir. En hann sagdi vid þá: lofid og vegsamid Gud á himnum fyrir hverjum manni fyrir þad, ad hann hefur sýnt ydur slíka miskun; því ad Guds verk eiga menn med lofi ad vidfrægja og opinbera. Þegar þú grézt beisklega, og badst

fyrir, og stódst upp frá máltíd þinni, og grófst hina daudu, þá kom bæn þín fyrir Gud; og af því ad þú varst Gudi kær, þá hlaut þad svo ad vera; án freistingar máttir þú ekki vera, svo þú yrdir stadfastur. Og nú sendi Gud mig, til ad lækna þig, og gjöra son þinn lángefinn; eg em eingill Drottins. Þad er mál ad eg hverfi aptur til þess, er sendi mig; en vegsamid þid Gud, og kunngjörid þid stórmerki hans. Og er hann hafdi þetta sagt, hvarf hann frá augum þeirra, og þeir sáu hann ekki framar. En Tobías lauk upp munni sínum, lofadi Gud og sagdi: Drottinn, þú ert mikill Gud, og þitt ríki varir ad eilífu. Þér Israelsborn, lofid Gud, vegsamid hann fyrir heidingjunum. Því þess vegna hefur hann dreift ydur út medal heidingjanna, sem ekki þekkja hann, ad þér bodid hans dýrd, og ad heidingjarnir skuli vita, ad einginn almáttugur Gud er til, nema hann einn. Og eg vil einnig vegsama hann í þessu landi, hvar vér erum herteknir, og af hjarta gledja mig í Gudi.

Eptir þetta lifdi Tobías enn í fjörutíu og tvö ár, og sá barnaborn sín, og þegar hann var hundrad og tveggja ára gamall, dó hann í gódum fridi; og sonur hans og öll ætt hans vardveitti heilagt hugarfar og hegdan, svo ad þeir voru þekkir bædi Gudi og mönnum.

## 107. Ester.

Og það skeði á døgum Ahasverusar, (þessi Ahasverus rikti frá Indlandi og alt til Mórlands yfir hundrað tuttugu og sjø løndum), — er hann sat í ró á sínu konúnglega hásæti í høllinni í Súsan á þriðja ári konúngdóms síns, — að hann gjørði gestaboð øllum høfðíngjum sínum og þjónum, hinum voldugustu í Persíu- og Medíu-landi, að hann léti sjá hinn mikla ríkdóm konúngsríkis síns, og dýrð sinnar hátignar í hundrað og áttatíu daga. Og sem þessir dagar voru liðnir, gjørði hann annað gestaboð øllum þeim mønnum, sem voru í høfuðborg hans Súsan, í forgarði aldingarðsins hjá konúngshøllinni. Þar héngu hvít, græn og blá tjøld á skarlatssnúrum, fest í silfurhringa, á marmarastólpum. Bekkirnir voru úr gulli og silfri, en gólfið var lagt með rauðum, bláum, hvítum og svørtum marmarasteinum. Drykkirnir voru bornir í alt af nýum og nýum gullkerum; og vín konúngsins var yfirgnæfanlegt. Og að eingum var haldið, hvað mikið hann skyldi drekka, því að konúngurinn hafði boðið, að láta hvern gjøra það eptir eigin vild. — Og á sjøunda degi, þegar konúngurinn var glaður af víni, bauð hann herbergjasveinum sínum, að leiða Vasti drottn-

ingu fyrir konúnginn, med kórónu á höfdi sér, svo ad hann léti fólkid og höfdíngjana sjá fegurd hennar, því ad hún var mjøg frid. En hin sidprúda drottning vildi ekki koma ad bodi konúngsins. Þá vard konúngurinn mjøg reidur, og grimd brann í brjósti hans; og hann sagdi vid hina hygnustu, sem best vissu landslögin, vid hina sjø höfdíngja Persa og Meda, sem máttu sjá auglit konúngsins, og höfdu ædstu sæti í ríkinu: hvad skal ad løgum gjora Vasti drottníngu? Þá sagdi Memúkan einn af þeim sjø: Vasti drottning hefur ekki einúngis brotid á móti konúnginum, heldur einnig á móti øllum þjódum og höfdingjum landsins. Því ad þessi breytni drottníngarinnar mun berast út til allra kvenna, svo ad þær munu sýna fyrirlitníngu mönnum sínum, og segja: Ahasverus konúngur baud Vasti drottníngu sinni ad koma fyrir sig, en hún kom ekki; og mun þad þannig olla fyrirlitníngar og tvídrægni. Ef konúnginum svo sýnist, þá láti hann konúnglegt bod út gánga, ad Vasti drottníng skuli eigi framar koma fyrir konúnginn, og ad konúngurinn gefi tign hennar þeirri, sem henni er betri. Og þegar þetta bod konúngsins heyrist um alt ríki hans, þá munu allar konur hafa menn sína í heidri, bædi tigna og ótigna.

Þetta líkadi bædi konúnginum og höfdíngjunum, og hann fór ad rádi Memúkans. Og þar voru settir til menn um öll lönd ríkisins, sem áttu ad safna saman öllum úngum og fridum meyum á höllina Súsan, í kvennabúr konúngsins, svo ad sú yrdi drottníng í stad Vasti, sem konúnginum þóknadist. — En í Súsan var Gydíngur nokkur, sem hét Mardokeus; hann var fóstri dóttur födurbródur sins; en hún hét Ester. Hún var födur- og módur-laus. Hún var líka flutt í hús konúngsins, ásamt mörgum ödrum, og skrýdd tólf mánudi med balsami og mirru og dýrdlegum smyrslum, því ad svo lángan tíma útheimtu hreinsanir þeirra. Var hún þá leidd fyrir konúnginn, og hann fékk ást á henni fremur öllum konum, og setti kórónuna á höfud henni, og gjördi hana ad drottníngu í stad Vasti. En hún sagdi honum ekki frá þjód sinni, eda ætt, eins og Mardokeus hafdi bodid henni; því ad hún fór ad ordum hans, rétt eins og þegar hún var í fóstri hjá honum. En Mardokeus gekk daglega í fordyr kvennabúrsins, til ad vita, hvort henni lidi vel, og hvad um hana yrdi. Og er hann þannig sat í dyrum konúngsins, þá urdu tveir herbergissveinar konúngsins, sem gættu dyranna, reidir konúnginum, og ásettu sér ad leggja hönd á hann.

Þessa vard Mardokeus áskynja, og kunngjørdi þad Ester drottníngu, en hún sagdi konúngi frá í nafni Mardokeusar. Og þegar þetta var ransakad, reyndist þad satt, og var ritad í minnisbók konúngsins, en þeir voru bádir heingdir á tré.

Eptir þetta hóf Ahasverus Haman, Agatita til mikillar tignar, og setti sæti hans yfir sæti allra høfdíngja þeirra, er med honum voru. Og allir þjónar konúngsins féllu á kné, og lutu Haman; því ad konúngurinn hafdi svo bodid. En Mardokeus féll hvorki á kné fyrir honum né laut honum; og er Haman sá þad, reiddist hann stórlega. Og honum þótti ekki nóg ad leggja hønd á hann einan, heldur hugsadi hann sér, ad afmá alt fólk Mardokeusar, alla Gydínga, sem í ríkinn voru. Og hann sagdi vid konúnginn: hér er fólk út dreift medal allra þjóda í landi þínu, og þess løg eru ødruvísi en allra þjóda, og þad breytir eigi eptir løgum konúngsins; og þad er eigi holt fyrir konúnginn, ad láta svo vera. Ef konúnginum lízt svo, þá skipi hann skriflega, ad drepa þad, og skal eg þá vega tíu þúsund vættir silfurs í fjárhirzlu konúngsins. Þá dróg konúngurinn hríng sinn af hendi sér, og fékk hann Haman, óvin Gydínga, og sagdi: silfrid skal vera þér gefid, og þar ad auki fólkid, ad þú gjørir

við það, hvað þér lízt. Var þá skrifað til allra höfðingja og landstjóra sérhverrar þjóðar; og þessi bréf voru send með hlaupurum um öll lönd konúngsins, að allir Gyðingar, úngir og gamlir, konur og börn, skyldu afmást og myrðast á einum degi, og fé þeirra rænast. Þegar Mardokeus varð þessa var, reif hann klæði sín og klæddi sig í sekk og ösku, og gekk fyrir dyr konúngsins, og grét hátt og aumlega. Og í öllum löndum var mikill harmur meðal Gyðinga, og þeir föstuðu, grétu og sátu í sekk og ösku. Þá komu þernur og herbergissveinar Esters, og sögðu henni frá; og hún varð mjög óttaslegin. Og hún sendi einn af herbergissveinum sínum, til að vita, því hann syrgði svo. En Mardokeus sagði honum alt, sem við hafði borið, og lét biðja Ester, að gánga fyrir konúnginn, og biðja vægðar, og leita náðar hjá honum fyrir þjóð sína. En Ester lét svara honum: það er öllum kunnugt, að hver sá maður eða kona, sem geingur fyrir konúnginn inn í hinn innri forgarð, án þess að vera kallaður, skal eptir lögunum undir eins deya, nema að konúngurinn rétti að honum hinn gullna veldissprota sinn, sem merki þess, að hann megi lífi halda. En eg hefi nú í þrjátíu daga ekki verið kölluð inn fyrir konúnginn. Þegar

þessi ord voru sögd Mardokeus, lét hann segja Ester aptur: „Ekki skaltu halda, ad þú frelsir líf þitt, af því ad þú ert í húsi konúngsins; hver veit nema þú sakir þessa atviks sért til ríkis komin?" Þá lét Ester svara Mardokeusi: far þú og kalla saman alla Gydínga, sem nú eru í Súsan og bidjid fyrir mér. Eg ætla ad gánga inn fyrir konúnginn, þótt lögin banni þad; ef eg dey, þá dey eg. Mardokeus gekk þá burt og gjördi þad, sem Ester hafdi bodid honum. Og á þridja degi skrýddist Ester konúnglegum skrúda og gekk inn í hinn innri forgard konúngsins, en konúngur sat í hásæti sínu, gegnt dyrum hússins. Og er hann sá Ester standa í forgardinum, fann hún nád í augliti hans, og hann rétti ad henni hinn gulllega veldissprota, sem hann hafdi í hendi sér, en hún gekk ad, og snart oddinn á sprotanum. Þá sagdi konúngurinn vid hana: hvad viltu Ester drottning? hvers beidist þú? þótt þú bidjir um helmíng ríkisins, skal þér þad veitast. Ester svaradi: þóknist konúnginum, þá bid eg, ad hann komi á morgun ásamt Haman til þess gestabods, sem eg hefi búid. Þá sagdi konúngurinn: kallid þegar á Haman, svo hann gjöri þad, sem Ester hefir bedid um. Þegar Haman heyrdi þad, vard hann gladur og af hjarta ánægdur, og

taldi upp fyrir vinum sínum og konu sinni sinn mikla ríkdóm, og fjølda sinna barna, og hversu konúngurinn hefdi miklad hann. Og enn fremur sagdi hann: Drottníng Ester hefir ekki bodid nokkrum med konúnginum nema mér; en samt er eg ekki ánægdur, medan eg sé Gydínginn Mardokeus sitia í dyrum konúngsins án þess ad standa upp fyrir mér, og lúta mér. Þá sagdi kona hans Seres og allir vinir hans: láttu reisa fimmtíu álna hátt tré, og seg konúnginum á morgun, ad Mardokeus verdi heingdur á því; þá kémur þú gladur til gestabodsins med konúnginum. Þetta féll Haman vel í ged, og lét hann reisa tréd. En þessa hina sømu nótt gat konúngurinn ekki sofid, og baud ad koma med annála og minnisbækur. Þegar verid var ad lesa þær fyrir konúnginum, þá var þar skrifad, hversu Mardokeus hefdi komid því upp, ad tveir herbergissveinar konúngsins leitudust vid ad leggja hønd á hann. Og konúngurinn sagdi: hverja virding og upphefd høfum vér veitt Mardokeus fyrir þetta? Þá søgdu sveinar konúngsins, sem þjónudu honum: hann hefir ekkert feingid fyrir þad. Og konúngurinn sagdi: hver er í forgardinum? En Haman var þar þá kominn, til ad spyrja konúnginn, hvort heingja mætti Mardok-

eus á tré það, er hann hefði reist handa honum. Og sveinar konúngsins sögðu: sjá, Haman stendur í forgarðinum. Konúngurinn sagði: látið hann koma inn hingað. Og sem hann var inn kominn, sagði konúngur við hann: hvað skal gjöra þeim manni, sem konúngurinn vill sýna heiður? En Haman hugsaði með sjálfum sér: hverjum mun konúngurinn vilja fremur sýna heiður en mér? Og hann svaraði: sá maður sé sóttur og skrýddur konúnglegum skrúða, og konúngleg kóróna sé sett á höfuð hans, og honum feinginn sá hestur, sem konúngurinn er vanur að ríða; og einn af höfðingjum konúngsins leiði hestinn undir honum um stræti borgarinnar, og hrópi fyrir honum: „Þannig skal fara með þann mann, sem konúngurinn vill sýna heiður." Þá sagði konúngurinn við Haman: tak skjótlega skrúðann og hestinn, og gjör eins og þú hefir mælt við Gyðínginn Mardokeus, sem situr hér við dyr konúngsins; og lát ekkert vanta af öllu því, sem þú hefir sagt. Þá gjörði Haman eins og konúngurinn hafði boðið honum; og eptir að hann hafði leitt Mardokeus um stræti borgarinnar, fór hann sem skjótast heim í hús sitt, hryggur og með huldu höfði. Síðan fór hann til gestaboðs þess, sem Ester hafði látið

gjøra. — Og er konúngurinn hafdi drukkid vín vid máltídina, sagdi hann vid Ester: hvers beidist þú, drottning Ester? þó þad væri helmíngur ríkis míns, þá skal þér veitast þad. Ester svaradi og sagdi: hafi eg fundid nád hjá þér, konúngur, þá gef mér líf mitt og fólks míns vegna bænar minnar; því ad vér erum seldir, bædi eg og fólk mitt, til dráps og dauda. Ef vér hefdum verid seldir ad eins til ad verda þrælar og ambáttir, þá munda eg hafa þagad, jafnvel þótt óvinurinn ekki geti bætt konúnginum þann skada. Þá mælti konúngur: hver er sá, og hvar er sá, sem dirfist ad gjøra slíkt? Ester svaradi: sá óvinur og mótstødumadur er þessi vondi Haman. En Haman vard hræddur vid konúng og drottníngu. Og konúngurinn stód upp frá gestabodinu í reidi, og gekk í aldingardinn hjá høllinni. Og Haman bad drottníngu um líf sitt, og fleygdi sér til jardar á bekk þeim, sem Ester sat á. Þegar konúngurinn kom aptur úr aldingardinum, sagdi hann: mun hann einnig vilja beita ofbeldi vid drottníngunna hér í høllinni hjá mér? Þegar konúngurinn hafdi talad þetta, huldu þeir ásjónu Hamans; og konúngurinn baud, ad heingja hann á þad tré, sem hann hafdi reist í gardi sínum handa Mardokeus. Og þeir heingdu

Haman á tréd. Þá rann konúnginum reidin. En Mardokeus var kalladur fyrir konúnginn, og hann dróg af hendi sér fíngurgull sitt, og gaf Mardokeus, og setti hann í stad Hamans yfir alla adra høfdíngja í ríkinu, svo ad hann gekk næstur Ahasverus konúngi. Og rádabrugg Hamans gegn Gýdíngum var kallad aptur med bréfum konúngs, svo ad þeim var ekkert ilt gjørt, heldur einúngis gott.

## 108. Apturkoma Gydínga úr Babylons herleidíngu.

Á fyrstu árum Sýrusar Persa konúngs vakti Drottinn anda konúngsins, svo ad hann lét boda um alt ríki sitt, og líka med bréfum kunngjøra: svo segir Sýrus Persa konúngur: „Drottinn, Gud himinsins, hefur gefid mér øll ríki jardar, og skipad mér ad byggja sér musteri í Jerúsalem í Júdeu. Hver sem nú er á medal ydar af hans fólki, hann fari upp til Jerúsalem, og byggi þar hús Drottins, og Gud sé med honum. En hinir, sem eptir verda, skulu sjálfviljugir láta hina fá silfur og gull, fjármuni og fénad, og adrar gjafir, handa Guds húsi í Jerúsalem.“ Þá tóku sig upp ættfedur Júda og Benjamíns, prestar og Levítar, og allir þeir,

hverra anda Drottinn hafdi vakid, til ad fara og byggja Drottni hús. Og Sýrus konúngur lét líka af hendi þau áhøld musteris Drottins, sem Nebúkadnesar hafdi flutt frá Jerúsalem, og sett í musteri síns guds: þrjátíu skálar úr gulli, þúsund skálar úr silfri, og margar skálar og ønnur áhøld úr gulli og silfri, svo ad gullkerin og silfurkerin voru als fimm þúsund og fjøgur hundrud. Allt fluttu þeir þad med sér, sem fóru úr útlegdinni í Babylon til Jerúsalem. En þeir voru als 42,360, auk þjóna þeirra og þjónustumeya, sem voru 7,337, og þeir høfdu med sér 200 saungvara og saungkonur. Fyrirlidar þeirra voru Serúbabel, af ætt Davíds, sem jarl Persa konúngs, og Jósúa, sem ædsti prestur, og enn þá tíu ættarhøfdíngjar. Og þeir skiptu sér allir, hver í sína borg, og bjuggu þar; og á sjøunda mánudi eptir apturkomu þeirra søfnudust þeir allir saman, sem einn madur, til Jerúsalem, og bygdu Drottni altari, þar sem musterid hafdi stadid, svo ad þar yrdu fluttar brennifórnir kvøld og morgun, og héldu laufskálahátídina heilaga eins og til tekid var. Og á ødru ári løgdu þeir líka grundvøll til hins nýa musteris Drottins, sem þeir ætludu ad byggja ad bodi Sýrusar Persa kon-

úngs. En þegar húsmidirnir løgdu grundvøllinn, stódu prestarnir í embættisskrúda med básúnum, og Levitarnir med bjøllum til ad vegsama Drottinn med lofsaungum Davids; og alt fólkid æpti mikid gledióp Gudi til dýrdar, þegar grundvøllur musterisins var lagdur. En margir af prestunum og Levítunum og ættfedrunum gømlu, sem høfdu séd hid fyrra musteri, grétu hástøfum, þegar grundvøllur hins nýa húss var lagdur fyrir augum þeim; svo ad fagnadarópid vard ekki ad greint frá rødd hinna grátandi, og hljómurinn heyrdist lángt í burtu. En óvinir Júda og Benjamíns, þeir frá Samaríu, þegar þeir heyrdu, ad þeir, sem verid hefdu í útlegdinni, væru ad byggja Drottni nýtt musteri, þá leitudust þeir vid, ad tálma starfi Gydínga og svipta þá hug til ad byggja, medan Sýrus lifdi; og þeir ákærdu þá jafnvel fyrir hinum eptirfylgjandi konúngum, sem ríktu eptir Sýrus, svo ad þeim var alveg bannad ad byggja musterid; og byggingin í Jerúsalem hætti, alt ad ødru ríkisstjórnarári Daríusar konúngs. Þá feingu þeir Serúbabel og Jósúa, ad þeir mættu ljúka vid byggíngu musterisins; og því var lokid á sjøtta ríkisstjórnar ári Daríusar, og Israelsmenn héldu vígsluhátíd Guds húss med føgnudi, fórnum og

og hátídum. Þannig bjuggu Israels børn aptur í Jerúsalem og í borgum Gydíngalands, og var stjórnad af ædstu prestum þeirra, og af jørlum Persa konúnga. Og Gud sendi þeim spámenn og adra heilaga menn, er skyldu leida þá á réttum vegi, og fræda þá í løgmálinn. Á medal þessara var Esra, madur vel ad sér í løgmáli Mósis, ötull og gudhræddur, og Nehemia, sem bygdi upp aptur múra og hlid Jerúsalemsborgar, er lágu nidri, sídan borgin hafdi verid rifin nidur. Og hann lauk vid bygginguna eptir mikla ørdugleika, og til óánægju fyrir óvini þjódar hans. Lifdu Israels børn eptir þetta undir yfirrádum Persa og Masedóna, Sýra og Egypta; þeir høfdu sína ædstu presta og héldu løgmálid, og bjuggu leingi í landi fedra sinna í hagsæld og fridi.

## 109. Ottaleg ofsókn og kúgan Gydinga.

En þad kom konúngur frá Syrin, ad nafni Antiokus Epifanes, sem var óvinur Gydínga, og fór med miklum her til Jerúsalem, og drap alt, sem hann fann á strætum og í húsum, konur og karla, børn og stúlkur, ja einnig úngbørn í vøggu. Og Antiokus lét ekki lenda hér vid, heldur brauzt hann líka inn í hid helga

musteri, og rændi hinum helgu áhøldum og hinum mikla gullbúnadi, sem var í musterinu. Og hann tók þúsund og átta hundrud vættir silfurs með sér og fór í skyndi til Antiokíu, með slíku dramblæti og hroka, ad hann hugsadi: eg vil nú gjøra jørdina svo, ad á henni verdi siglt eins og á sjó, og sjóinn svo, ad á honum verdi geingid eins og á jørdu. Og hann lét vera þar eptir nokkra umsjónarmenn, illa skálka, sem áttu ad neyda fólkid til ad sleppa løgum fedra sinna, og lifa ekki framar eptir løgmáli Guds; líka áttu þeir ad saurga musterid í Jerúsalem, og nefna þad eptir hinum ólympiska Júpiter. Og þeir gjørdu svo, og neyddu Gydínga til ad eta bannada fædu, og ráku þá med hardri hendi hvern mann til fórnarveizlu, þegar burdardagur konúngsins var; og þegar hátíd Bakkusar var haldin, voru Gydíngar neyddir til ad gánga með kransa af vínvidarlaufum, Bakkusi til heidurs. Eigi var heldur nokkur hvíldardagur né nokkrar hátídir helgar haldnar. Helgidómurinn vard í eydi, hátídadagarnir eintómir hrygdardagar, hvíldardagarnir eintóm sorg, og øll dýrd þeirra ad eingu. Eins og Jerúsalem hafdi ádur verid dýrdleg, eins margfaldadist nú vanvirda hennar og eymd. En þar var einn af hinum helztu skriptlærdu

Eleasar, aldradur og þó mjøg fridur madur; hann neyddu þeir til ad eta svínakjøt, og spertu med ofbeldi upp munn hans. En hann vildi heldur deya med sóma, en lifa vid smán. Því ad þegar þeir, sem áttu ad neyda hann, sogdu vid hann, søkum gamals kunníngskapar, og af því ad þeir voru vinir hans, ad þeir skyldu færa honum kjøt, sem hann eptir løgmálinu mætti eta, en hann skyldi láta eins og væri þad fórnarkjot af svíni, og eta þad, svo hann med því móti kæmist hjá lífláti; þá svaradi hann og sagdi: lífllátid mig sem skjótast; því ad þad væri ósæmilegt aldri mínum ad hræsna þannig, þared hinir úngu hlytu ad hugsa, ad hinn nírædi Eleasar hafi líka tekid heidni, og þannig afvegaleidast af hræsni minni. Þad væri eilíf smán fyrir mig. Og hér ad auki, hvad gagnar mér þad, þótt eg þannig komist nú hjá manna hegníngu, þar ed eg samt, hvorki lífs né lidinn, get falizt fyrir augum Guds? Því vil eg nú gladur deya, vegna hins heidursverda heilaga løgmáls, eins og mér vel sæmir, gømlum manni. Ad svo mæltu gekk hann ad píntíngatólunum, og dó þannig til huggunarríks eptirdæmis, sem hvetja á hvern mann til dygdar. Líka voru sjø bræður teknir ásamt módur þeirra, og neyddir til

ad breyta móti løgmálinu. En er þeir vildu ekki, reiddist konúnginum, sem þá var í Jerúsalem, og baud ad gjøra glóandi pønnurnar og katlana; lét skera túnguna úr hinum elzta og høggva af honum hendur og fætur, svo ad hinir brædurnir og módirin sáu. Þegar nú þannig var búid ad limlesta hann, baud konúngurinn ad bera hann á eldinn, og sjóda hann. Og sem gufuna úr katlinum lagdi um kring, eggjudu þeir brædur hver annan, ad deya med hugprýdi, og søgdu: Gud Drottinn sér þad og mun vissulega miskuna oss. Þegar hinn fyrsti þannig var andadur, leiddu þeir líka hinn annan til píntinganna; og þá hann var ad dauda kominn, mælti hann: þú vitstola madur, þú sviptir oss ad vísu þessu stundlega lífi, en konúngur heimsins mun vekja oss, sem deyum fyrir hans løgmál, til eilífs lífs. Eptir þad tóku þeir hinn þridja, og sýndu á honum sømu grimd. Og hann rak sjálfkrafa túnguna út úr sér, rétti út hendurnar, og mælti med hugprýdi: frá Gudi á himnum hefi eg feingid þessa limu, og sakir hans løgmáls gef eg þá fúslega; því ad eg vona, ad hann muni endurgjalda mér þad aptur. Þannig var líka hinn fjórdi, fimti og sjøtti píndur og deyddur, og þeir dóu allir hughraustir í

trausti til Guðs. En þó var móðirin aðdáanlegust, sem sá sjø syni sína líflátna á einum degi, og þoldi það með hugprýði, af voninni til Drottins; og hvatti syni sína hveru eptir annan með karlmanshug, og sagði við þá: eg er að vísu móðir yðar og fæddi yður; en líf og andardrátt gaf eg yður ekki; ekki heldur gjørði eg yðar limu. Þess vegna mun hann, sem skapaði allan heiminn og alla menn miskunsamlega gefa yður aptur líf og andardrátt, þareð þér nú framseljið það vegna hans løgmáls. — Þegar Antiokus heyrði þetta, tók hann hinn ýngsta son fyrir sig, sem var enn eptir, og áminti hann með góðum orðum, að ef hann segði sig undan løgum feðra sinna, þá skyldi hann vera honum náðugur herra, og gjøra hann ríkan og auka mjøg veg hans. En móðirin gjørði gis að harðstjóranum, gekk til sonar síns, og mælti við hann á sína túngu: sonur, aumkastu yfir mig, sem bar þig níu mánuði undir hjarta mér, og hafði þig þrjú ár á brjósti, og hefi mettað þig og alið alt til þessa. Lít í kríngum þig, himin og jørð og alt, sem þar er, það hefur Guð gjørt alt af eingu. Vertu því ekki hræddur við þennan böðul, heldur dey fúslega eins og bræður þínir, svo að góður Guð fram leiði þig aptur lifandi ásamt þeim, og

gefi mér þig aptur. Medan hún var enn ad tala þetta, sagdi úngmennid vid bødlana: hvers bídid þér? Hugsid ekki, ad eg muni hlýda hardstjóranum; nei, sakir løgmáls fedra minna vil eg fram selja líkhama minn og sál. En þú gudlausi madur, hroka þér ei ofmjøg af valdi þínu; þú ert enn nú ekki sloppinn undan hegníngu hins alvalda Guds, sem alt sér. Þegar konúngurinn heyrdi þetta, vard hann æfareidur, og lét pinta hann enn hardar en hina. Þannig upp gaf þessi saklausi madur líka andann í fullu trausti til Guds; sídast var módirin líka líflátin.

## 110. Makkabearnir.

1) En þar var prestur, ad nafni Matatías, er átti fimm sonu; hann flúdi á fjøll, og margir gudhræddir menn fylgdu honum eptir, og lifdu í eydimørku med konu og børnum og fénadi sínum: því ad hardstjórnin var ordin of þúngbær. Og Matatías og vinir hans fóru hugprúdir um kríng í Gydíngalandi, og rifu aptur nidur godaølturun, søfnudu saman løgmálsbókunum, og vørdu løgmálid lángan tíma gegn øllu ófríki heidíngja. En er Matatías var ordinn mjøg gamall, sagdi hann vid sonu sína: ofríkid og ofsóknin gegn oss er ordin mjøg mikil;

vandlætid því, børn mín, fyrir løgmálid, og hættid lífi ydar fyrir sáttmála fedra vorra. Hafid í minni hvílík verk fedur vorir unnu á sinni tíd, og ávinnid ydur mikla frægd og ævarandi ordstír. Allir, sem vona á Drottinn, munu vardveitast. Verid því ekki hræddir vid hótanir syndugs manns, því ad dýrd hans verdur ad dupti og ormum; í dag hreykir hann sér hátt, en á morgun liggur hann flatur, og er ekkert framar, og áselningur hans ad eingu ordinn. Verid þess vegna, kæru synir, óhræddir. Símon bródir ydar er ráddeildar madur, hlýdid honum, sem fødur. Júdas Makkabeus er hraustur og hetja, hann skal vera fyrirlidi ydar, og heya stridid. Sídan blessadi hann þá, og safnadist til fedra sinna, og allir Ísraels menn hørmudu hann mjøg.

2) Júdas Makkabeus kom nú í stad fødur síns, og brædur hans, og allir, sem høfdu verid í fylgd med fødur hans, veittu honum lid og børdust fyrir Ísraelsmenn med gledi. Hann klæddist brynju eins og hetja, og vardi lid sitt med sverdi; hann var hugadur og djarfur, eins og úngt øskrandi ljón, sem leitar ad brád; svo ad óvinir hans óttudust hann hvervetna, og flúdu fyrir honum; en hinir undirokudu leitudu

hans. Og Seron, hofdingi i Sýrlandi, fór i móti honum med miklu lidi, en Júdas hafdi einúngis fáa menn. Og er þeir sáu óvinina, sögdu þeir: vér erum fáir, og þar med vanmegna af föstu; hvernig skyldum vér geta barizt vid þvílíkan fjölda einvalalids? En Júdas sagdi: hæglega getur þad verid, ad fáir geti krept ad mörgum, því ad sigursæld i orustum kemur frá himnum, og er ekki komin undir lidsfjölda. Ad svo mæltu rédst hann á óvinina, ádur þá vardi, og rak Seron og lid hans á flótta, og hrakti þá i land Filistea. Kom þá ótti og hrædsla fyrir Júdasi og brædrum hans yfir allar þjódir alt um kríng; og þad barst jafnvel til Antiokusar konúngs. Þá vard hann mjög reidur, og sendi mikinn her, sem skyldi fara til Gydíngalands, og útrydja fólkinu. Þegar kaupmennirnir i löndunum i kríng heyrdu þetta, tóku þeir med sér of fjár, og fóru til herbúdanna, til ad kaupa Israelsmenn fyrir þræla. En á þeim tíma var Jerúsalem óbygd, og eingin af börnum hennar geingu þar út eda inn; helgidómurinn var fóttrodinn, vígid heidíngja bústadur, Jakob gledi firtur, og hljódpípur og hörpur aflagdar. En Júdas Makkabeus lét kalla fólkid saman med lúdrum, og fylkti her sínum;

og jafnvel þótt hann hefdi ekki nema fáa menn, sem þar á ofan höfdu eingar brynjur, heldur ad eins klædi sín og sverd, og þótt óvinirnir væru vel brynjadir, og hefdu öflugt riddaralid og kynnu vel til hernadar, þá rédst hann samt á þá; voru heidingjar illa leiknir og flúdu ofan á sléttlendid, og féllu af þeim eitthvad þrjú þúsund manns. En Júdas og brædur hans sögdu: sjá, óvinir vorir eru sigradir, látum oss fara, og hreinsa aptur helgidóminn. Og er þeir fóru þángad, og sáu hversu helgidómurinn var eydilagdur, altarid vanhelgad, borgarhlidin brend, gángbogarnir grasi vaxnir eins og í skógi eda á fjalli, og herbergin rifin nidur, þá rifu þeir klædi sín, syrgdu ákaflega, og hrópudu til himins. Og Júdas útvaldi vandada presta, sem unnu lögmálinu; þeir hreinsudu helgidóminn, og báru svívirdinguna burt, og fluttu hin helgu áhöld aptur í musterid. Og þeir fórnfærdu aptur á altarinn samkvæmt lögmálinu, og vígdu musterid aptur med miklu hátídahaldi, og þad var mikil gledi og fögnudur medal fólksins.

Og þad skedi eptir þetta, ad Antiokus Epifanes dó, og sonur hans Antiokus Evpator bjó út mikinn her mót Gydingum, hundrad þúsundir fótgaungulids, tuttugu þúsundir riddaralids,

og þrjátíu og tvo fíla. En Júdas fór í móti þeim með sinn litla her til Betsakara, gegnt herbúðum konúngsins. Þá tók konúngur sig snemma upp um morguninn, og lét búast til bardaga, blása í lúðra, og sýna fílunum vínberja- og mórberja-lög, til að koma þeim fram í bardagann. Og þeir skiptu fílunum á fylkingarnar, og létu hverjum fíl fylgja þúsund menn í hringabrynjum, með koparhjálma á höfðum, og fimm hundruð riddara. Þeir hoguðu sér eptir fílunum, svo að þar sem dýrið var, þar voru þeir, og hvert sem það fór, þángað fóru þeir líka. Og sterkir tréturnar voru á sérhverju dýri, og í hverjum turni þrjátíu og tveir hermenn, auk blámannsins, sem stýrði fílnum. Og er sólin rann upp, og skein á hina gullnu skildi í her Antiokusar, þá leiptruðu öll fjöllin af þeim, eins og væri það logandi blys. Og nokkur hluti liðsins dreifðist út um fjöllin, en nokkuð um láglendið, í góðri skipan; og allir urðu hræddir, sem heyrðu hljóðin úr þessum fjölda og hið mikla vopnabrak. Og Júdas fór líka í móti þeim, með fylktu liði til atlögu, og féllu sex hundruð menn af liði konúngs. En maður nokkur, að nafni Eleasar, sá að einn af fílunum var búinn konúnglegri brynju, og bar af öllum hinum, og

hugsadi ad konúngurinn væri á honum; og hann lagdi sig í sölurnar, til ad frelsa þjód sína, og afla sér ævarandi frægdar, ód djarflega út í midja fylkíngu óvinanna, drap marga af þeim, á báda bóga, smaug undir fílinn, og lagdi hann, en hann hné til jardar ofan á hann, og dó hann þar. En þegar Gydíngar sáu hinn mikla lidsafla konúngsins, og adfarir hersins, viku þeir frá þeim. En á medan hafdi upphlaup brotizt út mót Antiokus konúngi í landi hans; þess vegna flýtti hann sér burt úr Júdeu, og gjördi frid vid Makkabeus og menn hans, og leyfdi þeim, ad lifa eptir lögum þeirra. En þeir konúngar, sem komu eptir Antiokus, héldu ekki frid vid þá, og sendu herlid sitt móti þeim; en Makkabeus sigradi þá, og rak þá burt med Guds hjálp. En Júdas hafdi heyrt um Rómverja, ad þeir væru mjög voldugir, og velmetnir medal allra bandamanna sinna, og ad þeir héldu stödugra vináttu vid alla, sem leitudu ásjár hjá þeim. Honum hafdi verid sagt frá afreksverkum þeirra hjá Gollum, sem og hvad þeir hefdu adhafzt á Spáni, til ad ná málmunum, silfrinu og gullinu, sem þar var, og ad þeir hefdi unnid mörg lönd lángt frá Róm, med mikilli ráddeild og þolgædi, og héldu þeim. En vid vini sína og skjólstæd-

inga héldu þeir stoduga vináttu; og væru voldugir, og allir hefdu beig af þeim. En alt fyrir þetta hefdi einginn þar tekid konúngstign; heldur hefdu þeir skipad oldúngarád, í hverju ad væru þrjú hundrud og tuttugu rádherrar, sem stjórnudu vel; og væri árlega valinn yfir madur, sem hefdi umrád yfir ollum londum þeirra. Og þad væri hvorki matningur, ofund né tvidrægni medal þeirra. Og Júdas valdi Evpolemus og Jason, og sendi þá til Róm, til ad semja vid Rómverja um vináttu og félagsskap. Þetta gedjadist Rómverjum vel, og þetta er eptirrit af bréfinu, sem skrifad var til baka á koparspjøld, og sent til Jerúsalem, til ad vera þar hjá þeim til minningar um hinn inngeingna frid og félagsskap: „Vel vegni Rómverjum og Gydíngum á sjó og landi, og þeir vardveitist frá stridi og óvinum ad eilífu. En ef strid kemur upp á fyrir Rómverjum, þá skulu Gydíngar dyggilega hjálpa þeim, eptir sem kringumstædur útheimta, og ekki senda óvinum þeirra vistir, vopn, skotsilfur, skip eda adra hluti. Somuleidis, ef Gydíngar rata í strid, þá skulu Rómverjar dyggilega hjálpa þeim, og ekki styrkja óvini þeirra." Þetta er sáttmálinn, sem gjørdur var milli Rómverja og Gydínga. — En Demetrius, konúngur í Syríu,

sendi høfudsmenn sína, Bakkídes og Alkimus móti Júdasi med valdasta lid sitt, sem í bardøgum var vant ad vera í hægra fylkingararmi, tuttugu þúsund fótgaungulids og tvo þúsund riddara. Og Júdas setti herbúdir sínar gegnt þeim med þrjú þúsund manns. En þegar menn hans sáu, ad óvinirnir hofdu svo mikinn lidsafla, urdu þeir hræddir, og flúdu burt, svo ad ekki urdu eptir hjá Júdasi nema átta hundrud manns. Þá sagdi Júdas vid þá, sem eptir voru: tøkum oss upp, og førum mót óvinum vorum, ef vér kunnum ad geta sigrad þá. En þeir vildu ekki, optrudu honum, og søgdu: þad er eigi audid; látum oss heldur bjarga lífi voru í þetta skipti, og og fara eptir brædrum vorum; munum vér sídan fá barizt vid þá. Júdas mælti: þad sé fjærri mér, ad flýa fyrir þeim. Ef vor tími er kominn, þá látum oss falla med hreysti fyrir brædur vora, svo ordstír vor verdi ekki fyrir ámæli. Og hann lét blása í lúdra, og fór á móti óvinunum; var þar mikill bardagi frá morgni til kvolds, svo ad jørdin skalf af hinni miklu háreysti, og urdu margir sárir af hvorumtveggja, og féllu, þar til einnig Júdas féll. Þá flúdu hinir. Og allir Israelsmenn syrgdu Júdas leingi, og søgdu: hvad kom til ad kappinn féll, sem frelsadi Is-

rael? Þetta er saga Júdasar. En um hin önnur störf hans og afreksverks, er ekki skrifad, því ad þau voru svo mörg.

3, Eptir þetta söfnudust vinir Júdasar saman, og sögdu vid Jónatan bródur hans: sídan bródir þinn andadist, er einginn hans líki, til ad fara móti óvinunum; þess vegna höfum vér kjörid þig í dag, til ad vera höfdingi vor og foringi í hans stad, og heya stríd fyrir oss. Tók Jónatan þá vid stjórninni, og gekk í stad bródur síns; sigradi hann óvini þjódar sinnar med Guds adstod, og gjördi landid frjálst. Múra Jerúsalems byggdi hann upp aptur, og endurnýadi sáttmálann vid Rómverja og Sportumenn; svo ad Ísraels lýdur vard alt af frjálsari og voldugri. Eptir hann vard bródir hans Simon foringi og ædsti prestur Gydinga; og undir honum komst spekt á í Gydingalandi, og medan hann lifdi var þar ávalt fridur; hann stýrdi vel, og gjördi landinu mikid gott. Sérhver yrkti jörd sína í fridi, og sat óhultur undir víntré sínu og fíkjutré, því ad einginn var sem áreitti þá. Einnig Jóhannes Hyrkanus, sonur Simonar, stjórnadi vel í þrjátíu ár, og Gydingar urdu miklir og voldugir undir honum. En eptir hann komu sorglegir tímar, fullir tvídrægnis og sundurlyndis,

þángad til Rómverjar loksins komu í landid, lögdu þad undir sig, og gjördu Heródes ad konúngi.

## III. Spakmæli úr Spekinnar bók.

1) Spekin, sem er meistari allra hluta, kennir ad þekkja þad, sem leynt er og hulid. Því ad í henni er skynugur, heilagur, einugur, margskiptur, skarpur, víngjarnlegur, alvarlegur, frjáls, góðsamur, ástsæll, og stödugur andi, sem alt megnar, alt sér, og alla anda gagnskodar, hve skynugir, hreinir, og skarpir sem þeir eru. Því ad spekin er hid allra slíngasta; hún fer og þreyngir sér í gegnum alt, svo tær er hún. Því ad hún er andi Guds máttar og geisli dýrdar hins alvalda. Þess vegna getur ekkert óhreint komid nærri henni, því ad hún er geisli hins eilífa ljóss, skuggsjá Guds veru, og mynd hans gæzku. Hún er ein og megnar þó alt; hún flytur í heilagar sálir frá kyni til kyns, og skapar vini Guds og spámenn. Því ad Gud elskar eingan, nema þann, sem heldur fast vid spekina. Hún er fegri en sólin og allar stjörnur, og borin saman vid ljósid, tekur hún því fram. Því ad ljósid hlýtur ad víkja fyrir nóttunni, en spekin verdur aldrei yfirbugud af vonzkunni. Hún nær volduglega

frá einum enda jardarinnar til annars, og stjórnar öllu vel. — 2) Þessa hefi eg elskad og eptir leitad frá æsku minni, og hugdi ad taka hana mér fyrir brúdur, því ad eg elskadi fegurd hennar. Hún er af ágætri ætt, því ad edli hennar er hjá Gudi, og Drottinn allra hluta elskar hana. Og eg veit, ad hún mun vera mér gódur rádgjafi, og hugga mig í áhyggjum og sorg. Ef audlegd er æskilegt hnoss í lifi þessu, hvad er þá audugra en spekin, sem aflar als? Ef hygg- indi eru aflasöm, hver medal allra er þá meiri meistari en hún? Ef nokkur elskar réttvisi, þá er hennar verk eintóm dygd; því ad hún kennir hófsemi, réttvisi og húgprýdi, sem er hid hollasta í manna lifi. Ef nokkur girnist ad vita mikid, þá veit hún hid umlidna, og rædur í hid ókomna. — 3) Ad spekingar séu margir er lán heimsins, og hygginn konúngur er þjódarheill. — 4) Hver fúslega þiggur tilsögn, þar er sannarlega upphaf spekinnar; og hann heldur hennar bod. En þar sem hennar bod eru haldin, þar er vissulega heilagt liferni. En hver sem lifir heilögu liferni hann er Gudi nálægur. — 5) Þad er Gud, sem leidir menn á veg spekinnar, og stjórnar hinum hyggnu; því ad í hans hendi erum vér og alt vort tal, þar med öll vizka og kunnátta

í øllum verkum. Hugsanir daudlegra manna eru hvikular, og vor áform hættusøm. Því ad hinn daudlegi líkhami þýngir sálina nidur, og hid jardneska hreisid leggur byrdi á hid margglapta hugskot. Vér skynjum naumast þad, sem á jørdunni er; hver skyldi þá fá rannsakad þad, sem á himnum er? Hver þekkir þínar rádsályktanir, gódi Gud, nema svo sé, ad þú gefir honum speki, og sendir þinn heilaga anda af hædum?

6) Gud hefur skapad manninn til eilífs lífs, og gjørt hann ad eptirmynd sinnar eigin veru. Hann skóp alt, svo þad væri til, og alt, sem er ordid til í heiminum, þad er gott. Ríki daudans er ekki á jørdu, því ad dygdin er ódaudleg. Sálir réttlátra eru í hendi Guds, og eingin pína snertir þær. — 7) Hvernig gæti nokkud stadizt, ef þú Drottinn, ekki vildir þad? En þú þyrmir øllu; því ad þad er þitt, Drottinn, þú vinur lífsins. Og þinn eilífi andi er í øllu.

8) En gudlaus sjálfsþótti fjarlægir frá Gudi, og þegar einn er huglaus, þá ollir þess hans eigin vonzka, sem ber honum vitni og áfellir hann; því ad vond samvizka býst ætíd vid hinu versta. — 9) Spekin kemur ekki í hrekkvísa sál,

og býr ekki i þeim líkhama, sem syndum er háður. — 10) Hvad hjálpar hinum ógndlega andur hans og metnadur? Pad hverfur alt eins og skuggi, og eins og hljómur, sem lidur hjá. Eins og skip, sem lidur á fram um bylgjur vatnsins, hvers spor hvorki finnazt, þegar þad er farid hjá, né farvegur þess í vatninu, eda eins og fugl, sem um loptid flýgur, af hvers vegi ekkert spor finst, af því ad hann hrærist og flýgur i hinu létta lopti, lemur og klýfur þad med sínum blaktandi vængjum, og þad hverfur þegar aptur i samt lag, svo ad ekkert merki flugs hans er ad finna þar: — eins eru hinir ógudlegu burt horfnir, eptir ad þeir fæddust, og hafa ekki ad sýna nokkurt merki dygdar sinnar, heldur er þeim kipt burt mitt i vonzku þeirra. Því ad von hins ógudlega er eins og fis, sem vindurinn feykir, og eins og reykur, sem stormurinn tvístrar, og eins og endurminning þess gleymist, sem ad eins gistir einn dag. En hinir rettlátu munu lifa eiliflega; Drottinn er þeirra umbun, og hinn ædsti elur önn fyrir þeim.

## 112. Spakmæli Jesú Sýraks.

1) Alt kemur frá Gudi, hamingja og óhamingja, fátækt og ríkdómur, líf og

daudi. — 2) Miskunsemi mannsins nær einúngis til náúnga hans, en miskunsemi Guds yfir allan heim. — Hvad sem þú tekur þér fyrir hendur, þá treystu Gudi af øllu hjarta, því ad þad er ad halda Guds bod. — 4) Berstu fyrir sannleika fram í daudann, þá mun Gud Drottinn berjast fyrir þig. — Hugsa til endans í øllu sem þú gjørir, þá muntu aldrei breyta illa. — 6) Vertu gjarnan hjá gømlum mønnum, og halt þig til hvers þess, sem vitur er. — 7) Blessan fødursins festir hús barnanna, en bølvan módurinnar rífur þau nidur. — 8) Trúr vinur er ørugg vørn; hver sem hann finnur, sá hefir fundid mikinn fjársjód. — 9) Nýr vinur er nýtt vín; lát þad verda gamalt, þá mun þér smakkast þad vel. — 10) Vert vinsamlegur vid hvern mann, en reid þig naumast á einn af þúsund. — 11) Blygdast þín ekki, er þér hefur yfir sézt, ad játa þad, og streiztu ekki mót straumnum. — 12) Þad sem ekki snertir þína sýslan, eptir því skaltu ekki hnýsast; því ad þér er bodid meira, en þú færd orkad. — 13) Hafir þú skynbragd á einn efni, þá svara náúnga þínum; en ef ekki, þá legg hønd á munn þeir; því ad menn geta talad sér til sóma, en líka sér til vansa. — 14) Lær fyrst sjálfur, ádur en þú kennir ødrum.

Varir hins málugu bladra óþarfa, en tal hins hyggna er vegid á gullvog. Dárar hafa hjarta sitt í munninum, en hinir hyggnu munn sinn í hjartanu. Dárinn hlær hátt, en hinn hyggni brosir ad eins. — 15) Hinn úngi má líka tala einu sinni eda tvisvar, þegar þorf gjørist; og þegar hann er spurdur, á hann ad vera fáordur, og láta sem hann viti ekki mikid, og heldur þegja. Og þegar aldradur madur talar, á hann ekki ad tala þar fram í. — 16) Hver sem elskar háska, hann kemst í hann. Hver sem kastar steini í lopt upp, hann kastar honum í koll sér. Hver sem heimuglega stingur, hann særir sjálfan sig. Hver sem grefur ødrum grøf, hann fellur sjálfur í hana. — 17) Þiófur er skammarlegur hlutur, en þó er bakmálugur madur miklu skammarlegri. — 18) Hrósa eingum fyrir frídleika hans, og fyrirlít eingan sakir útlits hans. Býflugan er lítil fleyg skepna, og þó gefur hún hinn sætasta ávøxt.

## 113. Nokkrir spádómar úr spámanna-bókunum um Messías.

### Esaias.

1) Sú þjód, sem geingur í myrkri, sér ljós mikid; yfir þeim, sem búa í landi náttmyrkranna,

ljómar fögur birta. Því ad eitt barn er oss fætt, sonur er oss gefinn; á hans herdum skal höfdingjadómurinn hvíla; og hann heitir: hinn undrunarlegi, rád, kraptur, hetja, fadir eilífur, fridarhöfdíngi. Hans veldi mun mikid verda, og fridurinn aldrei enda taka í hásæti Davíds, hédan í frá og ad eilífu.

2) Af stofni Isai mun kvistur spretta, og ángi upp vaxa af rót hans; yfir honum mun hvíla andi Drottins, andi vísdóms og skilnings, andi rádspeki og kraptar, andi þekkíngar og ótta Drottins. Hann mun ekki dæma eptir því, sem hans augu sjá, og ekki veita úrskurd eptir því, sem hans eyru heyra, heldur láta hina fátæku og naudstöddu njóta réttvísi og sanngirni. — Þá mun fridur drottna í heiminum; úlfurinn búa hjá lambinu, og pardusdýrid liggja hjá kidlíngnum; kálfar, ljónskálfar og alifé gánga saman, og smásveinn leida þau. Kýrin og bjarndýrid mun vera á beit saman, og kálfar og húnar liggja hvorir hjá ödrum, og ljónid eta hey med nautinu. Brjóstmylkíngurinn mun leika sér vid holudyr nödrunnar, og þad barn, sem nývanid er af brjósti, mun stínga hendi sinni inn í bæli hornormsins. — Og landid mun verda fult af

kynningu Drottins, eins og sjáfardjúpid er vøtnum hulid.

## Mikkas.

3) Og þú, Betlehem Effrata, þó þú sért of litil til þess ad teljast medal høfudborga Júdaríkis, þá mun þó frá þér út gánga sá, sem mun ráda yfir Israel, og hvers uppruni er frá upphafi og frá eilífd. Hann mun fram gánga í krapti Drottins, og gæta hjardar sinnar í dýrd Drottins, síns Guds, og hans veldi mun ná alt til enda heims. — Og þjódirnar munu streyma þángad, og segja: komid, látum oss gánga upp til fjalls Drottins, svo ad hann vísi oss sína vegu, og svo vér megum gánga á hans stigum. Því ad frá Sion mun løgmálid út gánga, og ord Drottins frá Jerúsalem. — Þá munu þjódirnar smída plógjárn úr sverdum sínum, og kornsigdir úr spjótum sínum; eingin þjód mun bregda sverdi gegn annari, og þadan í frá einga hernadaríþrótt læra. Sérhver mun búa undir sínu víntré og fíkjutré, án ótta, og fram gánga í nafni Drottins. — Því ad Drottinn hefur svo bodid.

## Sefanias.

4) Þá mun Drottinn láta prédika ødruvísi fyrir þjódunum, med vinsamlegum vørum, svo

að þeir skulu ákalla nafn Drottins og þjóna honum samhuga.

Haggai.

5) Innan skamms skal huggan allra heiðíngja koma, og eg vil gjøra þetta hús hið dýrðlegasta, segir Drottinn alsherjar.

Sakarías.

6) Fagna, Sions dóttir, kirja upp, Jerúsalems dóttir! Sjá, þinn konúngur kemur til þín, réttlátur og sigursæll, litillátur, og riður á asna, á úngum øsnufola.

## I. Bodanirnar.

1) Á døgum Heródesar, konúngs í Júdeu, var prestur nokkur, ad nafni Sakarías, og kona hans hét Elísabet. Þau voru bædi rádvønd, og breyttu í øllu óadfinnanlega eptir bodum og skipunum Guds. En þau áttu ekkert barn, og voru bædi hnigin á efra aldur. Einhverju sinni bar svo til, þegar hann átti ad gegna prestsverkum í musterinu, ad honum hlotnadist ad veifa reykelsinu: gekk hann þá inn í musterid en alt fólkid var fyrir utan á bæn á medan, og einginn madur var hjá honum í musterinu. Þá birtist honum eingill Guds, sem stód hægra megin vid reykelsisaltarid. Og er Sakarías sá hann, vard hann felmtursfullur, og ótti féll yfir hann. En eingillinn sagdi vid hann: vertu óhræddur, Sakarías, því ad bæn þín er heyrd, og kona þín Elísabet mun fæda þér son, sem þú skalt nefna Jóhannes. Hann

mun verda þér til fagnadar og gledi, og margir munu gledjast yfir fæding u hans. Þvi ad hann mun verda mikill gudsmadur, og verda fyltur heilögum anda, og snúa mörgum Israelsmanna til Guds, Drottins þeirra. Hann mun fara undan Messiasi í anda og krapti Elíasar, svo ad hann betri hjörtu manna, og undir búi lýdinn, til ad veita honum móttöku. Þá spurdi Sakarías eingilinn: hvad hann skyldi hafa til marks um þetta? Þvi ad eg er madur gamall, og kona mín hnigin á efra aldur. Eingillinn mælti: eg er eingill Drottins, og er sendur ad flytja þér þessi gledilegu tídindi. Og sjá, þú munt verda mállaus og ekki fá talad uns þetta kemur fram, vegna þess ad þú efadir ord mín, sem þó munu rætast á sinum tíma. Og fólkid beid eptir Sakariasi, og undradist ad hann dvaldist svo leingi í musterinu. En er hann kom út, mátti hann eigi mæla; þóttist fólkid þá vita, ad hann mundi hafa séd sýn í musterinu, sem hann og lét þá skilja med bendingum, þvi ad hann var mállaus. En er hans tídaþjónnsta var á enda, fór hann heim í hús sitt; og Elísabet, kona hans, vard med barni, eins og eingillinn hafdi sagt.

2) Á sjötta mánudi eptir þetta sendi Gud eingil í þá borg í Galilen, sem heitir Nasaret,

til meyar þeirrar, sem nefndist María, og var trúlofud manni þeim, sem hét Jósep, af ætt Davíds. Og eingillinn kom inn til hennar, og mælti: heil sértu, nádarfulla! Drottinn er med þér, þú hin sælasta allra kvenna! En hún vard hrædd af ordum hans og hugsadi med sér: hvílík kvedja er þetta? Eingillinn sagdi vid hana: óttast ekki, María, þú hefur fundid nád hjá Gudi. Sjá, þú munt son fæda, og hans nafn skaltu nefna Jesús; hann mun mikill verda, og kallast sonur hins ædsta, og hann mun frelsa sitt fólk af þess syndum, hann mun verda konúngur eilíflega, og hans konúngsríkis mun einginn endir verda. Heilagur andi mun koma yfir þig, og kraptur hins ædsta yfirskyggja þig; þess vegna mun líka hid heilaga, sem af þér fædist, kallast sonur Guds; því ad Gudi er einginn hlutur um megn. María sagdi: sjá, eg em Drottins þjónustukvinna, verdi mér eptir ordi þínu. Og eingillinn veik á burt frá henni. — Litlu sídar tók María sig upp, og fór til fjallbygda, til borgar nokkurrar í Júdeu, kom í hús Sakaríasar og heilsadi Elísabet. Og Elísabet fyltist heilagri andagipt, kalladi hátt og mælti: „blessud ertu á medal kvenna, og blessad er þad fóstur, sem þú geingur med. Og sæl ertu, ad þú ekki

barst brigð á fyrirheiti Guðs, því að það mun rætast á sínum tíma." Og María sagði: „mín sála lofar Drottinn, og minn andi gleður sig í Guði, heilsugjafara mínum; því að í náð sinni leit hann til auðvirðilegrar ambáttar sinnar. Sjá, héðan í frá munu allar aldir prísa mig sæla; því að hinn voldugi hefur breytt dásamlega við mig; hans nafn er heilagt, og hans miskunsemi varir um aldur og æfi við þá, sem hann óttast. Hans armleggur hefur þrek unnið, og hann hefur stökt þeim á dreif, sem dramblátir eru. Hann hrindir voldugum úr sæti; en hefur þá, sem lítilmótlegir eru." Og María var hjá Elísabet í þrjá mánuði; síðan fór hún heim aptur.

## 2. Fæðingar.

1) Og Elísabet fæddi son. En er nágrannar hennar og ættmenn heyrðu, hve mikla velgjörð Drottinn hafði auðsýnt henni, samfögnuðu þeir henni. Og þeir vildu kalla sveininn Sakarías, eptir föður hans; en móðir hans vildi það ekki, og kvað hann skyldu heita Jóhannes. Þá sögðu þeir, að enginn væri í ætt hennar með því nafni. Og þeir bentu föður hans, hvað hann vildi láta hann heita. Þá beiddi hann um spjald, og reit á það: hann á að heita Jóhannes;

og jafnskjótt laukst upp munnur hans og túnga, og hann taladi og lofadi Gud. Og þeir undr-udust allir og søgdu: hvad mun þessi sveinn verda? Því ad Gud hélt hendi sinni yfir hon-um. Og Sakarias fadir hans fyltist heiløgum anda og mælti: „lofadur veri Drottinn, Israels Gud, ad hann hefur vitjad síns fólks og frelsad þad, svo ad vér skulum þjóna honum óttalaust, í heilagleika og rádvendni, alla æfi vora. Og þú, sveinn, munt kallast spámadur hins ædsta; því ad þú munt verda fyrirrennari Drottins, til ad búa honum veg, og veita fólki hans þekk-ingu sáluhjálparinnar, fyrir hjartagróna miskun vors Guds, hverri vér eigum þad ad þakka, ad oss upp rennur ljós af himni, til ad lýsa þeim, sem sitja í myrkri og daudans skugga, og ad leida fætur vora á veg fridarins." Og sveinninn óx upp, og styrktist í anda.

2) En þad bar til um þessar mundir, ad þad bod kom frá Agústusi keisara, ad taka skyldi manntal um alt ríkid. Fóru þá allir til mann-tals, hver til sinnar borgar. Þá fór og Jósep frá Nasaret upp til Júdeu, til borgar Davíds, sem heitir Betlehem; því ad hann var af húsi og kyni Davíds; og María festarmey hans fór med honum. En er þau voru þar, kom sá tími,

ad hún skyldi fæda; og hún fæddi son sinn, vafdi hann í reisum, og lagdi hann nidur í jötuna; því ad þau höfdu ekki annad rúm í gestaherberginu. — Og þar voru í sama bygdarlagi á morkinni fjárhirdar, sem voktu um nóttina yfir hjörd sinni. Og sjá, eingill Drottins birtist þeim, og mikil birta ljómadi í kring um þá, og þeir urdu mjög óttaslegnir. En eingillinn sagdi vid þá: óttist ekki. Sjá, eg boda ydur mikinn fögnud, sem vid kemur öllu fólki; því ad í dag er ydur frelsari fæddur, sem er Drottinn Kristur, í borg Davíds. Og hafid þad til marks ad þér munud finna barnid reisum vafid, og vera lagt í jötu. Og jafnskjótt var þar hjá einglinum mikill fjöldi himneskra hersveita, sem lofudu Gud og sögdu: „dýrd sé Gudi í upphædum, fridur á jördu, og yfir mönnunum Guds velþóknan." Og er einglarnir voru farnir til himna, sögdu hirdarnir hver vid annan: látum oss fara til Betlehems, og sjá þennan atburd, sem Gud hefur kunngjört oss. Og þeir fóru med skyndi, og fundu Maríu og Jósep, og barnid liggjandi í jötu. En er þeir höfdu séd þad, báru þeir þad út, sem hafdi verid sagt vid þá um þetta barn, og lofudu Gud og vegsömudu, fyrir alt þad, sem þeir höfdu séd og heyrt. Og

allir, sem þetta heyrdu, undrudust yfir søgu þeirri, sem hirdarnir søgdu þeim. En María hugfesti alt þetta, og geymdi þad í hjarta sér. Og þau kølludu barnid Jesús, eins og hann var kalladur af einglinum, ádur en hann var fæddur.

### 3. Æska frelsara vors.

1) En er hreinsunartíminn var lidinn, eptir løgmáli Mósis, fóru þau med barnid til Jerúsalem, til ad færa þad Drottni, og ad flytja þar fórn. Og sjá, sá madur var í Jerúsalem, er Símeon hét, madur rádvandur og gudhræddur, og vænti eptir huggun Israelsmanna. Honum hafdi Gud birt, ad hann skyldi ekki deya, fyr en hann hefdi séd Drottins smurda. Og hann kom ad andans tilladan í musterid. Og er foreldrarnir komu med barnid Jesús, tók hann þad í fáng sér, lofadi Gud og sagdi: Drottinn, láttu nú þjón þinn í fridi fara, eins og þu hefur mér heitid; því ad augu mín hafa séd þann, sem þú hefur ætlad til hjálprædis øllum þjódum, heidíngjum til upplýsíngar, og til vegsemdar lýd þínum Israel. Og fadir hans og módir undrudust yfir því, er um hann var spád. Og Símeon blessadi þau, og sagdi vid Maríu: sjá, þessi er settur til falls og vidreisnar mørgum í Israel, og til

ad verda það tákn, hverju móti mun verda mælt. Sjálfrar þinnar önd mun og sverd í gegnum smjúga. Og þar var Anna spákona, ekkja, nær fjóra um áttrætt, sem aldrei gekk úr musterinu og dýrkadi Gud nætur og daga, med föstum og bænum; hana bar þar líka ad í því sama, lofadi Gud, og taladi um hann vid alla, sem endurlausnarinnar væntu í Jerúsalem. Og er þau höfdu lokid öllu, snern þau aptur til Galíleu, til borgar sinnar Nasaret.

2) Um þessar mundir, þegar Jesús var fæddur í Betlehem á Gydingalandi, sjá, þá komu vitringar úr austurlöndum til Jerúsalem, og og sögdu: hvar er hinn nýfæddi konúngur Gydinga? Vér höfum séd stjörnu hans í austurlöndum, og erum komnir til ad veita honum lotningu. En er Heródes konúngur heyrdi þetta, vard hann skelfdur, og öll Jerúsalem med honum; og hann lét kalla saman alla ædstu presta og löglærda lýdsins, og spurdi þá, hvar Kristur ætti ad fædast? Þeir sögdu honum: í Betlehem í Júdeu; því ad þannig hefdu spámennirnir skrifad. Þá kalladi Heródes vitringana til sín á laun, og spurdi þá vandlega, nær stjarnan hefdi séstʼ? Sendi þá svo til Betlehem, og sagdi: farid og haldid vandlega spurnum fyrir um barnid,

og þegar þér hafið fundið það, þá kunngjörið mér það, að eg einnig geti komið og sýnt því lotníngu. Þegar þeir nú höfðu heyrt konúnginn, fóru þeir leiðar sinnar, og sjá, stjarna sú, sem þeir höfðu séð í austurlöndum, gekk á undan þeim, þángað til hún nam staðar þar yfir, sem barnið var. Þegar þeir sáu það, urðu þeir mjög glaðir, geingu inn í húsið, og fundu barnið ásamt Maríu, móður þess, féllu fram og veittu því lotníngu, opnuðu fjárhirzlur sínar, og færðu því gáfur, gull, reykelsi og mirru. Og Guð bauð þeim í draumi, að þeir skyldu ekki snúa aptur til Heródesar; og þeir fóru aðra leið til baka heim til sín. En þegar þeir voru burtu farnir, vitraðist eingill Drottins Jósep í draumi, og sagði: statt upp, og tak barnið og móður þess, og flý til Egyptalands, og vert þar, þángað til eg segi þér; því að Heródes mun leita barnsins, til að fyrirfara því. Og hann stóð upp, tók barnið og móður þess um nótt, og fór til Egyptalands, og var þar þángað til eingillinn kallaði hann. En er Heródes sá, að hann var gabbaður af vitríngunum, varð hann afarreiður, sendi út, og lét myrða öll sveinbörn í Betlehem, tvævetur og yngri, eptir þeim tíma, sem hann hafði komizt eptir af vitríngunum. En þegar Heródes

var dandur, sjá, þá vitradist eingill Drottins Jósep, og sagdi honum þad; og hann fór aptur til Gydingalands med barnid og módur þess, og bjó i Nasaret i Galileu.

3) Og barnid óx upp, og styrktist i anda, og fyltist vizku, og Guds nád var med honum. En foreldrar hans fóru hvert ár til Jerúsalem á páskum; og þegar hann var tólf ára, tóku þau hann med sér, eptir sidvenju hátidardagsins. Og er þeir dagar voru lidnir, og þau sneru heim aptur, vard barnid Jesús eptir i Jerúsalem og foreldrar hans vissu þad ekki; ætludu ad hann væri med samferdamønnum þeirra, og fóru eina dagleid, og leitudu hans medal frænda og kunningja; og er þau fundu hann ekki, sneru þau aptur til Jerúsalem, og leitudu hans þar. Og þad bar svo til, ad þau fundu hann eptir þrjá daga i musterinu, þar sem hann sat medal lærifedranna, hlýddi á tal þeirra og spurdi þá; en alla, sem heyrdu, furdadi á skilningi hans og andsvørum. Og er foreldrar hans sáu hann, undrudust þau, og módir hans sagdi vid hann: sonur minn, hvi breyttir þú svo vid okkur? Sjá, fadir þinn og eg leitudum harmþrúngin ad þér. Hann mælti: hvi hafid þid leitad ad mér? Vissud þid ekki, ad mér ber ad vera i þvi, sem mins fødur

er? En þau skildu ekki, hvad hann meinti. Og hann fór med þeim, og kom til Nasaret, og var þeim hlýdinn. En módir hans geymdi oll þessi ord í hjarta sínu. Og Jesú óx vizka og aldur og nád hjá Gudi og mønnum.

## 4. Jóhannes skírari.

Á fimmtánda ríkisstjórnarári Tíberíusar keisara, þegar Annas og Kaifas voru ædstu prestar, þá kom skipan Guds til Jóhannesar, sonar Sakaríasar, ad hann skyldi kenna Gydíngalýd. En hann hélt til í óbygdum Júdeulands, og bar klædnad af úlfaldahárum, og hafdi ledurbelti um lendar sér, og fæda hans var eingisprettur og skógarhunáng. Og hann kom í þad hérad, er liggur vid Jórdan, og kendi ad menn skyldu skírast og bæta rád sitt, svo þeir feingju kvittan synda sinna. Og menn komu til hans frá Jerúsalem og úr allri Júdeu, og hann skírdi þá í ánni Jórdan, þegar þeir høfdu játad afbrot sín. Og hann kendi og sagdi vid fólkid: sjáid til, ad þér berid verduga ávexti idraninni. Fólkid spurdi hann og sagdi: hvad eigum vér þá ad gjøra? Hann mælti: Hver sem hefur tvo kyrtla, hann gefi annan þeim, sem eingan hefur, og hver sem matfaung hefur, hann gjøri eins. Þá komu og

tollheimtumenn að skírast, og søgðu við hann: meistari, hvað eigum vér þá að gjøra? Hann mælti: krefjizt ekki meira, en yður er boðið. Þá spurðu hermenn hann líka: hvað eigum vér að gjøra? Hann mælti: sýnið eingum ofríki né órétt og látið yður nægja mála yðvarn. En sem hann sá marga Farísea og Saðúsea koma til skírnar sinnar; sagði hann við þá: þér nøðrunúngar, hver hefur kent yður, að þér þannig getið umflúið tilkomandi reiði? Hugsið ekki með sjálfum yður: vér eigum Abraham fyrir føður. Eg segi yður: máttugur er Guð, að vekja Abrahami børn af steinum þessum. Øxin er þegar reidd að rótum trjánna, svo að hvert það tré, sem ekki ber góðan ávøxt, mun upp høggvið, og í eld kastað. En þegar fólkið var komið á þá ætlun, og allir hugsuðu með sjálfum sér um Jóhannes, að hann máske væri Kristur, þá svaraði Jóhannes, og sagði: eg skíri yður í vatni, en á eptir mér kemur annar sterkari, og eg er ekki verðugur, að eg beygi mig til að leysa skóþveingi hans, hann mun skíra yður með heiløgum anda og eldi. — Um þessar mundir kom Jesús úr Galíleu til Jórdanar til Jóhannesar, til að skírast af honum. En Jóhannes skoraðist undan því, og sagði: mér er þørf að eg skírist af þér, og þú kemur til

mín? Jesús svaradi honum og sagdi: veittu mér þetta; því ad þannig byrjar oss í øllu ad gjøra Guds vilja. Hann lét þad þá eptir honum. En er Jesús var skírdur, steig hann jafnskjótt upp úr vatninu, og sjá himininn opnadist yfir honum, þegar hann gjørdi bæn sína, og hann sá Guds anda ofan stíga í dúfulíki, og koma yfir hann. Og sjá, rødd af himni sagdi: þú ert sonur minn elskulegur, á hverjum eg hefi velþóknan. Og Jóhannes hélt áfram ad kenna, og ávítadi einnig Heródes jarl, fyrir alt hid illa, sem hann gjørdi; en Heródes lokadi hann þess vegna í myrkvastofu.

### 5. Jesús byrjar kennaraembætti sitt.

Og Jesús gekk fram, styrktur krapti Guds anda, til ad kenna mønnum; og er hann heyrdi, ad Jóhannes væri fánginn, veik hann til Galíleu, og settist ad í Kapernaum, sem liggur vid vatnid Genesaret; og flutti gledibodskapinn um Guds ríki, og sagdi: tíminn er kominn, og Guds ríki er nálægt, sjáid ad ydur, og trúid nádarbodskapnum. Og hans ordstír barst út um oll kríngumliggjandi hérud; og hann kendi í samkunduhúsum þeirra, svo allir dádust ad; og þeir undrudust yfir kenningu hans, því

ad hann kendi eins og sá, sem hafdi Guds umbod á hendi, en ekki eins og hinir skriptlærdu.

## 6. Lærisveinar Jesú.

En þad bar svo vid, er fólkid þyrptist ad honum, til ad heyra Guds ord, og hann stód vid vatnid Genesaret, og leit tvø skip vid vatnid, — en fiskimennirnir voru farnir í land, og þvodu net sín, — ad hann fór út á annad skipid, sem Simon Pétur átti, og bad hann leggja dálitid frá landi. Og hann settist nidur, og kendi fólkinu af skipinu. En er hann var hættur ad kenna, sagdi hann vid Simon: drag út á djúpid, og leggid net ydar til fiskjar. Simon mælti: meistari, vér hofum setid í alla nótt, og ekkert fiskad, en ad þínu bodi vil eg leggja netid. Og er þeir gjørdu þad, inni luktu þeir svo mikla mergd fiska, ad net þeirra rifnudu. Og þeir bentu féløgum sínum á hinu skipinu, ad þeir kæmu og hjálpudu þeim; og þeir komu og drekkhlódu bædi skipin. Þegar Simon Pétur sá þetta, féll hann til fóta Jesú, og sagdi: far frá mér, Drottinn, því ad eg em syndugur madur; því ad felmtur var kominn yfir hann, og alla þá, sem med honum voru, af hinum mikla fiskidrætti. En Jesús sagdi vid Simon: óttast ekki,

og fylg mér, þú og Andrés, bróðir þinn; eg mun gjøra yður að mannveiðendum. Þeir drógu þá skip sín á land, yfirgáfu alt, og fylgdu honum eptir. — Og er hann gekk þaðan leingra á fram, sá hann Jakob, son Zebedeusar, og Jóhannes, bróður hans, sem voru á skipi að bæta net sín, og kvaddi þá til fylgdar við sig. Þeir yfirgáfu þá föður sinn þar á skipinu ásamt leigulíðunum, og fylgdu honum eptir. — Og þeir komu í hús Símonar og Andrésar, og teingdamóðir Símonar lá sóttveik, og þeir báðu hann fyrir hana. Hann fór þá til hennar, tók í hønd henni, reisti hana á fætur; hvarf sóttveikin þegar frá henni, og hún þjónaði þeim. En um kvøldið, þegar sól var runnin, færðu þeir til hans alla veika, er haldnir voru ýmislegum veikindum; og allir borgarmenn søfnuðust að dyrum hússins. Og hann lagði hendur yfir sérhvern þeirra, og læknaði þá. Morguninn eptir fyrir dag fór hann á fætur, gekk út úr borginni og á eyðistað, og gjørði þar bæn sína. En Pétur og þeir, sem með honum voru, eltu hann. Og er þeir fundu hann, søgðu þeir við hann: allir leita þín. Hann sagði þá við þá: mér ber og að boða lærdóminn um Guðs ríki í øðrum borgum, því að til þess er eg sendur. Og hann kendi í øllum

samkunduhúsum í Galíleu. — Eptir þetta fór hann burt, og sá tollheimtumann einn, Matteus að nafni, sitja hjá búð sinni, og hann sagði við hann: fylg þú mér eptir. Hann yfirgaf þá alt, stóð upp og fylgði honum eptir. Og Matteus bjó honum veizlu mikla í húsi sínu; voru þar að boði með honum margir tollheimtumenn og aðrir fleiri. En Fariseарnir og hinir skriptlærðu mögluðu við lærisveina hans og sögðu: því etið þér og meistari yðar og drekkið með tollheimtumönnum og bersyndugum? Jesús svaraði og sagði við þá: heilbrigðir þurfa eigi læknis við, heldur vanheilir. En farið og nemið, hvað það þýðir: mannelska er mér þekkari en fórn. Eg em eigi kominn, til að kalla réttláta, heldur synduga til yfirbótar. — Þá geingu lærisveinar Jóhannesar til hans og sögðu: hví föstum vér svo opt, og erum svo opt á bænum, og eins lærisveinar Faríseanna, en lærisveinar þínir eta og drekka? Jesús mælti: hvort geta brúðmennirnir verið með hryggu bragði, á meðan brúðguminn er með þeim? En sá tími mun koma, að brúðguminn verður tekinn frá þeim; þá munu þeir fasta. Og hann sagði þeim þessa dæmisögu: einginn leggur nýa bót á gamalt fat, því að þá rifur bótin fatið, og verða þá spjöllin verri. Ekki

heldur láta menn nýtt vín á gamla belgi, því ad þá spreingir hid nýa vínid belgina, vínid spillist og belgirnir ónýtast; heldur láta menn nýtt vín á nýa belgi, og vardveitist þá hvort-tveggja. — En þad bar vid um þessar mundir, ad hann fór upp á fjall eitt, ad bidjast fyrir, og var þar alla nóttina á bæn til Guds. Og er dagur kom, kalladi hann til sín lærisveina sína, og valdi tólf af þeim, ad þeir skyldu vera med honum, og til ad senda þá frá sér, til ad kenna, og kalladi þá þess vegna líka postula. Þad voru: Símon, sem hann kalladi Pétur, og Andrés, bródir hans, þeir brædur Jakob og Jóhannes, Filippus og Bartóló-meus; Matteus og Tómas; Jakob, son Alfeusar, og Símon frá Kana, er kalladur var vandlætari, Júdas Lebbeus, son Jakobs, og Júdas Kariot, sem sídan sveik hann. — Og þad kom líka til hans einn skriptlærdur, sem sagdi vid hann: meistari, eg vil fylgja þér, hvert sem þú ferd. Jesús sagdi: refar hafa holur, og fuglar himins skýli, en mannsins sonur hefur hvergi höfdi sínu ad ad halla.

### 7. Ræda á fjallinu.

Og mikill fjöldi fólks hafdi fylgt honum úr Galíleu og Jerúsalem og allri Júdeu og landinu

fyrir handan Jórdan. En þegar hann sá fólk-
id, var hann kyrr á fjallinu, og settist þar, og
lærisveinar hans geingu til hans; hóf hann þá
kenningu sína til þeirra á þennan hátt:

1) Sælir eru andlega voladir, því ad þeirra
er himnaríki; sælir eru þeir, sem harma, því ad
þeir munu huggadir verda: sælir eru hógværir,
því ad þeir munu landid eignast; sælir eru þeir,
sem húngrar og þyrstir eptir réttlætinu, því ad
þeir munu saddir verda; sælir eru hrein-
hjartadir, því ad þeir munu Gud sjá;
sælir eru þeir, sem fridinn semja, því ad þeir
munu Guds børn kalladir verda; sælir erud þér,
þegar menn hallmæla ydur og ofsókn veita, og
tala gegn ydur alla vonzku, fyrir mínar sakir,
en þó ljúgandi; fagnid þá og verid gladir, því
ad ydar verdkaup er mikid á himnum. Því ad
þannig ofsóttu líka fedur ydar spámennina, sem
fyrir ydur voru.

2) Þér erud salt jardar. Ef nú saltid dofn-
ar, med hverju skal þá selta þad? Þad er þá
til einkis nýtt, nema ad kastast út og fótum trod-
ast af mønnum. — Þér erud ljós heimsins; en
menn kveykja ekki ljós, og setja þad undir mæli-
ker, heldur í ljósastiku, og lýsir þad þá þeim,
sem í húsinu eru. Svo látid þér og einnig

ydvart ljós lýsa fyrir mønnum, svo ad þeir sjái ydar góðverk, og dýrki fødurinn á himnum.

3) Þér hafið heyrt, ad boðið er: þú átt ad elska náúnga þinn, og hata óvin þinn. En eg segi ydur: elskið óvini ydar, blessið þá, sem ydur bølva, gjørið þeim gott, sem ydur hata, biðjið fyrir þeim, sem rógbera ydur og ofsókn veita, svo ad þér séuð børn fødur ydar, sem á himnum er. Því ad hann lætur sina sól upp renna yfir vonda og góða, og rigna yfir réttláta og ráng-láta. Því ad þótt þér elskið þá, sem elska ydur, hver laun eigið þér skilið fyrir það? Gjøra ekki tollheimtumenn hið sama? Og þótt þér látið ad eins kært við landa ydar, hvað gjørið þér í því, sem hrósvert sé? Gjøra ekki bersynd-ugir hið sama? Verið því fullkomnir, eins og ydar faðir á himnum er full-kominn.

4) Varizt ad fremja góðverk ydar með ásettu ráði í augsýn annara manna, til þess ad þeir sjái þau. Þegar þú því gefur olmusu, þá lát hina vinstri hønd þína ekki vita, hvað hin hægri gjørir, svo að góðgjørð þín sé hulin, og faðir þinn, sem sér það, sem í leyni er gjørt, mun þér það opinberlega endurgjalda. Og þegar þú biðst fyrir, þá hegða þér eigi sem hræsnarar,

sem vanir eru ad standa og bidjast fyrir á strætum og gatnamótum, til þess ad þeir verdi sénir af ødrum. Sannlega segi eg ydur, þeir hafa út tekid sín laun. En þegar þú bidst fyrir, þá far þú í svefnhús þitt, og loka dyrunum aptur, og bid fødur þinn í leyni, og hann, sem sér þad, sem í leyndum er gjørt, mun veita þér þad opinberlega. Og þegar þér bidjid, þá varizt ad hafa ónytjumælgi, eins og heidíngjar, sem halda, ad þeir verdi bænheyrdir, af því þeir brúka mørg ord; þér skulud eigi líkjast þeim. Ydar fadir veit, hvers þér þurfid vid, ádur en þér bidjid hann. Bidjid því á þessa leid: „Fadir vor, þú sem ert á himnum, helgist þitt nafn; til komi þitt ríki; verdi þinn vilji, svo á jørdu, sem á himni. Gef oss í dag vort daglegt braud; og fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum. Og leid oss ekki í freistni, heldur frelsa oss frá illu; því ad þitt er ríkid, mátturinn og dýrdin ad eilífu! Amen."

5) Safnid ydur ekki audæfum á jørdu, þar sem mølur og ryd fá þeim grandad, og þjófar eptir grafizt og stolid. Safnid ydur heldur audæfum á himnum, þar sem þeim hvorki grand-

ar mølur né ryd, né þjófar fá þeim eptir grafizt og stolid. Því ad þar sem audæfi ydar eru, þar er líka ydvart hjarta.

6) Augad er ljós líkhamans; ef augad er heilskygnt, þá nýtur líkhami þinn birtu; en ef auga þitt er gallad, þá er allur líkhami þinn í myrkri. Ef þá þad ljós, sem í þér er, er myrkur, hve mikid mun þá þad myrkur vera?

7) Eingiun getur þjónad tveimur herrum; því ad annadhvort hlýtur hann ad hata hinn eina og elska hinn, eda ad adhyllast hinn eina og afrækja hinn. Þér getid eigi þjónad bædi Gudi og Mammoni. Þess vegna segi eg ydur: verid ekki hugsjúkir fyrir lífi ydru, hvad þér skulud eta og drekka, ekki heldur fyrir líkhama ydrum, hverju þér skulud klædast. Er ekki lífid meira vert en fædan, og líkhaminn meira en klædnadurinn? Lítid til fuglanna í loptinu, þeir sá hvorki né upp skera, og safna ekki heldur í kornhlødur, og þó fædir ydar himneski fadir þá. Erud þér ekki miklu ágætari en þeir? Og hví erud þér áhyggjufullir fyrir klædnadinum? Skodid liljugrøs akursins, hversu þau vaxa; þau vinna hvorki né spinna; en eg segi ydur, ad Salómon í øllu sínu skrauti var ekki svo skrýddur, sem eitt af þeim. Ef Gud þá skrýdir svo grasid

á jørdinni, sem stendur í dag, en á morgun verdur kastad í ofn, skyldi hann þá ekki miklu framar hid sama vid ydur gjøra, þér trúarveikir? Þér skulud því ekki hugsjúkir spyrja: hvad eigum vér ad eta, hvad drekka, hverju klædast? Eptir øllu slíku leita holdlega sinnadir heidingjar; því ad ydar himneskur fadir veit, ad þér þurfid als þessa vid. Leitid fyrst Guds ríkis og hans réttlætis, þá mun ydur líka veitast alt þetta. Verid því ekki hugsjúkir fyrir morgundeginum, því ad hann mun sjálfur bera umhyggju fyrir sér. Hverjum degi nægir sín þjáning.

8) Bidjid og mun ydur gefast; leitid, og munud þér finna; knýid á, og mun fyrir ydur upp lokid verda. Því ad hver sem bidur, hann ødlast; og hver sem leitar, hann finnur; og hver sem á knýr, fyrir honum mun upp lokid verda. Er nokkur sá af ydur, sem gæfi syni sínum stein, ef hann bædi um braud? Eda sem gæfi honum høggorm, ef hann bædi um fisk? Ef þá þér, sem þó erud vondir, getid samt gefid børnum ydar gódar gjafir, hve miklu framar mun þá ydar himneskur fadir gefa þeim góda hluti, sem hann þar um bidja?

9) Hví sér þú flísina auga í bródur þíns,

en að bjálkanum í þínu eigin auga gætir þú ekki? Og hvernig fær þú sagt við bróður þinn: lát mig taka flísina úr auga þér, og sjá, bjálki er í þínu eigin auga? Þú hræsnari, drag fyrst bjálkann úr þínu eigin auga, og sjá, svo til, að þú fáir dregið flísina úr auga bróður þíns.

10) Gángið um hið þraungva hlið. Því að það hlið er vítt, og sá vegur er breiður, sem leiðir til glötunar, og þeir eru margir, sem hann gánga. En það hlið er þraungt, og sá vegur er mjór, sem til lífsins leiðir, og þeir eru fáir, sem hann rata. Ekki allir, sem til mín segja: Drottinn, Drottinn, munu koma í himnaríki, heldur þeir einir, sem gjøra vilja míns himneska føður. Það er ekki gott tré, sem ber slæman ávørt, og ekki heldur er það slæmt tré, sem ber góðan ávøxt. Sérhvert tré þekkist á áverti þess; því að ekki verða fíkjur lesnar af þyrnum, eða vínber af þistlum. Góður maður fram ber gott úr góðum sjóð síns hjarta, og vondur maður vont úr vondum sjóð síns hjarta. Og munnurinn mælir það, sem hjartað hefur nægst af.

11) Þess vegna vil eg líkja þeim, sem heyrir þessa mína kenningu, og breytir eptir henni, við hygginn mann, sem bygði hús sitt á bjargi.

Þegar steypiregn kom og vatnsflód, og stormar risu og buldu á húsinu, þá hrundi það samt eigi, af því að það var bygt á bjargi. Aptur á móti er sá, sem heyrir þessa mína kenningu, og breytir ekki eptir henni, líkur heimskum manni, sem bygði hús sitt á sandi. Þegar steypiregn kom og vatnsflód, og stormar risu og dundu á húsinu, þá hrundi það, og hrun þess varð mikið.

Hver eyru hefur að heyra, hann heyri.

## 8. Kraptaverk Jesú.

1) Eptir þetta fór Jesús með lærisveinum sínum til Kapernaum, og þjón hundraðshøfðingja nokkurs, sem honum var næsta kær, lá dandveikur. En þegar hann heyrði um Jesús, sendi hann til hans øldúnga Gyðinga, og bað hann koma til sín, og lækna þjón sinn. Þeir komu til Jesú, og beiddu hann mjøg alúðlega, og søgðu: hann er þess verður, að þú veitir honum þetta, því að hann elskar þjóð vora, og hefur bygt handa oss samkunduhús vort. Jesús fór þá með þeim. En er þeir voru skamt frá húsinu, kom hundraðshøfðinginn í móti honum, og sagði: ómaka þig ekki, herra, eg er ekki þess verðugur, að þú komir undir mitt þak. Því hefi eg ekki heldur álitið sjálfan mig verðugan, að koma til þín; heldur

mæl þú eitt orð, og þá mun þjón minn heill verða. Því að eg er líka maður, yfirvaldinu undirgefinn, og hefi undir mér hermenn, og ef eg segi við þennan: far, þá fer hann, og við hinn: kom, þá kemur hann, og við þræl minn: gjør þetta, þá gjørir hann það. Þegar Jesús heyrði þetta, furðaði hann á þessum manni, snerist að þeim, sem með honum voru, og mælti: sannlega segi eg yður: slíka trú hefi eg ekki fundið meðal Gyðinga. En eg segi yður, að margir munu koma frá austri og vestri, og sitja til borðs með Abraham, Ísak og Jacob í ríki himnanna. Og Jesús sagði við hundraðshøfðingjann: far þú; verði þér eptir trú þinni. Og þjón hans varð heill á hinni sømu stundu.

2) Og það skeði eptir þetta, að hann fór til þeirrar borgar, sem Nain heitir, og margir af lærisveinum hans með honum, og mikill fjøldi annars fólks. En er hann kom að borgarhliðinu, var borinn út dauður maður, einka-sonur móður sinnar, og hún var ekkja; fjøldi bæjarmanna fylgdi henni. Þegar Drottinn sá hana, aumkvaðist hann yfir hana, og sagði við hana: grát ekki. Og hann gekk þar að, hrærði við líkbørunum; en þeir, sem báru, stóðu við. Og hann sagði: eg býð þér, úngi maður, rís þú upp. Hinn

daudi settist þá upp, og tók ad mæla. Og hann gaf hann aptur módur sinni. Og þeir urdu allir óttaslegnir, lofudu Gud, og sögdu: spámadur mikill er medal vor upprisinn, og Gud hefur vitjad síns lýds. Og þessi saga barst út um alt Gydíngaland.

3) Eptir þetta steig Jesús á skip, og lærisveinar hans med honum, og hann fór yfir um Galileuvatnid. Og sjá, þá gjordi vedur svo mikid, ad bylgjurnar geingu yfir skipid, svo ad lá vid ad fylti, og hann var í skutnum og svaf. Lærisveinar hans vöktu hann þá og sögdu: meistari, hirdir þu ekki um þad, ad vér tortýnumst? Hann reis þá upp, hastadi á vindinn, og sagdi vid sjóinn: þegi þú og vert kyrr. Þá lægdi vedrid, og þad vard blídalogn. Og hann sagdi vid þá: hví erud þér svo hræddir, þér trúarveikir? En þeir undrudust og sögdu hver vid annan: hvílíkur er þessi, ad bædi vindur og sjór hlýda honum?

4) Og er Jesús var kominn yfir um aptur á skipinu, safnadist ad honum mikill mannfjöldi, og hann var staddur vid sjóinn. Og sjá, þá kom til hans einn af samkunduhöfdingjunum, er hét Jairus; og er hann sá Jesúm, féll hann til fóta honum, bad hann mjög innilega, og sagdi: dóttir min er ad fram komin, kom og legg hend-

ur þinar yfir hana, svo ad henni batni, og hún lifi. Og hann fór med honum, og mikill múgur manns fylgdi honum, og þyrptist ad honum. — Og sjá, þar var kona nokkur, sem hafdi verid sjúk í tólf ár, og hafdi mikid þolad af mørgum læknum, og kostad til þess aleigu sinni, og hafdi henni þó ekki batnad, heldur þýngt æ meir og meir. Hún kom ad baki honum, og snerti fald klæda hans: því ad hún sagdi med sjálfri sér: ef eg ad eins fæ snert klædnad hans, þá mun mér batna. Og hún fann þegar á sér, ad hún var ordin heil meina sinna. Jesús sneri sér þá vid og sagdi: hver snerti vid klædum mínum? Lærisveinarnir søgdu: þú sérd, ad mannfjøldinn þreyngir ad þér, og þó segir þú: hver snerti vid mér? En konan var hrædd og skjálfandi, því ad hún vissi, hvad vid sig hafdi fram farid, kom og féll fram fyrir hann, og sagdi alt hid sanna. Þá mælti hann: dóttir, trú þín hefur hjálpad þér; far í fridi, og vert heil sjúkleika þíns. — En er hann var þetta ad mæla, komu menn frá heimili samkunduhøfdingjans, og søgdu: dóttir þín er dáin; hví viltu ómaka framar meistarann? Þegar Jesús heyrdi þessa fregn, mælti hann vid samkunduhøfdingjann: óttast ekki; trú þú einúngis. Og hann leyfdi eingum ad fylgja

sér, nema Pétri, Jakobi, og Jóhannesi, bródur Jakobs. Og þegar hann kom í hús samkundu-høfdíngjans, og sá þar pípara og þys fólksins, og þá er grétu og æptu, sagdi hann vid þá: hvi harmid þér og grátid? Stúlkan er ekki daud, heldur sefur hún. En þeir gjørdu gis ad honum. Hann baud þá øllum ad fara út, og tók med sér fødur og módur stúlkunnar, og þá sem med honum voru, og gekk inn þángad, sem stúlkan var. Og hann tók í høud hennar, og mælti: talíta kúmi, þad þýdir: stúlka, eg segi þér, rís þú upp! Og jafuskjótt reis stúlkan upp og gekk. En hún var tólf ára ad aldri. Og þeir undrudust næsta.

5) Þegar Jesús fór þadan, fylgdu honum tveir blindir menn, sem hrópudu og søgdu: sonur Davíds, miskuna þú oss. Jesús sagdi vid þá: trúid þid, ad eg geti þetta gjort? Þeir søgdu: já, herra. Þá snart hann augu þeirra, og mælti: verdi ykkur ad trú ykkar. Og augu þeira opnudust.

## 9. Hin samverska kona.

Þegar Jesús eitt sinn ferdadist um Samaríu, kom hann ad borg þeirri, sem heitir Sikkar, nálægt brunni Jakobs. Og er Jesús, sem var vegmódur, settist nidur vid brunninn, en þad var

um sjøttu stundu, (þ. e. hádegi), kom þar kona nokkur samversk, til ad ausa vatn. Jesús sagdi vid hana: gef mér ad drekka, þvi ad lærisveinar hans voru farnir inn í borgina, ad kaupa mat. Hin samverska kona sagdi vid hann: hvernig stendur á því, ad þú, sem ert Gydingur, bidur mig, konu samverska, ad gefa þér ad drekka? (Því ad Gydingar hafa ekki nein vidskipti vid samverska menn.) Jesús svaradi og sagdi vid hana: ef þú þektir Guds gjøf, og hver þad er, sem segir vid þig: gef mér ad drekka, þá mundir þú bidja hann, og hann mundi gefa þér lifandi vatn. Þá sagdi konan vid hann: þú hefir ekkert ad ausa med, og djúpt er nidur í brunninn; hvadan hefir þú þá lifandi vatn? Ertu meiri fødur vorum Jakob, sem gaf oss þennan brunn, og drakk sjálfur af honum, og børn hans og fénadur? Jesus svaradi henni og sagdi: þann þyrstir aptur, sem drekkur af þessu vatni; en hver, sem drekkur af því vatni, sem eg gef honum, hann mun ekki þyrsta ad eilifu; heldur mun þad vatn, sem eg mun gefa honum, verda í honum ad lind, sem upp sprettur til eilífs lífs. Hún sagdi: herra, gef mér þetta vatn, svo ad mig þyrsti ekki. Fedur vorir hafa tilbedid á þessu fjalli; en þér segid, ad Jerúsalem sé stadurinn,

þar sem eigi ad tilbidja. Seg mér, hvad rétt er, því ad eg sé, ad þú ert spámadur. Jesús svaradi henni og sagdi: kona, trú þú mér, sá tími kemur, ad þér hvorki munud tilbidja fødurinn á þessu fjalli, né í Jerúsalem. Sá tími kemur, og er nú þegar kominn, ad sannir tilbidjendur munu tilbidja fødurinn í anda og sannleika. Gud er andi, og þeir, sem hann tilbidja, eiga ad tilbidja hann í anda og sannleika. Konan sagdi vid hann: eg veit, ad Messías kemur, sem kallast Kristur; og þegar hann kemur, mun hann kunngjøra oss alla hluti. Jesús sagdi vid hana: eg, sem tala vid þig, er þad. Þá skildi konan eptir vatnsføtu sína, hljóp inn í borgina, og sagdi fólkinu: komid, ad sjá mann, sem hefir sagt mér lífsins ord; mundi þessi ekki vera Kristur? Rétt í þessu komu lærisveinar hans, bádu hann, og søgdu: meistari, et þú. Hann svaradi: eg hefi þá fædu ad eta, sem þér vitid ekki. Þá søgdu lærisveinarnir hver vid annan: ætla nokkur hafi fært honum mat? Jesús sagdi vid þá: minn matur er, ad gjøra vilja þess, sem mig sendi, og ad leysa af hendi hans verk. Þegar nú Samverjar komu til hans, beiddu þeir hann ad vera hjá sér; og hann var hjá þeim tvo daga, og

kendi þeim. Og margir trúdu fyrir hans ord, og sögdu vid konuna: vér trúum nú ekki framar fyrir þín ord; þvi ad vér höfum sjálfir heyrt, og vitum, ad þessi er sannarlega Kristur, heimsins frelsari.

## 10. Hvíldardagurinn.

Og þad bar vid einhverju sinni eptir þetta, ad Jesús fór á hvíldardegi yfir sádlönd nokkur; og er lærisveina hans sveingdi, tóku þeir ad tína kornöx, neru þau med höndum, og átu. Þegar Farísearnir sáu þad, sögdu þeir vid hann: sjá, lærisveinar þínir gjöra þad, sem ekki leyfist á hvíldardegi. Jesús mælti: hafid þér ekki lesid, hvad Davíd gjördi, þegar hann var matþurfi, og menn hans? Ad hann gekk inn i Guds hús, og neytti skodunarbraudanna, sem hvorki hann, né fylgdarmenn hans, og einginn nema prestarnir einir, máttu eta. Eda hafid þér ekki lesid i lögmálsbókinni, hversu prestarnir vanhelga hvíldardaginn i musterinu á hvíldardögum, og eru þó sýknir saka? En eg segi ydur, ad hér er sá, sem meiri er en musterid; og mannsins sonur er líka herra hvíldardagsins. Hvíldardagurinn er til mannsins vegna, en madurinn ekki vegna hvíldardagsins. Ef þér þvi vissud, hvad þad

þýdir: mannelska er mér þekkari en fórnir, þá mundud þér ekki hafa áfelzt þessa, sem eru saklausir. — Og hann fór þadan, og kom í samkundur þeirra; og sjá, þar var madur nokkur, sem hafdi visna hönd. Þeir spurdu hann og sögdu: er leyfilegt ad lækna á hvíldardegi? svo ad þeir gætu áklagad hann. Hann sagdi vid þá: er nokkur sá á medal ydar, ef hann á saud, sem dettur í pytt á hvíldardegi, ad hann ekki taki hann jafnskjótt og dragi upp? Hve miklu ædri er þó madurinn en sauðurinn. Og hann spurdi þá enn fremur: hvort er sæmra á hvíldardögum, ad gjöra gott eda ilt, ad gefa líf eda svipta því? En þeir þögdu. Þá litadist hann um med reidisvip, og vard hryggur yfir hardúd þeirra; og hann sagdi vid manninn: réttu fram hönd þína. Og hann rétti hana fram, og hún vard heil, sem hin. Þá geingu Fariséar út, og báru þegar saman rád sín á móti honum vid menn Heródesar konúngs, hvernig þeir feingju rádid hann af dögum. En Jesús fór þadan ásamt lærisveinum sínum til sjóar, og margt fólk med honum.

## 11. Dæmisögur.

Og hann tók aptur til ad kenna vid sjóinn; dreif þá til hans svo mikill fjöldi fólks, ad hann

steig á skip, og settist þar, en alt fólkid stód vid sjóinn. Og hann kendi þeim margt í dæmisögum, og sagdi:

1) Sádmadur nokkur gekk út ad sá; en þegar hann var ad sá, féll sumt vid veginn, og var fótum trodid, og fuglar komu, og átu þad. Sumt féll í grýtta jørd, þar sem þad hafdi litinn jardveg; en þegar sól hækkadi á lopti, skrælnadi þad, og visnadi, af því ad þad hafdi ekki nægar rætur. Sumt féll medal þyrna, og þyrnarnir uxu upp, og kæfou þad, svo þad bar eingan ávørt. En sumt féll í góda jørd, og bar ávørt, sumt hundradfaldan, sumt sextugfaldan, og sumt þritugfaldan. Hver eyru hefir ad heyra, hann heyri. — Og lærisveinarnir geingu til hans, og søgdu: hver er þessi dæmisaga? Hann svaradi þeim og sagdi: ef þér skiljid ekki þessa dæmisøgu, hvernig getid þér þá skilid allar adrar? En þessi er dæmisagan: sædid er Guds ord; sádmadurinn, sá sem ordinn sáir. Sædid, sem vid veginn var sád, er þad, þegar einhver heyrir ordid, og skilur þad ekki; þá kemur þegar hinn vondi, og tekur burt ordid, sem sád var í hjarta hans. En þad sem í grýtta jord féll, er þad, þegar einhver heyrir ordid, og veitir því þegar vidtoku med fognudi; en þad hefur ekki vidnám hjá honum,

nema um stundar sakir; á freistingartímanum fellur hann frá. En það, sem sáð var medal þyrna, er það, þegar einhver að vísu heyrir orðið, en umhyggja fyrir þessu lífi, táldrægni auðæfanna, og margar aðrar girndir koma til, og kefja orðið, svo það ber eingan ávöxt. En það, sem féll í góða jörð, er það, þegar einhver heyrir orðið, og skilur það, og geymir það í góðu og siðsömu hjarta, og ber ávöxt, sumir hundraðfaldan, sumir sextugfaldan, sumir þrítugfaldan.

2) Aðra dæmisögu sagði hann þeim, sem svo hljóðar: Guðs ríki er líkt mustarðskorni, sem maður nokkur tók, og sáði í akur sinn. Það er minst allra sáðkorna; en þegar það vex, verður það hverju kálgresi meira, og fær stórar greinir, svo að fuglar himins koma, og leita sér skýlis í greinum þess.

3) Þriðju dæmisögu sagði hann þeim: Guðs ríki er líkt fólgnum fjársjóð á akri, sem maður nokkur fann, og leyndi; en af gleði yfir fjársjóðnum fór hann burt, seldi alt, sem hann átti, og keypti akurinn.

4) Og enn er Guðs ríki líkt því, þegar maður nokkur sáði góðu sæði í akur sinn. En þegar menn sváfu, kom óvinur hans, og sáði

illgresi medal hveitisins, og gekk á burt. Þegar nú sædid óx, og bar ávøxt, þá kom illgresid líka í ljós. Þá geingu þjónarnir til húsbóndans, og søgdu: herra, sádir þú ekki gódu sædi í akur þinn? Hvadan hefir hann þá illgresid? Hann mælti: þad hefir óvinurinn gjørt. Þá søgdu þjónarnir: viltu ekki, ad vér førum og upp rætum þad? Hann sagdi: nei, svo ad þér ekki rifid hveitid líka upp, þegar þér rætid upp illgresid. Látid hvorttveggja vaxa saman til kornskerunnar og þegar kornskerutíminn kemur, vil eg segja kornskerumønnunum: safnid fyrst saman illgresinu, og bindid þad í vøndla, til ad brennast, en safnid hveitinu í kornhlødu mína.

5) Og enn er því varid med Guds ríki eins og þegar einhver kastar sædi í jørd, og fer, og sefur og vakir, nætur og daga, en sædid vex og dafnar, án þess hann viti þad. Því jørdin ber sjálfkrafa fyrst kornstaung, því næst ax, og seinast fullvarid korn í axinu. En þegar ávøxturinn er fullvarinn, lætur han slá kornid; því ad kornskurdartíminn er þá fyrir hendi.

Í mørgum þess konar dæmisøgum fram setti Jesús kenningu sína fyrir fólkinu, eins og bezt átti vid skilning þeirra. Sídan, þegar hann var einn, lagdi hann alt út fyrir lærisveinum sínum.

Og þad skedi, þegar Jesús hafdi lokid þessum dæmisøgum, ad hann fór þadan, kom til ættjardar sinnar, og kendi þeim í samkundum þeirra, svo ad þeir undrudust, og sogdu: hvadan hefir þessi slíka speki og mátt? Er hann ekki sonur trésmidsins? Heitir ekki módir hans María? Og brædur hans Jakøb og Jóses, Simon og Júdas? Og systur hans, eru þær ekki hér hjá oss? Hvadan hefir hann þá alt þetta? Og þeir hneyxludust á honum. En Jesús sagdi vid þá: spámadur er hvergi minna metinn, en á fósturjørdu sinni og medal ættingja sinna. Og hann gjørdi þar fá kraptaverk, sokum vantrúar þeirra.

## 12. Daudi Jóhannesar skírara.

En Jóhannes skírari sat enn nú í myrkvastofu; og Heródíadi, konu Heródesar, var illa til hans, og vildi ráda hann af døgum, því ad hann hafdi ávitad hana, og áminnt fyrir hennar illu breytni. En Heródes virti Jóhannes, því ad hann vissi, ad hann var réttlátur og helgur madur, og verndadi hann, og gjørdi margt ad rádum hans, og heyrdi hann gjarnan. Hann þordi þad ekki heldur sakir alþýdunnar, því ad þeir héldu, ad hann væri spámadur. En er fædingar-

dagur Heródesar kom, gjørdi hann veizlu gæd-ingum sínum, høfudsmønnum, og hinum helztu í Galileu. Þá kom dóttir Heródíadis inn, og dansadi, svo ad Heródesi og þeim, sem bodnir voru, líkadi þad vel. Þá sagdi konúngurinn vid stúlkuna: bid mig hvers, sem þú vilt, og eg mun veita þér þad. Og hann lofadi henni med eidi: hvers þú beidist af mér, þá mun eg veita þér þad, alt ad helmíngi ríkis míns. En hún gekk út, og sagdi vid módur sína: um hvad skal eg bidja? Hún mælti: um høfud Jóhannesar skír-ara. Og hún gekk inn med skyndi til konúngs-ins, bad og sagdi: eg vil ad þú gefir mér þegar høfud Jóhannesar skírara á diski. Vid þetta vard konúngurinn hryggur; en vegna eidsins og þeirra, sem bodnir voru, vildi hann ekki synja henni þess. Og hann sendi, og lét afhøfda hann í myrkvastofunni, og madurinn kom med høfudid á diski, og færdi meyunni, en hún færdi módur sinni. Þegar lærisveinar hans heyrdu þad, komu þeir, tóku lík hans, og greftrudu þad.

## 13. Ný dásemdarverk Jesú vid Galileuvatnid.

Og Heródes fjórdúngshøfdingja barst líka til eyrna, þad sem Jesús gjørdi; og hann sagdi: Jóhannes skírari er endurlifnadur, þess vegna

gjørir hann slík kraptaverk. En adrir søgdu: hann er Elías. Sumir: einn af hinum gømlu spámønnum er upp risinn. En Heródes sagdi: þad er Jóhannes, sem eg hefi látid hálshøggva, hann er frá daudum upp risinn, og hann lángadi til ad sjá hann. — En er Jesús heyrdi þad, fór hann þadan á skipi, og til eydibygda. Og er fólkid heyrdi þad, fylgdi þad honum eptir fótgángandi úr borgunum, og kom til hans. Og er hann sté á land, og sá hinn mikla mannfjølda, kendi hann í brjósti um þá; þvi ad þeir voru sem saudir, sem eingan hirdi hafa; og hann taladi leingi vid þá um Guds ríki. En er nú var mjøg álidid dags, geingu lærisveinar hans til hans, og søgdu: hér er eydistadur, og framordid dags, sleptu þeim því, svo ad þeir fari í bygdina og þorpin hér um kring, og kaupi sér vistir; því ad þeir hafa ekkert til matar. Jesús mælti: gefid þér þeim ad eta. Þeir svørudu: vér høfum hér ekkert, nema fimm braud og tvo fiska, og þeir eru hér um bil fimm þúsundir. Hann sagdi þá vid lærisveina sína: látid þá setjast nidur í grasid í flokkum, fimmtíu í hvern hóp. Og þeir gjørdu svo, og settust allir í grasid. Þá tók hann hin fimm braud og tvo fiska, leit upp til himins, gjørdi Gudi þakkir, braut þau, og fékk

þan lærisveinunum, að þeir legðu þau fyrir fólkið. Og þeir neyttu allir og urðu mettir, og tóku upp, það sem afgángs varð af brauðunum, tólf karfir fullar. — Þegar nú Jesús varð þess var, að þeir ætluðu að koma, og með valdi gjøra hann að konúngi, bauð hann lærisveinum sínum, að stiga þegar á skip, og fara yfir um á undan sér; en sjálfur fór hann einn saman upp á fjallið, til að biðjast fyrir. Og er kvøld var komið, var hann þar einn, en skipið var komið næstum á mitt vatnið, og lá undir áføllum; gekk róðurinn mjøg ørðugt, því að andviðri var. En á fjórða næturverði, kom Jesús til þeirra gángandi á sjónum. Og er lærisveinarnir sáu hann gánga á sjónum, urðu þeir hræddir, og søgðu: það er vofa; og æptu af hræðslu. En Jesús varpaði þegar orðum á þá, og mælti: verið hughraustir, eg er það; óttist ekki. En Pétur svaraði honum og sagði: ef þú ert það, herra, þá seg, að eg komi til þín á vatninn. Jesús mælti: kom þú. Þá fór Pétur úr skipinu, og gekk á vatninu til að koma til Jesú. En er hann sá hinn mikla storm, hræddist hann og tók að søkkva, kallaði og sagði: herra, hjálpa mér. Þá rétti Jesús út hønd sína, tók til hans og sagði: ó þú trúarlitli, því efast þú? Og er þeir stigu

á skipid, lægdi vedrid. En þeir, sem á skipinn voru, komu og féllu fram fyrir honum á ásjónur sínar. Og þeir fóru yfir um, og komu í Genesaretsland. En er þeir, sem þar bjuggu, urdu hans varir, sendu þeir í alla bygdina umhverfis, og færdu til hans alla, sem sjúkir voru, og beiddu ad hann vildi leyfa þeim ad eins ad snerta fald klæda sinna. Og allir, sem hann snertu, urdu heilbrigdir.

## 14. Trú Péturs.

Jesus spurdi lærisveina sína, og sagdi vid þá: hver segja menn eg sé? Þeir svörudu: sumir, ad þú sért Jóhannes skírari; adrir, ad þú sért Elías; og enn adrir, ad þú sért einn af spámönnunum. Hann sagdi vid þá: en hver haldid þér eg sé? Símon Pétur svaradi og sagdi: þú ert Kristur, sonur hins lifanda Guds. Jesús mælti: sæll ert þú, Símon, því ad hold og blód hafa ekki auglýst þér þetta, heldur fadir minn á himnum. Og Jesús spurdi þá enn fremur: ætlid þér líka ad yfirgefa mig, eins og svo margir hafa yfirgefid mig? Þá svaradi Símon Pétur: herra, til hvers eigum vér ad fara? þú hefir ord hins eilífa lífsins. Eptir þetta tók Jesús ad segja lærisvein-

um sínum, ad sér bæri ad fara upp til Jerúsalem, lída þar margt af øldúngunum, prestahøfdingjunum og hinum skriptlærdu, líflátinn ad verda, og upp rísa á þridja degi. Og hann sagdi vid lærisveina sína: hver, sem vill fylgja mér, hann afneiti sjálfum sér, taki sinn kross upp á sig, og fylgi mér eptir. Því ad hver, sem hyggur ad forda lífi sínu, mun týna því; en hver, sem hættir því mín vegna, hann mun fá því borgid. Hvad gagnar þad manninum, þótt hann eignist allan heiminn, ef hann lídur tjón á sálu sinni? Eda hvad getur madurinn gefid til lausnar sálu sinni? Því mannsins sonur mun koma í dýrd fødur síns, med einglum sínum, og þá mun hann gjalda sérhverjum eptir hans verkum.

## 15. Ummyndanin.

Ad sex døgum lidnum tók Jesús med sér Pétur, Jakob og Jóhannes, og fór med þeim einum upp á hátt fjall; og er hann beiddist fyrir, ummyndadist hann ad þeim ásjáandi, og ásýnd hans skein sem sól, og klædi hans urdu ljómandi og bjørt sem ljós. Og sjá, þá birtust þeim í ljóma Móses og Elías, sem tøludu vid hann um hans tilkomandi líflát í Jerúsalem. En Pétur sagdi vid Jesúm: meistari, hér er gott ad

vera; ef þú vilt, þá viljum vér reisa hér þrjár tialdbúdir, þér eina, Mósi eina og Eliasi eina. En hann vissi ekki, hvad hann sagdi, þvi ad felmtur var yfir þá kominn. Og er hann var ad tala þetta, þá skygdi ský yfir þá, og rödd úr skýinu sagdi: þessi er sonur minn elskulegur, á hverjum eg hefi velþóknan; hlýdid þér honum. En er lærisveinarnir heyrdu þetta, urdu þeir mjøg hræddir, og félln á ásjónur sínar. Þá gekk Jesús til þeirra, snart vid þeim, og mælti: standid upp, og verid óhræddir. En er þeir litu upp, sáu þeir eingan, nema Jesúm einan. Og er þeir geingu ofan af fjallinu, baud Jesús þeim, og sagdi: þér skulud eingum segja sýn þessa, fyr en mannsins sonur er upp risinn frá daudum.

## 16. Um audmýkt, hneyxlan og sáttgirni.

1) Og hann kom til Kapernaum. Og þegar hann kom til herbergis síns, spurdi hann lærisveina sína: hvad vorud þér ad tala um ydar í milli á veginum? En þeir þøgdu; því ad þeir høfdu verid ad tala um á veginum, hver þeirra væri mestur. En er Jesús sá þeirra hjartans hugsanir, kalladi hann barn til sín, setti þad mitt á medal þeirra, fadmadi þad, og mælti: sannlega segi eg ydur, nema þér takid sinnaskipti

og verdid børnum líkir, munud þér ekki koma í Guds ríki. Hver ydar, sem vill vera mestur, hann veri lægstur allra; og hver, sem er litilátur eins og þetta barn, hann er mestur í Guds ríki. Og hver, sem medtekur þvílíkt barn mín vegna, hann medtekur mig.

2) Gætid ydar, ad þér ekki fyrirlítid nokkurn af þessum smælingjum. Því ad eg segi ydur, einglar þeirra á himnum sjá ávalt auglit míns himneska fødur. — Ef nokkur hneyxlar einhvern af þessum smælingjum, honum væri þad betra, ad mylnusteinn væri heingdur um háls honum, og honum væri søkt í sjáfardjúp. — Vei heiminum vegna hans hneyxlana! Þó getur ekki hjá því farid, ad hneyxlanir komi; en vei þeim manni, sem hneyxlinu veldur. — Ef hønd þín eda fótur hneyxlar þig, þá høgg hann af; því ad betra er þér høltum og handarvana ad inn gánga til lífsins, en ad þú hafir tvær hendur og tvo fætur, og þér verdi kastad í eilífan eld. Og ef auga þitt hneyxlar þig, þá sting þad út, og snara því frá þér; því ad betra er þér eineygdum ad inn gánga til lífsins, en ad þú hafir bædi augu þín og komir í eilífa gløtun.

3) Þér eigid líka sáttgjarnir ad vera,

og fyrirgefa bræðrum ydar, sem brjóta imóti ydur. Ef bródir þinn brýtur á móti þér, þá far og vanda um vid hann heimuglega. Ef hann hlýdir þér, þá hefir þú unnid bródur þinn. Þá gekk Pétur til hans, og mælti: herra, hve opt á eg ad fyrirgefa bródur mínum, sem brýtur í móti mér? Er ekki nóg sjo sinnum? Jesús svaradi: eg segi þér, ekki sjø sinnum, heldur sjøtíu sinnum sjø sinnum. Þess vegna er Guds ríki líkt konúngi einum, sem vildi halda reikning vid þjóna sína. Og er hann tók til ad reikna, kom einn fyrir hann, sem var skyldugur honum um tíu þúsundir punda. En þar ed hann hafdi ekkert til ad borga med, baud herra hans ad selja hann, konu hans og børn, og alt, sem hann átti. Þá féll þjóninn til fóta hans, og bad: herra, haf þolinmædi vid mig, alt skal eg gjalda þér. Þá aumkadist herrann yfir þennan þjón, lét hann lausan, og gaf honum upp alla skuldina. En er hann fór út, hitti hann einn af samþjónum sínum, sem honum var skyldugur um hundrad peninga; og hann tók hann høndum, greip fyrir kverkar honum, og mælti: gjald mér þad, sem þú ert mér skyldugur. Þá féll samþjón hans fram, bad hann og sagdi: haf þolinmædi vid mig, alt skal eg gjalda þér. En hann vildi

ekki, heldur fór, og setti hann í myrkvastofu, uns hann hafdi borgad, þad sem hann var skyldugur. En er samþjónar hans sáu þetta, urdu þeir mjøg hryggvir, fóru, og søgdu herra sínum alt, hvad gjørzt hafdi. Þá lét herra hans kalla hann fyrir sig, og mælti: þú illur þjón, alla þína skuld gaf eg þér upp, af því þú badst mig; hvort bar þér þá ekki líka, ad vera miskunsamur vid þinn samþjón, eins og eg var þér miskunsamur? Og herra hans vard reidur, og ofurseldi hann kvølurunum, uns hann hafdi goldid alt þad, sem hann var skyldugur. Þannig mun og minn himneski fadir breyta vid ydur, ef hver og einn ydar ekki fyrirgefur af hjarta bródur sínum hans misgjørdir.

### 17. Hinn týndi sonur.

En allir tollheimtumenn og bersyndugir komu til Jesú, ad heyra hann. Og Farisearnir og hinir skriptlærdu ómudust vid því, og søgdu: þessi medtekur bersynduga, og etur med þeim. — Hann sagdi þeim þá þessa dæmisøgu: hver er sá af ydur, sem hefur hundrad saudi, og glatar einum af þeim, ad hann ekki yfirgefi hina níu og níutín á eydimørku, og fari eptir þeim, sem glatadist, þángad til hann finnur hann? Og þegar hann hefir hann fundid, leggur hann hinn

sama með gleði á herðar sér, og þegar hann kemur heim, kallar saman vini sína og nágranna, og segir við þá: samgleðjist með mér, því að eg hefi sauð minn aptur fundið, þann er glataður var. Eg segi yður: að líka svo mun fögnuður verða á himnum yfir einum syndugum, sem yfirbót gjörir. — Og hann sagði enn fremur þessa dæmisögu: maður nokkur átti tvo sonu. Hinn yngri þeirra sagði við föður sinn: fá mér, faðir, þann hluta fjárins, sem mér ber. Og hann skipti fénu milli þeirra. Skömmu síðar tók hinn yngri alt sitt, fór í fjarlægt land, og sóaði því þar í óhófsömum lifnaði. Þegar hann þá hafði eytt öllum eigum sínum, kom mikið hallæri í öllu því landi, og hann tók að líða nauð; fór hann þá og hélt sig til eins borgarmanns, sem sendi hann út á bú sitt, að gæta svína. Og hann girntist að seðja sig af drafi því, sem svínin átu, og einginn gaf honum það. Þá sá hann að sér, og sagði: hve marga daglaunamenn heldur faðir minn, sem hafa gnægð matar, en eg ferst í húngri? Eg vil taka mig upp, og fara til föður míns, og segja við hann: faðir, eg hefi syndgað í himininn og við þig, og er ekki framar verður, að heita sonur þinn; lát mig hafa árángur með einum af verkamönnum þínum. Og hann tók

sig upp, og kom til fødur síns. En er hann enn þá var lángt í burtu, sá fadir hans hann, kendi í brjósti um hann, hljóp, og féll um háls honum, og kysti hann. En sonurinn sagdi vid hann: fadir, eg hefi syndgad, og er ekki framar verdur, ad heita sonur þinn. Þá sagdi fadirinn vid þjóna sína: komid med hinn bezta klædnad, og færid hann í, dragid hring á hønd hans, og skó á fætur honum; komid med alikálf, og slátrid, og látum oss matast og vera glada. Því ad þessi sonur minn var daudur, og er lifnadur aptur; hann var týndur, og er fundinn. Og þeir tóku ad verda gladir. En hinn eldri sonur hans var á akri, og er hann kom nálægt húsinu, heyrdi hann saung og dans, kalladi einn af þjónustumønnunum til sín, og spurdi, hvad um væri ad vera? Hann sagdi: bródir þinn er kominn aptur, og fadir þinn hefir slátrad alikálfi, af því hann heimti hann heilan aptur. Þá vard hann reidur, og vildi ekki fara inn. Fadir hans fór þá út, og bad hann koma inn. Hann svaradi: sjá, í svo mørg ár hefi eg nú þjónad þér, og aldrei breytt út af bodum þínum, þó hefir þú aldrei gefid mér kidling, ad eg mætti gledjast med vinum mínum. En nú, þegar þessi sonur þinn er kominn, sem hefir sóad aleigu sinni med

skækjum, þá slátrar þú hans vegna alikálf. Hinn mælti: sonur minn, þú ert ávalt hjá mér, og alt, sem eg á, það er þitt. Nú ættir þú því að vera glaður og í góðu skapi, þar eð þessi bróðir þinn, sem var dauður, er lifnaður aptur, og hann, sem var týndur, er nú aptur fundinn.

## 18. Sá, sem blindur var fæddur.

Og Jesus sá mann, sem var blindur borinn. Lærisveinar hans spurðu hann, og sögðu: meistari, hver hefir syndgað, þessi eða foreldrar hans, að hann fæddist blindur? Jesús svaraði: hvorki syndgaði þessi né foreldrar hans, heldur er þetta orðið, svo að verk Guðs verði opinber á honum. Mér ber að vinna verk þess, sem mig sendi, meðan dagur er; þegar nóttin kemur, getur enginn unnið. Meðan eg er í heiminum, er eg ljós heimsins. Þegar hann hafði þetta sagt, hrækti hann á jörðina, gjörði leðju úr hrákanum, reið henni á augu hins blinda, og sagði við hann: far og þvo af þér í lindinni Silóam. Og hann fór, og þvoði sér, og kom heilskygn aptur. Þá sögðu nágrannarnir, og þeir, sem áður höfðu séð hann, meðan hann var blindur: er þetta ekki sá, sem sat og bað um ölmusu? En aðrir sögðu: hann er honum líkur. En hann sagði sjálfur:

eg er það. Þá sögðu þeir við hann: hvernig fékkstu sjónina? Hann svaradi og sagði: madur nokkur, sem heitir Jesús, gaf mér sjónina. Þeir leiddu hann þá til Fariseanna, og spurdu hann aptur, hvernig hann hefdi feingid sjónina? Hann svaradi eins og ádur. (En það var hvíldardagur, er Jesús bjó til ledjuna, og lauk upp augum hans.) Þá sögdu nokkrir af Fariseunum: þessi madur er ekki frá Gudi, fyrst hann heldur ekki hvíldardaginn. En adrir sögdu: hvernig getur syndugur madur gjört þvílík tákn? Og þá greindi á innbyrdis. Þeir segja þá aptur vid hinn blinda: hvad segir þú um hann, þar ed hann upp lauk augum þínum. En hann sagdi: hann er spámadur. Og Gydingar trúdu því ekki, ad hann hefdi verid blindur, fyr en þeir kölludu foreldra hans, og spurdu þá. Þeir sögdu: vid vitum, ad þessi er sonur okkar, og ad hann fæddist blindur; en hvernig hann hefur feingid sjónina, vitum vid ekki, og ekki heldur, hver hefir upp lokid augum hans. Hann er sjálfur fulltída madur, spyrjid hann sjálfan. Þetta sögdu foreldrar hans af ótta fyrir Gydingum; því ad þeir höfdu samid med sér, ad ef nokkur vidurkendi, ad hann væri Kristur, þá skyldi hann rekast úr samkundunni. Þá kölludu þeir hann aptur

fyrir, sem hafdi verid blindur, og søgdu: gef þú Gudi dýrdina. Vér vitum, ad þessi madur er syndari. Hann svaradi: hvort hann er syndari, veit eg ekki; en hitt veit eg, ad eg var blindur, og hefi nú sjónina. Þeir søgdu þá aptur: hvad gjørdi hann vid þig? Hvernig lauk hann upp augum þínum? Hann svaradi: eg hefi þegar sagt ydur þad, og þér gáfud því ekki gaum; hvers vegna viljid þér heyra þad aptur? Viljid þér og verda hans lærisveinar? Þá atyrtu þeir hann, og søgdu: þú ert hans lærisveinn, en vér erum lærisveinar Mósis. Vér vitum, ad Gud hefir talad vid Móses, en um þennan vitum vér ekki, hvadan hann er. Madurinn svaradi og sagdi vid þá: þad er undarlegt, ad þér vitid ekki hvadan hann er, þar ed hann lauk upp augum mínum. Vér vitum þó, ad Gud heyrir ekki syndara, en ef nokkur er gudrækinn, og gjørir hans vilja, þann heyrir hann. Ef þessi væri ekki frá Gudi, þá gæti hann ekki gjørt þvílík verk. Þá søgdu þeir: þú ert allur fæddur í synd, og vilt þó kenna oss? Og þeir ráku hann út. — Og Jesús heyrdi, ad þeir hefdu rekid hann út; og er hann fann hann, sagdi hann vid hann: trúir þú á son Guds? Hann svaradi: hver er þad, herra, ad eg geti trúad á hann?

Jesús sagdi: þú hefir séd hann, og hann er þad, sem talar vid þig. Hann sagdi: eg trúi, herra. Og hann féll fram fyrir honum. Jesús sagdi þá: til dóms er eg kominn í þennan heim, svo ad þeir, sem ekki sjá, verdi sjáandi, og þeir, sem sjá, verdi blindir. Þetta heyrdu nokkrir af Farísenm, og sogdu: erum vér þá líka blindir? Jesús sagdi: ef þér værud blindir, þá hefdud þér ekki synd; en nú segid þér: vér sjáum, þess vegna vid varir ydar synd.

## 19. Hinn miskunsami Sammariti.

Og þar kom skriptlærdur madur nokkur, freistadi Jesú, og sagdi: meistari, hvad skal eg gjora, svo eg eignist eilíft líf? Hann svaradi: hvad er skrifad í logmálinu? Hvernig les þú? Hinn sagdi: elska skaltu Drottinn, Gud þinn, af ollu hjarta þínu, allri sodu þinni, ollum mætti þínum, og ollu hugskoti þínu, og náúnga þinn, eins og sjálfan þig. Jesús mælti: þú svaradir rétt; gjør þad, og muntu lifa. En hinn vildi réttlæta sjálfan sig, og sagdi vid Jesúm: hver er þá minn náúngi. Jesús mælti: madur nokkur fór frá Jerúsalem ofan til Jerikó, og hrasadi medal ræningia, sem flettu hann klædum, lemstrudu

sárum, og létu hann þar eptir hálfdaudan liggja. En svo bar til, ad prestur nokkur fór ofan hinn sama veg, og er hann sá hann, gekk hann þar fram hjá. Hid sama gjørdi og Levítinn; því ad þegar hann kom nærri þeim stad, og sá hann, gekk hann þar fram hjá. En samverskur madur nokkur fór og um farinn veg, og er hann kom þar ad, og sá hann, kendi hann í brjósti um hann, gekk til hans, batt um sár hans, helti í þau vidsmjøri og víni, lagdi hann upp á eyk sinn, flutti til gestgjafahúss, gaf einnig gætur ad honum. Daginn eptir, er hann hélt áfram ferd sinni, tók hann upp tvo peninga, fékk þá gestgjafanum, og mælti: hjúkra honum, og þad, sem þú kostar meiru til, skal eg borga þér, þegar eg kem aptur. Hver af þessum þremur sýnist þér vera náúngi þess, sem hrasadur var á medal ræningja? Hann sagdi: sá, sem gjørdi miskunarverkid á honum. Jesús mælti: far þú, og gjør slíkt hid sama.

## 20. Maria, Marta og Lazarus.

Og þad bar svo vid, þegar þeir voru á ferd, ad hann kom í þorp nokkurt, sem hét Betanía. Þar var kona, ad nafni Marta, sem veitti honum gistingu. Hún átti systur, sem hét Mar-

ía, er sat vid fætur Jesú, og hlýddi á kenningu hans. En Marta hafdi mikil umsvif, med ad sjá þeim fyrir beina; og hún gekk til hans, og sagdi: hirdir þú ekki um þad, herra, ad systir mín lætur mig gánga eina um beina? Seg þú henni, ad hjálpa mér. Jesús svaradi: Marta, Marta, þú hefir mikla áhyggju og umsvif fyrir mørgu; en á einu ridur mest. Maria hefir valid sér hid góda hlutskiptid, sem ekki mun verda frá henni tekid. — En ad nokkrum tíma lidnum, þegar hann var farinn frá þeim, lá Lazarus, bródir Mørtu og Maríu, veikur, og systur hans sendu til Jesú, og létu segja honum: herra, sá, sem þú elskar, er veikur. Þegar Jesús heyrdi þad, sagdi hann: þessi sótt er ekki til dauda, heldur Gudi til dýrdar, svo ad sonur Guds vegsamist fyrir hana. Lazarus, vinur vor, sefur, en eg fer nú, til ad vekja hann. (En Jesús elskadi Mørtu, og systur hennar, og Lazarus). Þá søgdu lærisveinar hans: herra, ef hann sefur, mun honum batna. En Jesús taladi um dauda hans, en þeir héldu, hann taladi um náttúrlegan svefn. Þá sagdi Jesús þeim berlega: Lazarus er dáinn. Og þad gledur mig ydar vegna, svo ad þér trúid. En førum nú til hans. Þá sagdi Tómas vid lærisveinana: vér

skulum fara líka, svo ad vér deyum med honum. Því þeir héldu, ad Gydíngar mundu deyda hann, ef hann kæmi til Júdeu. En er Jesús kom til Betaníu, hafdi Lazarus þegar legid fjóra daga í grøfinni. Og margir Gydíngar voru komnir til Mørtu og Maríu, til ad hugga þær eptir bródur þeirra. En Betanía var nálægt Jerúsalem, hér um bil fimmtán skeidrúm þadan. Þegar Marta nú heyrdi, ad Jesús kæmi, fór hún móti honum; en María sat heima í húsinu. Þá sagdi Marta vid Jesúm: herra, ef þú hefdir verid hér, væri bródir minn ekki dáinn. En eg veit líka, ad Gud muni veita þér, hvad sem þú bidur hann um. Jesús sagdi til hennar: bródir þinn mun upp rísa. Marta svaradi: eg veit, ad hann mun upp rísa í upprisunni á efsta degi. Jesús sagdi: eg em upprisan og lífid, hver sem á mig trúir, hann mun lifa, þótt hann deyi. Og hver, sem lifir og trúir á mig, hann mun aldrei deya ad eilífu. Trúir þú þessu? Hún sagdi: já, herra, eg trúi því, ad þú sért Kristur, sá sonur Guds, sem í heiminn á ad koma. Og þegar hún hafdi þetta sagt, fór hún, og kalladi hljódlega á Maríu systur sína, og sagdi: meistarinn er hér, og vill finna þig. Þegar María heyrdi þad, stód hún upp

með skyndi, og kom til hans; því að Jesús var enn nú ekki kominn til þorpsins. En er Gyðingarnir, sem voru í húsinu hjá henni, sáu, að hún stóð upp í skyndi og gekk út, fóru þeir eptir henni og sögðu: hún fer út að gröfinni, til að gráta þar. Þegar nú María kom þángað, sem Jesús var, og sá hann, féll hún til fóta honum, og sagði: herra, ef þú hefðir verið hér, væri bróðir minn ekki dáinn. En er Jesús sá hana gráta, og þá, sem komu með henni, komst hann við í anda, hrygðist mjög, og sagði: hvar hafið þér lagt hann? Þeir sögðu við hann: herra, kom og sjá. Og Jesús grét. Þá sögðu Gyðingar: sjá, hversu hann hefur elskað hann. En nokkrir af þeim sögðu: mundi ekki sá, sem opnaði augu hins blinda, hafa getað gjört það, að þessi hefði ekki dáið? Þá komst Jesús aptur mikillega við, og kom til grafarinnar. En það var hellir, og steinn fyrir framan. Jesús sagði: takið steininn frá. Þá sagði Marta, systir hins framliðna, við hann: herra, það er nú þegar nálykt af honum, því að hann er fjögra nátta. Jesús sagði við hana: sagði eg þér ekki, að ef þú trýðir, mundir þú sjá dýrð Guðs. Þeir tóku þá steininn burt; en Jesús hóf upp augu sín, og sagði: eg þakka þér, faðir, að þú hefir bænheyrt mig.

Eg vissi ad sønnu, ad þú ávalt heyrir mig; en vegna mannfjøldans, sem hér er saman kominn, sagdi eg þad, svo ad þeir skyldu trúa því, ad þú hafir sent mig. Þegar hann hafdi þetta sagt, kalladi hann hárri røddu: Lazarus, kom þú út. Og hinn daudi kom út, vafinn líkblæum á høndum og fótum, og sveitadúkurinn var um audlit hans. Jesús sagdi vid þá: leysid hann, og látid hann fara. — Nokkrum tíma eptir þetta gjørdu þeir honum kvøldverd í Betaníu, og Marta gekk fyrir bordum, en Lazarus var einn af þeim, sem sátu til bords med honum. Þá tók María fløskn med ómeingudum og dýrmætum nardussmyrslum, braut hana, helti yfir høfud Jesú, er hann sat til bords, smurdi fætur hans, og þerradi þá med hárlokkum sínum, en húsid fyltist af ilm smyrslanna. Þá sagdi einn af lærisveinum hans, Júdas frá Kariot, sem sídan sveik hann: hví eru þessi smyrsli ekki seld fyrir þrjú hundrud peninga, og gefin fátækum? En hann sagdi þad ekki af því, ad honum væri ant um fátæka, heldur af því, ad hann var þjófur, og hafdi fépýngjuna, og bar þad, sem í hana var lagt. Þá sagdi Jesús: látid hana í fridi; hví amist þér vid henni? Hún hefir gjørt vel til mín. Fátæka hafid þér ávalt hjá ydur, og getid gjørt

þeim gott, nær þér viljið; en mig hafið þér ekki ávalt hjá yður. Hún hefir gjört það, sem hún gat, hún hefir fyrir fram smurt líkhama minn til greptrunar minnar. Sannlega segi eg yður, hvar helzt í öllum heimi, sem þessi náðarboðskapur verður fluttur, mun þess og getið, sem hún nú gjörði, henni til hróss.

## 21. Ráðagjörð Jesú óvina gegn honum.

Margir af Gyðingum, sem höfðu séð það, sem Jesús gjörði við Lazarus, trúðu á hann; og margir aðrir komu, til að sjá Lazarus, sem hann hafði upp vakið frá dauðum. Nokkrir aptur á móti fóru til Fariseanna, og sögðu þeim, hvað Jesús hefði gjört. Því héldu hinir æðstu prestar og Fariseár ráðstefnu, og sögðu: hvað eigum vér að gjöra? Þessi maður gjörir mörg jarteikn. Ef vér sleppum honum svona, þá munu allir trúa á hann; og þá koma Rómverjar, og taka land vort og þjóð. En einn af þeim Kaifas, þess árs æðsti prestur, sagði við þá: þér vitið ekkert, og hugleiðið ekki, að það er betra, að einn maður deyi fyrir fólkið, svo öll þjóðin fyrirfarist ekki. Ráðguðust þeir um það, upp frá þessum degi, hvernig þeir skyldu lífláta Jesum, og líka hvernig þeir feingju deytt Lazarus;

því að hans vegna komu margir, og trúðu á Jesúm. Þess vegna gekk Jesús nú ekki framar berlega um meðal þeirra, heldur veik leingra burt frá Jerúsalem, og var þar nokkurn tíma með lærisveinum sínum, alt til páskahátíðarinnar, þegar hans tími var kominn. En er hátíðin nálgaðist, fóru margir upp til Jerúsalem. Og er þeir stóðu í musterinu, og spurðu eptir Jesú, søgðu þeir hver við annan: hvað sýnist yður, að hann kemur ekki til hátíðarinnar? En høfuðprestarnir og Fariseарnir høfðu gefið það boð, að ef nokkur vissi, hvar hann væri, skyldi hann segja til, svo þeir gætu handtekið hann.

## 22. Síðasta ferð Jesú til Jerúsalem.

Og Jesús tók sig upp, til að fara til Jerúsalem til hátíðarinnar, og gekk á undan lærisveinum sínum; en þeir voru hræddir, og fylgdu honum með ótta. Tók hann þá aptur hina tólf til sín á eintal á leiðinni, og sagði við þá: sjá, vér førum nú upp til Jerúsalem, og mun þá alt það fram koma, sem skrifað er af spámønnunum um mannsins son. Því að hann mun verða fram seldur hinum æðstu prestum og skriptlærðum, og þeir munu dæma hann til dauða, og fá hann heiðingjum, sem munu hæða hann og spotta,

krossfesta og lifláta, en á þridja degi mun hann upp risa. En þeir skildu þad ekki, og þad var svo hulid fyrir þeim, ad þeir vissu ekki, hvad hann sagdi þeim. — Og honum fylgdi mikill fjöldi fólks, og hann læknadi þá. Þá voru líka úngbörn færd til hans, ad hann legdi hendur yfir þau, og blessadi þau; en lærisveinarnir átöldu þá, sem þau báru. Þegar Jesús sá þad, líkadi honum þad ekki vel, og sagdi vid þá: leyfid börnunum til mín ad koma, og bannid þeim þad ekki; því ad þvílíkum heyrir Guds ríki til. Sannlega segi eg ydur: hver sem ekki medtekur Guds ríki eins og barn, hann mun ekki inn gánga í þad. Og hann tók þau í fáng sér, lagdi hendur sínar yfir þau, og blessadi þau. — Þá kom til hans módir sona Sebedeusar, Jóhannesar og Jakobs, og laut honum, eins og hún vildi beidast nokkurs af honum. Hann spurdi þá: hvad viltu? Hún svaradi: láttu þessa tvo sonu mína sitja í ríki þínu, annan á hægri, og hinn á vinstri hlid þér. Jesús svaradi: Þér vitid ekki hvers þér bidjid. Þér vitid, ad konúngar jardarinnar drottna yfir þegnum sínum, og ad hinir voldugu sýna veldi sitt á þeim. En ydar á medal skal þetta ei svo vera, heldur skal hver sá af ydur, sem vill vera mikill, vera ydar þjón, og hver

sem vill vera ydar fremstur, hann skal vera ydar þræll. Því einnig mannsins sonur kom ekki, til ad láta sér þjóna, heldur til ad þjóna ødrum, og láta sitt líf til lausnargjalds fyrir marga. — Og er þeir fóru frá Jerikó, fylgdi honum mikill fjøldi fólks. Og sjá, tveir blindir menn sátu vid veginn; og er þeir heyrdu, ad Jesús fór þar um, kølludu þeir, og søgdu: herra, sonur Davids, miskunna þú okkur! En fólkid hastadi á þá, ad þeir þegdu. En þeir kølludu því meir, og søgdu: herra, sonur Davíds, miskunna þú okkur. Jesús stód þá vid, kalladi til þeirra, og mælti: hvad viljid þid, ad eg gjøri vid ykkur? Þeir søgdu vid hann: þad, herra, ad vér verdum sjáandi. Jesús aumkadist þá yfir þá, og hrærdi vid augum þeirra; feingu þeir þá þegar sjón aptur, og fylgdu honum eptir.

## 23. Innreid Jesú í Jerúsalem.

Þegar þeir nú nálgudust Jerúsalem, og komu til Betfage, hjá vidsmjørsvidarfjallinu, sendi Jesús á undan sér tvo af lærisveinum sínum, og sagdi vid þá: farid í þorp þad, sem gagnvart ydur er, og þid munud þegar finna øsnu bundna og fola hjá henni; leysid þau og leidid til mín.

Og ef nokkur segir nokkud vid ykkur, þá segid, ad herra ykkar þurfi þeirra vid; og þá mun þeim þegar verda slept vid ykkur. En alt þetta skedi til þess, ad þad sannadist, sem spámadurinn hafdi sagt, er hann segir: „Segid Sions dóttur: „sjá, þinn konúngur kemur til þín hógvær,ríd„andi øsnu og fola hennar." Og lærisveinarnir fóru, og gjørdu eins og Jesús hafdi bodid þeim, komu med øsnuna og folann, og løgdu klædi sín á þau, en hann steig á bak. En þegar hinn mikli fjøldi, sem var kominn til hátídarinnar, heyrdi, ad Jesu kæmi til Jerúsalem, tóku þeir pálmavidargreinir, geingu á móti honum, og hrópudu: hósíanna! Blessadur sé sá, sem kemur, konúngur Israels! Og margir breiddu klædi sín á veginn; adrir hjuggu greinir af trjánum, og strádu þeim á veginn. En fólkid, sem á undan fór og eptir fylgdi, kalladi og sagdi: „hós„ianna, syni Davids! Blessadur sé sá, sem kem„ur í nafni Drottins! Hósíanna í hæstum hæd„um!" Og allur flokkur lærisveina hans tók med føgnudi ad lofa Gud og med hárri raust, fyrir øll þau dásemdarverk, sem þeir høfdu séd, og søgdu: „Blessadur sé sá, sem kemur, konúngur í „nafni Drottins! Fridur sé á himni, og dýrd í „upphædum!" Nokkrir af Fariseum, sem voru í

flokknum, søgdu þá vid hann: meistari, hasta á lærisveina þína. Hann mælti: eg segi ydur, ef ad þessir þegdu, þá mundu steinarnir hrópa. — Og er hann kom nær, og sá borgina, grét hann yfir henni, og mælti: ó, ad þú nú á þessum þínum degi vissir, hvad til þíns fridar heyrir; en þad er nú hulid fyrir þínum augum. Því ad sá tími mun koma yfir þig, ad óvinir þínir munu gjøra hervirki í kríngum þig, setjast um þig, þraungva þér á alla vegu, rífa þig nidur í grunn, og ekki láta stein yfir steini vera, vegna þess ad þú þektir ekki þinn vitjunartíma. — Og er hann kom inn í Jerúsalem, vard øll borgin uppvæg, og sagdi: hver er þessi? En fólkid sagdi: þad er Jesús, spámadurinn frá Nasaret í Galileu. Jesús gekk þá inn í musteri Guds, rak þá út med svipum úr forgardi þess, sem seldu þar og keyptu, hratt nidur bordum þeirra, sem okrudu med peninga, og stólum þeirra, sem seldu dúfur, og leid eingum ad bera nokkud í gegnum musterid. Og hann kendi þeim, og sagdi vid þá: er ekki skrifad, ad mitt hús skuli vera bænahús fyrir allar þjódir? En þér hafid gjørt þad ad ræningjabæli. Þegar þetta barst til hinna skriptlærdu og ædstu presta, leitudu þeir eptir, hvernig þeir gætu rádid hann af døgum. En

þeir voru hræddir vid hann, af því ad alt fólkid hneig ad honum, og undradist kenningu hans. En alt Gydingafólk var þá saman safnad í Jerúsalem, því ad þad var um páskahátídina. — Og Jesús settist gegnt fjárhirzlu musterisins, og sá, ad fjøldi fólks lagdi þar fé í, og ad margir þeir, sem ríkir voru, løgdu mikid til; þá kom þar ad fátæk ekkja, og lagdi þar í tvo smápeninga, sem eru hálfs skildings virdi. Hann kalladi þá til sín lærisveina sína, og sagdi vid þá: sannlega segi eg ydur, þessi fátæka ekkja hefir lagt meira fé í fjárhirzluna, en allir hinir; því ad þeir gáfu allir af því, sem þeir høfdu afgángs, en hún af fátækt sinni, aleigu sína.

## 24. Jesús og Farisearnir.

1) Og Jesús kendi í musterinu. Þá geingu til hans hinir ædstu prestar, skriptlærdir og øldúngar lýdsins, og søgdu: med hverjum myndugleika gjørir þú þetta, og hver hefir gefid þér vald til þess? Jesús mælti: eg vil líka spyrja ydur eins hlutar, og ef þér segid mér hann, mun eg og segja ydur, med hverjum myndugleika eg gjøri þetta. Hver gaf Jóhannesi vald til ad skíra? Hvort heldur Gud eda menn? Þá hugsudu þeir med sjálfum sér, og søgdu: ef vér segjum, ad

Gud hafi gefid honum þetta vald, þá mun hann spyria oss: því trúdud þér honum þá ekki? En ef vér segjum, ad þad hafi verid menn, þá megum vér óttast fólkid; því ad þeir héldu allir, ad hann væri spámádur. Þeir svørudu því; og søgdu: vér vitum þad ekki. Jesús sagdi þá vid þá: svo segi eg ydur ekki heldur, med hverjum myndugleika eg gjøri þetta. — Og hann sagdi þeim þessa dæmisøgu: húsbóndi nokkur plantadi víngard, hlód gard um hann, gjørdi þar vínlagarþró og bygdi turn; sídan leigdi hann víngardinn víngardsmønnum, og fór sjálfur úr landi. En er uppskerutíminn kom, sendi hann þjón sinn til víngardsmannanna, ad veita ávøxtunum móttøku; en þeir tóku hann, børdu, og létu tómhentan frá sér fara. Þá sendi hann aptur annan þjón til þeirra; þennan lømdu þeir grjóti, løgdu honum hádúngar til, og létu hann svo fara. Marga fleiri sendi hann, en þeir børdu suma af þeim, drápu suma. Þá átti hann eptir einn einka son, hverjum hann unni mjøg, þann sendi hann sídast til þeirra, og sagdi: þeir munu þó bera virdíngu fyrir syni mínum; en er víngardsmennirnir sáu hann, søgdu þeir sín í milli: þetta er erfínginn, komid, látum oss deyda hann, og taka undir oss arf hans. Og þeir tóku hann, drógu hann út

úr víngarðinum, og drápu hann. Þegar nú eigandi víngarðsins kemur, hvað mun hann þá gjora við víngarðsmenn þessa? Þeir mæltu: hann mun tortýna illmennum þessum, og leigja øðrum víngarðsmønnum víngarð sinn, sem gjalda honum ávextina í rétta tíð. — Og hann sagði enn fremur við þá: hafið þér aldrei lesið í bókinni helgu: sá steinn, sem byggingarmennirnir útskúfuðu, hann er nú hornsteinn orðinn; af Guði er það skeð, þótt það sé undarlegt í vorum augum. Þess vegna segi eg yður, að Guðs ríki mun verða frá yður tekið, og gefið þeirri þjóð, sem mun bera því verðuga ávexti. Þá leituðust hinir æðstu prestar og hinir skriptlærðu við, að leggja hendur á hann, því að þeir skildu, að hann hafði sagt þessa dæmisøgu upp á sig; en þeir þorðu það ekki fyrir fólkinu.

2) Þá báru Farisearnir ráð sín saman um það, hvernig þeir gætu veitt hann í orðum; og þeir sendu til hans nokkra af lærisveinum sínum ásamt fylgdarmønnum Heródesar, og søgðu: meistari vér vitum, að þú ert sannorður, og kennir Guðs gøtu réttilega, og skeytir ekki nokkrum, því að þú ferð ekki að mannvirðingum. Þess vegna seg oss, hvað sýnist þér: er það rétt,

ad gjalda keiſaranum ſkatt eda ekki? En er Jeſ-
ús ſá ſláttſkap þeirra, mælti hann: því freiſtid
þér min, hræſnarar? Sýnid mér ſkattpeninginn.
Þeir færdu honum hann. Þá ſpurdi Jeſús:
hvers mynd og yfirſkript er þetta? Þeir ſvørudu:
keiſarans. Hann ſagdi þá vid þá: gefid þá keiſ-
aranum þad, ſem keiſarans er, og Gudi þad, ſem
Guds er. Þegar þeir heyrdu þetta, undruduſt
þeir, yfirgáfu hann, og fóru á burt.

3) Og þeir komu aptur, og ſpurdu hann:
nær kemur Guds riki? Hann ſvaradi þeim og
ſagdi: Guds riki kemur ekki þannig, ad á því
beri; og þad verdur ekki um þad ſagt: ſjá, þad
er þar, eda þad er hér; því ad Guds riki er
innra i ydur.

4) Og hann ſagdi vid nokkra af þeim, ſem
treyſtu upp á ſjálfa ſig, þóttuſt ødrum betri, og
fyrirlitu adra, þeſsa dæmiſøgu: tveir menn
fóru upp i muſterid, ad bidjaſt fyrir; annar var
Fariſei, en hinn tollheimtumadur. Fariſeinn
ſtód og badſt þannig fyrir med ſjálfum ſér: „eg
þakka þér, Gud, ad eg er ekki eins og adrir menn,
ræningjar, órádvandir, hórdómsmenn, eda eins
og þeſsi tollheimtumadur. Eg faſta tviſvar i
viku, og geld tiundir af øllu því, ſem eg á."
En tollheimtumadurinn ſtód langt frá, og

vildi ekki hefja augu sín til himins, heldur bardi sér á brjóst, og sagdi: „Gud vertu mér syndugum líknsamur!“ Eg segi ydur, ad þessi fór Gudi þekkari en hinn heim í hús sitt; því ad hver, sem sig sjálfan upp hefur, hann mun nidur lægjast, og hver, sem sig lítilækkar, hann mun upp hafinn verda. Og þegar þér hafid gjørt alt, sem ydur var bodid ad gjøra, þá segid: ónýtir þjónar erum vér; því ad vér høfum ad eins gjørt þad, sem vor skylda var.

5) Og hann sagdi enn fremur: á stóli Mósis sitja skriptlærdir og Fariseár, og leggja mønnum þúngar byrdar á herdar, en sjálfir vilja þeir ekki hræra vid þeim einum fingri; þeir bjóda þad, sem þeir halda ekki sjálfir; eptir framferdi þeirra skulud þér ekki breyta. Allt hvad þeir gjøra, fremja þeir sér til hróss. Vei ydur, skriptlærd-um og Fariseum! Þér hræsnarar, sem læsid Guds ríki fyrir mønnum; þér hirdid sjálfir ekki um, ad inn gánga í þad, og leyfid ekki heldur þeim inngaungu, sem hennar leita. Þér hræsn-arar, sem féflettid ekkjur undir yfirhylmingu lángra bæna. Vei ydur, þér skriptlærdir og Fariseár! Þér hræsnarar, sem gjaldid tíund af myntu, anís og kúmeni, en hirdid ekki um þad í løgmálinu, sem mest ríđur á, sem er réttvísi,

miskunsemi, og trú. Þér blindir leiðsøgumenn, sem frá síið fluguna, en svelgið úlfaldann. Vei ydur, þér skriptlærðir og Fariseár, þér hræsnarar! Líkir eruð þér kølkuðum grøfum framliðinna, sem að utan eru að vísu fallegar útlits, en innan fullar með dauðra manna bein og als konar óhreinindi. Eins synist þér líka góðir hið ytra, fyrir mannasjónum, en innan eruð þér fullir hræsni og óréttinda. Þér eruð eins og úlfar í sauðarklæðum. Þér høggormar, þér nöðrukyn, hvernig viljið þér fá umflúið helvítis hegningu? Þér eruð niðjar þeirra, sem tóku spámennina af lífi. Fyllið nú líka mæli feðra yðvarra! — Jerúsalem, Jerúsalem, þú sem líflætur spámennina, og grýtir þá, sem til þín eru sendir. Hversu opt hefi eg viljað safna saman børnum þínum, eins og hænan safnar úngum sínum undir vængi sér; en þér hafið ekki viljað.

## 25. Um hinn efsta dóm.

Þegar Jesús gekk út úr musterinu, geingu lærisveinar hans til hans, sýndu honum byggíngu þess, og søgðu: meistari, skoðaðu hvílíkir steinar þetta eru, og hvílík bygging! Jesús mælti: sannlega segi eg yður, alt þetta mun svo gjørsamlega eyðilagt verða, að ekki mun hér

steinn yfir steini vera. Já, himin og jørđ munu farast, en mín orđ farast eigi. — Og er hann hafđi sezt niđur á viđsmjørsviđarfjallinu, geingu lærisveinar hans til hans einslega, og søgđu: seg oss, hve nær þetta mun verđa, og hvert vera mun merki þinnar tilkomu og enda heims.

1) Jesús svarađi og sagđi: því er eins variđ međ Guđs ríki og međ tíu meyar, sem tóku lampa sína, og fóru á móti brúđgumanum. Fimm af þeim voru óforsjálar. Hinar óforsjálu tóku ađ sønnu lampa sína, en þær tóku ekki viđsmjør međ sér; en hinar forsjálu tóku viđsmjør međ sér í kerum sínum. En er frestađist koma brúđgumans, syfjađi þær allar, og þær fóru ađ sofa. En um miđnætti var kallađ og sagt: sjá, brúđguminn kemur; fariđ út á móti honum. Þá voknuđu allar meyarnar, og tóku ađ búa lampa sína. Þá søgđu hinar óforsjálu viđ hinar forsjálu: gefiđ oss nokkuđ af viđsmjøri yđar; því ađ annars munu ljós vor slokkna. Hinar forsjálu svøruđu og søgđu: vér erum hræddar um, ađ þađ muni ekki endast handa oss og yđur: fariđ heldur til þeirra, sem selja viđsmjør, og kaupiđ þar viđsmjor handa yđur. En er þær voru farnar burt til kaupa þessara, kom brúđguminn, og þær, sem tilbúnar voru, fylgđu honum í brúđkaupshúsiđ,

og var dyrunum þá lokað. Um síðir komu og hinar meyarnar, og sögðu: herra, herra, ljúk upp fyrir oss. En hann svaraði: sannlega segi eg yður, eg þekki yður ekki. — Verið því vakandi og biðjið. Því að þér vitið ekki þann dag eða þá stund, hve nær mannsins sonur muni koma í sinni dýrð, svo að hann komi ekki yður á óvart, og hitti yður sofandi. En það, sem eg segi yður, það segi eg öllum: vakið! því að sá tími kemur, á hverjum allir þeir, sem í gröfunum eru, munu gánga fram, þeir, sem gott hafa gjört, til upprisu lífsins, en þeir, sem illt hafa aðhafzt, til upprisu fordæmingarinnar. En þann dag eða þá stund veit einginn, ekki einglar á himnum, og ekki sonurinn, og einginn, nema faðirinn einn.

2) Því að þessu er eins varið og manni þeim, sem fór erlendis, kallaði þjóna sína til sín, og seldi þeim fé sitt í hendur. Fékk hann einum fimm pund, öðrum tvo, og hinum þriðja eitt, eptir dugnaði sérhvers þeirra, og fór svo burt. Þá fór sá, sem við fimm pundum hafði tekið, verzlaði með þeim, og græddi önnur fimm. Eins einnig sá, sem við tveim pundum hafði tekið, hann græddi líka á þeim önnur tvo. En sá,

sem eitt hafði feingið, fór, og fól fé húsbónda síns í jørðu. En er lángur tími var liðinn, kom húsbondinn heim, og hélt reikning við þá. Þá kom sá, sem við fimm pundum hafði tekið, bar fram ønnur fimm, og mælti: herra, þú fékst mér í hendur fimm pund, sjá, eg hefi unnið á þeim ønnur fimm. Herrann mælti: vel þér, þú góði og trúi þjón, þú varst trúr yfir litlu, eg mun setja þig yfir mikið; gakk inn í føgnuð þíns herra. Þá kom og sá, sem feingið hafði tvø pund, og mælti: herra, tvø pund fékstu mér, sjá, eg hefi grætt á þeim onnur tvø. Herrann sagði þá við hann, eins og hinn fyrra; og hann fór inn í føgnuð herra síns. Þá kom og sá fram, sem eitt pund hafði feingið, og mælti: eg vissi, herra, að þú ert harður maður, sem upp sker þar, sem þú ekki hefur sáð, og tínir þar saman, sem þú ekki hefir stráð; þetta hræddist eg, og fór, og fól pund þitt í jørðu; sjá þar hefur þú þitt. Herra hans svaraði honum þá og sagði: þú ótrúi og lati þjón, þar eð þú vissir, að eg upp sker þar, sem eg ekki hefi sáð, og tíni þar saman, sem eg hefi ekki stráð, þá áttir þú að fá fé mitt í hendur verzlunarmønnum, svo að eg gæti tekið við því með ávexti, þegar eg kæmi. Takið því af honum pund hans, og fáið

það þeim, sem hefir tíu pund. Og varpið þessum vonda þjón í myrkrið fyrir utan.

## 26. Orð hins eilífa lífsins.

Og Jesús talaði enn fremur margt fleira til fólksins og lærisveina sinna, kendi þeim og sagði við þá:

1) Svo elskaði Guð heiminn, að hann gaf í dauðann sinn eingetinn son, til þess að hver, sem á hann trúir, fyrirfarist ekki, heldur hafi eilíft líf. Því að ekki sendi Guð son sinn í heiminn, til að dæma heiminn, heldur til þess, að heimurinn frelsaðist fyrir hann. Hver, sem á hann trúir, dæmist ekki, en hver sem eigi trúir á hann, er nú þegar dæmdur; það orð, sem eg hefi talað, mun dæma hann á efsta degi. — Hver, sem heyrir mitt orð, og trúir þeim, sem mig sendi, hann hefir eilíft líf, og kemur ekki til dóms; heldur hefir hann stigið frá dauðanum til lífsins. — En þessi er dómurinn: að ljósið kom í heiminn, og mennirnir elskuðu myrkrið meir en ljósið; því að þeirra verk voru vond. Hver, sem hefst ilt að, hann hatar ljósið, og kemur ekki til ljóssins, svo að verk hans verði ekki uppvís. En hver, sem sannleikanum hlýðir, hann kemur

til ljóssins, svo að verk hans verði opinber; því að þau eru í Guði gjörð. Eg em ljós heimsins, hver sem mér fylgir, hann mun ekki gánga í myrkri, heldur hafa ljós lífsins.

2) Það sem af holdi er fætt, það er hold, og það, sem af anda er fætt, það er andi. Andinn er það, sem lífgar, holdið gagnar til einkis; þau orð, sem eg tala, eru líf og andi.

3) Minn lærdómur er ekki minn, heldur þess, sem mig sendi; ef sá er nokkur, sem vill gjöra hans vilja, hann mun komast að raun um, hvort þessi lærdómur er af Guði, eða eg tala af sjálfum mér. Hver, sem talar af sjálfum sér, hann leitar eigin lofdýrðar; en sá, sem leitar þeim heiðurs, sem sendi hann, hann er sannorður og prettalaus.

4) Eg em það, sem vitna um mig sjálfan, og faðirinn, sem sendi mig, vitnar líka um mig. Þá sögðu Farísearnir við hann: hvar er faðir þinn? Jesús svaraði: þér þekkið hvorki mig né föður minn. Ef þér þektuð mig, þá þektuð þér og föður minn. Þér eruð neðan að, eg em ofan að; þér eruð af þessum heimi, eg em ekki af þessum heimi. Og sá, sem sendi mig, er með

mér; fadirinn lætur mig ekki einan; því ad eg gjøri ávalt þad, sem honum þóknast. Eg em gódur hirdir: hinn gódi hirdir gefur líf sitt út fyrir sína saudi; eg þekki mina, og mínir þekkja mig. Þess vegna elskar fadir minn mig, ad eg læt mitt líf, svo ad eg taki þad aptur. Einginn tekur þad af mér, heldur læt eg þad sjálfviljuglega. Ef hefi vald til ad láta þad, og líka vald til ad taka þad aptur. Þetta bodord hefi eg medtekid af mínum fødur. Mínir saudir þekkja mina raust, og eg þekki þá, og þeir fylgja mér; og eg gef þeim eilíft líf, og þeir munu aldrei ad eilífu týnast, og einginn mun slíta þá úr hendi mér. Fadir minn, sem hefir gefid mér þá, er meiri en alt, og einginn getur slitid þá úr hendi mér.

5) Þegar hann taladi þetta, trúdu margir á hann. Jesús sagdi þá vid þá, sem trúdu á hann: ef þér haldid stødugt vid mitt ord, þá erud þér mínir sannir lærisveinar; þér munud þekkja sannleikann, og sannleikurinn mun gjøra ydur frjálsa. Þá svørudu Gydingar honum: vér erum børn Abrahams, og høfum aldrei verid þrælar nokkurs manns, hvernig segir þú þá, þér skulud verda frjálsir? Jesús svaradi þeim og sagdi: sannlega,

sannlega segi eg ydur: hver, sem syndina drýgir, hann er syndarinnar þræll. En þrællinn verdur ekki ávalt i húsinu; sonurinn verdur þad ávalt. Ef ad nú sonurinn gjorir ydur frjálsa, þá verdid þér sannarlega frjálsir. Ef þér værud Abrahams børn, þá gjørdud þér Abrahams verk; en nú leitist þér vid, ad deyda mig, sem segi ydur sannleikann, sem eg hefi heyrt af Gudi; þad hefdi Abraham ekki gjørt. En mitt ord fær ekki rúm hjá ydur, af því ad eg tala sannleikann. Sá sem er af Gudi, hann heyrir Guds ord; þess vegna heyrid þér ekki, af því ad þér erud ekki af Gudi, heldur erud lygarar, og elskid lýgi. — Þá tóku þeir upp steina, til ad kasta á hann, en hann gekk úr greipum þeim, því ad hans stund var enn þá ekki komin.

## 27. Hin sídasta kvøldmáltid.

1) Nú kom dagur hinna ósýrdu braudanna, þegar páskalambinu skyldi slátra. Þá sendi Jesús Pétur og Jóhannes, og sagdi: farid, og matbúid páskalambid fyrir oss, svo ad vér neytum þess. Þeir søgdu þá vid hann: hvar viltu láta matbúa þad? Hann sagdi: þegar þid komid i borgina, mun mæta ydur madur, sem ber vatnskrús, fylgid honum til þess húss, sem hann fer

inn í, og segið við húsbóndann: svo segir meistarinn: minn tími er nálægur, eg vil halda páska hjá þér; hvar er það herbergi, þar sem eg geti neytt páskalambsins með lærisveinum mínum? Mun hann þá sýna yður loptsal mikinn, með bekkjum upp búinn; búið þar til matar. Þeir fóru og fundu alt, eins og hann hafði sagt þeim, og matreiddu þar páskalambið. En er stundin kom, settist Jesús til borðs, og þeir tólf postular með honum. Og hann vissi, að hans tími var kominn, að hann færi úr þessum heimi til föðursins, sem hafði gefið honum alt í hendur, frá hverjum hann var kominn, og til hvers hann fór; og eins og hann hafði elskað sína, sem voru í heiminum, eins elskaði hann þá til enda. Og hann sagði við þá: mig hefir hjartanlega eptir lángað, að neyta þessarar páskamáltíðar með yður, áður en eg líð. Og hann stóð upp frá kvöldmáltíðinni, lagði af sér klæðin, tók lindúk og gyrtist honum; eptir það helti hann vatni í í mundlaug, og tók að þvo fætur lærisveinanna, og þerra þá með lindúk þeim, sem hann var gyrtur. En er hann kom að Símoni Pétri, sagði hann við hann: skyldir þú, herra, þvo fætur mína? Jesús svaraði og sagði við hann: þú skilur ekki nú, það sem eg gjöri, en þú munt

skilja þad sídar. Pétur svaradi: aldrei ad eilífu skaltu þvo fætur mína. Jesús sagdi: ef eg fæ ekki ad þvo þig, erum vid skildir ad skiptum. Símon Pétur sagdi þá vid hann: herra, ekki einúngis fæturna, heldur einnig hendur og höfud. Jesús svaradi: þann, sem þveginn er, hann þarf ekki ad þvo nema á fótum, því ad hann er allur hreinn annarstadar. Og þér erud hreinir, en ekki allir. (Því ad hann þekti þann, sem sídan sveik hann, þess vegna sagdi hann: þér erud ekki allir hreinir.) — Þegar hann nú var búinn ad þvo fætur þeirra, og hafdi tekid klædi sín, settist hann aptur til bords, og sagdi vid þá: skiljid þér þad, sem eg hefi gjört vid ydur? Þér kallid mig meistara og herra, og þad er rétt; því ad eg em þad. Ef eg þá, meistari ydar, hefi þvegid fætur ydar, þá eigid þér og ad þvo fætur hver annars. Eg hefi ydur eptirdæmi eptir skilid, ad þér breytid, eins og eg breytti vid ydur. Sannlega, sannlega segi eg ydur, ad þjónninn er ekki meiri en húsbóndi hans, né sá, sem sendur er, meiri en sá, sem sendi hann. Ef þér skiljid þetta, þá erud þér sælir, ef þér breytid svo. — Þegar Jesús hafdi sagt þetta, komst hann mjög vid, vottadi og sagdi: sannlega, sannlega segi eg ydur: einn af ydur mun svíkja mig.

Þá litu lærisveinarnir hver upp á annan, og vissu ekki um hvern hann taladi. En þar var einn af lærisveinum hans, er sat til borðs næst Jesú, sem Jesús elskadi; Símon Pétur benti honum, ad hann skyldi spyrja ad, hver það væri, sem hann taladi um. Hann halladi sér þá upp ad brjósti Jesú, og sagði vid hann: herra, hver er það? Jesús svaradi: það er sá, sem eg mun gefa þann bita, sem eg nú dýfi í. Og hann dýfdi í bitanum, rétti ad Júdasi frá Kariot, og sagdi vid hann: hvad þú gjorir, þad gjør þú skjótt. En einginn af þeim, sem til bordsins sátu, vissi í hverju skyni hann sagdi þetta. Sumir héldu, af því ad Júdas hafdi pýngjuna, ad Jesus hefdi sagt honum: kaup þú þad, sem vid þurfum til hátídarinnar, ellegar, ad hann skyldi gefa eitt-hvad fátækum. Þegar Júdas hafdi medtekid bit-ann, gekk hann þegar út, en þá var nótt.

2) En er hann var geinginn út, sagdi Jesús: nú er mannsins sonur dýrdlegur ordinn, og Gud er fyrir hann dýrdlegur ordinn. Kæru born, eg verd nú hédan af skamma stund hjá ydur, og nýtt bodord gef eg ydur: ad þér elskid hver annan, eins og eg hefi elskad ydur; af því skulu allir sjá, ad þér erud mínir lærisveinar, ef þér elskizt innbyrdis. —

Og hann tók braudid, gjørdi þakkir, braut þad, gaf sínum lærisveinum, og sagdi: takid og etid; þad er minn líkhami, sem fyrir ydur verdur gefinn; gjørid þad í mína minningu. Eins tók hann líka bikarinn, gjørdi þakkir, gaf þeim hann og sagdi: drekkid allir hér af, þad er blód hins nýa sáttmála, sem fyrir marga mun út hellast, til fyrirgefningar syndanna. — Innan skamms mun heimurinn ekki framar sjá mig, en þér munud sjá mig; því ad eg lifi, og þér munud lifa. Frid sendi eg ydur; minn frid gef eg ydur; ekki gef eg eins og heimurinn gefur. Ef þér elskid mig, þá munud þér gledjast af því, ad eg hefi sagt ydur, eg fer til fódursins, því ad fadirinn er mér meiri. Og eg skal bidja fódurinn, og hann mun gefa ydur annan huggara, svo ad hann sé hjá ydur eilíflega, sannleikans anda, sem heimurinn getur ekki medtekid; því ad hann þekkir hann ekki; en þér þekkid hann, og hann mun stadnæmast hjá ydur, og vera í ydur, og leida ydur í allan sannleika. — Eg em hinn sanni vínvidur, þér erud greinirnar; sá, sem er mér áfastur, og eg er med, hann ber mikinn ávöxt; því ad án mín megnid þér ekkert. Ef þér haldid mín bodord, þá munud

þér halda minni elsku, eins og eg held boðorð míns föðurs, og held hans elsku. Þetta hefi eg talað til yðar, svo að minn fögnuður verði varanlegur hjá yður, og yðar fögnuður fullkominn.

3) Svo farið nú út til allra þjóða, og boðið þeim Guðs orð, og segið, að Guðs ríki sé nálægt. En í hverja þá borg eða þorp, sem þér komið, þá spyrjist fyrir, hver þar sé yðar gistingar verður, og gistið hjá honum, til þess þér farið þaðan; og ef húsið er þess vert, þá munu yðar góðu óskir hrína á því. — Sjá, eg sendi yður, sem sauði meðal úlfa; verið því varir um yður sem höggormar, og meinlausir sem dúfur. Ef þér væruð af heiminum, þá mundi heimurinn líklega elska sitt eigið; en af því að þér eruð ekki af heiminum, þótt eg hafi útvalið yður af heiminum, þá hatar heimurinn yður. Og þeir munu leiða yður fyrir dóm, og húðstrýkja yður í samkunduhúsum sínum; og þér munuð verða leiddir fyrir landstjórnara og konúnga fyrir mínar sakir. En þegar þeir framselja yður, þá verið ekki hugsjúkir um, hvernig eða hvað þér skuluð tala, því að í sama bragði mun því verða skotið yður í brjóst. Því að það eruð ekki þ é r, sem talið, heldur andi föður yðar, sem í yður talar, sannleikans andi, sem faðirinn mun

senda í mínu nafni til huggara. — Pad, sem eg segi ydur heimuglega, pad skulud pér opinberlega kenna ödrum, og pad, sem ydur er sagt hljódlega, pad skulud pér í fjölmenni flytja. Hrædist ekki pá, sem líkhamann deyda, en geta ekki líflátid sálina, hrædist heldur pann, sem hefir vald ad tortýna bædi sálu og líkhama í helvíti. Seljast ekki tveir titlingar fyrir einn smápening? Pó dettur einginn peirra til jardar án vilja födur ydar. Og erud pér ekki miklu meira verdir en tveir titlingar? Jafnvel ydar höfudhár eru líka talin. Petta hefi eg talad til ydar, svo ad pér hefdud frid í mér. Í heiminum munud pér hafa preyngíng, en verid hughraustir, eg hefi sigrad heiminn.

4) Petta taladi Jesús, og hóf augu sín til himins, og sagdi: fadir, tíminn er kominn, ad pú gjörir son pinn dýrdlegan, svo ad sonur pinn einnig gjöri pig dýrdlegan, eins og pú hefir gefid honum vald, til ad gefa öllum peim eilíft líf, sem pú gafst honum. En pad er eilíft líf, ad peir pekki pig einan sannan Gud, og pann, sem pú sendir, Jesúm Krist. Eg hefi gjört pig dýrdlegan á jördu, og lokid pví verki, sem pú fékkst mér ad vinna. Gjör mig nú vegsamlegan, fadir, hjá sjálfum pér,

med þeirri dýrd, sem eg hafdi hjá þér, ádur en heimurinn var. Eg hefi auglýst þitt nafn þeim mønnum, sem þú gafst mér af heiminum. Þeir voru þínir, og þú gafst mér þá, og þeir hafa vardveitt þitt ord, og vita med sanni, ad eg em kominn frá þér, og þeir trúa því, ad þú hafir sent mig. Eg verd ekki leingur í heiminum, en þeir verda í heiminum, og eg fer til þín. Heilagi fadir, vardveit þá í þínu nafni, sem þú gafst mér, svo ad þeir séu eitt, eins og vid erum eitt. Eg hefi gefid þeim þitt ord, og heimurinn hatar þá; því ad þeir eru ekki af heiminum, eins og eg er ekki af heiminum. Eg þakka þér, fadir, Drottinn himins og jardar, ad þú hefir dulid þad fyrir spekíngum og vitríngum, en auglýst þad fáfródum. Helga þú þá í þínum sannleika, þitt ord er sannleikur. Ekki bid eg, ad þú takir þá úr heiminum, heldur, ad þú geymir þeirra vid illu. — En eg bid ekki einúngis fyrir þessum, heldur og fyrir þeim, sem munu trúa á mig fyrir þeirra ord, svo ad þeir allir séu eitt, eins og þú, fadir, ert í mér, og eg í þér, ad þeir einnig séu eitt í oss, og heimurinn trúi því, ad þú hafir sent mig, og ad þú elskir þá, eins og þú elskar mig. Fadir, eg vil ad þeir, sem þú gafst mér, séu hjá mér, þar sem eg er;

svo ad þeir sjái mína dýrd, sem þú gafst mér, því ad þú elskadir mig fyr, en veröldin var grundvöllud. — Réttláti fadir, heimurinn þekkir þig ekki, en eg þekki þig, og hefi auglýst þitt nafn, og mun auglýsa þeim þad, svo ad sú elska, med hverri þú elskar mig, sé í þeim, og eg í þeim.

## 28. Jesús í Getsemane.

Þegar Jesús hafdi talad þetta, gekk hann út med lærisveinum sínum yfir um lækinn Kedron; þar var grasgardur á vidsmjörsvidarfjallinu, sem heitir Getsemane; þángad gekk Jesús. En Júdas frá Kariot þekti og þann stad; því ad Jesús var vanur ad safnast þángad med lærisveinum sínum; og hann hafdi farid til höfudprestanna, og talad vid þá um þad, hvernig hann skyldi koma honum á vald þeirra. Vid þetta glöddust þeir, og hétu ad gefa honum þrjátíu silfurpenínga; og hann lofadi því, og leitadi færis, ad koma honum í hendur þeim án þess ad upphlaup yrdi. — En er þeir voru á leidinni sagdi Jesús vid lærisveina sína; sjá, tíminn er kominn, ad eg hlýt ad fara frá ydur, og þángad, sem eg fer, getid þér ekki komizt. Símon Pétur sagdi þá vid hann: herra, hvert ætlar þú ad fara? Jesús svaradi: þángad, sem

eg fer, getur þú ekki fylgt mér nú, en síðar meir muntu fylgja mér. Pétur sagði: herra, hvers vegna get eg ekki fylgt þér nú þegar? Eg er reiðubúinn, að gánga með þér í fángelsi og dauða. Jesús mælti: sannlega segi eg þér, nú í nótt áður enn haninn hefir galað tvisvar, muntu hafa afneitað mér þrisvar. — Og er Jesús var kominn í grasgarðinn, sagði hann við lærisveina sína: bíðið hér, á meðan eg fer, og gjöri bæn mína. Hann tók þá með sér Pétur, Jakob og Jóhannes, og tók ákaflega að titra og harmþrúnginn að verða, og sagði: mín sála er hrygg alt til dauðans; bíðið hér, og vakið með mér. Og hann gekk frá þeim nær einn steinsnari, féll á kné til jarðar, bað og sagði: faðir minn, ef það er mögulegt, þá víki þessi bikar frá mér; þó ekki sem eg vil, heldur sem þú vilt. En það skeði, er hann var staddur í dauðans ángist, og bað enn ákafar, að sveiti hans var sem blóðdropar, er féllu á jörðu. Birtist honum þá eingill af himni, sem styrkti hann. Síðan stóð hann upp frá bæn sinni, kom til lærisveina sinna, fann þá sofandi af hrygð, og sagði við þá: gátuð þér ekki vakað með mér eina stund? Vakið og biðjið, að þér fallið ekki í freistni. Andinn er að sönnu reiðubúinn, en

holdid er veikt. Þá fór hann ödru sinni, bad og sagdi: fadir minn, ef þad er ekki mögulegt, ad þessi bikar víki frá mér, án þess eg drekki hann, þá verdi þinn vilji. Og hann kom aptur, og fann þá aptur sofandi, því mikill svefnþúngi var fallinn á augu þeirra. Hann fór þá enn frá þeim, og gjördi bæn sína í þridja sinni med sömu ordum og fyr. Og hann kom enn aptur til lærisveina sinna, og mælti: ó, viljid þér nú sofa og hvílast? Þad er nóg. Tíminn er kominn, ad mannsins sonur verdur fram seldur í syndugra hendur. Standid upp, förum hédan; sá, sem svíkur mig, er í nánd. — Og er Jesús var enn ad mæla þetta, sjá, þá kom Júdas, og med honum mikill fjöldi skriptlærdra og öldúnga, og þjóna höfudprestanna, búinn sverdum, bareflum og blysum. Hafdi svikarinn gefid þeim þad merki, og sagt: sá, sem eg kyssi, hann er Jesús; handtakid hann, og leidid á burt varhygdarlega. Og hann gekk jafnsnart ad Jesú, og mælti: heill sértu, meistari, og kysti hann. En Jesús sagdi vid hann: Júdas, svíkur þú mannsins son med kossi? Og vid flokkinn sagdi hann: ad hverjum leitid þér? Þeir svörudu: ad Jesú frá Nasaret. Jesús sagdi þá vid þá: eg em hann. En er hann sagdi vid þá: eg em hann, hopudu þeir á

hæl, og féllu til jardar. Þá spurdi hann þá aptur: ad hverjum leitid þér? Þeir sögdu: ad Jesú frá Nasaret. Jesús svaradi: eg sagdi ydur, ad eg væri þad. Ef ad þér því leitid min, þá látid þessa fara. — En Símon Pétur hafdi sverd, brá því, hjó til þjóns prestahöfdingjans, og af honum hægra eyrad; sá þjón hét Malkus. Jesús sagdi þá vid Pétur: slídra sverd þitt. Skyldi eg ekki drekka þann bikar, sem fadir minn hefir mér gefid? Eda heldurdu ekki, ad ef eg bædi födur minn, þá mundi hann senda mér meir en tólf fylkíngar eingla? Og hann hrærdi vid eyra þjónsins, og læknadi hann. Og vid flokkinn sagdi hann: Þér erud farnir út med sverdum og forkum ad höndla mig, eins og ræningja. Daglega hefi eg þó hjá ydur verid í musterinu, og þér hafid ekki hendur á mig lagt. En þessi er ydar tími og máttur myrkranna.

## 29. Pétur afneitar Jesú.

En þeir handtóku hann, og leiddu hann burt í hús hins ædsta prests, og lærisveinar hans yfirgáfu hann og flúdu á burt. En Símon Pétur fylgdi Jesú eptir, og annar lærisveinn, sem var kunnugur hinum ædsta presti; hann gekk med Jesú inn í hús prestahöfdingjans, en Pétur stód fyrir utan dyrnar. Þá sagdi þernan, sem

gætti dyranna, vid Pétur: ertu og einn af lærisveinum þessa manns. Hann sagdi: kona, ekki er eg það. Og haninn gól. — En þar stódu þrælar og þjónar vid eld, sem þeir høfdu gjort, og vermdu sig, þvi kalt var. Og Pétur stód þar hjá þeim, og vermdi sig. Þeir søgdu þá vid hann: ertu ekki einn af lærisveinum hans? Málfæri þitt er þvi líkast, sem þú sért úr Galileu. En hann neitadi og sagdi: ekki em eg, og ekki þekki eg þann mann. — Þá sagdi einn af þjónum prestahøfdingjans, frændi þess, sem Pétur hjó eyrad af: sá eg þig ekki í grasgardinum med honum? Þá neitadi Pétur enn aptur, og tók ad sverja og sárt vid leggja: ekki þekki eg eg þann mann. Og í þvi sama gól haninn. Og Drottinn sneri sér vid, og leit til Péturs. Mintist hann þá orda Jesu, gekk út, og grét beisklega.

### 30. Jesús fyrir dómi.

1) Hjá Kaifas voru komnir saman høfudprestarnir, øldúngarnir og hinir skriptlærdu. Og høfudpresturinn Kaifas spurdi Jesúm um lærisveina hans og hans kenningu. Jesús svaradi honum: eg hefi talad opinberlega fyrir heiminum; eg hefi ávalt kent í samkunduhúsunum og í musterinu, þar sem allir Gydíngar koma sam-

an, og ekkert hefi eg í leyni talað. Hví spyr þú mig um þetta? Spyr þá þar um, sem hafa heyrt mig; þeir vita, hvað eg hefi sagt. En er Jesús talaði þetta, gaf einn af þjónunum, sem hjá stóð, honum kinnhest, og sagði: svarar þú svona presta-höfðíngjanum? Jesús svaraði honum: hafi eg talað rángt, þá sanna það; en hafi eg talað rétt, hví slær þú mig? En höfuðprestarnir, öldúngarnir og alt ráðið leituðu ljúgvitna gegn Jesú, svo þeir gætu dæmt hann til dauða; en fundu ekkert saknæmt um hann, jafnvel þótt margir ljúgvottar kæmu fram. Loksins komu fram tveir ljúgvottar, er sögðu: hann hefir sagt, eg get brotið niður musteri Guðs, og bygt það aptur á þrem dögum. Þá stóð hinn æðsti prestur upp, og sagði við hann: svarar þú eingu til þess, sem þessir vitna í móti þér? En Jesús þagði. Þá sagði hinn æðsti prestur aptur við hann: eg særi þig við hinn lifanda Guð, að þú segir oss, hvort þú ert Kristur, sonur hins lifanda Guðs. Jesús svaraði: þú sagðir það, eg em það. En eg segi yður: upp frá þessu mun mannsins sonur sitja til hægri handar Guðs kraptar. Þá reif hinn æðsti prestur klæði sín, og mælti: hann guðlastar; hvað þurfum vér framar vitna við? Sjá, þér heyrðuð nú sjálfir hans guðlastan. Hvað

virdist ydur? Peir søgdu: hann er dauda sekur. Pá tóku nokkrir ad gjora gis ad honum, og hrækja í audlit hans; byrgdu fyrir augu honum, slógu hann med knefum, og søgdu vid hann: spádu nú, Kristur, hver pad var, sem sló þig? — En sem dagur var, bundu þeir hann, færdu hann burt, seldu hann í hendur hinum rómverska landstjóra, Pontius Pilatus, og tóku ad áklaga hann, og søgdu: vér høfum fundid þennan mann afvegaleida folkid, og banna ad gjalda keisaranum skatt, og segja sig ad vera konúnginn Krist. Pá sagdi Pilatus vid þá: takid þér hann þá, og dæmid hann eptir ydar løgum. Gydíngar søgdu: oss leyfist ekki ad lífláta nokkurn. Pilatus gekk þá til Jesú, og sagdi vid hann: ertu konúngur Gydínga? Jesús svaradi: talar þú þetta af sjálfum þér, eda hafa adrir sagt þér þad um mig? Pilatus svaradi: er eg Gydíngur? Pín þjód og høfudprestarnir hafa fram selt mér þig; hvad hefir þú gjort? Jesús svaradi: mitt ríki er ekki af þessum heimi. Ef mitt ríki væri af þessum heimi, þá mundu þjónar mínir berjast fyrir því, ad eg kæmist ekki á vald Gydínga; en nú er mitt ríki ekki þadan. Pilatus sagdi þá vid hann: ertu samt konúngur? Til þess er eg fæddur, og í heiminn

kominn, ad eg beri vitni um sannleik-
ann. Hver, sem elskar sannleikann, sá heyrir mína rødd. Pilatus sagdi vid hann: hvad er sannleikur? Og er hann hafdi þetta sagt, gekk hann aptur út til Gydínga, og sagdi vid þá: eg finn einga sök hjá þessum manni. En þeir voru því ákafari og sögdu: hann hefir upp æst lýdinn med kenningum sínum í øllu Gydíngalandi, alt frá Galíleu og híngad. — En er Pilatus heyrdi Galíleu nefnda, og vard þess vís, ad hann var undir veldi Heródesar, sendi hann hann til Heródesar, sem um þessar mundir var líka í Jerúsalem. Þegar Heródes sá Jesúm, vard hann næsta gladur, því ad hann hafdi leingi lángad til ad sjá hann, af því ad hann hafdi heyrt margt um hann, og vænti nú ad sjá eitt-hvert teikn af honum. Og hann spurdi hann á marga vegu, en hann svaradi honum eingu. Hinir ædstu prestar og skriptlærdir geingu þá fram, og ákløgudu hann hardlega. Og Heródes og hermenn hans hæddu hann, gjørdu gis ad honum, løgdu yfir hann hvítt klædi, og sendu hann aptur til Pilatusar. Á þeim degi urdu þeir Pilatus og Heródes vinir; því ad ádur hafdi verid fjandskapur þeirra á milli.

2) En er Pilatus sat á dómstólnum, sendi

kona hans til hans, og lét ſegja honum: láttu þennan ſaklauſa mann vera; því að margt hefi eg liðið í dag í draumum hans vegna. Og Pilatus sagði við Gyðinga: þér hafið fært mér þennan mann, og sjá, eg hefi yfirheyrt hann í áheyrn yðar, og ekki fundið hann sekan um nokkuð það, er þér ákærið hann fyrir; ekki heldur Heródes; því að eg sendi yður til hans, og sjá, ekkert er það af honum drýgt, sem dauða sé vert. En það er venja hjá yður, að eg á páskum gefi yður einn bandingja lausan; hvern viljið þér nú að eg gefi yður lausan, konúng Gyðinga eða morðingjann Barrabas? Þá kölluðu þeir allir aptur, eins og Farisearnir höfðu feingið þá til, og sögðu: ekki þennan, heldur Barrabas. En Barrabas var fyrir upphlaup og manndráp settur í myrkvastofu, og var illa ræmdur fremur öllum öðrum. Þá tók Pilatus Jesúm, og húðstrýkti hann; en stríðsmennirnir fléttuðu kórónu af þyrnum og settu á höfuð hans, færðu hann í purpurakápu, létu reyr í hægri hönd hans, beygðu kné fyrir honum, hæddu hann, og sögðu: heill sértu, konúngur Gyðinga, og gáfu honum pústra. Þá gekk Pilatus aptur út til Gyðinga, og sagði: sjá, eg leiði hann út til yðar, svo að þér vitið, að eg finn einga sök hjá honum; eg hefi refsað

honum, og vil nú láta hann lausan. Sjáið manninn. Og Jesús gekk út, með þyrnikórónu á höfði og í purpurakápu. En er prestahöfðingjarnir og þjónar þeirra sán hann, æptu þeir og sögðu: krossfestu, krossfestu hann! Pílatus sagði þá við þá: takið þér hann, og krossfestið, því að eg finn einga sök hjá honum. Gyðingar svöruðu: vér höfum lög, og eptir vorum lögum á hann að deya; því að hann hefir gjört sig sjálfan að Guðs syni. Þegar Pílatus heyrði þetta, varð hann enn hræddari, gekk aptur inn í þinghúsið, og sagði við Jesúm: hvaðan ertu? En Jesús svaraði honum eingu. Pílatus sagði þá við hann: talar þú ekki við mig? Veiztu ekki, að eg hefi vald, til að krossfesta þig, og vald, til að láta þig lausan? Jesús svaraði: ekki hefðir þú vald yfir mér, ef þér væri ekki gefið það hér að ofan. Þess vegna hefir sá meiri synd, sem ofurseldi mig þér. Upp frá því leitaðist Pílatus við, hvernig hann gætið látið hann lausan; en Gyðingar kölluðu og sögðu: ef þú lætur þennan lausan, þá ertu ekki keisarans vinur; því að hver, sem gjörir sig að konúngi, hann er í móti keisaranum. Þegar Pílatus heyrði þetta, leiddi hann Jesúm út, og settist á dómstólinn, á þeim stað, sem heitir Gabbata;

en þá var adfángadagur páska, um sjøttu stundu. Og hann sagdi vid Gydínga: sjáid, þad er konúngur ydar. Þeir hrópudu: burt, burt med hann, krossfestu hann. Pílatus sagdi þá: á eg ad krossfesta konúng ydar? Hinir ædstu prestar svørudu: vér høfum eingan konúng nema keisarann. En er Pílatus sá, ad hann kom eingu til vegar, heldur ad þad urdu alt af meiri óhljód, tók hann vatn, þvodi hendur sínar fyrir fólkinu, og sagdi: saklaus er eg af blódi þessa réttláta manns; sjáid þér fyrir því! Þá mælti allur lýdur: hans blód komi yfir oss og børn vor.

### 31. Krossfestingin.

Þá fékk hann þeim Jesúm, ad hann yrdi krossfestur eptir þeirra vild, en gaf þeim Barrabas lausan. Færdu strídsmennirnir hann þá aptur í hans eigin klædi, og leiddu hann út til þess stadar, sem heitir Golgata, þad er: Hausaskeljastadur; og hann bar kross sinn. En er hann vard honum of þúngur, neyddu þeir mann, sem gekk þar fram hjá, ad nafni Símon frá Sýrene, sem kom frá akri, til ad bera krossinn eptir honum. Og honum fylgdi mikill fjøldi fólks og kvenna, sem hørmudu og grétu yfir honum. Jesús sneri sér þá til þeirra, og mælti: þér Jerúsalems dætur, grátid ekki yfir mér, heldur

yfir sjálfum ydur, og börnum ydar. Því sjá, sá tími mun koma, ad menn munu segja: sælar eru óbyrjur, og þau brjóst, sem ekki voru mylkt. Þá munu þeir segja til fjallanna: hrynjid yfir oss, og til hálsanna: hyljid oss. Því ad ef menn fara svo med hid græna tréd, hversu mun þá fara fyrir hinu visnada? — Med honum voru og út leiddir tveir illrædismenn. Og er þeir komu til aftökustadarins, budu þeir honum vín ad drekka, mirrublandad; en er hann hafdi smakkad þad, vildi hann ekki drekka. Sídan krossfestu þeir hann þar, og þessa illrædismenn med honum, annan til hægri, hinn til vinstri handar. En Pilatus skrifadi yfirskript, og festi hana á krossinn; hún hljódadi þannig: „Jesús af Nasaret, konúngur Gydinga," og var skrifud á ebresku, grísku og latínu. Þá sögdu hinir ædstu prestar Gydinga vid Pilatus: skrifa þú ekki: konúngur Gydinga, heldur ad hann hafi sagt: eg em konúngur Gydinga. Pilatus svaradi: þad, sem eg hefi skrifad, þad hefi eg skrifad. — En þad var um þridju stundu, ad þeir krossfestu Jesúm; og er stridsmennirnir höfdu krossfest hann, tóku þeir klædi hans, og skiptu þeim i fjóra parta, hverjum strídsmanni sinn part; líka tóku þeir kyrtilinn, en hann var ekki saumadur,

heldur prjónaður frá ofanverðu niður úr. Þeir sögðu því hver við annan: skerum hann ekki í sundur, hlutumst heldur um, hver hann skal hafa. Og þeir gjörðu það, svo að sú ritning rættist, sem segir: „þeir skiptu með sér klæðum mínum, og köstuðu hlut um kyrtil minn.“ — Og er Jesús nú hékk á krossinum, illmæltu þeir honum, sem fram hjá geingu, skóku höfuð sín, og sögðu: þú, sem brýtur niður musterið, og reisir það aptur á þremur dögum, hjálpa þú nú sjálfum þér. Ef þú ert sonur Guðs, þá stíg niður af krossinum. Líka hæddu hann hinir æðstu prestar, ásamt öldúngunum og hinum skriptlærðu, og sögðu: öðrum hefir hann hjálpað, sjálfum sér getur hann ekki bjargað. Ef hann er konúngur Israels, þá stigi hann nú niður af krossinum, og vér viljum trúa honum. Hann treysti Guði, hann hjálpi honum nú, ef honum er vel til hans. Því að hann sagði: eg em Guðs sonur. En Jesús sagði: faðir, fyrirgef þeim; þeir vita ekki hvað þeir gjöra. — En annar af þeim illvirkjum, sem voru krossfestir með honum, spottaði hann, og sagði: ef þú ert Kristur, þá hjálpa sjálfum þér og okkur. Þá svaraði hinn, ávítaði hann, og sagði: hræðist þú ekki heldur Guð, sem ert þó í sömu for-

dæmingu? Vid lídum ad sönnu maklega, þvi ad vid medtökum þad, sem okkar gjørdir voru verdar, en þessi hefir ekkert ilt adhafzt. Og hann sagdi vid Jesúm: Drottinn, minstu mín, þegar þú kemur i ríki þitt. Jesús svaradi: sannlega segi eg þér, i dag skaltu vera med mér i paradís! — En þar stód hjá krossinum módir Jesú, og módursystir hans, og María frá Magdølum. Þegar nú Jesús sá módur sína, og þann lærisvein, sem hann elskadi, standa þar hjá, sagdi hann vid módur sína: sjá, þad er þinn sonur. Sídan sagdi hann vid lærisveininn: sjá, þad er þin módir. Og frá þeirri stundu tók lærisveinninn hana ad sér. — Og um sjøttu stundu gjørdi myrkur yfir alt landid, alt til hinnar níundu stundar. En um níundu stundu kalladi Jesús hárri røddu, og sagdi: Eli, Eli, lama sabaktani? Þad er: Gud minn, Gud minn, hvi hefir þú yfirgefid mig? En er nokkrir af þeim, sem þar stódu hjá, heyrdu þad, søgdu þeir: sjá, hann kallar á Elias. Vitum til, hvort Elias kemur, ad taka hann ofan. — En þar ed Jesús vissi, ad alt var nú fullkomnad, svo ad ritningin skyldi rætast, sagdi hann: mig þyrstir. Þar stód ker fult af ediki; og þeir fyltu njardarvøtt med edik, settu hann á

reyrlegg, og báru Jesú ad munni. — En er Jesús hafid edikid til sín tekid, sagdi hann: þad er fullkomnad. — Og hann kalladi aptur hárri raustu, og sagdi: fadir, í þínar hendur fel eg minn anda. Og hann hneigdi høfudid, og gaf upp andann. — Og sjá, þá rifnadi fortjald musterisins í tvent, ofan frá og nidur í gegn, og jordin skalf og bjorgin klofnudu. En er hundradshøfdinginn, sem stód þar hjá og átti ad gæta Jesú, sá hvad þar skedi, vegsamadi hann Gud, og sagdi: sannarlega hefir þessi madur verid réttlátur, og Guds son. Og alt fólkid, sem þar var, bardi sér á brjóst, og sneri heim. — En svo ad líkhamirnir væru ekki á krossinum um hvíldardaginn, þá beiddu Gydingar Pílatus, ad bein þeirra væru brotin og ofan tekin. Komu þá strídsmenn, og brutu fótleggi hins fyrsta, og svo hins annars, sem med honum høfdu verid krossfestir. En er þeir komu ad Jesú, og sáu ad hann var þegar dáinn, brutu þeir ekki fótleggi hans, en einn af strídsmønnunum stakk spjóti í sídu hans, og rann þar þegar út blód og vatn.

## 32. Greptranin.

En er kvøld var komid, kom Jósep af Arimatia, gøfugur rádherra, einn af lærisveinum

Jesú, þó heimuglegur af ótta fyrir Gydingum, til Pilatusar, og bad ad hann mætti taka ofan líkhama Jesú. Og Pilatus leyfdi þad. Hann fór þá til, tók ofan líkhama Jesú, og sveipadi hann í smágjördan lindúk med dýrum smyrslum, eins og sidur Gydinga er ad búa lík til greptrunar. Og hann lagdi hann í nýa grøf, í grasgardi sínum, høggna í klett, sem einginn ádur hafdi verid lagdur í, og velti steini fyrir grafarmunnann. En konur þær, sem høfdu komid med Jesú frá Galileu, fylgdu og eptir, skodudu legstadinn, og sáu hvernig lík hans var lagt. Sídan sneru þær heim aptur, og bjuggu til ilmandi smyrsl. En um hvíldardaginn héldu þær kyrru fyrir eptir løgmálinu. — Daginn eptir komu hinir ædstu prestar og Farisearnir til Pilatusar, og søgdu: oss er þad í minni, herra, ad þessi svikari sagdi, medan hann lifdi: eptir þrjá daga mun eg upp rísa. Lát þú því gæta legstadarins alt til hins þridja dags, svo ad lærisveinar hans komi ekki og steli hønum, og segi sídan lýdnum, ad hann sé upp risinn frá daudum; og verdi svo sídari villan verri hinni fyrri. Pilatus mælti: þarna hafid þér vardmennina, farid og gætid legstadarins, sem þér hafid bezt vit á. Þeir fóru

þá, létu varðmennina gæta grafarinnar, og innsigldu steininn.

## 33. Upprisan.

Að liðnum hvíldardeginum, snemma morguns hinn fyrsta dag vikunnar, um sólaruppkomu, komu þær María frá Magdølum, og hin önnur María, og Salóme, móðir Jakobs og Jóhannesar, til grafarinnar, og höfðu með sér smyrsl þau, er þær höfðu til búið. Þær sögðu þá hver við aðra: hver mun velta fyrir oss steininum frá grafarmunnanum? Því að hann var næsta mikill. En er þær litu þángað, sáu þær, að steininum var frá velt. Því að mikill jarðskjálfti hafði orðið, og sjá, eingill Drottins hafði komið frá himni, geingið þar að, velt steininum burt, og sezt á hann. Var ásýnd hans sem leiptur, og klæði hans björt sem snjór. En þeir, sem grafarinnar gættu, urðu svo hræddir, að þeir voru sem örendir. — Og er konurnar komu til grafarinnar, og sáu, að steininum var frá velt, hljóp María frá Magdølum aptur til Péturs, og þess lærisveins, sem Jesús elskaði, og sagði: það er búið að taka Drottinn burt úr gröfinni, og vér vitum ekki, hvar hann hefur verið lagður. En hinar konurnar geingu inn í gröfina, og sáu, að úngur maður sat þar hægra megin, skrýddur

hvitu sídu klædi, og þeim hnykti mjog vid. En hann sagdi til þeirra: hrædist ekki; þér leitid ad Jesú hinum nadverska, þeim er krossfestur var; hvi leitid þér hins lifanda medal hinna daudu? Hann er upp risinn, og er ekki hér; þarna er stadurinn, þar sem hann var lagdur. En farid, og segid þad lærisveinum hans og Pétri: hann mun fara á undan ydur til Galileu, þar munud þér sjá hann, eins og hann sagdi ydur. Pær fóru þá í skyndi út, og flúdu frá grofinni, þvi ad ótti og ofbod var yfir þær komid. Og þær sogdu þetta eingum, þvi ad þær voru hræddar. — En Pétur og hinn annar lærisveinn, sem Jesús elskadi, høfdu tekid sig upp, og hlupu ásamt til grafarinnar; hljóp hinn annar lærisveinn hradar en Pétur, og kom fyrr ad grøfinni. Og hann gægdist inn í grofina, og sá lindúkana liggja þar, en gekk ekki inn. Pá kom Simon Pétur á eptir honum, gekk inn í grøfina, og sá lindúkana liggja þar, og sveitadúkinn, sem hafdi verid um hofud hans, ekki hjá lindúkunum, heldur samanbrotinn á odrum stad, út af fyrir sig. Pá gekk og inn hinn annar lærisveinn, sem hafdi komid fyrr til grafarinnar, og sá, og trúdi. Sídan fóru þeir bádir heim til sín aptur. — Og Maria frá Magdølum kom aptur til grafarinnar, og grét

þar úti fyrir. En sem hún grét, gægdist hún inn í grøfina, og sá tvo eingla hvítklædda sitja þar, annan til høfda, hinn til fóta, þar sem Jesús hafdi legid. Og þeir søgdu vid hana: kona, hví grætur þú? Hún svaradi: af því ad búid er ad taka burt Drottinn minn, og eg veit ekki, hvar hann hefir verid lagdur. Í því hún sagdi þetta, vard henni litid aptur fyrir sig, og hún sá Jesúm standa þar, en hún vissi ekki, ad þad var Jesús. Jesús segir þá vid hana: kona, hví grætur þú? Ad hverjum leitar þú? En hún hugsadi, ad þad væri grasgardsvørdurinn, og sagdi vid hann: herra, ef þú hefir borid hann burtu, þá segdu mér, hvar þú hefir lagt hann, og mun eg sækja hann. Jesús sagdi: María! Hún sneri sér þá vid, og sagdi: Rabbúni, þad er lærimeistari! Jesús sagdi vid hana: far til brædra minna, og seg þeim, ad eg muni upp stiga til míns fødur, og ydvars fødur, til míns Guds, og ydvars Guds. María frá Magdølum fór, og sagdi vid lærisveinana, ad hún hefdi séd Drottinn, og ad hann hefdi sagt þetta vid sig. Einnig hinum konunum mætti Jesús, þegar þær fóru til baka, og sagdi: sælar verid þér. Og þær geingu til hans, fødmudu fætur hans, og féllu fram fyrir honum. Þá sagdi

Jesús vid þær: óttist ekki. Farid og segid brædrum mínum, ad þeir skuli fara til Galíleu; þar muni þeir sjá mig.

### 34. Lærisveinarnir frá Emaus.

Og sjá, tveir af lærisveinum Jesú fóru þennan sama dag til þorps nokkurs, sem var hér um bil hálfa adra mílu frá Jerúsalem, og hét Emaus. Þeir voru ad tala sín á milli um alt þetta, sem vid hafdi borid. Og þad skedi svo, er þeir voru ad tala um þetta, og spyrja hver annan, ad Jesús nálægdist þá, og gekk med þeim. En þeir þektu hann ekki. Hann sagdi þá vid þá: hvad er þad, sem þid erud ad tala um ykkar á milli á leidinni, og erud hryggir af? Þá svaradi annar þeirra, sem hét Kleófas, og sagdi vid hann: ert þú sá eini af øllum adkomumønnum í Jerúsalem, sem ekki veizt, hvad á þessum døgum hefir þar vid borid? Jesús spurdi: hvad er þad? Þeir søgdu: þad, ad Jesús frá Nasaret, sem var spámadur, máttugur í ordum og verkum fyrir Gudi og øllum mønnum, var af høfudprestum vorum og høfdingjum fram seldur til dauda, og krossfestur; en vér vonudum, ad hann mundi endurleysa Israel; og ofan á alt þetta, er í dag hinn þridji dagur, sídan þetta skedi. Líka hafa nokkrar konur vorar

hrætt oss, sem höfdu verid árla vid gröfina, en fundu ekki lík hans, komu, og sögdust hafa séd eingil, sem hefdi sagt, ad hann væri lifandi. Nokkrir af oss fóru líka til grafarinnar, og fundu alt, eins og konurnar höfdu sagt, en hann fundu þeir ekki. Jesús svaradi: ó, þér heimskir, og tregir í hjarta, ad trúa öllu því, sem spámennirnir hafa sagt. Átti Kristur ekki ad lída þetta, og inn gánga svo í sína dýrd? Og hann byrjadi á Móses og öllum spámönnunum, og lagdi út fyrir þeim alt þad í ritníngunum, sem hljóddi upp á hann. Og er þeir tóku ad nálgast þorpid, hvert þeir ætludu, lézt hann ætla ad fara leingra. En þeir bádu hann innilega, og sögdu: vertu hjá oss; því ad kvöld er komid, og á daginn lídur. Og hann fór inn í þorpid; og var hjá þeim. En svo bar vid, þegar hann sat til bords med þeim, ad hann tók braudid, gjördi þakkir, braut þad, og rétti ad þeim. Þá opnudust þeirra augu, svo þeir þektu hann; en hann hvarf frá þeim. Þeir sögdu þá hver vid annan: brann ekki hjartad í okkur, þegar hann taladi vid okkur á veginum, og lagdi út fyrir okkur ritníngarnar. Og þeir stódu þegar upp, fóru aptur til Jerúsalem, og fundu þar hina ellefu saman safnada, og þá, sem med

þeim voru; høfdu þeir læst dyrunum aptur, af ótta fyrir Gydingum. Og þeir sogdu þeim frá því, sem vid hafdi borid á veginum, og hvernig þeir hefdu þekt Jesum, í því hann braut braudid.

### 35. Jesús birtist hinum lærisveinunum.

En er þeir voru ad tala um þetta, stód Jesús sjálfur mitt á medal þeirra, og sagdi: fridur sé med ydur. En þeir urdu mjog óttaslegnir. Hann sagdi þá vid þá: hvad hrædist þér? Og hví vakna slíkar hugsanir í hjortum ydrum? Skodid hendur mínar og fætur, ad þad er eg, þreifid á mér, og gætid ad. Og er hann sagdi þetta, sýndi hann þeim hendur og fætur, og sína sídu. Þá urdu lærisveinarnir gladir, ad þeir sáu Drottinn. Og hann opnadi hugskot þeirra, svo þeir skildu ritningarnar, og sagdi vid þá: þannig átti Kristur ad lída, og á þridja degi ad rísa upp frá daudum, og láta í sínu umbodi boda ollum þjódum idran og synda fyrirgefningu; skyldi þad fyrst byrja í Jerúsalem. — En Tómas, sem þýdir tvíburi, einn af þeim tólf, var ekki med þeim, þegar Jesús kom! Hinir lærisveinarnir sogdu því vid hann: vér hofum séd Drottinn. Tómas svaradi: sjái eg ekki naglaforin í hondum hans, og láti fingur mína í þau, og hond mína í sídu hans, þá trúi eg því ekki. Og

eptir átta daga voru lærisveinar hans aptur þar inni og Tómas með þeim. Þá kom Jesús að luktum dyrum, stóð mitt á meðal þeirra, og sagði: friður sé með yður. Síðan sagði hann við Tómas: réttu fingur þinn hingað, og skoða hendur mínar, rétt hönd þína hingað, og legg hana á síðu mér, og vertu ekki vantrúaður, heldur trúaður. Tómas svaraði og sagði: Drottinn minn og Guð minn. Þá sagði Jesús við hann: af því þú sást mig, Tómas, trúðir þú. En sælir eru þeir, sem ekki sjá, og trúa þó. — Eptir þetta birtist Jesús aptur lærisveinum sínum við vatnið Tiberias. Voru þar saman: Símon Pétur, Tómas, Natanael, synir Sebedeusar, og tveir aðrir af lærisveinum hans. Þá sagði Símon Pétur við þá: eg vil fara að fiska. Þeir svöruðu: vér viljum fara með þér. Og þeir fóru á stað, og stigu á skip; en þá nótt feingu þeir ekkert. En er dagur ljómaði, stóð Jesús við vatnið, en lærisveinarnir vissu ekki, að hann var það. Jesús segir þá við þá: börn, hafið þér nokkuð að eta? Þeir svöruðu honum: nei. Hann sagði þá við þá: kastið netinu hægra megin við skipið, þá munuð þér afla. Þeir köstuðu því þá út, og gátu ekki dregið það. Þá segir sá lærisveinn, sem Jesús

elskadi, vid Pétur: þad er Drottinn. Þegar Simon Pétur heyrdi, ad þad væri Drottinn, batt hann ad sér kyrtil sinn, og fleygdi sér í vatnid; en hinir lærisveinarnir komu á skipinu, og drógu netid ad landi, sem var fult af stórum fiskum, hundrad fimmtíu og þremur. En er þeir voru geingnir á land, sjá þeir glædur, og fisk lagdan á þær, og braud. Jesús segir þá vid þá: komid og takid dagverd. En eingin af lærisveinunum dirfdist ad spyrja hann: hver ertu? Því ad þeir vissu, ad þad var Drottinn. Þá kom Jesús; tók braudid, og gaf þeim þad, sömuleidis líka fiskana. — En er þeir höfdu matast, sagdi Jesús vid Simon Pétur; Símon, elskar þú mig meir en þessir? Hann svaradi: já, Drottinn, þú veizt, ad eg elska þig. Jesús sagdi vid hann: gæt þú lamba minna. Hann sagdi þá aptur í annad sinn vid hann: Símon elskar þú mig? Hann svaradi: já, Drottinn, þú veizt, ad eg elska þig. Jesús sagdi þá vid hann: gæt þú sauda minna. Þá sagdi Jesús vid hann í þridja sinn: Símon, elskar þú mig? Af þessu ángradist Pétur, ad hann sagdi í þridja sinn vid hann: Símon elskar þú mig? og hann sagdi vid hann: Drottinn, þú veizt alla hluti, þú veizt, ad eg elska þig. Jesús sagdi þá vid

hann: gæt þú sauda minna. Sannlega, sannlega segi eg þér: þegar þú varst ýngri, gyrtir þú þig sjálfur, og gekst hvert þú vildir. En þegar þú verdur gamall, muntu rétta út hendur þínar, og annar mun gyrda þig, og leida þángad, sem þú ekki vilt. En þetta sagdi hann, til ad gefa ad skilja, med hverjum daudðaga hann mundi vegsama Gud. — Eptir þetta birtist Jesús hinum ellefu lærisveinum í Galileu, á einu fjalli, hvert hann hafdi bodad þá; og sagdi: alt vald er mér gefid á himni og á jordu. Farid því og kennid ollum þjódum, og skírid þær í nafni fodur, sonar og heilags anda, og kennid þeim ad gæta als þess, sem eg hefi bodid ydur. Og sjá, eg er med ydur alla daga, alt til enda heims. Og er hann hafdi þetta sagt, baud hann lærisveinunum ad fara aptur til Jerúsalem, og bída sín þar; og þeir fóru þángad aptur. Þannig lét hann sjá sig medal lærisveina sinna í fjørutíu daga, og taladi vid þá um Guds ríki.

## 36. Himnaforin.

Og Jesús fór med lærisveina sína frá Jerúsalem út til Betaníu til vidsmjørsvidarfjallsins, og sagdi vid þá: farid ekki burt úr Jerúsalem, heldur bídid þar eptir fyrirheiti fødursins, hvert

þér hafið heyrt af mér. Því að Jóhannes skírði með vatni, en þér skuluð skírðir verða með heilögum Anda, og öðlast krapt af hæðum, ekki mörgum dögum eptir þennan. Og hann hóf upp hendur sínar, og blessaði þá. En það skeði í því að hann var að blessa þá, að hann varð upp numinn að þeim ásjáandi, og ský tók hann frá augum þeim, og hann var hafinn í himininn. — Og er þeir störðu til himins, þegar hann steig upp, þá stóðu hjá þeim tvo úngmenni í hvítum klæðum, sem sögðu: þér menn frá Galíleu, hví standið þér, og horfið til himins? Þessi Jesús, sem er upp numinn frá yður til himins, mun koma aptur, eins og þér nú sáuð hann héðan fara. En þeir tilbáðu hann, snéru aptur til Jerúsalem með miklum fögnuði, voru stöðuglega í musterinu, og lofuðu Guð.

---

## Saga postulanna.

### 37. Nýr postuli valinn.

En Júdas frá Kariot, sem sveik Drottinn, var ekki framar meðal þeirra. Því að þegar hann sá, að Jesús var til dauða dæmdur, iðraðist hann, og skilaði hinum æðstu prestum og öldúngum aptur hinum þrjátíu silfurpeningum, og mælti:

illa gjørdi eg, er eg sveik saklaust blóð. Þeir søgðu: hvað varðar oss um það? Sjá þú fyrir því. Og hann snaraði silfrinu á musterisgólfið, fór burt, og heingdi sjálfan sig. En hinir æðstu prestar tóku silfrið, og søgðu: ekki hæfir, að vér leggjum það í guðskistuna, því að það hefir verið til høfuðs lagt. Og þeir héldu ráð, og keyptu fyrir það akur leirkerasmiðs, til að jarða þar í útlenda menn; þess vegna er líka þessi akur enn þá kallaður blóðsakur. — En hinir ellefu lærisveinar héldu ávalt allir saman með eindrægni í bæn og ákalli, ásamt konunum, og María, móður Jesú, og bræðrum hans. Pétur stóð þá upp meðal þeirra, og sagði: einn af oss er glataður, Júdas frá Kariot, sem sveik Drottinn; því hæfir, að einhver þessara manna, sem alla tíð hafa verið með oss, frá því að Drottinn Jesús tók að gánga út og inn meðal vor, alt frá skírn Jóhannesar til þess dags, er hann var frá oss upp numinn, verði vottur upprisu hans ásamt oss. Og þeir tóku tvo til, Jósep, sem kallaður var Barsabas, og Mattías, báðust fyrir, og søgðu: Drottinn, þú, sem þekkir hjørtu allra, sýndu, hvorn þessar atveggja þú hefir valið, til að taka við þessu embætti og postuladæmi, frá hverju Júdas veik. Og þeir vørpuðu hlutum um það,

og hluturinn féll á Mattias, og hann var kjörinn til postula með hinum ellefu.

### 38. Sending heilags Anda.

Þegar nú hvítasunnudagurinn kom, voru þeir allir með einum huga til samans. Og þar varð skyndilega þytur frá himni, eins og aðdynjanda mikils vindar, sem fylti alt húsið, sem þeir sátu í. Og þeir sáu eldsloga, eins og túngur, sem kvíslaðust og settust yfir hvern þeirra; og þeir urðu fullir af heilögum anda, og tóku að tala annarlegum túngum, eptir því sem andinn gaf þeim að tala. En í Jerúsalem voru Gyðingar, guðhræddir menn af als konar þjóðum, sem eru undir himninum. Þegar nú þessi hvinur varð, kom mannfjöldinn til samans, og brá mjög við; því að hver einn heyrði þá tala sitt túngumál. Og þeir urðu allir svo sem frá sér, og sögðu hver við annan: sjá, eru ekki allir þessir, sem tala, úr Galileu? Hvernig heyrir þá hver af oss þá tala sitt túngumál? Vér heyrum þá tala á vorar túngur um Guðs stórmerki. Þá gekk Pétur fram, hóf upp raust sína, og talaði við þá um Krist, son Guðs, og upprisu hans, um iðran og yfirbót, og um Guðs ríki, til hvers þeir heyri, sem trúi á Krist, og hlýðnist hans heilaga lærdómi. Og margir létu skipast við kenníngu hans,

medtóku fúslega hans ord, og létu skírast. Bættust vid á þeim degi nær þrjár þúsundir manna.

**39. Hinn fyrsti kristni sofnudur.**

En søfnudur hinna trúudu var eitt hjarta og ein sál, og þeir héldu stødugléga vid kenníngu postulanna, vid samnautn og bæn. Voru þeir allir ávalt saman, og høfdu alt sameiginlegt; og einginn sagdi um efni sín, ad þau væru sín, heldur seldu þeir eignir sínar og góz, og úthlutudu øllum af því, eins og hver hafdi þørf á. Svo þar var einginn þurfamadur medal þeirra; því ad hver, sem átti fasteign eda hús, hann seldi þad, kom med andvirdid, og fékk postulunum, sem úthlutudu sérhverjum, eptir því sem hann hafdi þørf til. Og søfnudurinn var daglega og ávalt samhuga saman í musterinu, og brutu braudid híngad og þángad í heimahúsum, møtudust og lofudu Gud med gledi og hreinskilnum hjørtum, og høfdu vinsæld af øllum lýd. Bætti Drottinn daglega nokkrum vid sofnudinn, sem hólpnir urdu. — En þar ed tala lærisveinanna óx svo mjøg, þá køllydu hinir tólf alla lærisveinana saman, og søgdu: þad er ekki gott, ad vér yfirgefum Guds ord, til ad þjóna fyrir bordum, (ad sjá um líkamlegar þarfir). Skygnist því, brædur, eptir sjø mønnum ydar á medal, sem séu vel

rœmdir, og fullir af heilögum anda og speki, svo vér getum falið þeim á hendur þessa nauðsyn, efna-umsjón og aðhlynníngu sjúkra. En vér viljum vera stöðugir við bænahaldið og orðsins þjónustu. Þessi ummæli féllu öllum söfnuðinum vel í geð, og þeir útvöldu Stefán, mann fullan trúar og heilags anda, og sex aðra með honum. Geingu þeir fram fyrir postulana, en þeir báðust fyrir, og lögðu hendur yfir þá. — En maður, að nafni Ananías, hvers kona hét Saffíra, seldi fasteign sína, dróg nokkuð undan af verðinu, með vitund konu sinnar, en færði postulunum nokkuð, og lagði fyrir fætur þeim. Þá sagði Pétur: Ananías, hví léztu Satan koma þér til, að ljúga að heilögum anda, og draga af jarðarverðinu? Var hún ekki þín, á meðan henni var ófargað, og, þegar hún var seld, áttirðu þá ekki ráð á verði hennar? Hvernig gaztu þá látið þér hugkvæmast að gjöra þetta? Þú hefir ekki logið að mönnum, heldur að Guði. En er Ananías heyrði þessi orð, datt hann niður, og gaf upp öndina. Og úngir menn bjuggu um líkið, báru það burt, og jörðuðu. — Að liðnum svo sem þrem stundum bar svo til, að kona hans gekk þar inn, og vissi ekki hvað orðið var. Pétur sagði þá við hana: segðu mér, selduð þið akur-

inn fyrir þetta verd? Hún svaradi: já, fyrir þetta verd. Pétur mælti: hvi urdud þid samráda i, ad freista anda Drottins? Sjá, fætur þeirra, sem greptrudu mann þinn, eru vid dyrnar, og munu bera þig út. Og jafnskjótt datt hún nidur fyrir fætur honum, og gaf upp andann. Þá komu hinir úngu menn, og fundu hana dauda, báru hana út, og grófu hjá manni sinum.

## 40. Gudlegur máttur Péturs og Jóhannesar.

En þeir Pétur og Jóhannes geingu saman upp i musterid á venjulegri bænatid, um niundu stundu. Og þar var madur, haltur frá módurlifi, sem lét bera sig, og þeir settu hann daglega vid þær dyr musterisins, sem nefnduft hinar fögru, svo ad hann bædi sér ölmusu af þeim, sem geingu inn i musterid. Þegar hann nú sá Pétur og Jóhannes, bad hann þá um ölmusu. Pétur leit þá á hann ásamt Jóhannesi, og sagdi: littu upp á okkur. Og hann leit á þá, og hugsadi, ad hann mundi fá eitthvad hjá þeim. En Pétur sagdi: silfur og gull á eg ekki, en þad sem eg hefi, þad gef eg þér; i nafni Jesú Krists frá Nasaret, statt upp og gakk. Og hann tók i hægri hönd hans, og reisti hann á fætur. Urdu iljar hans og öklar þá jafnskjótt styrkvir, svo ad hann

spratt upp, og gat geingid og stadid; og hann gekk med þeim inn í musterid, gekk um kríng og hljóp, og lofadi Gud. Og alt fólkid sá hann gánga, og fyltist undran yfir því, sem vid hann hafdi verid gjort. — Þegar Pétur sá þad, sagdi hann vid fólkid: þér Israelsmenn, hvi furdar ydur á þessu? Og hví starid þér á okkur, eins og vid hefdum af eigin mætti eda fyrir eigin gudhrædslu látid þennan mann gánga? Gud fedra vorra hefir vegsamad sinn heilaga son Jesúm, sem þér ofurseldud, og afsøgdud fyrir Pílatusi, þegar hann ályktadi, ad láta hann lausan. Þér afsøgdud hinn heilaga og réttláta, og bádud um mordingja; þér létud aflífa lífsins foríngja, en Gud upp vakti hann frá daudum, sem vér erum vottar ad. Og trúin á hans nafn er þad, sem hefir gjørt þennan, sem þér horfid á og þekkid, heilan fyrir augum ydar. Nú veit eg, brædur, ad þér, eins og høfdíngjar ydar, gjørdud þad af vanþekkíngu; takid því sinnaskipti, og bætid ród ydar, svo ad ydar syndir verdi afmádar, og blessan ríkisins komi yfir ydur. Og margir af þeim, sem heyrdu rædu Péturs, trúdu, og tala þeirra var nær fimm þúsundir. En prestunum og vardmannaforíngja musterisins gramdist þad, ad þeir kendu fólkinu, og bodudu Jesú upprisu

fra dandum. Og þeir lögdu hendur á þá, og settu í vardhald til næsta morguns. Þá komu saman höfdíngjarnir, öldúngarnir og hinir skriptlærdu, kölludu þá fyrir sig, og spurdu þá: med hvada valdi eda í hvers nafni hafid þér gjört þetta? Pétur, fullur heilags anda, sagdi vid þá, þér höfdíngjar lýdsins, med því vér í dag eigum ad verda yfirheyrdir um gódverkid á hinum hruma manni, þá sé ydur og öllum Israels lýd vitanlegt: ad í nafni Jesú Krists frá Nasaret, sem þér krossfestud, en Gud vakti upp frá dandum, stendur þessi hér heilbrigdur fyrir augum ydar. Hann er sá steinn, hvern þér byggingarmenn einkis mottud, en sem nú er ordinn ad hyrningarsteini. Af eingum ödrum er hjálprædis ad vænta, og þad er ekkert annad nafn mönnum gefid, fyrir hvert vér fáum hólpnir ordid. En er þeir sáu einurd Péturs og Jóhannesar, undrudust þeir; því ad þeir vissu, ad þeir voru ólærdir almúgamenn, og ad þeir höfdu verid med Jesú. Og þeir hótudu þeim hördu, og bönnudu þeim ad tala framar eda kenna í nafni Jesú. En Pétur og Jóhannes svörudu þeim og sögdu: dæmid sjálfir, hvort þad sé rétt fyrir augum Guds, ad vér hlýdum ydur

fremur en Gudi? Vér getum ekki látid vera, ad tala þad, sem vér høfum séd og heyrt. Þeir ógnudu þeim þá enn fremur, og sleptu þeim svo, af því þeir vissu ekki, hvernig þeir ættu ad refsa þeim vegna fólksins; því ad þad lofadi Gud fyrir þann, sem á svo dásamlegan hátt hafdi verid læknadur. — Þegar búid var ad láta þá lausa, komu þeir til félaga sinna, hófu sambuga raust sína til Guds, bádu, og lofudu Drottinn. Og þeir urdu alt af fleiri, sem trúdu á Drottinn. Bar fólkid sjúka menn út á strætin, svo ad þegar Pétur kæmi, félli ad minsta kosti skuggi hans á einhvern þeirra. Og þeir kendu í musterinu og tøludu í Jesu nafni. En er høfudprestarnir heyrdu þad, skárust þeir innra, og hugsudu sér ad lífláta þá. En þá stód upp í rádinu Farisei einn, ad nafni Gamaliel, skriptlærdur, vel metinn af øllu fólki, og sagdi vid øldúngana: Þér Israelsmenn, athugid vel, hvad þér gjørid vid þessa menn. Eg ræd ydur: hættid vid þá, og látid þá vera. Því ad, ef þetta áform eda fyrirtæki er af mønnum, mun þad verda ad eingu, en ef þad er af Gudi, þá megnid þér ekki ad kefja þad. Látid ydur ekki verda fundna í því, ad vilja standa gegn Gudi. Á þetta féllust þeir; kølludu á postulana, húdstrýktu þá, bønnudu þeim

að tala í Jesú nafni, og létu þá svo lausa. En þeir geingu glaðir burt úr augsýn ráðsins yfir því, að þeir hefðu verið virtir þess, að líða háðúng sökum viðurkenningar Jesú; og þeir hættu ekki að kenna, og boða fagnaðarlærdóminn um Jesúm Krist.

41. Stefán.

En Stefán, einn af fátækraforstjórunum, fullur náðar og styrkleika, gjörði tákn og stórmerki meðal fólksins. Þá tóku sig til nokkrir af samkundu Gyðinga, og þreyttu spurningar við hann. En þeir gátu ekki staðið gegn vizku þeirri og andagipt, sem hann talaði af. Þeir æstu þá upp almúgann, öldúngana og hina skriptlærðu, og sögðu: vér höfum heyrt hann tala smánarorð móti Guði og Mósi; og þeir gripu hann, leiddu hann fyrir ráðið, og létu ljúgvitni koma fram gegn honum. En hann bar það af sér, og allir, sem í ráðinu sátu, störðu á hann, og sáu, að ásjána hans var eins og eingils ásjána. Og hann var fullur heilags anda, leit upp til himins, sá dýrð Guðs, og mannsins son á hægra veg föðurnum, og sagði: sjá, eg sé himnana opna, og mannsins son standa á hægra veg Guði. En þeir æptu hátt, byrgðu fyrir eyrun sér, réðust samhuga á hann, hnepptu hann út úr borginni,

og grýttu hann. En hann ákalladi Jesúm, og sagdi: Drottinn Jesús, medtak þú anda minn! Sídan féll hann á kné, og hrópadi hárri roddu: Drottinn, lát þá ekki gjalda þessarar syndar! Og þegar hann hafdi þetta sagt, sofnadi hann.

## 42. Páll tekur kristni.

En vottarnir, sem urdu ad kasta á hann hinum fyrstu steinum, lögdu klædi sín vid fætur úngmennis nokkurs, ad nafni Sál, sem lét vel yfir lífláti hans. Hófst þá um sömu mundir mikil ofsókn gegn söfnudinum í Jerúsalem, og þeir tvístrudust allir vids vegar um héruð Júdeu og Samaríu, nema postularnir. Og Sál gekk hvervetna í hús hinna trúudu, og dró þadan menn og konur, sem hann afhenti í vardhald, og linti ekki ógnunum og manndrápi vid lærisveina Drottins. Og hann fór til hins ædsta prests, og bad hann um bréf til samkundanna í Damaskus, svo ad ef hann findi nokkra kristna, þá mætti hann færa þá bundna til Jerúsalem. Í þeirri ferd bar svo til, þegar hann nálgadist Damaskus, ad ljós af himni leyptradi skyndilega um hann; og sem hann féll til jardar, heyrdi hann rödd segja vid sig: Sál, Sál, hví ofsækir þú mig? Hann sagdi: hver ertu? Drottinn svaradi: eg er

Jesús, sem þú ofsækir. Erfitt mun þér verda ad spyrna móti broddinum. Hann sagdi med ótta og hrædslu: Drottinn, hvad viltu ad eg skuli gjora? Drottinn sagdi þá vid hann: statt upp, og gakk inn i borgina; þar mun þér verda sagt, hvad þér ber ad gjora. En þeir, sem med honum voru, stódu eins og høggdofa; þvi ad þeir heyrdu raustina, en sáu eingan. Þá reis Sál á fætur, og er hann lauk upp augunum, sá hann eingan. Og þeir leiddu hann sér vid hønd, og fóru med hann inn i borgina. Var hann þar i þrjá daga sjónlaus, og át ekki né drakk. — En i Damaskus var lærisveinn nokkur, sem hét Ananias; vid hann sagdi Drottinn i sýn: Ananias, stattu upp og far til Sáls, þvi ad sjá, hann bidst fyrir. Hann er mér útvalid verkfæri, til ad bera nafn mitt fram fyrir heidnar þjódir, og konúnga, og Israels børn. Þá fór Ananias af stad, kom i húsid, lagdi hendur yfir hann, og mælti: Sál, bródir, Drottinn sendi mig, svo þú feingir sjón þina aptur, og fyltist heiløgum anda. Þá féll þegar eins og hreistur af augum hans, og hann vard heilskygn; og hann stód upp og var skirdur, og er hann hafdi neytt fædu, styrktist hann. Og er hann hafdi dvalid nokkra stund hjá lærisveinunum i Damaskus,

bodadi hann Krist í samkunduhúsunum, ad hann væri Guds son. En allir, sem þad heyrdu, undrudust stórum, og sögdu: er þessi ekki sá, sem ofsótti í Jerúsalem alla þá, sem ákölludu þetta nafn. En Sál efldist meir og meir, og hrakti Gydínga, sem bjuggu í Damaskus. Og hann fór til Jerúsalem, og var leiddur til lærisveinanna, og tekinn í tölu þeirra. Höfdu söfnudirnir nú frid um alla Júdeu, Galileu og Samaríu, efldust, og fram geingu í ótta Drottins, fullir af huggun heilags anda.

## 43. Pétur í fángelsi.

Nokkru eptir þetta lagdi Heródes konúngur hendur á nokkra af söfnudinum, til ad misþyrma þeim, og lét drepa Jakob bródur Jóhannesar, med sverdi. Og er hann sá, ad Gydingum gedjadist þad vel, hélt hann á fram, og lét einnig handtaka Pétur, afhenti hann sextán hermönnum, sem skyldu gæta hans til skiptis, fjórir í senn, og ætladi sér eptir páskana, ad framselja hann fólkinu, til lífláts. — Þannig var Pétur þá geymdur í myrkvastofu, en söfnudurinn bad án afláts fyrir honum til Guds. Og þad skédi svo, þegar Heródes ætladi ad láta leida hann fram, ad Pétur svaf nóttina ádur milli tveggja hermanna, bundinn med

tveimur vidjum, og vardmenn úti fyrir dyrnunum gættu myrkvastofunnar. Og sjá, eingill Drottins stód hjá honum, og ljós leiptradi um húsid; og hann hrærdi vid sídu Péturs, vakti hann, og sagdi: stattu skjótt upp; duttu þá vidjurnar af höndum hans. Og eingillinn sagdi vid hann: gyrd þig, og bind á þig skó þína; og hann gjordi svo. Þá sagdi eingillinn enn fremur vid hann: kasta skykkju þinni yfir þig, og fylg mér. Og hann gekk út og fylgdi honum, en ekki vissi hann, ad þetta, sem eingillinn gjordi, væri svo í raun og veru, heldur hélt hann, ad hann sæi sýn. En þeir geingu í gegnum hinn fyrsta og annan vardflokk, og er þeir komu til járnhlidsins, sem liggur til borgarinnar, þá lauk þad sér sjálft upp fyrir þeim. Og er þeir voru komnir út um þad, og geingu á fram um eitt stræti, þá skildi eingillinn alt í einn vid hann. Þegar nú Pétur kom til sjálfs sín, sagdi hann: nú veit eg sannlega, ad Drottinn hefir sent eingil sinn, og hrifid mig úr höndum Heródesar, og frá allri eptirvænting Gydingalýds. Og hann kom ad húsi Maríu, módur Markúsar, þar sem margir höfdu safnazt saman, og voru á bæn. En er hann drap á útidyrahurdina, gekk stúlka fram, ad nafni Róde, til ad hlusta eptir; og er

hún þekti málróm Péturs, vard fögnudurinn svo mikill, ad hún lauk ekki upp, heldur hljóp inn, og sagdi ad Pétur stædi úti. Þeir sögdu vid hana: þú ert frávita. En hún stód fast á, ad svo væri. Þeir sögdu þá vid hana: þad er þá eingill hans. En Pétur hætti ekki ad berja ad dyrum; og er þeir luku upp, og sáu hann, urdu þeir hissa. En hann benti þeim med hendinni, ad þeir þegdu, og sagdi þeim, hvernig Drottinn hefdi leitt sig úr myrkvastofunni, og bad þá ad kunngjöra þad brædrunum. Og hann fór burt, og fór í annan stad.

### 44. Starf Páls ad útbreidslu nádarlærdómsins.

Eptir þetta var Sál, sem líka kallast Páll, sendur ásamt Barnabas, til ad boda ord Drottins í mörgum borgum í Asíu. Og þeir fóru um kring, og kendu, og útbreiddu lærdóminn í Antiokkíu, (þar sem lærisveinarnir fyrst voru kalladir kristnir) Ikóníu, Lystra og fleiri borgum. Og þar var madur í Lystra, sem var haltur frá módurlífi, og hafdi aldrei getad geingid. Hann hlustadi á rædu Páls; og er Páll festi auga á honum, og sá, ad hann trúdi, ad sér mundi verda hjálpad, sagdi hann med hárri raustu: stattu uppréttur á fætur þínar.

Og hann stökk upp og gekk. En er fólkid sá þad, sem Páll gjordi, hóf þad upp raust sína, og sagdi á lýkaóniskn: gudirnir hafa tekid á sig mannlega mynd, og eru komnir nidur til vor. Og þeir nefndu Barnabas Júpiter, og Pál Merkúrius, af því ad hann var fyrir svörum. En prestur Júpiters, sem var verndargud bæarins, kom med naut og kransa, og vildi færa þeim fórnir ásamt fólkinu. Þegar postularnir heyrdu þad, rifu þeir klædi sín, stukku fram í mannþrönngina, kölludu og sögdu: gódir menn, því gjorid þér þetta? Vér erum dandlegir menn, eins og þér, en bodum ydur þad fagnadarerindi, ad þér skulud snúa frá þessum fánýtu gudum til hins lifanda Guds, sem hefir gjört himin og jörd, og hafid, og alt, sem í þeim er. Hann hefir aldrei látid sig án vitnisburdar, og veitt oss mikid gott, gefid oss dögg af himni og frjófsamar árstídir, og mettad hjörtu vor med fædu og fögnudi. Þegar þeir höfdu þetta sagt, gátu þeir naumast aptrad fólkinu frá, ad færa þeim fórnir. — Og Páll fór hédan gegnum Písidín og Frygín, Mysín og Pamfilín, og sneri mörgum til lærdóms hjálprædisins, og kom til Masedonín til höfudborgarinnar Filippí. Hér vard uppreisn í móti þeim, og menn sögdu:

þessir menn, sem eru Gydingar, óróa borg vora, og boda oss sidu þá, sem oss, rómverskum mønnum, leyfist hvorki ad þýdast, né fylgja. Og þeir voru húdstrýktir, varpad í myrkvastofu, og vandlega gætt. En um midnætti bádust þeir fyrir Páll og Silas, fylgdarmadur hans, og lofudu Gud, og hinir fángarnir hlýddu á. Þá vard skyndilega mikill jardskjálfti, svo ad grundvøllur fángelsisins hristist; og jafnskjótt opnudust allar dyr, og allir fjøtrar leystust. Og er myrkvastofuvordurinn vaknadi, og sá dyr myrkvastofunnar opnar, brá hann sverdi, og vildi fyrirfara sér; því ad hann hélt, ad bandingjarnir væru burt flúnir. Páll hrópadi þá hátt og sagdi: gjør þér ekkert ilt, vér erum hér allir. En hann heimti ljós, støkk inn, og féll titrandi fyrir fætur Páli og Silasi; leiddi þá út, og sagdi: hvad skal eg gjøra herrar, svo eg verdi hólpinn? Þeir søgdu: trúdu á Drottinn Jesúm, þá munt þú og hús þitt hólpinn verda. Þeir bodudu honum þá ord Drottins; og hann tók þá til sín samstundis um nóttina, þvodi benjar þeirra, lét þegar skíra sig og alla menn sína, og var gladur ásamt øllu heimafólki sínu yfir því, ad hann trúdi á Gud. Þegar bjart var ordid, sendu høfudsmenn bæarins, og søgdu:

láttu þessa menn lausa. En Páll sagdi vid þá: þeir hafa án dóms og laga látid opinberlega húdstrýkja oss, sem þó erum rómverskir menn, og setja í myrkvastofu, og ætla nú leynilega ad reka oss á burt. Pad skal ekki svo vera, heldur komi þeir sjálfir, og leidi oss út. Veldisþjónarnir fluttu hofudsmonnunum þessi ord; en þeir urdu hræddir, þegar þeir heyrdu, ad þeir væru rómverskir, komu, og fóru vel ad þeim, leiddu þá út, og bádu þá ad fara úr borginni. — Þegar Páll og Silas voru sloppnir úr þessu vardhaldi, foru þeir til Lydíu, og um margar fleiri borgir alt til Atenu. Kendi Páll þar hvern dag í samkunduhúsinu og á torginu. En nokkrir epikúriskir og stóiskir spekingar gáfu sig í ordakast vid hann, og nokkrir sogdu: hvad mun þessi skraf-finnur ætla sér? Adrir sogdu: þad sýnist sem hann bodi óþekta gudi. Og þeir tóku hann, og leiddu upp á Areópagus, og sogdu: megum vér líka fá ad vita, hver hinn nýi lærdómur er, sem þú bodar? Þvi ad eitthvad nýtt flytur þú oss til eyrna, og oss fýsir ad vita, hvad þad er. En ollum Atenumonnum, eins og þeim adkomandi, sem dvoldu þar, var ekkert svo kært, sem ad segja eda heyra eitthvad nýtt. Þegar nú Páll þannig stód mitt á Areópagus,

sagdi hann: Atenumenn, þad sé eg á øllu, ad þér erud miklir trúmenn; því ad þegar eg gekk hér um, og skodadi helgidóma ydar, þá fann eg medal annars eitt altari, sem stód skrifad á: „hinum ókunna Gudi." Þennan Gud, sem þér dýrkid óvitandi, hann boda eg ydur. Sá Gud, sem gjørdi heiminn, og alt sem í honum er, hann, sem er herra himins og jardar, býr ekki í þeim musterum, sem med høndum eru gjørd; ekki heldur verdur honum þjónad med manna høndum, svo sem þurfi hann nokkurs vid, þar ed hann sjálfur gefur øllu líf og andardrátt og sérhvad annad. Hann hefir gjørt, ad allar mannanna kynkvíslir búa á øllum jardarhnettinum af einum ættstofni, og fastsett ákvedin tímabil og ákvedin takmørk fyrir bústødum þeirra. Svo ad þær skyldu leita Guds, ef verda mætti, ad þær þreifudu á honum og findu hann, jafnvel þó hann sé ekki lángt frá sérhverjum af oss; því ad í honum lifum, hrærumst og erum vér; eins og líka nokkur skáld ydar hafa sagt: vér erum hans ættar. Fyrst vér þá erum Guds ættar, megum vér ekki hugsa, ad guddómurinn sé líkur myndum úr gulli, silfri eda steini, sem gjørdar eru af hugviti manna. Ad vísu hefir Gud umborid tídir vanvizkunnar, en nú lætur

hann hvervetna bjóda ǫllum mǫnnum, ad bæta rád sitt, af þeim manni, sem hann hefir upp vakid frá daudum, og fyrir hvern hann fram býdur sérhverjum trúna. En er þeir heyrdu nefnda upprisu framlidinna, gjǫrdu sumir gis ad því; en adrir sǫgdu: vér viljum heyra þig ǫdru sinni tala um þetta. Fór Páll þá frá þeim. En nokkrir héldu sér til hans, og urdu trúadir.

## 45. Páll í fángelsi.

Eptir þetta stofnsetti Páll enn fleiri nýa sǫfnudi, í Korintu og Efesus, og fleiri borgum; og ord Drottins efldist krǫftuglega og fékk yfirhǫnd. — En er hann hafdi gjǫrt alt þetta, fór hann aptur til Jerúsalem, og sagdi brædrunum nákvæmlega frá sérhverju því, sem Gud hafdi framkvæmt fyrir þjónustu hans, medal heidinna þjóda. Þegar þeir heyrdu þad, vegsǫmudu þeir Gud. En er hann gekk í musterid, sáu hann Gydingar frá Asíu, æstu upp allan lýdinn, lǫgdu hendur á hann, og hrópudu: hjálpid, Israelsmenn, þetta er madurinn, sem alstadar er ad kenna ǫllum, í móti þjód þessari, lǫgmálinu, og þessum heilaga stad. Og ǫll borgin vard uppvæg, og múgurinn flyktist saman, handtók Pál, og dró hann út úr musterinu. En er

þeir leitudust vid ad lífláta hann, komu þau bod til hofudsmanns herflokksins, ad oll Jerúsalem væri í uppnámi. Hann tók þá þegar hermenn med sér, og hljóp nidur til þeirra; en er þeir sáu hofudsmanninn og hermennina, hættu þeir ad lemja Pál. Hofudsmadurinn tók hann þá, skipadi ad binda hann med tveimur vidjum, og spurdi, hver hann væri, og hvad hann hefdi adhafzt? En er sitt kalladi hver úr mannfjoldanum, og hann gat ekkert áreidanlegt feingid ad vita vegna háreystinnar, baud hann ad leida hann í vígid. En er komid var ad víginu, urdu hermennirnir ad bera hann, vegna áfergju fólksins; því ad margt fólk fylgdi á eptir, og hrópadi: burt med hann! En er Páll átti ad látast inn í festínguna, sagdi hann vid hofudsmanninn: er mér leyfilegt ad tala nokkud vid þig? Hann svaradi: kantu grisku? Ertu ekki hinn egypzki madur, sem fyrir skemstu vaktir upphlaup, og færdir fjogur þúsund flugumenn út á eydimorku? Páll svaradi: eg em Gydingur, frá Tarsus, og borgari þessa ekki ónafnkenda stadar í Silisíu. Eg bid þig, leyf mér ad tala til fólksins á ebresku túngu. Og þeir heyrdu leingi á hann; en þegar hann taladi um Jesúm og lærdóm hans, og umvendan heidingja, þá hófu þeir upp raddir

sínar, og søgdu: burt með hvílíkan mann af jørð-unni, því að það hæfir ekki, að hann lifi. Og sem þeir hrópuðu, og fleigðu klæðum sínum, og jusu mold í lopt upp, bauð høfuðsmaðurinn að leiða hann inn í festinguna, húðstrýkja hann, og kúga til sagna, svo að hann feingi að vita, fyrir hverja søk þeir hrópuðu svo gegn honum. Þegar þeir þá fóru að leggja bønd á hann, sagði Páll við hundraðshøfðingjann, sem hjá stóð: er yður leyft að húðstrýkja rómverskan borgara, og það óðæmdan? En sem hundraðshøfðinginn heyrði það, fór hann til høfuðsmannsins, sagði honum frá, og mælti: hvað ætlarðu að gjøra? Maðurinn er rómverskur borgari. Þá gekk høf-uðsmaðurinn sjálfur til hans, og sagði: seg mér, ertu rómverskur? Hann svaraði: já. Høfuðs-maðurinn sagði: þennan borgararétt hefi eg keypt fyrir ærna peninga. Páll svaraði: en eg er fæddur til hans. Þá varð høfuðsmaðurinn hræddur af því, að hann hafði látið binda hann; en lét hann þó vera í varðhaldi. Og Drottinn birtist honum um nóttina, og sagði: vertu hug-hraustur Páll, því að eins og þú hefir vitnað um mig í Jerúsalem, eins ber þér einnig að vitna í Róm. — En er dagaði, gjørðu nokkrir Gyðingar samtøk, og heitstreingðu, að þeir

skyldu ekki eta né drekka fyr en þeir hefdu rádid Pál af dögum. Voru þeir fjörutíu, sem höfdu bundizt þessum svardaga. En systursonur Páls, sem hafdi ordid áskynja um þetta svikrædi, fór til vígisins, og sagdi Páli frá. Páll kalladi þá á einn af hundradshöfdingjunum, og mælti: fylg þessu úngmenni til höfudsmannsins, því ad hann hefir nokkud ad segja honum. Og úngmennid sagdi vid höfudsmanninn: Gydíngar hafa komid sér saman um, ad bidja þig ad leida Pál á morgun fyrir rádid, þar ed þeir ætli nákvæmlega ad yfirheyra hann. En lát þú þad ekki ad ordum þeirra; því yfir fjörutíu menn af þeim sitja um Pál, og hafa svarid, hvorki ad eta né drekka, fyr en þeir hafi rádid hann af dögum. Þá lét höfudsmadurinn hinn únga mann fara, og bannadi honum ad segja nokkrum, ad hann hefdi opinberad sér þetta. Og hann kalladi til sín tvo hundradshöfdingja, og sagdi: búid út tvö hundrud hermenn, ad þeir fari til Sesareu, og sjötíu riddara, og tvö hundrud skotmenn, eptir þridju stund nætur. Og hafid til reidu fararskjóta handa Páli, svo ad hann komist heill til landstjórans Felixar. Hann skrifadi og bréf, þessa efnis: „Kládius Lysias heilsar hinum voldnga landstjóra Felix. Þennan mann

høfdu Gydíngar handtekid, og ætludu ad lífláta hann; en eg kom þá ad med hermenn, frelsadi hann úr hendi þeim, og fékk ad vita, ad hann væri rómverskur. Til þess nú ad vita, fyrir hverja søk þeir ákærdu hann, leidda eg hann fyrir rád þeirra, og fann þá, ad sakargiptin snerti vafa-spurníngu í løgum þeirra, en eingan misverknad, sem dauda eda fjøtra væri verdur. En þared eg fekk vísbendíngu um, ad nokkrir Gydíngar sætu á svikrádum vid hann, sendi eg hann tafarlaust til þín, og hefi bodid ákærendum hans ad fram færa fyrir þér, þad sem þeir hefdu á móti honum. Vertu sæll." Tóku hermennirnir nú Pál, eins og þeim var sagt, og fluttu hann til landstjórans, sem yfirheyrdi hann og ákærendur hans, en fann einga søk hjá honum. Samt skildi hann Pál eptir í fángelsi, til ad sýna Gydíngum velvild, þegar hann ad tveim árum lidnum slepti embætti sínu, og Porsius Festus kom í hans stad. — Þegar nú Festus kom í landid, komu til hans hinir ædstu prestar og helztu menn Gydínga, ákærdu Pál, og báru á hann margar og þúngar sakargiptir. Festus, sem vildi gjøra ad vild Gydínga, sagdi þá vid Pál: viltu fara til Jerúsalem, ad eg dæmi þar mál þitt? Páll svaradi: eg stend fyrir dómi

keisarans, þar á eg ad dæmast. Gydingum hefi eg ekkert órétt gjört, eins og þú líka gjörla veizt. Ef eg þess vegna hefi einhverjum órétt gjört, eda adhafzt þad, sem dauda sé vert, þá skorast eg ekki undan lífláti. En ef ekkert er satt í því, sem þessir skulda mig fyrir, þá á einginn med ad fá mig þeim í hendur. Eg skýt máli mínu til keisarans. Þá taladi Festus vid rádaneyti sitt, og svaradi: fyrir keisarann hefir þú skotid máli þínu, til keisarans skaltu fara. Og hann heyrdi hann enn einusinni tala, hann og konúngur Agrippa, og Páll taladi fyrir þeim um Krist, hinn upprisna, svo ad konúngurinn sagdi vid hann: þad vantar lítid á, ad þú fáir mig til ad verda kristinn. Páll svaradi: þess bid eg Gud, hvort sem þar vantar mikid eda lítid á, ad ekki einúngis þú, heldur og allir, sem til mín heyra í dag, mættu verda eins og eg, ad undanteknum þessum fjötrum. Og er hann hafdi þetta sagt, stód konúngurinn upp og landstjórinn, geingu afsídis, töludu sín í milli, og sögdu: þessi madur hefur ekkert gjört, sem dauda eda fjötra sé vert. Honum hefdi mátt sleppa, ef hann hefdi ekki skotid sér fyrir keisarann.

## 46. Ferd Páls til Róm.

Þegar nú úrskurdad var, ad Páll skyldi sigla

til Italin, afhentu þeir hann og nokkra adra bandingja hundradshøfdingja nokkrum úr keisara herflokknum, sem hét Július, stigu þeir þá á adramýtiskt skip, og fóru med strøndum frá Foniſin til litlu Asíu, og undir Krít til borgarinnar Lasen. En þar ed sjóferdir tóku nú ad verda hættulegar, af því ad fastan var þegar lidin, gaf Páll þeim þessa vidvørun, og sagdi: gódir menn, eg sé ad siglingu vorri muni verda samfara bædi óvedur og tjón, ekki einúngis fyrir farm og skip, heldur og fyrir líf vort. En hundradshøfdinginn trúdi betur formanninum og stýrimanninum, en því sem Páll sagdi; og flestra rád vard, ad halda þadan. En ekki laungu á eptir datt á ofvidri af nordaustri, og þar ed skipid hrakti, og gat ekki beitt í vindinn, þá gáfu þeir upp stjórn, og hleyptu undan. Bar þá ad eyu, sem heitir Kláde, þar gátu þeir med naumindum bjargad bátnum, sem þeir þá tóku upp í skipid; og þar ed þeir óttudust, ad skipid mundi berast á grynningar, feldu þeir seglid, og létu reka. En er þeir samt lidu mjøg af ofvidrinu, ruddu þeir út daginn eptir nokkru af farmi skipsins, og á þridja degi fleygdu þeir sjálfir útbyrdis med eigin høndum áhøldum skipsins. En þared hvorki sól né stjørnur sáust í marga daga, og

illvidrid, sem á lá, var ekki litid, mistu þeir alla von um ad komast lifs af. Hofdu þeir þá leingi einkis matar né drykkjar neytt. Páll gekk þá mitt á medal þeirra, og sagdi: gódir menn, þér hefdud átt ad gegna mér, og fara ekki út frá Krít, og spara oss þessa armædu og fjártjón. En nú áfýsi eg ydur samt, ad hressa upp hugann, því ad einkis okkar lif mun týnast, heldur einúngis skipid. Því ad í nótt stód bjá mér eingill Guds, hvers eg er, og hvern eg dýrka, og sagdi: „óttast ekki, Páll, fyrir keisarann áttu ad koma, og sjá, Gud hefir gefid þér alla, sem eru á skipinu med þér." Verid þess vegna hughraustir, gódir menn. Vér hljótum ad hrekjast ad einhverri eyu. — Á fjórtándu nótt, er þá var ad hrekja á Adrínhafi, grunadi skipverja, um midnætti, ad land mundi vera í nánd; konnudu þeir þá djúpid, og fundu, ad þar var tuttugu fadma djúp; óttudust þeir þá, ad þá mundi bera upp á sker, kostudu fjórum akkerum úr apturstafni, og óskudu dags. En sem hásetarnir leitudust vid ad flýa úr skipinu, og létu bátinn síga nidur, undir því yfirskyni, ad þeir vildu einnig fá akkerum út komid úr framstafni, sagdi Páll vid hundradshofdingjann og hermennina: ef þessir eru ekki kyrrir í skipinu, þá getid þér ekki lifs

afkomizt. Hjuggu hermennirnir þá á festar bátsins, og létu hann fara. En er nú fór að birta, hvatti Páll þá alla til að matast, tók brauðið, gjörði Guði þakkir í áheyrn þeirra allra, braut það, og fór að eta. Þá hrestust þeir allir, og fóru líka að matast; en á skipinu voru als tvö hundruð sjötíu og sex manns. Og er þeir voru mettir orðnir, léttu þeir á skipinu, og köstuðu matvælunum í sjóinn. Eptir dögunina sáu þeir land, en þektu það ekki; við vík eina urðu þeir samt varir, og þángað vildu þeir halda skipinu, ef kostur væri. Léttu þeir þá akkerum, og lögðu á stað, leystu stýristaumanna, snéru siglutrénu eptir vindinum, og héldu til lands. En alt í einu steytti skipið, svo að framstafninn sat fastur, en skutinn leysti í sundur af ofurefli bylgnanna. Réðu hermennirnir þá til, að drepa fángana, svo að einginn synti í land, og kæmist undan; en hundraðshöfðingjum, sem vildi forða Páli, aptraði því, og skipaði, að þeir sem syndir væru, skyldu fyrst kasta sér útbyrðis, og leita lands; en hinir bjarga sér, sumir á fjölum, sumir á því, sem var eptir af skipinu. Þannig tókst það þá, að þeir allir komust heilir til lands. — Og er þeir komu þar, feingu þeir að vita, að eyan hét Melite (Malta). En þeir, sem þar

bjuggu, sýndu þeim ekki lítinn góðvilja, kyntu eld, og tóku móti þeim øllum, því að óveður og kuldi var. Þegar Páll þá vatt saman hrísvøndul, og lagði á eldinn, skreið naðra undan hitanum, og festi sig á hendi hans. En er eyarmenn sáu illyrmið loða við hønd hans, søgðu þeir sín í milli: vissulega er þessi maður manndrápari, fyrst hefndin lofar honum ekki að lifa, þótt hann sé sloppinn úr sjáfarháskanum. Hann hrysti þá af sér kvikindið út í eldinn og varð ekkert meint við. Þeir ætluðu þar á mót, að hann annað hvort mundi þrútna upp, eða detta dauður niður; en er þeir høfðu leingi beðið, og sáu, að honum varð ekkert meint við, breyttu þeir ætlan sinni, og søgðu: að hann væri Guð. — Á þessum sama stað átti helzti maður eyarinnar, Públíus að nafni, búgarð. Hann bauð þeim øllum heim til sín, og hýsti vingjarnlega í þrjá daga. En svo vildi til, að faðir hans lá þúngt haldinn af sóttveiki og blóðsótt. Gekk Páll inn til hans, baðst fyrir, lagði hendur yfir hann og læknaði hann. Þegar það var orðið, komu líka hinir aðrir eyarmenn, sem sjúkir voru til hans, og létu lækna sig. Og þeir sýndu þeim mikla virðíng, og er þeir, eptir þrjá mánuði, héldu þaðan aptur, færðu þeir þeim að skilnaði, það

sem þeir með þurftu. — En þeir fóru þaðan aptur á skipi frá Alexandríu, sem hafði legið þar um veturinn, og var markað Tvíburunum. Sigldu þeir þá til Sikileyar, og fram með henni til Púteóli, og þaðan til Róm; en bræðurnir komu út í móti þeim til torgs Appíi, og er Páll sá þá, lofaði hann Guð og hrestist í huga. En er þeir komu til Róm, fékk hundraðshöfðinginn bandingjana yfirmanni lífvarðarins. Var Páli leyft að vera, þar sem hann vildi, með einum hermanni, sem gætti hans. Og hann bjó í tvö ár í húsi sér, tók móti öllum, sem til hans komu, boðaði Guðs ríki, og kendi um Drottinn Jesúm með allri djörfúng, án þess nokkur bannaði honum það. — Síðan var hann aptur látinn laus, og ferðaðist þá víðar um kring, og boðaði náðarlærdóminn mörgum borgum og mönnum, svo að hann var útvalið verkfæri Drottins, til að snúa mörgum á veg sáluhjálparinnar. Og hann sagði þannig um sjálfan sig: eg var opt á ferðum, í hættu á sjó, í hættu meðal morðingja, í hættu meðal Gyðínga og heiðingja, í eyðimörku, meðal falsbræðra; en eg em hughraustur sakir Jesú Krists.



## Leiðréttingar:

Blś. 52, línu 13 les: dust; bls. 192, l. 9 les: minn, l. 12 les: eingillinn; bls. 210, l. 16 les: því; bls. 216, l. 4 les: hann; bls. 225, l. 21 les: þinnar; bls. 230, l. 2 les: eg; bls. 239, l. 2 les: ørkina; bls. 247, l. 24 les: føðurbróðir; bls. 249, l. 5 les: um; bls. 251, l. 3 les: øllu, sem; bls. 265, l. 21 les: hljóðbær; bls. 271, l. 3 les: óttaðist; bls. 276, l. 18 les: elskaði; bls. 281, l. 13 les: leyf; bls. 285, l. 1 er orðinu „En“ ofaukið; bls. 287, l. 12 les: hóf; bls. 340, l. 3 les: mønnum; bls. 357, l. 4 les: jørðunni; bls. 368, l. 17 les: lýgi; bls. 371, l. 24 eptir „vesturs“ vantar: „þrjú til suðurs;“ bls. 372, l. 5 les: reykelsisskerin; bls. 410, l. 24 les: augu; bls. 445, l. 23 les: dýrð; bls. 448, l. 5 les: karlmannshug; bls. 490, l. 18 les: knýr; á sømu bls. neðst les: í auga bróður þíns; bls. 496, l. 21 les: þeirra; bls. 519, l. 11 les: Samaríti; bls. 529, l. 12 les: Jesús; bls. 539, l. 6 les: unnið; bls. 542, l. 8 les: Eg; bls. 549, l. 25 les: Gjør; bls. 577, l. 24 les: þessara tveggja.

Á fáeinum støðum stendur „Jeg“ fyrir „Eg“, og á tveim støðum „Jacob“ fyrir „Jakob“. Líka er í støku orðum „i“ misprentað fyrir „j“.

---

